# MIÐALDASAGAN

EPTIR

PÁL MELSTEÐ.

---

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

---

REYKJAVÍK.
Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. EINAR ÞÓRÐARSON.
1866.

# FORMÁLI.

Sá partur veraldarsögunnar, sem hèr kemur fyrir almennings sjónir, og sem menn eru vanir að kalla *miðaldasögu*, tekur þar við sem fornaldarsagan þrýtur, 476 árum eptir Krists burð; og endar þegar siðabót Lúthers hófst á Þýzkalandi ár 1517. Miðaldasagan tekur þannig yfir rúmt 1040 ára tímabil. Þar sem miðaldasögunni lýkur tekur *nýja sagan* við og nær alt til vorra daga. Þó er þetta eigi þann veg að skilja, að allir sagnaritendur skipti sögunni á þann hátt sem hèr er gjört. Það eru, til dæmis að taka, ekki líkur til að katólskir menn láti nýju söguna byrja við siðaskiptin á Þýzkalandi 1517. Þannig lætur hinn nafnkunni þjóðverski sagnaritari *Karl Rotteck* (✝ 1840) miðaldasöguna ná yfir tímabilið frá 395 e. Kr. — Það er frá dauða Þeódósíuss keisara hins mikla, — til 1492, þegar Kólúmbus fann Ameríku; enda hygg eg Rotteck verið hafa katólskan, þar sem hann var kennari við háskólann í Freiburg, en sá skóli er að minni vitund katólskur. *Karl Friðrik Becker*, einnig nafnfrægur sagnaritari meðal Þjóðverja, byrjar miðaldasöguna 476, eins og hèr er gjört, og endar hana 1492. Þannig geta skiptin verið með ýmsu móti.

Miðaldasagan er mjög einkennileg og eptirtektaverð. Rómaveldi er eptir hinn mikla þjóðastorm fallið í rústir. Á þeim rústum reisa nýjar og líttmentaðar þjóðir bústaði sína, en þær eru hraustar og harðfengar og lausar við marga þá ókosti, sem eytt höfðu lífsafli Rómverja. Þegar þær kynnast hinni fornu mentun bæði á Ítalíu og á Grikklandi, læra þær margt og mikið, og taka þar í arf mörg andleg auðæfi eptir hinar deyjandi kynslóðir, sem þar höfðu á undan þeim búið. Þannig flytst mentun fornaldarinnar yfir til miðaldaþjóðanna, endurlifnar hjá þeim en í annari mynd og kemur ýmislega fyrir sjónir í stjórnarskipum þeirra, lagasetníngu, og öllu þeirra ráðlagi. Í miðaldasögunni færist sviðið út og verður margfalt víðlendara

og stærra en áður var. Lesendur eru á einskonar landnámsferð. Þeir finna ný og ókunn lönd, nýjar og ókendar þjóðir, og við endalok miðaldanna flytur sagan þá til hafs og til annarár heimsálfu. Það er mjög merkilegt að virða fyrir sèr stímabrak mannlegs anda, sem birtist í ýmsum ham á þessum miðöldum, og vil eg benda á lènsdrotnavaldið, krossferðirnar, víkíngaferðirnar á Norðurlöndum, riddaraöldina, konúngsvaldið og páfaríkið. Upp af öllu þessu er sprottin saga hinna síðustu alda, og ekki verður hún skilin til fulls, ekki geta menn áttað sig svo að gagni sè í nýju sögunni, nema menn þekki miðaldirnar, því að þángað liggja margar rætur þeirra viðburða, sem síðan hafa gjörzt, og jafnvel nú eru fram að koma. Það er með sögu mannkynsins sem æfi hvers einstaks manns, vilji menn þekkja hana til hlýtar má enginn kafli úr falla; svo er jafnan hið síðara bundið við hið fyrra. Eg vil því biðja þá af löndum mínum, sem ekki eru veraldarsögunni kunnugir, að lesa þessa bók og lesa hana með athygli. Hún er að vísu stutt, og þess vegna er hún óskemtilegri og jafnvel ógreinilegri, en ella hefði mátt vera. — En hèr er frágángssök að rita lángar bækur sökum fólksfæðar og fátæktar; — þess mega allir gjalda. Hún er einnig miklu miður úr garði gjörð — að því er mig snertir — en vera skyldi, en alt um það, alþýðumenn geta ýmislegt af henni lært, sem þeir vissu eigi fyr, og þeim er bókin einkum ætluð.

Eg hefi nú að þessu sinni haft aðra aðferð en þá, er eg hafði meðan eg fèkst við fornaldarsöguna. Nú hefi eg lítið stuðst við sögubók Bóhrs að öðru en því, að eg víðast hvar hefi bygt á hans undirstöðu, það er að skilja, fylgt hans niðurskipan á efninu, en að öðru leiti hefi eg haft ýmsar bækur fyrir mèr, og nefni eg þá einkum sögubækur þeirra Rottecks og Beckers, er eg áður mintist á, og svo miðaldasögu eptir Norðmanninn *Ludvig Daae,* (útg. í Kristjaníu 1864). Þessar og aðrar bækur, sem eg hefi til náð, hefi eg lesið og síðan hefi eg ritað eptir því sem eg hafði föng á og mèr í þann svipinn þókti vera meiga. En hvað sem um þetta er, þá má enginn taka þessa viðleitni mína öðruvísi en hún er: ófullkomin byrjun til að fá veraldarsögu ritaða á vora túngu. Fyrst að þeir, sem færari eru, hafa híngað til dregið sig í hlè, svo varð

einhver óvalinn að byrja, því sögulaus með öllu mátti þjóð vor ekki lengur vera. Nú tel eg það víst, þegar ísinn er brotinn, að eigi verði þess lángt að bíða, að önnur betri sögubók birtist í landinu.

Eg vil biðja góða menn, sem hafa fornaldarsögu mína við hönd, að leiðrètta þessar villur: á bls. 43. línu 21. stendur fimta hvert ár, en á að vera *fjórða* hvert ár; á bls. 136. línu 34. er sagt, að orustan milli Scipiós og Antiochusar hafi staðið við Sipýlus-á, en það á að vera Sipýlus-*fjall;* á bls. 204. línu 20. segir, að Písó gjörði Tíberíusi alt til skapraunar, en efnið sýnir sjálft, að þar á að standa *Germanícus* í stað Tíberiusar.

Að svo mæltu kveð eg lesendur mína nær og fjær og óska þeim allrar blessunar í bráð og lengd.

Reykjavík, 16. dag júnímánaðar 1866.

*Páll Melsteð.*

# YFIRLIT EFNISINS.

## FYRRI KAFLI,
frá 476 til 1100.

### Vesturlöndin.



### Austurlöndin.

## SÍÐARI KAFLI,
frá 1100 til 1517.

YFIRRÁÐ KIRKJUNNAR YFIR ÞJÓÐUM OG RÍKJUM. VELDI KIRKJUNNAR HNIGNAR. TRÚVILLÍNGAR. HINAR FRJÁLSU BORGIR. HEIMSVERZLUN. YFIRRÁÐ KRÚNUNNAR. HNIGNUN LÈNSHÖFÐÍNGJA.

# Fyrri kafli

(frá 476 til 1100).

## Vesturlöndin.

Inngángur.

Þar er nú til að taka, sem fyr var frá horfið, að keisaratignin í hinum *vestari* hluta Rómaveldis var undir lok liðin. Útlendar þjóðir af ættum Germana og Gota voru seztar að í löndum hins vestlæga Rómaríkis og höfðu brotizt þar til valda. Þjóðir þessar voru hraustar og harðfengar, en flestar þeirra lítt mentaðar. Þegar hèr var komið, og *miðaldasagan* hefst, bjuggu þessar þjóðir í hinum fornu skattlöndum hins vestlæga Rómaveldis :

1. *Vandælir.* Þeir höfðu yfirráð öll í Áfríku, á Sardínarey, Korsíku, Malörk og Minörk (Balear-eyjum).

2. *Vestgotar.* Þeir rèðu fyrir Spáni og suðvesturhluta Gallíu, norður að Leirufljóti (Loire); Tólósa hèt höfuðborg þeirra. Þó var þjóðflokkur sá, er *Baskar* nefnast, sjálfum sèr ráðandi þar í fjöllunum norður í landi, og *Svevar* í norðvesturhluta landsins.

3. *Búrgundar* höfðu tekið sèr bólfestu í suðausturhluta Galliu.

4. *Frakkar* (hinir *salversku*) sátu í löndum nyrðst á Galliu, (þar sem nú er Belgja), og önnur grein þeirra, er nefndir eru hinir *rípversku* Frakkar, bjó niður með stóránum Rín og Mosel.

5. *Engilsaxar* höfðu lagt undir sig land alt austan á Bretlandi, en Bretar hrokkið fyrir, sumir vestur á Wales, sumir suður um haf til Bretagne á Galliu.

*Sýagríus,* landstjóri Rómverja, rèð enn fyrir nokkrum hluta lands á Galliu í suður frá Frökkum.

*Ódóacer* rèð fyrir Ítalíu, Sikiley, Dalmaziu og Dónárlöndum sunnan árinnar, og hafði tekið sèr konúngsnafn, eins og áður er sagt.

Þjóðir þær, sem nú voru nefndar, höfðu farið herskildi inn í lönd Rómverja og fengið sigur í viðskiptum við þá. Lönd þau, sem þannig voru unnin, köstuðu þær eign sinni á, eins og hvert annað herfáng; þó hèldu Rómverjar víðast nokkru eptir af jörðum sínum, því að sumstaðar eignuðu hinar útlendu þjóðir sèr ekki nema tvo þriðjúnga af öllu landi, og sumstaðar að eins einn þriðjúng. Konúngar, eður hinir æztu foríngjar hins útlenda herliðs, fengu, er herteknum löndum var þannig skipt, láng mest í sinn hluta, eins og að líkindum lætur, og þar að auki eignuðust þeir alt það land, sem enginn fanst eigandi að (vötn, skóga, óyrkt land). Höfðu því herkonúngar þessir afarmikið víðlendi til eignar og umráða, og af því miðluðu þeir síðan meiru eður minna til höfðíngja þeirra og annara liðsmanna, er veitt höfðu þeim fylgd og verið í þjónustu þeirra; en konúngar áskildu sèr aptur á móti liðveizlu þessara manna, hvenær sem ófrið bæri að hendi. Þeir voru þess vegna að nokkru leyti háðir konúngum sínum. Þeir höfðu eigi óskertan eignarrètt yfir löndum þeim, er þeir þannig höfðu fengið til forráða; þeir höfðu þegið þau að lèni af konúngi, en konúngur var rèttur eigandi þeirra (*Lèns herra*). Þeir, sem þannig höfðu tekið jarðir sínar í lèn af konúngi, voru kallaðir *lendir menn* (*lènsdrotnar*, *lènsmenn*), og umráð yfir jörðunum *lèn* (*feudum*). Þessir menn fengu aptur öðrum til líkra umráða nokkuð af sínu landi, með sömu skyldum sem þeir sjálfir höfðu þegið þau af konúngi, og þannig gat það gengið koll af kolli. En skyldan var, bæði að fylgja lènsherra sínum til þínga, án þess að eiga þar atkvæðisrètt eins og frjálsir menn, og að berjast undir merkjum hans, hvenær sem hann þurfti þess við. En *frjálsir menn* voru þeir þar á móti nefndir, sem eignazt höfðu jarðir sínar skilmálalaust af konúngi eður höfðíngjum, og voru fyrir þá skuld frjálsráðir eigna sinna. Þeir hètu *óðalsmenn,* og jarðir þeirra *óðul* (Allodium). Þeir voru að vísu skyldir til, sem hinir aðrir, er lèn höfðu þegið, að koma til liðs við konúng, hvenær sem ófrið bar að höndum, og kosta sig sjálfir til þeirrar þjónustu, en það var hartnær hin einasta kvöð er á þeim lá. Á þíngum höfðu þeir fullan atkvæðisrètt til allra mála, hvort sem kjósa átti konúng, setja ný lög, eður skipa öðrum alsherjar málum. Menn sjá þess vegna, að það var tvennt hvað öðru gagnstætt, *lèn* og *óðul, lendir menn* (Lènsmenn,

Vasaller) og *óðalsmenn.* Hinir, sem fyr voru nefndir, voru upphaflega miður metnir en hinir síðarnefndu. En á þessu varð stórmikil breytíng er tímar liðu fram. Óðul manna urðu víða að lènum, bæði fyrir þá sök, að þeir, sem minna áttu undir sèr, þörfnuðust verndar hinna, sem voldugari voru, gegn ýmsu lagaleysi og ójafnaði er víðast átti sèr stað um þær mundir, og líka hins vegna, að af því mátti vænta sèr, bæði fjár og frama, að gjörast handgenginn og vandabundinn höfðíngjum og einkum konúnginum. Óðalsmenn þessir mistu þannig, þegar fram í sókti, að miklu leiti hið forna frelsi, og urðu konúngum og höfðíngjum háðir, en hins vegar komust þeír undir vernd og skjól þeirra, og að því leiti voru þeir betur farnir en áður. Þegar þannig var komið efnum manna, og konúngur kvaddi menn til herþjónustu, lèt hann eigi sem fyr boð út gánga til allra frjálsra manna og vopnfærra, að koma til liðs við sig, heldur sneri hann að eins máli sínu til lendra manna, og þeir aptur til annara sem þeim voru háðir, og þannig drógst liðið saman. En af því, að lendir menn, þegar fram í sókti, leituðust jafnan við að sjá sèr farborða, og auka kröfur sínar og rèttindi gagnvart konúngi, sættu þeir einatt því lagi, ef konúngar áttu í kröggum, og annaðhvort skoruðust þeir þá undan skyldu og neituðu með öllu að veita konúngi þann liðsafla, er hann þurfti, eður þeir gengu í lið með óvinum hans, nema því að eins að konúngur veitti þeim þau einkarèttindi, er þeir þá kröfðust sèr til handa. Þetta leiddi til þess, að *lènin,* sem upphaflega voru að eins við þarn einn bundin, er þau hafði sjálfur þegið, gengu síðan í *erfðir* til barna þeirra og annara niðja í rèttan karllegg. Þannig komst *lènsaðallinn* á fót, og varð hann smámsaman konúngunum mjög erfiður og skæður, og takmarkaði veldi þeirra stórum. Þjóðfundir og þíng, er hver og einn frjáls maður áður sókti, og neytti þannig rèttar síns í fullu frelsi, urðu nú þýðíngarlítil; alþýða manna rèð þar nú hartnær engu, en aðallinn, sem hafði lèn krúnunnar í hendi sèr, sat einn yfir málum manna og rèð lögum og lofum. Jafnvel konúngs kosníngar voru að mestu leiti undir höfðíngjum þessum komnar; því að þó konúngserfðir væri í lög leiddar, er stundir liðu fram, þá rèðu þó höfðíngjar og aðalsmenn þessir mestu um það, hverjum þeir vildu fylgja og hvern til konúngs kjósa, ef um fleiri en eitt konúngsefni var að ræða; urðu opt af

því miklar deilur með mönnum, eins og seinna mun sýnt verða. Var þá konúngsvaldið einkum undir því komið, að konúngur gæti yfirbugað höfðíngjana annaðhvort með ofurefli eður með slægvizku. Höfðíngjarnir urðu einnig við þetta tvennt að styðjast, því að öðrum kosti var veldi þeirra á knè komíð. En öll alþýða manna (hinir smærri jarðeigendur og akuryrkjumenn) gjörðist ánauðíg, og varð að sæta þúngum búsifjum af hendi aðalsins meðan uppgángur hans var sem mestur.

## Miðaldaríkin komast á fót. Lènsaðallinn og Krúnan. Kirkjan og ríkið (hið andlega og veraldlega vald).

### Austgota ríki.

Árið 476 eptir kristsburð feldi *Ódóacer* hinn síðasta keisara frá ríki í hinum vestari hluta Rómaveldis, eins og fyr er ritað, og fekk liðsmönnum sínum allan þriðjúng landa á Ítalíu til eignar og gjörðist þar konúngur yfir; hann var hraustur maður og herkænn og stýrði ríki sínu með mildi og viturleik; hann lèt standa öll hin rómversku lög, sem verið höfðu fyrir hans daga, svo og embættaskipan og aðrar siðvenjur, er við höfðu gengizt meðan keisarar sátu að völdum. En alt um það gat honum eigi tekizt að koma ríki sínu á stöðugan og fastan fót. Ódóacer og menn hans höfðu tekið við trú og voru kristnir, en fylgdu lærdómssetníngum Aríusar. Þá trú hötuðu Ítalir, er fylgdu *katólskri trú*, og þóktust einir vera rètttrúaðir; en bæði það og svo hitt, að þeir voru í mörgu eigi lyndíslíkir þeim Ódóacer, olli því að þeir urðu honum fráhverfir.

Keisarinn í Konstantínópel (Miklagarðskeisari) þóktist eiga heimtíng á yfirráðum yfir hinum vestlæga hluta Rómaveldis, eptir að keisaratignin í þeim löndum var undir lok liðin. Hann hafði einkum hugfast að vinna Ítalíu undir sig, og vildi eigi kannast við að Ódóacer ætti þar nokkurt tilkall til ríkisstjórnar. En um þær mundir var Miklagarðskeisari með engu móti sjálffær um að standa í stórræðum, sízt þeim að vinna Ítalíu úr höndum harðfengra manna. Hann tók því það til bragðs, að fela Austgotum þann vanda á hendur. Þeir höfðu um tíma verið Húnum háðir, en eptir lát Attila Húnakonúngs höfðu þeir verið sjálfum sèr ráðandi og haft aðsetu í Pannóníu (Úngarn). Þar voru þeir

nágrannar Miklagarðskeisara, og eigi góðir; var honum því allkært að þeir færi þaðan og flyttist vestur á Ítalíu.

Í það mund var sá maður orðinn konúngur Austgota, er *Þeódórik* (*þjóðrekur*) hèt, úngur maður og ágætur og vel að sèr gjör um flesta hluti. Hann hafði um hríð alizt upp við hirð Miklagarðskeisara; en sem hann var seztur að völdum hjá þjóð sinni, hèlt hann öllum Austgota hèr vestur til Ítalíu þess erindis að leggja þar laud undir sig og sæta þar betri kostum en hann þóktist eiga við að búa austur á Pannóníu. En er Ódóacer spyr til ferða þeódóriks safnar hann þegar liði og fer til móts við hann. Ber fundum þeirra saman við *Akvileiaborg* (489); verður þar allhörð orusta, er svo lyktar að þeódórik fær sigur, en Ódóacer flýr undan til *Verónaborgar.* Þar hittast þeir öðru sinni og berjast og fer á sömu leið. Leitar Ódóacer þá undan og til *Ravennaborgar* og býst þar fyrir. Þar var hið ágætasta vígi. Þeódórik konúngur hefir þar litla viðdvöl, en fer hershöndum um alla Ítalíu og Sikiley og leggur hvorttveggja undir sig; að því búnu heldur hann aptur til Ravenna og sezt um borgina, og vill nú að yfir skuli lúka með þeim Ódóacer. En það er frá honum að segja, að hann verst í borginni á þriðja ár af mikilli hreysti, en þar kom að hann varð að gefast upp fyrir þeódórik og gánga á hans vald, en heitið áður lífi og griðum (493 e. kr.). Þó var Ódóacer veginn litlu síðar. Þegar Þeódórik hafði unnið Ravennaborg settist hann þar að[1] og tók sèr konúngsnafn og stýrði síðan Ítalíu með frábærum viturleik og dugnaði í 33 ár alt til dauðadags. Að sönnu lèt hann í veðri vaka, að Miklagarðskeisari hefði yfirstjórn alla, en sú yfirstjórn var að eins í orði kveðnu, og kom aldrei fram í reynd eður framkvæmd. Þeódórik hafði, meðan hann dvaldist í Miklagarði, kynzt grískum og rómverskum mentum og íþróttum, verndaði því og efldi hvorttveggja í ríki sínu. Hann lèt lög og venjur haldast, sem verið höfðu meðan keisarar sátu að völdum í Rómaborg, beitti rómverskum og ítölskum mönnum eingöngu til stjórnarstarfa og embætta, en herstörf öll og landvörn var í höndum Gota, og þá lèt hann hafa þriðjúug landeigna allra, eins og Ódóacer hafði gjört á undan honum. Svo kvað mikið að höfðíngskap og mikil

1) Stundum sat Þeódórik í Veróua, og mun þaðan dregið nafnið *»Þiðrik af Bern»*.

mensku Þeódóriks, að flestar nágranna þjóðir lutu boði hans og hanni austan frá Dónárósum vestur að Atlantshafi; hann var í mægðum við Búrgunda Vandæla og Vestgota konúnga, og þá er Klódvík Frakkahöfðíngi vildi þröngva kosti Vestgota og reka þá burt af Gallíu, skarst Þeódórik í leikinn og stöðvaði árásir og yfirgáng Klódvíks, og stýrði á efri árum sínum Vestgotaríki meðan konúngur þeirra var í hernsku; en hann var dóttursonur Þeódóriks og hèt Alarik. En þó að ríkisstjórn Þeódóriks konúngs væri í alla staði styrk og merkileg, og landið tæki miklum framförum, þá gat aldrei um heilt gróið með Rómverjum og Austgotum, og ollu því mestmegnis trúarbrögðin. Þeódórik og Austgotar fylgdu kenníngu Ariusar, en Rómverjar kölluðu það villulærdóm og þókti sín trú (katólska trúin) ein vera sönn og rètt; þeir undu því eigi nærri vel, að svo illa trúaðir menn skyldi yfir sèr drotna, leituðu ásjár í þeim efnum hjá Miklagarðskeisara og báru ráð sín saman. Að því ráðabruggi komst Þeódórik konúngur og refsaði þúnglega nokkrum mönnum af öldúngaráðinu (*senatus*), er hann grunaði um hollustu við sig, en það kom fyrir ekki. Hann sá hvað verða vildi og andaðist litlu eptir það, 526 árum eptir Kristsburð. Hann hefir verið kallaður Þeódórik mikli. Þegar hann var fallinn frá tók dóttir hans sú, er *Amalasúnta* hèt, ríki eptir föður sinn; hún var þá ekkja og átti einn son á lífi, en hann var barn að aldri og lifði skamma stund; tók hún þá frænda sinn þann, er *Þeódat* hèt, til samstjórnarmanns yfir ríkinu, en jafnskjótt sem hann var kominn til valda reis hann öndverður upp í móti henni, og litlu síðar rèð hann henni bana (535).

Þá rèð fyrir hinu austrómverska ríki keisari sá, er *Jústiníanus* hèt, hinn fyrsti með því nafni, og sat í Miklagarði (frá 527—565). Hann var maður drotnunargjarn, og að því leiti merkilegur og frægur, að hann hafði afbragðsmenn í sinni þjónustu. Hann lèzt vilja hefna Amalasúntu drotníngar, en reyndar bjó þó hitt undir niðri í skapi hans, að ná algjörðum yfirráðum á Ítalíu og auka ríki sitt alt að þeim takmörkum, sem Rómaveldi hið forna hafði haft, þá er það stóð í fullum blóma. *Belisarius* hèt hershöfðíngi keisarans, hann var lángfrægastur og mestur allra hershöfðínga á sinni tíð. Hann hafði þá fyrir skemstu (534) unnið undir Miklagarðskeisara alt *ríki Vandæla* norðan á Afríku,

og eyjar þær, er undir það lágu í Miðjarðarhafi. Sendir nú Jústinianus keisari Belisarius til Ítalíu þess erindis að berja á Austgotum og leggja landið undir sig. Belisarius hafði lítið lið til þeirrar ferðar, að eins 17 þúsundir manna. Hann vann skjótt Sikiley og Suðurítalíu alla, og hèlt síðan liði sínu norður í land. Þeódat, sem fyr var nefndur, var enginn garpur og veitti skamma stund mótvörn og var því næst drepinn, en *Vitiges*, er eptir hann varð konúngur Austgota, gjörði harða hríð á móti og varði lengi vel bæði land og borgir, þó fèkk Belisarius unnið því nær alla Ítalíu og handsamað Vitiges konúng. En um þær mundir herjuðu Persar á ríki keisarans. Var þá bæði, að hann þóktist við þurfa Belisariusar til landvarnar móti þeim, og svo var hitt, að Jústinianus var engu síður tortryggur en drotnunargjarn, og hugði því, að Belisarius mundi sjálfur vilja gjörast konúngur á Ítalíu. Sá grunur keisarans var þó ástæðulaus með öllu. Hann boðaði því Belisarius heim til sín í Miklagarð, og sendi hann þvínæst austur til móts við Persa. Stóð Belisarius í því stímabraki um tveggja ára tíma og rak Persa út úr löndum keisarans. En það er frá Austgotum að segja, að þeir hófu ófrið að nýju, þegar er þeir sáu sèr fært, og vann *Tótila* konúngur þeirra, hinn vaskasti maður, á skömmum tíma alla Ítalíu aptur undan keisara. Varð keisarinn þá að senda Belisarius þángað í annað sinn, en fèkk honum hvorki fè nè nægan liðsafla. Og þó Belisarius sýndi þá enn sem fyr hreysti sína og herkænsku, gat hann eigi við ráðið ofurefli Austgota og fèkk litlu áorkað. Snèri hann við það heim til Miklagarðs, en keisari gjörði þann mann að fyrirliða í hans stað, er *Narses* hèt (552). Hann var maður slægvitur og harður og ágætur hershöfðíngi. Hann hafði bæði mikið lið og vel búið og var nú ekki tilsparað, og fer því næst í móti Tótila. Bar fundum þeirra saman í Etrúríu undir Apennínafjöllum. Í þeirri orustu fèll Tótila. Varð þá maður sá er *Tejas* hèt konúngur yfir Austgotum, og hèlt hann liði sínu suður í land og nam eigi fyr staðar en suður við sjó vestan undir *Vesúvíus* fjalli. Þar voru skip Gota fyrir landi og færðu þeim vistir, en Narses fèkk tælt skipaforíngjann þannig, að hann sveik Tejas, og er hann sá að svo var komið og aðflutníngar brugðust sèr og sínum mönnum, vildi hann heldur freista hamíngjunnar og berjast við Narses en falla þar húngurmorða. Tókst

þar því næst orusta með þeim og börðust hvorirtveggja af hinni mestu grimd. Lauk svo þeirra viðskiptum að Tejas konúngur fèll þegar hinn fyrsta dag, en liðsmenn hans börðust á eptir í 2 daga, áður Narses vann á þeim fullan sigur (553). Þannig leið Austgota ríki undir lok, eptir að hafa staðið um sex tugi vetra. Miklagarðskeisari varð nú einvaldur að allri Ítalíu. Setti keisari síðan Narses þar til landstjórnar og fèkk honum bústað í Ravenna, þar sem konúngar Austgota höfðu setið. Landstjórar þessir voru kallaðir *Exarkar*.

## Lángbarða ríki.

Það er sagt, að á annari öld eptir Krist byggi *Lángbarðar* í löndunum milli Saxelfar (Hamborgarelfu) og Veserfljóts, en flytti síðan bygðir sínar, á dögum þjóðbyltínganna miklu, suður á Pannóníu og suður yfir Dóná. Þar urðu *Gepídar* nábúar þeirra, og gjörðu hvorirtveggja þeirra einatt grálega til annara. Þó er haft fyrir satt, að Miklagarðskeisari miðlaði málum með þeim og kæmi sáttum á og friði. Stóð svo þar til er *Alboin* varð konúngur yfir Lángbörðum; kviknaði þá ófriður af nýju milli þeirra og Gepída. Næstir Gepídum að austan bjuggu *Avarar*. Þeir voru af Tartara þjóðum og í frændsemi við Tyrki og fleiri ættkvíslar af þeim þjóðabálki. Alboin gjörði samband við Avara og síðan rèðust hvorirtveggja á Gepída, og unnu á þeim að fullu og öllu, og eptir þau viðskipti hverfa Gepídar úr sögunni. Það er mælt, að Alboin yrði sjálfur banamaður Gepídakonungs, og hefði síðan höfuðskel hans að drykkjarkeri, að fornum sið Germana, en gjörði *Rósamundu* dóttur hans að drotningu sinni. Eptir tíðindi þessi hèlt Alboin konúngur (568) með Lángbarða vestur á Ítalíu, en Avarar settust í lönd hans, og juku ríki sitt bæði norður og vestur, og gjörðu ónáðir miklar bæði Frökkum og Miklagarðskeisara. En það er frá Alboin að segja, að Narses veitti honum litla mótstöðu á Ítalíu, enda er sagt, að þá hafi hann verið orðinn lítill vinur keisarans, og jafnvel eggjað Alboin til vesturfarar þessarar. Alboin lagði undir sig alla Norður-Ítalíu, og hann og konúngar þeir, er eptir hann komu, höfðu aðsetu í *Pavíaborg*. Frá Lángbörðum tekur síðan sá hluti Ítalíu nafn sitt, er *Lombardí* (Lángbarðaland) heitir. Miklagarðskeisari hafði enn um lánga hríð yfirráð yfir Sikiley,

Sardínarey og Korsíku, svo og yfir Ravennaborg og næstu sveitum þar í grend (Exarkatið eða landstjóradæmið). Sem vottur þess, að hinn austrómverski keisari, eða Miklagarðskeisari, átti það land, er það, að þar heitir Rómagna enn í dag; svo hafði keisari og yfirráð yfir Venezía, Genúa, Rómaborg og Neapel, og Ítalíu allri að sunnanverðu.

Þegar Lángbarðar komu á Ítalíu, voru sumir þeirra heiðnir, en sumir höfðu tekið við trú Aríusar, og ekki lètu þeir leiðast til hinnar almennu (katólskrar) trúar fyr en á sjöundu öld eptir Krists burð. Olli sá trúarbragða mismunur ærnum deilum og sundurþykkju milli þeirra og hinna katólsku þegna Miklagarðskeisara þar í landi. Þegar konúngs misti við, var það siðnr hjá Lángbörðum, að nýr konúngur var kjörinn í hins stað, því að konúngstign gekk þar eigi að erfðum; þar var höfðíngjavald mikið innanríkis, og landinu skipt í fylki milli margra *hertoga*[1]; játuðu þeir reyndar yfirráðum konúngs, en hurfu þó einatt undan allri hlýðni við hann. Hin helztu hertogadæmi voru þessi: *Forum Julii* (Friaul), *Trídent*, *Túrín*, *Spóletó* og *Benevent*. Landsmenn (Rómverjar), er þar bjuggu fyrir áður Lángbarðar komu, sættu þúngum afarkostum af höfðíngjum, og voru nú ver haldnir en á dögum Ódóacers og Þeódóriks, og þeim var þröngvað til að taka lög og siðvenjur Lángbarða; en það er líka sannast að segja, að Lángbarðar tóku skjótum framförum í mentun Suðurlandaþjóða, og leifar hennar voru þó enn allmiklar á Ítalíu. Þar varð samblandan mikil af siðvenjum og túngumálum hvorratveggja, og þaðan er sprottið þjóðerni Ítala á síðari tímum.

Þegar *Aistúlfur* Lángbarðakonúngur (749—756) hafði unnið Ravenna og vofði yfir Rómaborg, greip *páfinn* (yfirbiskupinn í Róm) til þeirra úrræða að leita hjálpar hjá Frökkum, er þá voru orðnir hinir voldugustu; til Miklagarðskeisara vildi páfinn ekki leita liðveizlu, því að þeir voru engir vinir. *Pipin hinn litli* Frakkakonúngur þóktist eiga páfa fyrir gott að gjalda, þar eð páfinn hafði með úrskurði sínum staðfest konúngdóm hans yfir Frökkum. Hann brást því vel undir liðsbón páfa og var skjótur til aðgjörða, fór með her manns til Ítalíu og þröngdi svo að Aistúlfi, að hann varð að láta laust aptur land það, er hann

1) Hjá öðrum Germanaþjóðum voru slíkir fylkisforíngjar kallaðir *greifar;* þeir voru einskonar dómendur í málum manna.

hafði unnið af Ravennajarli (Exarkatið); gaf Pipín síðan páfastóli það land (756), og þannig var undirstaða lögð að hinu verzlega valdi, er páfinn fèkk yfir *kirkjuríkinu* (Kirkestaten). Eptir Aistúlf varð *Desiderius* konúngur yfir Lángbörðum (756—774). Hann óvingaðist við páfa og *Karl mikla* Frakkakónúng, og leiddi það til þess, að Karl safnaði liði og fór til Ítalíu, tók Desiderius höndum og setti í klaustur, en lagði alt ríki hans undir sig (774). Þessi urðu endalok Lángbarðaríkis á Ítalíu. Voru þá liðin 206 vetra síðan Alboin brauzt þar til ríkis.

Frakkaríki. Kloðvík (Chlodvig).

Í það mund, er ýmsar Germana-þjóðir stofnuðu ný ríki á rústum hins forna Rómaveldis, er sum stóðu lengur og sum skemur, hófst ríki eitt mikið og voldugt í Germaníu og Gallíu, er eigi að eins náði stöðugri fótfestu, heldur stöðvaði einnig þjóðbyltinguna miklu; í ríki þessu myndaðist og magnaðist öll veraldleg og kirkjuleg stjórn og háttsemi manna, er síðan hafði hin mestu áhrif á allar þjóðir á miðöldunum. Ríki það, sem hèr greinir um, er *Frakkaríki*, og saga þess er því einskonar brú, einskonar sambandsliður milli fornaldar- og miðaldasögunnar.

Um það leiti er Rómaveldi lá í fjörbrotum, hafði þjóðflokkur sá af Frökkum, er menn hafa nefnt hinn *salverska*, eða *hina salversku Frakka* (de saliske Franker), sezt að í Belgíu og nokkrum hluta Frakklands, sem nú er svo kallað, suður að Sommefljóti; en önnur grein hinnar sömu þjóðar, hinir *rípversku* Frakkar (de ripuariske Franker), bygði löndin milli Rínar og Mosel, og var *Köln* höfuðstaður þeirra. Konúngar Gota og Lángbarða voru kosnir í hvert skipti til ríkisstjórnar, og voru mjög takmarkaðir í stjórn sinni af höfðingjum. Konúngar hinna salversku Frakka tóku ríki að erfðum, voru einvaldir og voldugir. Þeir voru af *Mervíkíngaætt*, og kendir við þann af konúngum sínum, er *Mervík* (*Merovæus*) hèt. Sonur hans *Kilderik* (Hildirekur) lagði Gallíu undir sig suður að Loire-fljóti (Leiru). Hans son var Kloðvík (Hlöðver, Loðvík), er kom til ríkis 481 e. Kr. Hann má með rèttu nefna höfund Frakkaríkis, því að hann tók við litlu ríki, en skildi við það bæði víðlent og voldugt. Þegar Kloðvík varð konúngur voru enn leifar eptir af Rómaveldi í Gallíu, því að *Sýagríus*, sonur hins síðasta rómverska landstjóra,

var þar einvaldur yfir nokkrum hluta lands síðan 476, hafði aðsetu í *Soissons* og stýrði ríki sínu þaðan. Kloðvík veitti honum aðför og fekk sigur, en Syágríus týndi lífi litlu síðar (486). Bættist Kloðvíki þá land frá Sommefljóti til Signu (Seine). Litlu þar á eptir lagði hann land undir sig milli Signu og Leiru. Það hèt Armoríka, og er útnorðurhluti Frakklands. Þessi *rómversku* lönd, sem hann þannig hafði unnið, gjörði hann að aðallandi sínu, eða að nokkurskonar miðbiki í ríki sínu, og settist að fyrst í Soissons og síðan í *París*. En ríki hans var og, ef svo má að orði kveða, miklu betur í sveit komið, en nokkru öðru hinna nýju þjóðríkja, er aðrar Germanaþjóðir stofnuðu um þær mundir, því að Gallía var áföst við Germaníu, þaðan sem Frakkar voru komnir, og þeir voru ekki aðskildir og fjarlægir frá ættjörðu sinni og fornum átthögum, eins og Vandælir, Gotar, Lángbarðar.

Í þetta mund rèðu 4 bræður fyrir *Búrgundaríki*. Það var austast á Gallíu og náði norðan frá Elsas og suður að Duranceíljóti; fagurt land og frjófsamt. Þar varð illa með þeim bræðrum, því að einn þeirra, sá er *Gundobald* (Gunnbaldur) hèt, drap tvo af þeim og kastaði eign sinni á ríki þeirra. Annar þeirra sem drepinn var átti dóttur eina, er *Klóthildur* hèt. Hennar fèkk Kloðvík konúngur, og var bæði að hún eggjaði fast til föðurhefnda, enda var Kloðvíki allkært að geta náð Búrgund, og sameinað það við ríki sitt. En í þann svipinn fèkk hann eigi meiru til leiðar komið, en að krefjast fjár og föðurleifðar drotníngar sinnar af Gunnbaldi, og það fèkk hann, því að þá höfðu *Alimenn*, er bjuggu norður og austur af Frökkum, ráðizt á Sigebert (Sigbjart) konúng í Kölni, er rèð fyrir hinum rípversku Frökkum. Kloðvík konúngur var skjótur til liðs við frændur sína og vann ágætan sigur á Alimönnum í orustu hjá *Zylpikk* (496). Eptir þá orustu urðu Alimenn honum háðir, en höfðu þó hertoga yfir sèr, er konúngur setti þar til yfirsóknar, og lögum sínum og landsvenju fengu þeir að halda sem áður. Alt til þessa hafði Kloðvík og Frakkar verið heiðnir, en bæði voru mjög margir af þegnum hans kristnir, og Klóthildur drotníng, sem sjálf var kristin, taldi hann á að taka við trú. Lèt konúngur þá skírast og systir hans *Audoflede*, sú er síðan giptist *Þeódóríki* Austgota konúngi. Þá voru og um leið skírðar 3000 Frakka, og síðan tók allur þorri þeirra kristna trú. Allar

Gota og Germana þjóðir, sem um þær mundir voru kristnaðar, fylgdu Aríusar kenníngu, en Frakkar aðhyltust hina *rómversku* kirkju, og þannig var þegar á Kloðvíks tímum grundvöllurinn lagður til hins nána sambands, er átti sèr stað með Frakkakonúngum og hinni katólsku klerkastètt, er aptur leiddi til þess að breiða kristni og rómverska mentun út yfir heiðnar þjóðir á Norðurlöndum. En jafnvel þó Kloðvík konúngur tæki kristna trú, þá mátti þó segja um hann eins og Konstantín mikla, að breytni hans batnaði lítið fyrir það.

Nú sem hann hafði kúgað undir sig Alimenn, snerist hann móti Gunnbaldi Búrgundakonúngi og tók þar til óspiltra mála aptur, sem hann hafði áður orðið frá að hverfa Þeir hittust hjá *Dijon* og börðust; fèkk Kloðvík sigur en Gunnbaldur flýði. Sættir komust á með þeim og varð Gunnbaldur skattgildur, en hèlt þó ríki og stýrði því síðan vel og lengi.

Nokkrum vetrum síðar hófst ófriður með *Alarik öðrum* Vestgotakonúngi og Kloðvíki. Alarik átti dóttur Þeódóriks Austgotakonúngs og fylgdi fram Aríusar lærdómi; undu katólskir menn í ríki hans því stórilla og varð uppreisn af. Þókti Kloðvíki þá bera vel í veiðar, og fór með her manns móti Vestgotakonúngi, lèzt hann vilja liðsinna katólskum mönnum, en aðalorsökin var þó hin, að ná undir sig ríki Alariks og reka Vestgota út úr Gallíu. Það er sagt að á þeirri ferð kæmi Kloðvík til *Toursborgar*. Þar var klaustur hins heilaga *Marteins;* hèt konúngur á Martein sèr til sigurs og lofaði að gefa honum góðan hest. Fundur þeirra konúnganna varð hjá *Poitiers* (507) og fèkk Kloðvík sigur en Alarik fèll. Snèri Kloðvík við það heim aptur og vildi leysa hest þann út með 100 gullpeníngum, er hann hafði gefið Marteini, en konúngi var sagt, að hesturinn var staður og vildi hvergi gánga frá klaustrinu; bætti konúngur þá til öðru hundraði, og varð hesturinn þá ljúfur og leiðitamur. Varð konúngi þá það að orði: »að Marteinn væri góður í nauð að leita, en ærið dýr í viðskiptum«[1]. En til þess, að Kloðvík legði eigi alt Vestgotaríki undir sig, skarst Þeódórik Austgotakonúngur í

1) Þá er og sagt, að Kloðvík konúngur hafi einhverju sinni heyrt lesna píníngarsögu Krists, og hafi hann þá mælt: »hefði eg verið staddur þar með Frakka mína, þá skyldi eg hafa jafnað á Gyðíngum.»

leikinn og sendi *Ibbas* hershöfðínga sinn með liði miklu vestur á Gallíu og stöðvaði þannig yfirgáng Frakkakonúngs. Þó eignaðist Kloðvík land alt frá Loire-fljóti suður til Pyrenæafjalla, og Vestgotar hèldu ekki öðru eptir af Gallíu, en landshluta þeim, sem nú heitir *Languedoc*. Tókst Þeódórik þar landstjórn á hendur, en suðausturhorn Gallíu, milli Rhonefljóts og Alpafjalla norður að Durancefljóti, var lagt undir Austgotaríki.

Á hinum síðustu árum lagði Kloðvík undir sig lönd hinna *rípversku* Frakka, ekki með hreysti og harðfengi heldur með svikum og undirferli. Hann drap og lèt drepa konúnga þeirra og ættmenn og gjöreyddi þeim svo, að enginn var loks eptir. Þannig náði hann yfirráðum yfir öllum Frökkum og gjörði að einu ríki. Hann andaðist í Parísarborg (511) á fimta vetri hins fimta tugar. *Gregoríus* biskup frá Tours, er lifði á 6. öld e. Kr. hefir ritað sögu Frakka fram undir lok 6. aldar.

## Hnignan og endalok Mervíkínga. Hirðstjórar með Frökkum.

Konúngstignin hjá Frökkum gekk í erfðir. En sá sem var elztur konúngs sona tók eigi einn við ríki, heldur bræður hans með honum. Svo var því og háttað á Norðurlöndum seinna á tímum. Þegar Kloðvík konúngur andaðist skiptist því ríkið milli fjögra sona hans. *Þeódórik* var þeirra elztur († 534) og fèkk austur hlutann, er var nefndur *Ástrasía* (Austrasía); hann hafði aðsetu í *Mez-borg*. Íbúar þeirra landa, sem hann rèð fyrir, voru Frakkar og Germanar; þeir voru hergjarnir mjög. Hinir þrír bræður Þeódóriks fengu vestur hlutann, sem kallaður var *Neustría*. Þar bjuggu afkomendur Galla og Rómverja. Þeir voru engir vinir Ástrasíumanna. Þegar Þeódórik mikli var fallinn frá (526), urðu ríki þau og þjóðir, sem hann hafði haldið hlífiskildi yfir, ekki lengur fær um að verjast árásum Frakka. *Türíngar* komust undir Ástrasíukonúng (530), Búrgundar undir Neustríu (534). *Klótar* hinn *fyrsti* með því nafni var ýngstur þeirra bræðra Kloðvíks sona og lifði þá alla († 561). Hann sameinaði aptur alt ríkið og lagði *Bajaraland* (Baiern) undir sig (íbúar Bajaralands voru komnir af Sveva ættum), þó hèldu allar þær þjóðir, er Frakkakonúngar lögðu undir sig, fornum lögum og landsvenjum og höfðu *hertoga* yfir sèr til landsstjórnar.

Þegar Klótar konúngur andaðist skiptist ríkið aptur milli sona hans fjögra. Hættu nú Frakkar um sinn að leggja aðrar þjóðir undir sig, en þá hófust ógurlegar innanlands óeirðir milli konúnganna og ættmanna þeirra, og stóðu þær óeirðir um frek 50 ár. Í þeim óeirðum urðu tvær drotníngar nafnkendastar af grimdarverkum þeim og manndrápum er þær ollu. Önnur þeirra hét *Brynhildur,* dóttir Vestgotakonúngs, fríð kona, vitur vel og skaphörð; hún var gipt *Sigebert* Ástrasíu konúngi. Hin hèt *Friðgunnur* (*Fredegunde*) og var drotníng í Neustríu; hún var grimm og grálynd, og sögð í alla staði verri en Brynhildur. Þessari óöld lètti eigi af fyr en *Klótar annar* af Neustríu, sonur Friðgunnar, fèkk tekið Brynhildi höndum og drepið hana (613). Hún var þá áttræð, og var sagt að hún hefði ráðið 10 konúngum bana, en engar eru sönnur fyrir því. Klótar náði reyndar öllu ríkinu undir sig og sameinaði það að nýju, en varð í mörgu að slaka til við biskupa og lenda menn, er hvorirtveggja höfðu stórum aukið veldi sitt og yfirráð meðan ófriður stóð innanlands, og konúngar börðust og drápu hverir aðra. Lènsdrotnar þessir komu því þá til leiðar, að þeir einir rèðu hverja menn konúngur kaus sèr til *hirðstjóra* (*majores domus*). Hirðstjórar þessir höfðu alt til þess tíma að eins haft embætti á hendi við hirðina, umsjón yfir konúngstekjum og jörðum krúnunnar, en þegar hèr var komið, fengu þeir svo mikinn þátt í öllum stjórnarstörfum, að þeir rèðu engu síður en konúngur sjálfur. Klótar annar varð að setja sinn hirðstjóra yfir hvern af þeim 3 hlutum ríkisins, Ástrasíu, Neustríu og Búrgund; þó komst ekki konúngstign Mervíkínga til algjörðrar niðurlægíngar um Klótars daga († 628) eður *Dagoberts* sonar hans († 638), en er þá leið voru Mervíkíngar þeir, er upp þaðan sátu að völdum um heila öld, ekki annað en nafnið eitt og verkfæri í hendi hirðstjóra sinna. *Pipín* af *Heristal*[1] hirðstjóri í Ástrasíu gjörðist hirðstjóri yfir öllu landinu (Frakklandi) eptir að hann hafði sigrazt á Neustríu mönnum við *Testry*[2] (687). Varð sá sigur allmerkilegur og reyndar til þess að halda ríkinu saman, því að öðrum kosti var eigi annað fyrir að sjá, en að þeir 3 ríkishlutar, svo ólíkir að þjóðerni sem þeir voru, hefði skilizt að, og hver þeirra orðið ríki út af fyrir sig. Pipín kallaði sig upp frá þessu «*dux et princeps Franco-*

1) Það er við Maas. 2) Það er milli Qventin og Peronne.

*rum»*, og á brèfum sem út gengu voru stjórnarár hans talin jafnframt ríkisstjórnarárum konúngsins. Þegar Pipín dó (714), tók sonur hans óskilgetinn *Karl Martel* að nafni við sömu völdum sem faðir hans hafði haft, og hèlt þeim til dauðadags (741). Hann vann sigur á Neustriumönnum, sem ekki gátu unað því, að Ástrasía sæti í fyrirrúmi, og gjörðu þess vegna uppreisn; honum varð og sigurs auðið í viðskiptum við ýmsar germanskar þjóðir, og hann breiddi kristna trú út á meðal þeirra og efldi hana; en það, sem hann varð lángfrægastur af, var viðureign hans við Araba eða Saracena (Serki), er í það mund brutust inn í Frakkland sunnan af Spáni og voru komnir alt norður að Loirefljóti svo að ekki stóðst við þeim. Karl Martel fór í móti þeim og hitti þá á *Peituborgarvöllum* milli *Poiters* og *Tours* (732). Þar stóð hin fræga orusta í 7 daga og lauk svo að Karl fèkk sigur. Þar fèll *Abderahman,* fyrirliði Araba, og margar þúsundir af hans mönnum, en þeir sem af komust flýðu undan suður á Spán. Þessi ágæti sigur stöðvaði framrás Múhameðs trúar, sem annars hefði að líkindum geisað yfir öll vesturlönd Norðurálfunnar, og má því jafnan telja Karl Martel sem eina af hinum þörfustu hetjum kristinna manna. Eptir þenna mikla sigur fèkk hann viðurnefnið «*Martel*» (þ. e. hamar), enda voru það ómjúk högg, er hann veitti óvinum sínum. Níu vetrum síðar andaðist Karl Martel fimtugur að aldri (741). *Pipín hinn litli,* sonur Karls, tók við hirðstjóravöldum eptir föður sinn, en *Kilderik* 3. bar konúngsnafn. Var Pipín afreksmaður mikill sem faðir hans og í vináttu við páfann, enda sá páfinn alt sitt traust gegn Lángbörðum og Miklagarðskeisara þar sem Frakkastjórn var. Þetta vissi Pipín fullvel. Nú var svo ástatt í Frakklandi að hirðstjórinn rèð einn öllnm málum, en konúngs var að engu getið; þjóðin var orðin þessu vön og lèt sèr vel líka; hirðstjórann skorti að eins eitt, og það var konúngsnafnið. Pipín þótti nú kominn tími til þessa; fyrir því sendir hann á fund *Sakaríasar* páfa og leggur fyrir hann þá spurníngu:» «hvort konúngstign beri heldur þeim manni, er hafi allan veg og vanda af ríkisstjórn, eða þeim er að eins hafi nafnið?» Svar páfa var að óskum Pipíns. Var þá Kilderik, hinn síðasti konúngur af Mervíkíngum, rekinn frá völdum, krúnurakaður og settur í klaustur, en Pipín tekinn til konúngs á þingi í *Soissons* (752). Síðan

var hann vígður undir kórónu af páfa, og þar með voru viðurkend hin andlegu yfirráð, er páfarnir síðan þóktust hafa yfir allri konúngstign í kristnum löndum. Litlu síðar gafst Pipín færi á að gjalda páfanum fyrir greiðann, þá er Lángbarðar ætluðu að taka Rómaborg. Skarst Pipín þá í leikinn (756), og veitti páfa það lið er dugði, eins og fyr er ritað.

## Karl mikli.

Pipín konúngur andaðist 768 vetrum eptir Kristsburð og skipti áður ríki með sonum sínum *Karli* og *Karlmanni*. Þeir bræður voru báðir kvongaðir og áttu dætur Desideriusar Lángbarða konúngs. Karlmann var þeirra bræðra ýngri, en dó þó litlu síðar en faðir hans. Tók Karl þá alt ríkið undir sig, en ekkja Karlmanns flýði með sonu sína til föður síns og leitaði þar ásjár. Lofaði Desiderius að styrkja þá bræður til ríkis á Frakklandi, og vildi fá *Hadrianus* páfa til að krýna þá, en páfi vildi eigi verða við bón hans, og það því síður, sem Desiderius herjaði í land páfans um þær mundir. Nú bar það og til, að Karl sendi drotníngu sína alfarið heim til föður hennar. Varð af því fullur fjandskapur milli þeirra Karls og Lángbarða-konúngs, er leiddi til þess, að Karl fór með her manns til Ítalíu, vann Pavíaborg (774), tók Desiderius höndum og setti í klaustur, en lagði ríki hans undir sig (eins og áður er sagt). Hertoga þá, sem þar voru í landi og voru stórbokkar miklir, lèt hann suma drepa, en suma lèt hann sverja sèr hollustu eiða, og skipti landinu í greifadæmi, eins og siður var á Frakklandi. Að eins hertogarnir í Spóletó og Benevent urðu honum að mestu leiti óháðir. Hann lèt landið halda sínum fornu lögum, staðfesti gjöf Pipíns föður síns til páfastóls (Exarkatið) og gjörðist verndarmaður hans. Það sem Miklagarðskeisari átti á Ítalíu lèt Karl vera óhreift.

Áður en Karl fór herförina til Ítalíu var ófriður kviknaður milli hans og hinna saxnesku þjóða. *Saxar* bygðu löndin norðan frá *Egðu* (*Eideren*) og Frísa löndum við Norðursjóinn, suður að Hessa- og Türíngasveitum, og austan frá Elfunni (Saxelfi) vestur til Rínar. Saxar voru þeir einir af öllum þýzkum (Germana) þjóðum, er þá voru heiðnir og óháðir Frökkum. Þeir voru hraustir og herskáir mjög og hötuðust ákaflega við kristni

og kristniboðendur. Nú var bæði að Karl vildi auka ríki sitt, og svo var hitt, að honum þókti sèr skylt, að breiða kristna trú út meðal heiðinna þjóða. Fyrir þá skuld rèð hann á Saxa (772). Stóð sá ófriður um 30 ár og sýnir hversu þrekmiklir menn og harðfengir að Saxar voru, því að Karl mikli var ekki smámenni við að eiga; hvenær sem Karl snèri baki við þeim, og varð að sinna öðrum þjóðum, hlupu þeir að nýju upp til ófriðar. Karl var löngum sigursæll í viðskiptum sínum við Saxa, tók fjölda þeirra höndum, og fór stundum vel með þá, en stundum refsaði hann þeim þúnglega; hann tók gisla af þeim, setti þá í klaustur og lèt kristna þá og kenna þeim ýms fræði, er þeir síðan gæti flutt heim til ættjarðar sinnar. Árið 777 stefndi Karl til þíngs í *Paðerborn* á Saxlandi, og bauð höfðíngjum Saxa þángað til fundar við sig; hètu þeir honum þá að játast undir yfirdrotnun hans, gjalda honum skatt og veita kristniboðendum hans enga mótstöðu, gegn því að mega halda lögum sínum og landsvenju; var þetta bundið fastmælum með þeim. En ekki kom *Wittekind,* hin frægasta hetja og helzti fyrirliði Saxa, á þann fund; var því eigi við að búast, að trygðir og friður mundi lengi standa. Árið 782 var Karl sjálfur staddur í Rómaborg, en hafði sent hersveitir sínar á hendur *Sorbum,* slafneskri þjóð, norðan og vestan á Þýzkalandi. Á þetta herlið rèðust Saxar og gjöreyddu því að mestu leiti. Þegar Karl frètti þessi tíðindi brá hann skjótt við og fór norður þángað. Saxar báru það fyrir, að Wittekind hefði valdið þessum atburðum, en hann var þá hvergi nærri og flúinn undan norður til Danmerkur. Lèt Karl þá taka um 5000 manna af Söxum og drepa þá sem upphlaupsmenn. En þessi grimma refsíng gjörði eigi annað en kveikja nýja uppreisn um endilángt Saxland. Eptir stórorusturnar við Detmold (783) og litlu síðar við Hasefljót, gengu tveir hinir helztu fyrirliðar Saxa, Wittekind og Abbió, sjálfkrafa á vald Karls og lètu skírast og hèldu síðan eiða þá, er þeir sóru. Þó stóð enn ófriður um mörg ár þángað til 803, að Saxar gengu til hlýðni og hollustu við Karl, og játuðust undir yfirdrotnun hans; fengu þeir þá öll sömu rèttindi sem Frakkar, en eigi þurftu þeir að gjalda skatta, og hèldu fornum landslögum. Karl kristnaði Saxland norður að Egðu og setti þar 8 biskupsstóla í landi; einn þeirra var í *Bremen* (Brimar). Eptir þetta breidd-

ist skjótt kristni og þjóðmentun út um Saxland. Fyrir norðan Egðu tók Suður-Jótland við; þar bjuggu Danir og voru heiðnir um þá daga, en *Goðfreð* (Guðrauður veiðikonúngur?) konúngur þeirra hafði veitt Söxum liðveizlu meðan þeir áttu í ófriði við Karl. Og eptir að Saxar voru unnir herjaði Goðfreð um strendur Norðurþýzkalands og bjóst jafnvel að fara herferð móti Karli, en af því varð þó eigi, því að hann dó um þær mundir (811).

En þó að Karl væri löngum önnum ⁅háður við Saxa, þá lèt hann eigi þar við sitja. Hann átti þar að auki, og það í sama mund, vopnaviðskipti við aðrar þjóðir og í ýmsum áttum.

Karl sat á þíngi í Paderborn sem áður var sagt. Þar komu til hans Serkja-höfðíngjar nokkrir sunnan af Spáni, og beiddu hann liðveizlu móti *Abderrhaman* kalífa í *Cordóva*, er þá rèð fyrir öllum Spáni, nema litlu ríki gotnesku og kristnu í Astúríu. Þessir gestir þóktu nýstárlegir í þá tíð á norðurlöndum. Tók Karl máli þeirra vel og hèt þeim sinni ásjá. Á næsta ári (778) hèlt hann liði sínu suður á Spán, vann þar ýmsar borgir og lagði landið undir sig suður að Ebrófljóti. Og þó að yfirráð Frakka næði þar eigi stöðugri fótfestu í það sinn, þá varð sú herferð Karls tilefni til þess, að Frakkar náðu undir sig norðausturhluta Spánar, er kallað var *hin spánska mörk;* þar komust síðan á fót nokkur smáríki og voru kristin (t. a. m. Arragonia og fl.[1]) og sjálfum sèr ráðandi.

*Bælendíngar* (Bairerne) höfðu, eins og áður er sagt, öndverðlega á ríkisstjórnarárum Mervíkínga komizt undir Frakka, en haft yfir sèr hertoga af innlendum ættum og ráðið sjálfir mestu um hagi sína. Á fyrstu ríkisstjórnarárum Karls mikla rèð sá hertogi fyrir Bæaralandi, er *Thassiló* hèt. Hann var náfrændi Karls og átti dóttur Desideriusar þess er fyr er nefndur. Hún eggjaði mann sinn fastlega til uppreisnar gegn Karli, og hann fór að ráðum hennar. Karl lèt því taka Thassiló höndum og setja í klaustur, gjöra ríki hans að frakknesku skattlandi, en hertogastjórn lagðist þar niður (788). En við það komust Frakkar í nábúð og viðskipti við *Avara* sem fyr eru nefndir. Þeir voru

1) Á heimleiðinni í Pyreneafjöllum rèðu Baskar á lið Karls í Runsivaldsdal (Roncevaux) og drápu þar af honum fjölda manns. Þar fèll Rollant systurson Karls, hin mikla hetja, sem miðaldaskáldin ortu kvæði um.

hraust þjóð og illvíg, og fóru einatt með ránum inn í lönd nábúa sinna. Þegar Thassiló, sem verið hafði í einskonar sambandi við Avara, misti ríki sitt, rèðust Avarar á lönd Frakka, en Karl tók ómjúklega á móti. Hann lèt fara 7 herferðir, aðrir segja 10, móti þeim og braut þá undir sig að lyktum (796). Hrukku Avarar, þeir sem eptir lifðu, austur yfir Theis-á, og koma lítið við sögur upp frá því. Í löndunum milli *Ens* og *Raabelfar*, þar sem Avarar höfðu setið, tóku sèr nú bólfestu þýzkir og bælenzkir nýlendumenn, setti konúngur þar markgreifa yfir til landvarnar, kallaði lönd þessi Markgreifadæmi, og kendi það við Avara; þar kom síðan upp hertogadæmið *Austurríki*.

Karl og forfeður hans höfðu lagt svo mörg lönd og þjóðir undir sig, að Frakkaríki var nú orðið hið mesta og voldugasta í Norðurálfu; lágu nú flest þau lönd undir það, er forðum höfðu lotið hinu vestlæga Rómaveldi. Og þó að margar aldir væri liðnar síðan, þá var ekki enn útdauð á Ítalíu, eða hjá klerkalýðnum, endurminníng hinnar fornu frægðar og dýrðar, sem fylgt hafði hinni rómversku keisaratign. Þá voru höfðíngjaskipti orðin í Rómaborg. Hadrianus páfi var liðinn undir lok (795) en *Leo* hinn þriðji með því nafni kominn aptur í postullegt sæti. Var þó sá flokkur manna uppi um þær mundir í Rómaborg, er undi því illa, að Leó komst til þeirra valda, og litlu síðar gjörðu upphlaupsmenn nokkrir aðsúg að páfa, lögðu hendur á hann, hröktu hann og settu í varðhald, en páfinn slapp þaðan með tilstyrk eins af þjónustusveinum sínum og komst í skjól hertogans af Spoletó; því næst sendir páfi menn á fund Karls konúngs, segir honum af hrakníngum sínum og beiddist hans ásjár og liðveizlu. Karl svaraði vel máli hans, en kvaðst þó fyrst vilja eiga tal við hann sjálfan, áður frekara væri aðgjört, og mæltist því til að páfinn kæmi til fundar við sig norður í Paderborn, þar sem Karl konúngur var þá staddur. Páfinn lèt það ekki í vegi standa. Hittust þeir konúngur og páfi, rèðu ráðum sínum og skildust með hinni mestu blíðu. Árið eptir fór konúngur sjálfur suður yfir fjöll og kom til Rómaborgar á öndverðum vetri; kannaði hann þá málið og refsaði mótstöðumönnum páfa; leið nú að Jólum. Jóladag hinn fyrsta hlýddi Karl konúngur tíðasöng í Pèturskirkju; að lokinni messu gjörði hann bæn sína fyrir altari, sem venja hans var til; en er minst varði gekk páfi að

konúngi, setti kórónu á höfuð honum og krýndi hann til *keisara* yfir Rómaveldi, en allur lýður, er það sá, kvað við fagnaðarópi. Þannig reis aptur af löngum dvala hin rómverska keisaratign, og stóð hún síðan að nokkru leiti um margar aldir og alt fram á daga þeirra manna sem nú lifa.

Að vísu bættust keisaranum engin ný lönd við þessa krýníngu hans; ríki hans stækkaði ekki með hinni nýju tign — það náði, þegar hèr var komið, norðan frá Egðu (Eiðerfljóti) í Danmörku suður að *Tifur* (Tíber), austan frá Theiss á Úngaralandi vestur að Ebró á Spáni — en það jókst og efldist á annan hátt: það óx í augum manna. Sjálft keisaranafnið jók enn meiri lotníngu í hugum manna en konúngsnafnið eitt; menn sáu í anda Ágústus keisara og Constantínus mikla í allri sinni dýrð; hugmyndin um hið æðsta jarðneska vald yfir öllum kristnum þjóðum vaknaði að nýju, og gaf hinni nýju keisaratign styrk og staðfestu. Þess vegna var það eigi með öllu orsakalaust, að Miklagarðskeisarar litu óhýru auga til hinnar nýju keisaratignar í vestrinu, með því að þeir þóktust ávalt einir eiga tilkall til hennar eins vestur í löndum eins og eystra í sjálfra þeirra ríki [1]. Til þess að jafna alla misklíð kom það því til mála, að Karl keisari skyldi eiga *Írene* drotníngu í Miklagarði (Konstantínópel), er í það mund rèð fyrir hinu austrómverska ríki, en það fórst þó fyrir. Nokkrum árum síðar (812) var saminn friður milli ríkjanna, og viðurkendi þá Miklagarðskeisari hina vestrómversku keisaratign. Karl keisari lèt nú og þegna sína, bæði lærða og leika, um alt ríki sitt sverja sèr nýja hollustueiða; voru þeir eiðar meiri og sterkari en menn höfðu áður svarið honum sem konúngi. Þó páfinn væri nú orðinn *þegn* hins rómverska keisara, varð þó þessi atburður páfaveldinu til ómetanlegs hagnaðar, því að, eins og síðar mun sjást, þegar ættmönnum Karls keisara fór hnignandi, þá urðu páfar mestu ráðandi um það, hver keisaratignina hlaut, og þeim tókst að koma mönnum á þá trú, að páfi og keisari stæði jafnfætis hver öðrum þannig: «að páfi hefði andlegt vald til andlegra hluta, en keisari veraldlegt vald til veraldlegra hluta».

Þegar Karl var orðinn keisari lèt hann af hernaði, og fól

1) Þ. e. í hinu *austrómverska*, *griska* eða *býzantínska* keisaradæmi.

sonum sínum, er þá voru fulltíða menn, öll hermálefni á hendur, en gaf sig allan við friðsamlegum störfum, og eins og hann hafði verið vitur, aðgángsmikill, þrautgóður og sigursæll í stríði og styrjöldum, eins var hann nú í friði árvakur og framkvæmdarsamur til eflíngar hverskonar framför og mentun í hinu víðlenda ríki sínu. En það er þó eigi þann veg að skilja, sem hann hafi vanrækt slíka hluti um fyrra part æfi sinnar, meðan hann átti í sífeldum hernaði. Því að Karl keisari var einn af þeim fáu mikilmennum sögunnar, sem við öllu gat snúizt í einu, og lèt sèr engu síður ant um, að hefja þjóðirnar upp úr villu og vanþekkíngu, en hitt, að brjóta þær undir sig og drotna yfir þeim. Það ræður að líkindum, af því sem áður er sagt, að í ríki hans hafi búið ýmsar og margvíslegar þjóðir, ólíkar hver annari að túngumáli, siðum og háttalagi. Karl einn gat stýrt þeim öllum svo vel færi, en aðrir ekki, sem eptir hann komu. Hann lèt hverja þjóð halda sínum lögum, en stjórnarfyrirkomulagi skipaði hann öllu á einn veg um alt ríkið. Hertogastjórn þá, sem verið hafði áður hann kom til sögunnar, bæði á Ítalíu og sumstaðar í þýzkalandi, og verið ærið uppvöðslumikil og sjálfráð, tók hann af með öllu. Að eins í Bretagne, Gaskogne og Benevent hèldust hertogar við eptir sem áður. Í þess stað skipti hann öllu ríkinu í *greifadæmi,* en greifar þeir voru að eins *valdsmenn* (embættismenn) og völd þeirra gengu als ekki í erfðir. Þó rèðu þeir mjög miklu, því að bæði höfðu þeir lögstjórn og herstjórn á hendi, hver í því fylki sem hann var yfirskipaður; en lángt mest kvað að valdsstjórn greifa þeirra, sem höfðu yfirsókn í hèröðum á landamærum ríkisins, og kallaðir voru *markgreifar.* Þeir voru landvarnarmenn keisarans móti árásum nágranna-þjóðanna. Hèr um bil jafnfætis greifunum stóðu *byskupar,* er eigi að eins höfðu stjórn andlegra málefna á hendi, heldur og tóku meiri og minni þátt í veraldlegum málum. Kirkjur og klaustur voru reist víðsvegar út um löndin meðal hinna nýkristnuðu þjóða, og lagt til þeirra lönd og lausir aurar; þar á meðal lagði keisariun tíundargjald á þegna sína, stofnunum þessum til eflíngar og viðurhalds. Við alla byskupsstóla og klaustur voru skólar settir, og keisarinn gekk ríkt eptir að öll fræðsla færi í góðu lagi. Þannig kveikti hinn mikli maður nýtt ljós mentunar og vísinda þar sem áður hafði drotnað

fáfræði og andlegt myrkur. En til þess að öllu yrði vel fylgt því, er hann hafði fyrir skipað, sendi hann umboðsmenn sína einatt út um ríkið — þeir voru kallaðir *missi dominici* þ. e. sendiboðar, erindisrekar — til þess að líta eptir hvernig verðslegir og andlegir valdsmenn stýrði sýslu sinni; og lèt keisari þá síðan, er þeir komu aptur, skýra sèr nákvæmlega frá hversu alt fór fram í ríki hans. Hann lèt sèr og mjög ant um að efla akuryrkju, verzlun, iðnað og alskonar búsýslu. Sjálfur leit hann eptir öllu á búgörðum sínum, og gaf um þesshátttar hluti ágætar fyrirskipanir og reglur, er verið gátu öðrum stórbúum til fyrirmyndar. Á hverju ári setti Karl keisari *alsherjarþíng* og kvaddi þángað alt stórmenni í ríki sínu, bæði andlegrar stèttar menn og veraldlegrar; skar keisarinn þar úr öllum málum, og hinir æðstu höfðíngar með honum, en þó alþýða manna sækti þjóðþíng þessi, þá átti hún þar engan hlut að málum. Til forna hafði hver frjáls maður meðal Germana átt fullan atkvæðisrètt í málsúrlausnum og dómum, en sá rèttur var nálega allur horfinn undan þeim á dögum Karls keisara, og hinir mörgu smærri óðalsbændur voru stórum farnir að fækka, með því fjöldi þeirra gaf sig í þjónustu klerkanna, eður gjörðust verzlegum höfðíngjum háðir. Leiddi það til þess, að *höfðíngjavaldið* (Aristokratiet) magnaðist stórum, þó þess gætti lítið meðan Karl keisari sat að völdum og stýrði ríkinu með styrkri hendi.

Karl keisari hefir fengið viðurnefnið *hinn mikli* (*Carolus Magnus, Karlamagnús*), og enginn þjóðhöfðingi á miðöldunum þykir verið hafa hans jafníngi; er það og mjög að maklegleikum, því að stjórn hans var bæði sterk og vitur og glæsileg, og ríki hans tók í öllum greinum aðdáanlegum framförum um hans daga. Er þar til eigi hvað sízt að telja vöxt og viðgáng allrar mentunar og vísinda. Keisarinn hafði við hirð sína og í ráðum og framkvæmdum með sèr hina helztu vísindamenn aldar sinnar t. a. m. *Alkuin* ábóta frá Englandi, hinn lærðasta mann († 804), *Pál djákna* (Paulus diaconus † 797) af Lángbarðalandi, er ritað hefir sögu Lángbarða, *Eginharð* eða *Einharð*, er átti *Emmu* dóttur Karls og ritaði sögu hans, og fl. Sjálfur skildi keisarinn latínska túngu og gríska, en lærði fyrst að skrifa á fullorðins árum, því að hann hafði ekki verið settur til bókmenta í æsku, og svo er sagt, að hann hefði ritspjald sitt undir höfði sèr og ritaði á það

öllum stundum, þegar annað kallaði ekki að. Það er og mælt, að mest hafi honum þókt til koma, að lesa rit hinna nafnfrægu kirkjufeðra Hieronymusar og Ágústínusar, og hafi hann einkum dáðst að mælsku þeirra; hafi honum þá einhverju sinni hrotið þau orð af vörum: «hefði eg haft tólf slíka menn í ríki mínu!»; en Alkuin, sem var þar viðstaddur, hafi þá svarað: «drottinn himins og jarðar hafði einúngis þá tvo, en þú vilt hafa tólf!». Karl mikli var fimmkvæntur og varð margra barna auðið. Þrír af sonum hans urðu konúngar að honum lifandi, og hètu *Karl, Pipín* og *Lodvik*. Þeir Karl og Pipín lètust báðir fyr en faðir þeirra, og olli það honum mikils harms, því að þeir voru báðir hinir mannvænlegustu, en Loðvík þótti þeirra síztur. Það er eins og að lagzt hafi í Karl keisara afskiptasemi páfanna og kröfur þær, er þeir síðan gjörðu til þess að krýna keisara og konúnga, og þess vegna gekst hann sjálfur fyrir krýníngu Loðvíks sonar síns á ríkisþíngi í *Aachen* (Aqvisgranum). Hafði hann þá í ráðum með sèr höfðíngja og aðra vitra menn, og svöruðu allir á þá leið, að guð vildi svo vera láta. Hinn 16. dag nóvembr. mán. 813 skrýddist Karl keisari skrúða, gekk í kirkju og Loðvík sonur hans með honum, gjörði bæn sína, gaf syni sínum ýms viturleg heilræði með mörgum fögrum orðum í áheyrn allra þeirra, er þar voru saman komnir; að síðustu mælti keisarinn: «viltu þá heita því, sonur minn, að gæta als þessa vel og vandlega? «Loðvík kvað já við því! «Settu þá keisarakórónuna á höfuð þèr, og láttu hana jafnan minna þig á loforð þin! «Loðvík gjörði svo. Litlu síðar skildust þeir feðgar, og sáust aldrei síðan; fór Loðvík heim í ríki sitt í Akvitania, en Karl var eptir í Aachen. Þar tók hann sótt skömmu síðar þann sama vetur, þá er hann leiddi til bana (28. jan. 814). Hann skorti lítið eitt á tvo vetur um sjötugt er hann andaðist.

## Ríki Karlúnga skiptist.

Þegar Karl mikli var andaður tók sonur hans, *Loðvík hinn gæfi*, við ríkisstjórn yfir Frakkaveldi; að sönnu var bróðursonur hans, er Bernharð hèt, konúngur í Ítalíu og vildi brjótast til keisaradóms, en hann varð handtekinn og blindaður og dó eptir það. Loðvík keisari var allvel mentaður maður, en enganveginn fær um að stýra hinu víðlenda ríki, er faðir hans hafði fengið

honum til umráða; hann var aðgjörðalítill, enginn þrekmaður, og ákaflega háður klerkavaldinu. En Frakkaveldi var bæði víðáttumikið og bygt af margbreyttum þjóðum. Svo kvað mikið að stjórnleysi Loðvíks, að meðan hann sat að völdum gjörðu synir hans uppreisn móti honum og deildu um arf eptir hann. Ofan á alla þá óhamíngju bættust óeirðir í Bretagne og fleiri skattlöndum; ófriður við þjóðir þær er bjuggu fyrir austan ríkið; — þær voru *slafneskar* og höfðu stofnað ríki eitt í Mähren —; en umfram alt árásir af *víkíngum* frá Norðurlöndum. Það voru Norðmenn, er um þær mundir tóku að herja um strendur hins Frakkneska ríkis, einkum Frísland og Akvitaniu (Guienne og Gascogne). Þegar Loðvík keisari andaðist (840) hófst megn ófriður milli sona hans. Þeir hètu *Lóthar, Loðvík* og *Karl.* Var Lóthar þeirra elstur og vildi hafa öll yfirráð, en bræður hans þoldu það eigi og söfnuðu liði og áttu orustu við hann mikla og mjög mannskæða hjá *Fontenai* (841); fengu þeir Loðvík og Karl sigur, en Lóthar flýði. Nokkru síðar komust sættir á með þeim í *Verdun* (843), og skiptu þeir bræður þá ríkinu milli sín. Fèkk *Lóthar* keisaranafn og þar með Ítalíu, hin fornu Búrgundalönd við Saone og Rhone, samt löndin þar norður af alt til norðursjóar milli ánna Schelde, Maas og Rínar; *Loðvík* (*hinn þýzki*) fèkk öll löndin fyrir austan Rín, austur af löndum Lóthars, í þeim bjuggu germanskar þjóðir eingöngu; *Karl* (*hinn sköllótti*) fèkk lönd vestur af Lóthari, eða Neustriu og Akvitaniu; þ. e. sjálft Frakkland, er svo var þá kallað. Sættargjörð þessi er að því leiti merkileg, að hún leiddi til þess að þrjú þjóðríki mynduðust: *Ítalía, þýzkaland* og *Frakkland.* Í löndum Loðvíks mæltu menn eingöngu á germanska (þýðverska) túngu, þó að mállýzkur væri þar margar, eins og eðlilegt var, með því að ýmsir germanskir þjóðflokkar áttu þar heima. Í ríki Karls sköllótta var *völsk* eða *rómönsk*[1] túnga töluð. En í löndum Lóthars var þjóðerni og túngur mjög margbreytt, enda stóð hans ríki mjög skamma stund. Lóthar átti 3 sonu: *Loðvík* (annan), *Lóthar*

1) *Rómanskar túngur* (rómanske Sprog) kallast þær, sem komnar eru af hinu forna Latínumáli (Rómverjamáli), og sem nú gánga um Ítalíu, Frakkland, Spán, Portúgal. Á 9. öld e. Kr. hvarf latínan sem alþýðumál, og síðan gátu að eins lærðir menn talað hana og ritað, en hinar túngurnar tóku þá við.

## Karlúnga-ætt.

- Karl mikli, † 814.
  - Loðvík (gæfi), † 840
    - Lóthar 1. † 855.
      - Loðvík 2. † 875.
      - Lóthar 2. af Lothringen.
      - Karl, af Burgund.
    - Loðvík 1. (þýzki), † 876.
      - Karlmann.
        - Arnúlfur † 899
          - Loðvík 3. (barn) † 911.
      - Loðvík 2.
      - Karl (digri), † 888.
    - Karl 2. (sköllótti), † 877.
      - Loðvík 2. (stami), † 879
        - Loðvík 3. † 882.
        - Karlmann † 884.
        - Karl (einfaldi), † 929.
          - Loðvík 4. (handan um haf), † 954.
            - Lóthar, † 986.
              - Loðvík 5. (lati), † 987.

(annan) og *Karl.* Lóthar keisari (hinn fyrsti) dó 855 og skiptist þá ríkið milli sona hans þannig, að Loðvík fèkk keisaratign og Ítalíu, Karl Búrgundalönd, og Lóthar norðurlöndin (frá Júrafjöllum til Norðursjóar); voru þau síðan kend við hann og kölluð *Lotharíngja*[1] (Lóthringen); saxaðist þó mjög á ríki þetta seinna á tímum svo að lyktum var það að eins lítill hluti þess sem bar þetta nafn. Þeir bræður Karl og Lóthar lifðu skamma stund, og skipti þá föðurbræður þeirra, Loðvík þýzki og Karl sköllótti, löndum þeirra milli sín, hvað sem Loðvík keisari annar á Ítalíu sagði. *Karl sköllótti* tók sèr nú keisaranafn, en því skeytti enginn maður, enda var Karl ónýtur höfðíngi og biskupum sínum algjörlega háður. Víkíngar af Norðurlöndum herjuðu þá sem tíðast í ríki hans, lögðu skipum sínum upp í stórárnar og brendu og eyddu bygðina á tvær hendur; varð engin mótvörn af Karli svo teljandi sè. Á meðan þessu fór fram juku greifarnir völd sín sem bezt þeir gátu; til þess tíma höfðu þeir haft lèn sín og embætti æfilángt, en nú kröfðust þeir, að hvorttveggja gengi í *erfðir* til niðja sinna, og varð Karl að heita þeim því með svardögum hið sama ár sem hann dó (877). Kom þá til rikis á Frakklandi sonur hans *Loðvík 2. hinn stamandi,* hann slepti öllu tilkalli til keisaratignar og til Ítalíu og dó tveim árum siðar (879). Hann átti þrjá sonu, og fylgdu þegar tveir þeirra föður sínum í ríkisstjórn: *Loðvík þriðji* (879—882) og *Karlmann* (879—884). En það sýnir bezt hve dáðlítil konúngstjórn var þá í Frakklandi, að einn af lènsdrotnum þar í landi, *Bosó* greifi í Vienne, tók sèr konúngsnafn árið 879 yfir miklum hluta ríkisins, en það voru Búrgundalönd við Rhonefljót; voru þau aptur komin undir Frakklands konúng eptir að ætt Lóthars keisara var aldauða. Ríki Bosós, er kallað var «*Arelat*», eptir höfuðborginni Arles, eða «*Cisjuranska Búrgund*» (neðra Búrgund), náði yfir sveitir þær, er seinna hètu *Provence, Savoya, Dauphine* og *Lyonnais.*

Eptir lát Karlmanns (884) var hinn þriðji af sonum Loðvíks konúngs stamanda, *Karl einfaldi,* eigi til konúngs tekinn á Frakklandi, heldur kjöru menn þar til konúngs *Karl digra,* son Loðvíks hins þýzka; hafði Karl erft ríki á þýzkalandi eptir föður sinn og bræður, og í orði kveðnu rèð hann fyrir Ítalíu, og hafði

1) Á latínu: *Lotharii regnum,* en á frakknesku *Lorraine* þ. e. Lóthars ríki.

þegið keisarakórónu af Jóhannesi páfa hinum áttunda. Þannig var því nær alt ríki Karls mikla komið aptur í höndur þess eina manns. En engin von var til að ríki þetta gæti haldizt saman nema um stundarsakir, því að nálega mátti kalla, að hver hönd innanlands væri uppi á móti annari, og að utan sóktu að harðsnúnir óvinir; keisarinn hèt að vísu Karl digri, en hann var ekki Karl mikli. *Norðmenn* komu enn í eitt skipti og fóru herskildi yfir landið alt til Parísarborgar og settust um hana (885); *Ottó* greifi varði borgina af mikilli hreysti, en Karl keisari kom sjálfur hvergi nærri, og loksins keypti hann víkínga þessa af höndum sèr með ærnu fè. Urðu nú þegnar hans óvægir og á þýzkalandi sögðu menn honum upp hlýðni og hollustu og steyptu honum úr völdum (887) og tóku *Arnúlf* bróðurson hans óskilgetinn til konúngs. Litlu síðar dó Karl digri (888). Hinir frakknesku lènsdrotnar gáfu Ottó greifa konúngsnafn. Ríki Karlúnga var nú komið á fallanda fót. *Serkir* (*Arabar*) herjuðu um suðurstrendur Frakklands og höfðu stofnað voldug ríki á Spáni. Víkíngar *Norðmanna* voru öðrum þræði, gengu víða á land í Frakklandi og gjörðu mörg spillvirki. Norður af þýzkalandi bjuggu *Danir* og *Frísar,* voru að mestu leiti heiðnir, og gjörðu mikinn ófrið í löndum þeim er lágu suður af þeim. Norður og austur af þýzkalandi höfðu *slafneskar* þjóðir tekið sèr bólfestu; hètu þær ýmsum nöfnum, og höfðu á ofanverðum dögum þjóðbyltínganna miklu (á 5. og 6. öld e. Kr.) komið hópum saman austan úr löndum, sezt að í *Mähren* og sett þar allmikið ríki á stofn.

Jafnvel þó bæði *Frakkland* og *þýzkaland* lyti hvert fyrir sig sínum konúngi, voru þó öll yfirráð í löndum þessum í höndum hertoga, biskupa, greifa og annara lènsdrotna, er náð höfðu þeim hinum miklu völdum meðan konúngar áttu í ófriði og kröggum. Því að meðan á þeim styrjöldum stóð var öll landsvörn í höndum hinna voldugu lènsdrotna er bjuggu út við landamærin. Hvað sem konúngar sögðu, reistu þeir sterka og víggirta kastala og herborgir bæði til þess að verjast árásum útlendra óvina og líka til þess að hafa nokkuð við að styðjast gegn konúngsvaldinu, þegar svo bar undir að konúngur vildi beita því. Fór þá svo að ýms fylki gengu undan konúngsumráðum og urðu honum óháð að kalla.

### Hinir síðustu Karlúngar á Frakklandi (888—987).

Ottó af París hafði verið til konúngs tekinn á Frakklandi, eins og fyr er ritað, en þótt hann væri dugandi maður gat hann eigi spornað við því, að greifi sá þar í landi, er *Rúdolf Welf* er nefndur, færi að dæmi Bosós og tæki sèr konúngsnafn yfir fylkjum nokkrum suður í landi og kallaði ríki sitt *«transjuranska Búrgund»* (Efra Búrgund) (þar hèt seinna á tímum France-Comte og Helveziulönd alt að Aarfljóti); gengu þannig að nýju nokkur fylki undan hinu frakkneska ríki. Ottó konúngur andaðist 898, og hafði nokkrum árum fyrir andlát sitt kvatt til ríkisstjórnar með sèr *Karl hinn einfalda.* Þegar Ottó var fallinn frá og Karl einnsaman seztur að völdum tók ekki betra við. Hann rèð litlu sem engu í ríki sínu, en ráð og dáð var öll í höndum lènshöfðíngjanna; hann varð að láta einn hinn fegursta og bezta hluta ríkis síns norður við Signu lausan við *Hrólf* höfðíngja Norðmanna (911). Hrólfur var sonur Rögnvaldar Mæra-jarls í Noregi, hinn mesti víkíngur, og svo mikill vexti, að því er *Snorri Sturluson* segir, að enginn hestur mátti bera hann; varð hann því jafnan að gánga, og fyrir því var hann kallaður *Göngu-Hrólfur.* Land það, er þeir Hrólfur fengu af Karli konúngi, var síðan kallað *Normandi.* Höfuðborgin hèt *Rouen (Rúða).* En þótt konúngur misti mikils, er hann varð að láta land þetta laust við Norðmenn, þá hafði þó Frakkland það gott af komu þeirra, að þeir vörðu landið fyrir árásum víkínganna, frænda sinna, af Norðurlöndum. Hrólfur tók kristni og lèt skírast og var síðan nefndur *Robert (Roðbert).* Sömdu Norðmenn sig, þegar fram liðu stundir, mjög að siðum Frakka og mæltu á frakkneska túngu. Þeir eptirmenn Hrólfs voru kallaðir *Rúðujarlar,* voru hermenn miklir og gjarnir á hernað og æfintýri; leituðu nokkrir þeirra síðan til annara landa og komu þar fótum undir ný ríki. Þó að Rúðujarlar mætti einvaldir heita í Normandi, höfðu þeir landið í orði kveðnu að lèni af Frakkakonúngi.

Þegar hinn síðasti af Karlúngum í þýzkalandi var dáinn (911), gaf hertoginn af Lótharíngju sig undir yfirráð Frakkakonúngs og tók land sitt að lèni af honum.

*Róbert,* bróðir Ottó konúngs, erfði eptir hann lènsherradóm yfir Francia eða Isle de France, er var mikið og auðugt fylki.

Róbert tók sèr konúngs nafn (922) og gjörðist oddviti nokkurra lènsdrotna, er uppreist hófu gegn Karli konúngi einfalda. Áttu þeir við hann orustu hjá *Soissons* ári síðar (923). Fèll Róbert í þeirri orustu en fèkk þó sigur. Karl konúngur varð handtekinn og settur í dýflissu, og sat þar til dauðadags (929). Dóttur maður Róberts, *Rúdolf* hertogi af Búrgund[1] varð konúngur Frakka (923—936). En sá maður, sem þá rèð mestu á Frakklandi, vsr *Húgó hinn mikli,* sonur Róberts, og með hans tilstyrk varð Rúdolf konúngur. Húgó rèð þá fyrir Isle de France og síðan Búrgund og Akvitaníu; hann var hertogi, en vildi eigi taka konúngs nafn. Þegar Rúdolf konúngur fèll frá, leyfði því Húgó, að sonur Karls einfalda, Loðvík 4. *(d' outremer = handan um haf*[2]) væri sóktur til Englands og yrði konúngur Frakka (936—954). Var hann allnýtur konúngur, en átti við ofurefli að etja, þar sem lènshöfðíngjar hans voru og þess vegna leitaði hann styrks hjá Ottó konúngi hinum fyrsta á þýzkalaudi; mislíkaði Húgó mikla það samband svo mjög, að hann gjörði fèlag við Normandiu hertoga (Rúðujarl) og fleiri lènshöfðíngja og reis upp í móti konúngi; varð þar orusta; konúngur beið ósigur og varð haudtekinn, en það varð honum til bjargar, að þýzkir menn brutust þá inn í Frakkland. Eptir Loðvík 4. kom *Lóthar* sonur hans til ríkis (954—986), og þótt hann væri allsköruglegur höfðíngi gat hann eigi veitt konúngsvaldinu viðreisn sökum uppvöðslu og ríkidæmis lènshöfðíngjanna og hlutsemi þýzkra manna. Eptir dauða Húgós mikla varð engin breytíng á þessu, því að sonur hans *Húgó Capet* erfði hvorttveggja bæði auð og atgjörfi föður síns. *Loðvík, 5.* Lótharsson *hinn lati* (*fainéant*) var síðastur konúngur í Frakklandi af Karlúngum (986—987).

---

1) *Hertogadæmið Búrgund,* er alt af var lèn undir Frakka krúnu, verður vel að greina frá *konúngaríkjunum Búrgund,* er þeir Bosó og Rúdolf settu á stofn, sömuleiðis frá *greifadæminu* Búrgund (eða Franche-Comté).

2) Síðan orustuna við Soissons hafði Loðvík dvalizt á Englandi hjá Aðalsteini konúngi móðurbróður sínum; mætti hann því vel heita Aðalsteinsfóstri eins og *Hákon góði Noregskonúngur,* er um sama leiti ólst upp með Aðalsteini konúngi.

Lèn Frakkaveldis. Frakkland frá 987—1108.

*a.* Á ofanverðum dögum Karlúnga komu lènshöfðíngjar á Frakklandi föstum fótum undir völd sín og virðíngu. Eptir því sem á stóð, gátu þeir annaðhvort verið hinir sterkustu verndarmenn gegn árásum útlendra óvina, eða skæðustu mótstöðumenn gegn krúnunni. Að norðanverðu var greifadæmið *Flandern* (Flæmíngjaland) varnarland móti þýzkalandi. Löndin við Signu neðanverða og fram með Bretlandssundi voru í höndum Normandíu hertoga (Rúðujarla), og litu þeir óhýrum augum til nábúa sinna hertoganna í Isle de France, og yfrum sundið til Englands, eins og vænta mátti af svo ágjörnum mönnum og herskáum, eins og Norðmenn voru. Vestur af Normandí gengur nes eitt mikið og fjöllótt út í hafið, það er *Bretagne;* það var þá greifadæmi og að mestu sjálfrátt, og varði frelsi sitt jafnröskleqa móti Norðmönnum sem Karli konúngi sköllótta. Í austri lá hertogadæmið *Lothríngen;* það vildu hvorirtveggja eiga, Frakkar og þjóðverjar. Greifarnir af *Vermandois* höfðu haft mikil lönd til forráða, en þau tvístruðust svo, að ekki varð eptir nema greifadæmið *Champagne* er teljandi sè. Hertogadæmið *Búrgund* varð síðan nafnkent í Frakkasögu; *Dijon* var þar höfuðborg. Suður við Pyreneafjöll var hertogadæmið *Gaskogne,* í Akvitaníu greifadæmið *Toulouse.* Fyrir hertogadæminu *Guienne* rèðu greifarnir af *Poitou.* Í miðju Frakklandi var hertogadæmið *Francia* (*Isle de France*), fylgdi því greifadæmið Anjou og borgirnar París og Orleans, og hertoginn í því landi hafði því nær sömu völd í höndum, á ofanverðum dögum Karlúnga, sem hirðstjórar höfðu haft hjá Mervíkíngum.

En þó svo megi að orði kveða, að Frakkland væri sundurgreint í ótal smáríki, þá var á hinn bóginn sumt annað er hèlt því saman, svo að Frakkaríki var þó ein heild; má til þess telja *fyrst: sameiginlega vörn* af hendi allra landsbúa gegn árásum útlendra fjandmanna, bæði Norðmanna og þjóðverja; *þar næst: hina frakknesku túngu,* er um þessar mundir ruddi sèr til rúms á öllu Frakklandi, þótt kirkju- og lagamálið væri latínskt, og þó mismunur væri allmikill á túngu manna norður og suður í landi; það *hið þriðja: hina katólsku kirkju,* því að hinir voldugu erkibiskupar sameinuðu landsfólkið í öllum fylkjum undir ein og sömu andleg yfirráð. Voru þá tveir erkibiskupsstólar á

Frakklandi: annar í *Tours*, og laut þángað allur suðurhluti Frakklands, hinn í *Rheims* og lá þángað allur nyrðrihlutinn. Erkibiskupinn í Rheims varð snemma á öldum yfirbiskup als klerkdóms (hinnar *gallikönsku* kirkju) á Frakklandi, og á dögum Karls konúngs sköllótta lèt hann svo mikið til sín taka, að hann veitti jafnvel páfa þúngar átölur, er páfinn vildi hlutast til um þjóðmálefni Frakka.

*b. Konúngaætt Capetúnga.* Þá er Karlúngar voru undir lok liðnir, var *Húgo Capet* hertogi af Francia og greifi af París og Orleans til konúngs tekinn á Frakklandi (987—997), og varð hann áður að heita öllum lènsdrotnum, andlegrar og veraldlegrar stèttar, öllum rèttindum þeirra óskertum. Til hans hafa allir konúngar á Frakklandi rakið ættir sínar, þeir er setið hafa þar að ríkjum í meir en 800 vetra. Húgo Capet var að auðæfum og völdum umfram flesta lenda menn á Frakklandi í þá tíð, og ættmenn hans höfðu öðrum fremur várið landið móti áhlaupum Þjóðverja; það var því konúngsvaldinu á Frakklandi eigi lítil viðrètting, er hann komst til ríkisstjórnar. Hann var klerkum vinveittur, svo að bæði auðguðust kirkjur og klaustur um hans daga, en klerkar voru aptur á móti vinir hans fullkomnir og studdu hann til allra mála. *Karl af Lothríngen*, sonur Loðvíks konúngs «handanum haf», vildi brjótast til konúngdóms á Frakklandi, en Húgo Capet bar hærra hlut í þeirra viðskiptum. Á Suður-Frakklandi rèðu lènsdrotnar því nær öllu, en konúngs gætti þar að litlu. *Róbert* hèt sonur Húgo Capets, er konúngur varð eptir föður sinn (997—1031). Hans er helzt getið að því, að verið hafi klerkavinur mikill og manna trúræknastur; hann hlýddi hverri messu, söng sálma og fastaði, og um lángaföstu svaf hann á auðri jörð; hann hafði jafnan snauða menn hjá sèr og veitti þeim beina, og í minníngu postulanna lèt hann hversdagslega tólf fátæklínga ríða fyrir sèr á ösnum og lofsýngja drotni; gjörðu sumir menn sèr dælt við konúng þenna, en hann bar slíkt með þögn og þolinmæði. Robert konúngur fèkk að erfðum *hertogadæmið Búrgund*, en eptir fráfall hans, fèkk ýngri sonur hans *Róbert* það til eignar af bróður sínum Hinriki fyrsta. Frá þeim Róbert er hin eldri ættkvísl Búrgunda-hertoga komin (1032—1361).

Eptir Róbert konúng kom *Hinrik fyrsti* sonur hans til ríkis

á Frakklandi (1031—1060), og eptir hann *Filippus hinn fyrsti*, sonur hans (1060—1108). Ekki voru þeir feðgar neinir garpar eður atkvæðamenn. Sátu lendir menn um þá daga enn sem áður yfir hlut konúnga á Frakklandi.

### Hið þýzka ríki frá 843—911. Karlúngar deyja.

Eptir fráfall *Loðvíks þýzka* (876) skiptist ríkið milli sona hans; *Karl digri* lifði báða bræður sína og eignaðist lönd þeirra; en er þýzkir menn frèttu dáðleysi hans og óvirðíng í viðskiptum hans við Norðmenn, þá er þeir herjuðu Frakkland og settust um Parísarborg, þá ráku þeir hann úr völdum og tóku til konúngs yfir sig *Arnúlf* af *Kärnth*, bróðurson Karls (887—899). Arnúlfur konúngur var hreystimaður mikill og vel að sèr um marga hluti. Hann fór í móti Norðmönnum, er um þær mundir herjuðu um vesturlönd ríkisins, og átti við þá orustu við *Löven* (891) og vann þar hinn frægasta sigur; gjörðu þeir um lángan tíma eptir það Þýzkalandi engar ónáðir. En til þess að vinna hið *slafneska* ríki í *Mähren* varð hann að fá *Magýara* sèr til hjálpar. Þeir voru *tschuðsk* eða *túrönsk* (*finsk*) þjóð, og nýkomnir vestur yfir Karpatafjöll og höfðu sezt að á Pannoníu slèttlendi, er síðar var kallað *Úngarn*. Upp frá því urðu Magýarar hinir skæðustu óvinir þjóðverja að austanverðu, og fóru opt herferðir vestur í lönd jafnvel til Ítalíu og Frakklands. En nú víkur sögunni til Ítalíu. Þar var ófriður mikill innanlands um þessar mundir, og um yfirráðin börðust hertogar tveir: *Guido* af Spóletó og *Berengar* af Fríaul, einn af Karlúngum í kvennlegg. Berengar varð undir og beiddi Arnúlf liðveizlu. Arnúlfur safnar liði og fer suður um fjall, tekur Rómaborg og er krýndur til keisara (896). En jafnskjótt og Arnúlfur var á brott þaðan og kominn heim aptur, tóku Ítalir þann til keisara yfir sig, er *Lambert* hèt, af því þeir hötuðust við útlenda höfðingja. Arnúlfur dó 899. Kom þá sonur hans *Loðvík barn* til ríkis og var þá 6 vetra. Hann ríkti síðastur Karlúnga á Þýzkalandi (899—911) og dó barnlaus. Var þá eigi vel ástatt þar í landi. Höfðingjar brutust þar til valda og tóku sèr hertoga nafn hver yfir sínum þjóðflokki, en greifarnir, sem verið höfðu, urðu þeirra undirmenn. Mátti því kalla að á Þýzkalandi væri eins mörg ríki, eins og þar voru margir þjóðflokkar í landi. Úngverjar herjuðu þar í landi

og gjörðu mörg grimdarverk; en alt lá opið og varnarlaust fyrir árásum þeirra og annara útlendra ránsmanna.

Lènhins þýzka ríkis. Þýzkaland, Ítalía og Búrgunda ríki, frá 911—1056.

Þá er Karlúngaætt var aldauða á Þýzkalandi, var enginn sá á lífi, er þar væri arfborinn til ríkis; varð því að kjósa nýjan konúng, og upp frá þeim tíma varð Þýzkaland jafnan *kjörríki*, en hitt er vitaskuld, að synir voru gjarnast til konúnga kosnir eptir feður sína. Biskupar og hinir helztu og æztu lènsdrotnar rèðu kosníngum, en aðrir ekki. Hið fyrsta sinn þegar kosið var (911), hlaut Konráð hertogi af Franken konúngstign, einkum fyrir tilstyrk erkibiskups í Mainz. Hann var kallaður *Konráð fyrsti.* Hann var hraustur maður og góður drengur, en gat þó eigi reist rönd við ofmetnaði lènsdrotna í ríki sínu. Og með því konúngur þóktist sjá fyrir, að enginn ættmanna sinna væri fær um að stjórna Þýzkalandi, eins og það var sundurskipt milli höfðíngja, þá gaf hann það ráð litlu fyrir dauða sinn (918), að kosinn yrði til konúngs eptir sinn dag *Hinrik* hertogi í Saxlandi, og þó voru þeir Konráð engir vinir.

Um þessar mundir voru fimm þjóðflokkar uppi á Þýzkalandi, og eptir þeim skiptist ríkið í fimm hluti, og var sinn hertogi yfir hverjum. Þessir ríkishlutar hètu: *Franken* við Mið-Rín og Main; *Saxland* (með Thyringen) norðan frá Egðu (Eideren) suður til Miðfjalla; *Baiern* (Bajaraland); *Schwaben* eða *Alemannia,* en utan að því lá Franken, Baiern, Ítalía og Búrgúndarríkin; og *Lothríngen* milli Saxlands, Franken, Frakklands og Norðursjóar. Þegar *Loðvík barn* deyði lenti Lothríngen undir Frakkland, en sameinaðist aptur litlu síðar Þýzkalandi.

Það er sagt, að þá er Hinriki kom sú orðsendíng, að hann væri kosinn, var hann staddur á fuglaveiðum, og fyrir því hefir hann verið af sumum kallaður »*fuglari*«. Var hann nú til konúngs kjörinn og nefndur *Hinrik I.* Hann var hinn mesti ágætismaður.

Hann kúgaði hertogana í Schwaben og Baiern til hlýðni við sig, vann Lothríngen aptur af Karli einfalda Frakkakonúngi, og bar hærra hlut í viðureign sinni við Dani (Gorm gamla) og Slafa (Vindur), er hvorirtveggja voru heiðnir. Segja sögur vorar »að hann færði Dani til kristni bæði með blíðmælum og ógnarorðum»

En þessu næst var það, að Úngverjar herjuðu í ríki Hinriks og fóru með hinni mestu grimd, eins og þeirra var siður til. Konúngur þóktist eigi viðbúinn þá þegar að mæta þeim í orustu, og gjörði við þá vopnahlé um níu ár og galt þeim skatt. Að þeim tíma liðnum komu Úngverjar aptur og höfðu ógrynni liðs; en Hinrik konúngur hafði, meðan vopnahlèð stóð, látið reisa kastala marga austur á landamærum til varnar móti Úngverjum, komið sèr upp öruggu riddaraliði og vanið menn sína við skipulegri vopnaburð, en áður hafði þar tíðkazt; þóktist hann nú til orustu búinn, enda var hennar ekki lengi að bíða. Varð fundur þeirra hjá *Merseburg* (934); fekk Hinrik konúngur sigur, en af Úngverjum fèllu að sögn 80 þúsundir manna, en hinir er afkomust flýðu undan; hafði Þýzkaland lengi síðan frið fyrir þeim.

Úngverjar höfðu víða brent kirkjur og klaustur, eytt bygðir og bústaði, en Hinrik leitaðist hvervetna við að ráða bót á þeim meinsemdum, er þeir höfðu unnið, og lèt reisa aptur kirkjur og klaustur og smáborgir út um landið. Hann er talinn einhver hinn þarfasti konúngur er verið hefir á Þýzkalandi. Hann andaðist sextugur 936.

Eptir Hinrik 1. varð sonur hans *Ottó* 1. konúngur yfir Þjóðverjum og er kallaður *hinn mikli*. Hann var kjörinn til konúngs meðan faðir hans var á lífi, og, þegar hann var krýndur í *Aachen*, voru allir 5. Þýzkalands hertogar við staddir, og sýndu honum ýms lotníngarmerki; en alt um það snèrust þeir brátt til óvináttu og fulls fjandskapar gegn honum. Átti konúngur í ófriði við þá um 20 ár, en að lyktum urðu þeir allir að lúta fyrir hreysti hans og hamíngju. Suma af hertogum þessum rak hann úr landi, og setti þar aptur til valda frændur sína og vini; hann setti og þá menn, er kallaðir voru Pfalzgreifar *(Comites palatini)*, til umráða yfir jarðgózi krúnunnar og til að dæma ýms mál manna. Voru greifar þessir að nokkru leiti settir til höfuðs hertogum, stóðu þeim jafnfætis og drógu eigi alllítið völdin úr höndum þeirra. Lothríngen, sem bæði var afar viðlent og einatt róstusamt land, skipti konúngur í tvö fylki, Efri Lothríngen (við Mosel) og Neðri Lothríngen (Niðurlöndin).

Meðan á þessum innanlands óeirðum stóð, brutust Úngverjar að nýju inn í ríki Ottós, en hann tók svo á móti þeim í orustunni við *Lech-fljót*, skamt frá Ágsborg (955) að þeir komu

aldrei síðan með ófriði til Þýzkalands. Slafar gjörðu einatt árásir í þau lönd Ottós konúngs, er næst þeim voru, en konúngur fór eins með þá, eins og Karl mikli hafði farið með Saxa: hann kúgaði þá með báli og brandi til að gefast upp fyrir sèr og taka við kristni; setti hann hjá þeim biskupsstóla til eflíngar trúnni. Bæði Böhmen og Pólen lutu Ottó konúngi, og biskuparnir í Prag og Posen boðuðu kristna trú í báðum þeim löndum.

En einn hinn glæsilegasti kafli í sögu Ottós mikla eru aðfarir hans á Ítalíu. Síðan á dögum Árnúlfs keisara höfðu þar í landi verið sífeldar óeirðir. *Berengar* af Friaul, sem fyr er nefndur, var drepinn 924, og Rúdólf 2. konúngur í Efra-Búrgund (transjuranske Búrgund), er kept hafði um völdin við Berengar, gjörði sèr þá vissa von um að verða Ítalíu konúngur, en gat ekki reist rönd við *Húgo í Proevnce*, er þá var mestur höfðíngi í Neðra-Búrgund (cisjuranske Búrgund). Varð það því að sætt með þeim, að Húgo skyldi eignast konúngsnafn á Ítalíu, en Rúdólf skyldi í þess stað fá Neðra-Búrgund. Þannig komu bæði þessi ríki, neðra og efra Búrgund, undir einn konúng, Rúdólf annan, og þá voru þau kölluð *konúngsríkið Arelat* (hèr um bil 930) eptir höfuðborginni *Arles*, sem áður er sagt. Eptir dauða Lóthars, sonar þessa Húgos (950), vildi *Berengar* af *Ivrea* (sonarsonur hins eldra), er þá brauzt til valda á Ítalíu, neyða *Aðalheiði* ekkju Lóthars til að eiga son sinn Aðalbert og styrkja veldi sitt; beiddist hún þá og aðrir, sem illa undu yfirráðum Berengars, liðveizlu af Ottó konúngi. Hann brá þegar við og fór til Ítalíu með her manns, fèkk Aðalheiðar, lagði Ítalíu undir sig, en gjörði Berengar að undirkonúngi (951). En er fyrrikonu börn Ottós spurðu þau tíðindi, að hann var kvongaður í annað sinn, mislíkaði þeim það stórum og gjörðu uppreisn í móti honum, og af þeirra völdum var það meðal annars að Úngverjar gjörðu áhlaup það á landið, er fyr var nefnt. Að nokkrum árum liðnum hafði Ottó þaggað allar þær óeirðir niður, og fór þá öðru sinni til Ítalíu (961), því að Berengar hafði illa haldið alla sáttmála við hann. Varð þá lítið um mótstöðu Berengars, er þeir Ottó fundust; var Berengar settur frá völdum og fluttur í varðhald norður á Þýzkaland, en Ottó krýndur til konúngs á Lángbarðalandi og ári síðar (962) af sjálfum páfanum, *Jóhanni tólfta*, til *keisara yfir Rómverjum*. Frá þeim tíma var hin róm-

verska keisaratign sameinuð konúngsvaldi á Þýzkalandi, og keisararnir þóktust upp þaðan, svo sem yfirdrotnar hins «heilaga rómverska ríkis», hafa tilkall til að vera yfirráðendur allra kristinna þjóðríkja í vesturhluta Európu, að svo miklu leiti öll veraldleg málefni snerti, eins og páfinn í hinum andlegu efnum. En hitt er aptur víst, að þó að þetta samband Þýzkalands keisara við Ítalíu stuðlaði talsvert til útbreizlu ítalskrar mentunar til Norðurlanda, þá ber þess að gæta, að afskipti keisaranna af Ítalíu og málefnum hennar drógu einatt afl og kjark úr stjórn þeirra heima á Þýzkalandi, og það hefir eitt með öðru valdið því, að Þýzkaland gat aldrei safnazt í eitt ríki, eður eina heild; eins og hinn er líka umkennandi: að hinir ýmsu þjóðflokkar á Þýzkalandi hafa frá öndverðu verið hver öðrum mjög ólíkir, og að konúngar eða keisarar þar í landi voru jafnan kosnir, en fengu ríkið ekki að erfðum eins og á Frakklandi og víða annarstaðar.

Eptir krýnínguna dvaldist Ottó um hríð á Ítalíu, því að landslýðurinn var ótryggur og páfinn sat á svikráðum við keisarann. Stefndi hann nú biskupum nokkrum til þíngs, er prófa skyldi mál páfans og dæma; komu þá fram þúngar sakir móti honum; var sú ein, að hann hefði vígt messudjákn einn í hesthúsi, og aðrar voru þó miklu verri. Var hann nú dæmdur frá embætti, og annar kosinn í hans stað, er *Leó* hèt, hinn áttundi með því nafni. Ottó keisari snèri að vísu heim aptur eptir þessi tíðindi, en svo voru Rómverjar þráir og þverbrotnir, að keisarinn varð enn einusinni að takast ferð á hendur til Rómaborgar. Höfðu Rómverjar rekið Leó úr völdum, en sett Jóhann aptur í hans stað, og, er hann var dáinn, höfðu þeir kosið *Benedict fimmta* til páfa. En þá kom Ottó og refsaði þeim þúnglega; Benedict var færður úr páfaskrúða og sendur í útlegð norður til Hamborgar. Þó lètu Rómverjar sèr ekki segjast við þetta, en gjörðu að nýju óspektir; kom þá Ottó keisari til þeirra hið fjórða sinn (966), lèt hengja á gálga 13 hina æztu höfðíngja þeirra, hálshöggva suma, og blinda aðra. Eptir þessi hryðjuverk sat Ottó keisari heima í ríki sínu, stýrði hann því með hinum mesta skörúngskap og viturleik, og þókti bera lángt af öllum þjóðhöfðíngjum, er uppi voru um hans daga. Hann lèt krýna Ottó, son sinn og Aðalheiðar, til keisara áður hann lèzt. Hann andaðist

í Memleben 973 og var jarðaður í Magdeburg. Í þrjátígi ára stríðinu brutu liðsmenn Tillýs leiði hans og rændu.

Eptir Ottó hinn mikla kom sonur hans *Ottó annar* (*hinn rauði*) til ríkis (973—983) og var þá 18 vetra gamall. Hertogar í ríki hans voru honum mótsnúnir og gjörðu uppreistir, en Ottó snèrist við karlmannlega og kúgaði þá til hlýðni við sig. Hann hafði ófrið við Harald Gormsson Danakonúng og bauð Dönum kristni, en Danakonúngur hafði úti hèr í móti, og vildi með engu móti við kristni taka. Svo lauk þeirra viðskiptum, að keisari vann Danmörk alt norður til Limafjarðar; tók Haraldur konúngur þá við kristni. Ottó keisari háði einnig orustu við Frakka og Vindur og Bæheimsmenn, og varð þeim öllum drjúgari. Drotníng hans hèt *Þeófania* og var dóttir Miklagarðskeisara; átti Ottó að fá í heimanmund með henni lönd þau, er faðir hennar átti enn eptir á Suður-Ítalíu. En er Ottó vildi taka þau til umráða risu Grikkir upp, er þar bjuggu, og fengu Araba — sem þó voru hinir vestu óvinir þeirra — í lið með sèr og unnu sigur á Ottó við Basantello skamt frá Tarent (982); komst keisarinn nauðulega úr höndum þeim og heim til Þýzkalands. Dróg hann þá herlið saman að nýju, og bjóst að hefna sín, en fèkk því eigi fram komið, því að hann dó árið eptir (983). Kom þá til ríkis sonur hans *Ottó þriðji* (*hinn úngi*, 983—1002), og var þá barn að aldri, en hertogarnir urðu allir á það sáttir, að halda hóp og láta ekki útlenda menn sneiða af ríkinu, þó keisarinn væri úngur og ófær. Um þessar mundir voru löndin milli Ens og Raab, sem Karl mikli hafði unnið undan Avörum, Úngverjar síðan tekið, en mist eptir orustu við Lech, gjörð að Markgreifadæmi og kölluð *Austurríki*. Þar var Leopold af Babenberg settur til yfirsóknar. Ottó 3. var ágætlega vel viti borinn og fèkk hið bezta uppfóstur og fræðslu. Einn af kennendum hans var *Gerbert* af Rheims, hinn lærðasti maður, er þá var uppi, og sem seinna nefndist *Sylvester annar*, þá er Ottó keisari hafði komið honum til páfatignar. En svo virðist sem uppeldi Ottós hafi hneigt huga hans allan að Grikkjum og Rómverjum hinum fornu og mentun þeirra, en fjarlægt frá þjóðverjum og þjóðverskri mentun. Það var áform hans að gjöra Rómaborg að aðseturstað sínum og höfuðborg ríkisins, en honum entist hvorki aldur til þess eða annars, hann andaðist 22 ára gamall (1002), sumir

segja af eitri; hann dó ókvæntur og barnlaus. Var þá eptir nokkra vafnínga með mönnum *Hinrik* hertogi í Baiern kosinn til konúngs á Þýzkalandi; hann var kominn af Hinriki konúngi fuglara, þrimenníngur Ottó keisara hins þriðja. Hann var kallaður *Hinrik annar* (1002—1024). Um hans daga gjörðu bæði Slafar að austan og víkíngar af Norðurlöndum ófrið í ríki hans, og Ítalir voru honum mjög mótsnúnir, þó náði hann rómverskri keisaratign eins og forverar hans. Rúdolf 3. í Arles gjörði þann samníng við Hinrik 2. systurson sinn, að hann skyldi eignast ríki sitt eptir sinn dag móti því að Hinrik styrkti Rúdolf gegn yfirgángi lendra manna. Hinrik annar þókti verið hafa aðkvæðamaður minni en þeir þrír feðgar sem Ottós nafnið báru, en þó var hann allnýtur maður; hann efldi mjög kirkjur og klerkastètt og fyrir því var hann kallaður *Hinrik helgi.* Hann var síðastur konúngur á Þýzkalandi af hinni *saxnesku ætt,* og hafði hún þá setið þar að ríkjum um 106 ár.

Þegar hin saxneska konúngsætt á Þýzkalandi var aldauða, áttu allir hinir æztu höfðíngjar ríkisins fund með sèr, bæði andlegrar stèttar og veraldlegrar, til þess að kjósa nýjan konúng. Á þeim fundi voru þeir 3 biskupar frá *Mainz, Trier* og *Köln*, hertogarnir af *Saxen, Franken, Svaben, Baiern, Efrilóthringen, Neðrilóthringen, Kärnten* og *Böhmen,* og fjöldi biskupa og lendramanna. Menn urðu á það sáttir að kjósa til konúngs *Konráð* greifa af *Franken.* Hann er nefndur *Konráð annar.* Með honum hófst til ríkis á Þýzkalandi hin *salverska* eða *frankverska* konúngsætt (1024). Hann var starfsmaður mikill, en fremur hneigður til hernaðar en til friðsamlegra starfa; hann fór um alt ríki sitt og leit eptir hvernig menn hlýddu boðum hans og banni; hann tók keisaravígslu í Rómaborg (1027) eins og forverar hans höfðu gjört. Var þá viðstaddur krýníngu hans Knútur ríki af Danmörku og margt annað stórmenni. Það sem Konráð keisari gjörði sèr einna mest far um, var að ná Búrgundaríki undir sig og sameina það Þýzkalandi. Rúdolf konúngur 3. hafði reyndar arfleitt Hinrik keisara annan að því, eins og áður er sagt, en nú var önnur konúngsætt komin til ríkis á Þýzkalandi, og þóktist þá Rúdolf laus allra mála. En Konráð fylgdi fast á eptir að þetta yrði framgengt, og þegar Rúdolf dó (1032) barnlaus, tók Konráð ríki hans hvað sem hver sagði; náði þá hið

Þýzka ríki til Rhónefljóts og Miðjarðarhafs. Þó höfðu Þýzkalands (Þýzk-rómversku) keisarar fremur heiður en hagnað af því, að sameina Búrgund við ríki sitt, því að Búrgundsmenn voru miklu nákomnari Frökkum en Þjóðverjum, bæði að túngumáli, siðvenjum og öllum viðskiptum, enda fór það svo að Búrgund liðaðist í sundur og skiptist síðan milli Frakklands og Sveizalands.

Það er auðsèð af ýmsri stjórnaraðferð Konráðs keisara, að hann sá hvílík hætta konúngsvaldinu var búin af uppvöðslu og yfirgángi lènsdrotnanna, þess vegna tók hann jafnan málstað hinna smærri lènsmanna og þeirra, er einhver þegnskylda hvíldi á til hinna stærri lènsdrotna, móti hertogum eða hinum ríkari lènsdrotnum, er vildu kúga þá sem þeim voru háðir; þess vegna lèt hann sum lèn vera óveitt þegar þau losnuðu; hændi að sèr biskupana með því að veita þeim ýms hlynnindi og gjöra þá krúnunni háða; hann gjörði og tilraun til að konúngdómur gæti gengið í erfðir á Þýzkalandi, til þess að styrkja konúngsvaldið betur en áður, og draga konúngs kosníngar úr höndum hertoganna. Á öndverðum ríkisstjórnarárum sínum bjó hann svo um, að Hinrik sonur hans yrði tekinn til konúngs eptir sinn dag, og lèt svo krýna hann nokkru síðar til konúngs. Konráð keisari andaðist í *Útrekt* (*Trekt*) 1039. Tók þá konúngdóm á Þýzkalandi sonur hans *Hinrik þriðji* (1039—1056), hinn sköruglegasti maður í öllum greinum. Þegar Hinrik hafði tekið við ríkisstjórn, vildi Bretislafur, Bæheims hertogi, ekki viðurkenna konúngdóm hans eður sverja hollustueið. Fór konúngur þángað þrjár herferðir og þröngvaði hertoga til hlýðni við sig. Um það leiti voru óeirðir miklar á Úngverjalandi; landsmenn þoldu ekki harðstjórn Pèturs, konúngs síns, og ráku hann úr völdum og tóku annan til konúngs yfir sig. Sá sem frá var rekinn beiddi Hinrik hjálpar, hèlt hann þá liði sínu austur þángað, setti Pètur aptur til valda, en lèt hann taka landið af sèr að lèni, og alla höfðíngja sverja sèr hollustueiða. Því næst fór Hinrik konúngur vestur á Búrgund og þaggaði niður óspektir, er höfðíngjar höfðu gjört þar. Eptir það fór hann suður til Ítalíu; voru þá flokkadrættir miklir í Rómaborg, og þrír menn höfðu verið gjörðir að páfum um sama leiti. Hinrik skarst í leikinn, sagði þá einn þeirra páfanna af sèr völdum, en tveir voru reknir burt; en Hinrik

setti til páfatignar biskup einn ættaðan af Saxlandi, og sá hinn sami krýndi Hinrik til keisara litlu síðar. Nokkru eptir þetta hittust þeir nafnar, Hinrik keisari þriðji og Hinrik Frakkakonúngur hinn fyrsti. Krafðist þá konúngur að keisari lèti laust við sig Lóthríngaríki, með því að Þýzkalands keisarar hefði til forna náð því undir sig með vèlum. Hinrik keisari kvaðst eigi myndi þrátta lengi við hann um landið, en hitt bauð hann konúngi að gánga til einvígis við sig þegar í stað. Þá fèllust Frakkakonúngi hendur og beið ekki boðanna, heldur brá við í skyndi og heim til sín þegar hina næstu nótt.

Heima í ríki sínu fylgdi Hinrik keisari sama sið, sem faðir hans hafði haft, en það var að fækka hertogum eða mínka veldi þeirra. Þegar hann hafði svipt Konráð af Baiern hertogavöldum, fèkk hann þau Konráði syni sínum í hendur; en er hann dó litlu síðar, fèkk keisarinn Agnesi drotníngu sinni land það til umráða, þó að hann reyndar stýrði því sjálfur að öllu leiti nema að nafni einu. En sjálfur bar hann hertoganafn yfir *Franken*, og á Saxlandi hagaði hann því svo, að hann lèt hertoga stýra því; en af því að hann vissi að Söxum var ekki um keisarana, síðan hin frakkneska ætt kom til ríkis, þá var hann jafnan á ferð um Saxland og hèlt þannig hertoganum í skefjum. Hinrik keisari var mjög afskiptasamur um kirkjumálefni og klerkastjórn. Auk þess sem áður er getið, setti hann enn þrjá páfa til valda hvern eptir annan. Voru þeir allir þjóðverskir og sagðir nýtir menn. Hinrik keisari varð sóttdauður er hann hafði lifað tæpa 39 vetur (1056). Stóð ríkið um hans daga með miklum veg og blóma.

*Hinrik* sonur hans, *hinn fjórði* með því nafni (1056—1106), var 5 vetra að aldri þá er faðir hans lèzt; var hann nú til konúngs tekinn eptir hann, en átti litlu láni að fagna í ríkisstjórn sinni, eins og síðar mun sagt verða.

## Norðurlönd.

### Ríki hefjast og kristni er lögtekin.

Nú víkur sögunni til Norðurlanda; en svo nefna menn einu nafni: *Danmörk*, *Svíaríki* og *Norveg*. Framan af miðöldum þekkja menn mjög lítið til þjóða þeirra, er þar bjuggu, og því

síður nokkuð áreiðanlegt. En það vita menn, að þjóðir þessar voru að uppruna og ætterni náskyldar Germönum, og ein grein eða kvísl af hinum mikla gotneska þjóðabálki, er að austan kom og dreifðist vestur eptir Norðurálfunni á dögum þjóðbyltínganna miklu, sem fyr eru nefndar. Menn vita og, að Norðurlandabúar voru í mörgu næsta líkir Germönum og öðrum frændþjóðum sínum, er sunnar bjuggu í álfu þessari. Þeir voru hraustir menn og harðfengir eins og Germanir, ef eigi öllu fremur, því að óblíða lands og lagar efldi kjark og kallmensku, en eyddi kveifarskap og dáðleysi. Þeir voru heiðnir og blótuðu heiðin goð, *Óðinn*, *Þór* og *Frey* o. fl. Var það kölluð *Ásatrú*. Þó voru sumir menn svo skapi farnir, að eigi vildu goð blóta, en trúðu á mátt sinn og megin. Þegar kristni kom fyrst til Norðurlanda, öndverðlega á níundu öld eptir Kristburð, voru þar mörg ríki og smá og konúngar yfir, og alt aldarfar, siðir og skipulag manna mjög svipað því, sem þá tíðkaðist með Germönum. En það er sagt, að tildrög til kristniboðsins á Norðurlöndum hafi verið þau, að undirkonúngur einn á Jótlandi, sá er *Klakk-Haraldur* hét, væri rekinn þaðan úr landi og flýði á náðir *Loðvíks* keisara hins gæfa, sonar Karlamagnúsar, og tæki þar kristni ásamt drotníngu sinni og föruneyti sínu. En er konúngur bjóst til heimferðar aptur þaðan (827), fékk keisarinn honum til fylgdar múnk þann, er *Ansgarius* (Ásgeir) hét, ættaðan af Frakklandi, hinn ágætasta mann, eins og raun gaf síðan vitni um. Settist Ansgarius að í *Heiðabæ* (*Slesvik*) á Suður-Jótlandi, boðaði þar kristni og skírði þá menn, er trú vildu taka, og setti þar skóla. Var Ansgarius þar tvö ár, og vann af miklu kappi og alúð að kristniboðinu, en varð þó að flýja þaðan og suður á Saxland, því að ekki var lengur verandi þar norður við heiðna menn. Eptir áeggjan Loðvíks keisara hélt Ansgarius því næst til Svíþjóðar; á leiðinni þángað var hann tekinn af víkíngum og rændur öllu, er hann hafði meðferðis, komst þó úr höndum þeim og alla leið til Svíþjóðar og var þar um hríð og boðaði kristni. Keisarinn launaði Ansgariusi framgöngu hans ágæta með því, að gjöra hann að erkibiskupi í Hamborg (831), og lagði öll Norðurlönd til þess erkistóls. En að nokkrum árum liðnum (837) brendu Danir Hamborg, varð erkibiskup þá þaðan að flýja nauðulega staddur. Tíu árum síðar var erkibiskupsstóll settur í *Brimum* (Bremen)

og undir hann skyldu öll Norðurlönd lúta. Varð Ansgarius þar erkibiskup og vann þaðan af alefli að kristniboðinu bæði í Danmörku og Svíþjóð. Var þá reist kirkja í Heiðabæ, hin fyrsta í Danmörku, og síðan fleiri, og tóku margir menn þá við kristni þar í landi. Ansgarius fór enn til Svíþjóðar og lèt eigi skèlfast af ógnarorðum Svíanna, og fèkk því framkomið, að þar voru kirkjur reistar og kristni boðuð. Ansgarius hefir verið kallaður postuli Norðurlanda. Hann dó í Brimum 865 e. Kr.

Þess var áður getið að Norðurlönd, bæði Danmörk, Svíþjóð og Norvegur voru, þegar hèr var komið, sundur greind í mörg ríki og smá, er hvert var öðru óháð. Bændur áttu jarðir sínar með óskertum eignarètti og kölluðu menn slíkar jarðir *óðöl*. Konúngsvaldið var í þá daga ekki mikið, því að bændalýðurinn rèð mestu með atkvæðum sínum á þíngum öllum. Vald konúnganna var eptir því mikið eða lítið, sem hver þeirra hafði mannskap til, ríkidæmi eða vinsældir. Þegar fram liðu stundir kemur hið sama í ljós á Norðurlöndum, sem suður í álfunni, að þar rísa upp einstöku afreksmenn, er kollvarpa hinum mörgu og smáu konúngsríkjum og mynda af þeim eitt þjóðríki, og þá fyrst fer saga Norðurlanda að verða skýrari og fá fasta stefnu.

1. *Danmörk. Gormur gamli* (840—935) lagði með ýmsu móti undir sig hin mörgu og smáu ríki í Danmörku og sameinaði öll í eitt ríki. En Danmörk náði þá yfir *Skán, Halland, Bleikíng, Sjáland, Láland, Falstur, Fjón* og *Jótland,* suður að Danavirki. Gormur konúngur var enginn vinur kristinnar trúar, en *Hinrik* keisari hinn fyrsti (fuglari) þröngvaði honum til að líða hana þar í landi. Og *Haraldur Gormsson* (Blátönn), er konúngur varð eptir föður sinn (935—985), varð að sæta enn þýngri kostum af *Ottó* keisara öðrum; því að keisarinn brendi Danavirki og brauzt síðan norður á Jótland alt til Limafjarðar, en Haraldur konúngur varð að taka kristni og láta skírast. Hèlt Haraldur allvel trú sína og efldi kristni í ríki sínu og setti biskupsstóla í *Óðinsey* og í *Hróarskeldu.* En *Pálnatóki* jarl á Fjóni var hinn helzti oddviti heiðinna manna þar í landi, er risu í móti konúngi. *Sveinn* sonur Haralds konúngs, óx upp með Pálnatóka og veitti honum lið móti föður sínum. Í þeim óeirðum fèll Haraldur konúngur, og er sagt að Pálnatóki veitti honum banasár (985). Var þá *Sveinn* til konúngs tekinn eptir föður

sinn fyrir tilstyrk fóstra síns. Hann var kallaður Sveinn tjúguskegg. Þeir Sveinn konúngur og Pálnatóki urðu síðan ósáttir; fór Pálnatóki úr landi og settist að í Jómsborg á Vindlandi (við Oderfljóts-mynni) og gjörðist höfðíngi fyrir *Jómsvíkíngum*; urðu þeir frægir víða um lönd af hreysti sinni, en mönnum stóð mikill ótti af þeim og hernaði þeirra.

2. *Svíþjóð.* Framan af öldum var því ríki skipt milli margra yfirdrotna. Þannig rèðu Danir yfir suðurhluta landsins *Skáni*, *Hallandi* og *Bleikíng*; á *Herjalandi* og *Jamtalandi* höfðu ýmsir yfirráð, Svíar eða Norðmenn; en í Svíþjóð sjálfri (Svíaríki, Gautlandi og Norðlandi) bjuggu tvær þjóðir, en þó náskyldar hver annari; hètu þær *Svíar* og *Gautar*. Þóktu konúngar þeir, er höfðu aðsetu í *Uppsölum*, fyrir öðrum konúngum þar í landi, enda var að Uppsölum aðal-goðahof þjóðarinnar og nafnfrægt mjög. Hin fyrsta konúngaætt í Svíþjóð voru *Ýnglíngar*; en *Íngjaldur illráði* hèt hinn síðasti konúngur í þeirri ætt; það er sögn manna að hann dræpi 12 konúnga og sviki þá alla í griðum. Í það mund er Gormur gamli varð einvaldur að allri Danmörk, varð *Eirekur Eymundarson* einvaldskonúngur yfir Svíum og Gautum.

Eptir komu Ansgariuss biskups til Svíþjóðar, höfðu ýmsir menn komið þángað og boðað þar kristni bæði af Danmörku og Englandi. *Ólafur Skautkonúngur*, sonur Eiríks konúngs sigursæla og Sigríðar stórráðu (hèr um bil 1000 árum e. Kr.), tók fyrstur allra Svíakonúnga kristna trú, og lèt enska menn boða landsfólkinu kristni. Hèlzt heiðni lengst við norður í landi meðal Svíanna, bæði sökum þess, að þeir bjuggu norðar en Gautarnir — en kristni kom að sunnan — og svo vegna þess, að þar voru Uppsalir, hinn helzti blótstaður þeirra, er heiðninni var hinn mesti styrkur að; það var fyrst á ríkisárum *Eiríks* konúngs 9. (hins helga, † 1160) að kalla má að kristni yrði rótföst í Svíaríki og alt fólk yrði þar kristið; þaðan fluttist síðan trúin til Finnlands. Þó gekk lengi svo að sundurþykki var mikið með Gautum og Svíum, og hvorir tveggja vildu hafa konúng fyrir sig. Það jafnaðist fyrst milli þeirra þegar *Valdimar*, sonur Birgis jarls af hinni voldugu *Fólkúngaætt*, varð konúngur yfir Svíaríki (1250).

3. *Norvegur.* Svo var ástatt í Norvegi, sem í Danmörku

og Svíþjóð, að þegar sögur gánga þaðan fyrst, þá voru þar mörg ríki og smá í landi, enda var slíkt mjög eðlilegt, þar sem Norvegur er sundurskiptur af fjöllum og fjörðum í mjög mörg bygðarlög. Höfðíngjar þeir, sem rèðu fyrir þessum smáríkjum, voru nefndir *fylkiskonúngar*. Fara litlar sögur af Norvegi framan af öldum alt þángað til *Haraldur hárfagri*, eitt hið frámkvæmdarmesta mikilmenni á Norðurlöndum, braut undir sig alla fylkiskonúnga þar í landi, og varð einvaldskonúngur yfir öllum Norvegi eptir orustuna í Hafursfirði (872), og hèlt því valdi til dauðadags (933). Hann hafði þrjá vetur um áttrætt, er hann andaðist. Haraldur konúngur átti marga syni, gaf þeim öllum konúnganöfn og skipti landi með þeim, en *Eiríkur blóðöx*, er Haraldur unni mest sona sinna, varð yfirkonúngur þeirra, og hèlt einvaldsnafni í Norvegi um tveggja ára tíma eptir lát föður síns (933—935). En þá varð Eiríkur að flýja landið, því að landsmenn eirðu ekki grimd hans og yfirgángi, og tóku til konúngs *Hákon Aðalsteinsfóstra*, son Haralds hárfagra (935—961). Hákon var ýngstur af þeim Haraldssonum, og hafði alizt upp á Englandi hjá Aðalsteini konúngi, verið þar skírður og tekið rètta trú; en þótt Hákon konúngur væri vitur maður og mjög vinsæll og þar á ofan hin mesta hetja, þá varð honum lítið ágengt í því að kristna landið, enda var það fjarlægt geði hans, að beita hörðu við þegna sína og kúga þá til kristni. Hann gaf bændum óðöl sín aptur, er Haraldur faðir hans hafði af þeim svipt, og hann setti ýms lög þar í landi (Gulaþíngslög, Frostuþíngslög). Eiríkur blóðöx hafði flúið til Englands og fengið *Norðymbraland* til forráða af Aðalsteini konúngi, en fallið nokkrum árum síðar í orustu á Englandi; fóru þau drotníng hans (Gunnhildur kóngamóðir) og synir þeirra eptir það til Danmerkur á fund Haralds konúngs Gormssonar og fengu þar góðar viðtökur. Styrkti Haraldur þau síðan til óeirða í Norvegi móti Hákoni konúngi. En þó var Hákon konúngur svo ástsæll af Noregs mönnum og stjórn hans svo minnisstæð, að sögurnar segja, að um hans daga hafi árferð verið góð þar í landi og friður góður. Þegar Hákon konúngur Aðalsteinsfóstri hafði verið konúngur í Norvegi 26 vetur var hann staddur á konúngsgarði þeim, er Fitjar hètu í eynni *Storð* á Sunnhörðalandi og tók þar veizlu. Þá komu þar Eirikssynir og höfðu lið svo mikið, að sagt er að

6 menn myndi vera um einn af Hákonar mönnum. En Hákon konúngur kunni ekki að flýja og lagði til orustu við þá. Hákon konúngur var mjög auðkendur í orustunni; lýsti og af hjálmi hans gullroðnum, er sólin skein á; tók þá *Eyvindur Finnsson* (*skáldaspillir*) hött og setti yfir hjálminn. Eyvindur Skreyja, móðurbróðir[1] þeirra Eiríkssona, var þar í liði með þeim, hinn mesti garpur og manndrápamaður; hann kallar þá hátt: «leynist Norðmanna konúngur nú? eður hefir hann flúið, eður hvar er nú gullhjálmurinn?» Hákon konúngur svarar: «haltu svo fram stefnunni, ef þú vilt finna Norðmanna konúng!». Var þá skamt að bíða áður Eyvindur Skreyja kom, en konúngur tók sverðið Kvernbít tveim höndum og hjó Eyvind bannahögg. Eptir það gekk Hákon konúngur svo hart fram, að alt fólk hrökk fyrir honum, flýðu þá Eiríkssynir og lið þeirra; í þeirri svipan var konúngur skotinn í handlegg og særður til ólífis. En er konúngur fann að hann var nær kominn lífláti, gjörði hann þá skipan um ríkið, að þeir Eiríkssynir skyldi konúngar vera eptir sig. «En þótt mèr verði lífs auðið, segir hann, þá mun eg af landi fara til kristinna manna og bæta það, er eg hefi brotið við guð». «Eptir það andaðist Hákon konúngur. Var hann svo harmaður, að bæði grètu vinir hans og óvinir og sögðu, að aldrei myndi jafngóður konúngur koma aptur í Norveg».

Þeir Eiríkssynir tóku konúngdóm yfir Noregi eptir fall Hákonar Aðalsteins fóstra (961); var *Haraldur Gráfeldur* elztur þeirra bræðra og mest fyrir þeim að virðíngu, en Gunnhildur móðir þeirra hafði mjög landráð með þeim. Hún var slægvitur og grimm, og eggjaði þá löngum til illra verka. Var það að hennar ráðum og áeggjan, að Haraldur gráfeldur brendi inni *Sigurð Hlaðajarl* (í þrándheimi), göfgan mann og vitran, og margt höfðu þeir bræður annað ilt fyrir stafni. *Hákon* sonur Sigurðar jarls hèlt þrándheimi nokkra vetur eptir lát föður síns, en varð þó að flýja úr landi fyrir Gunnhildarsonum og á fund Haralds Gormssonar Dana konúngs. Og með kænskubrögðum sínum fekk Hákon talað svo um fyrir Haraldi Gormssyni, að konúngur gjörir orð Haraldi Gráfeldi og biður hann koma til Danmerkur. Bregður Haraldur Gráfeldur við og suður þángað, en á þeirri ferð er

1) Gunnhildur hèt drotníng Eiríks blóðaxar; hún er opt nefnd konúngamóðir, og synir þeirra Eiríks Gunnhildarsynir.

hann drepinn (965) af *Gull-Haraldi* við Háls í Limafirði, eptir ráðum Hákonar, og litlu síðar fer Hákon og handtekur Gull-Harald og hengir hann á gálga. Þessi tíðindi urðu nálægt 965 e. Kr. Hákon jarl vann síðan því nær allan Norveg undir sig með tilstyrk Haralds konúngs Gormssonar, en ekki galt hann honum skatta, þó að konúngur vildi þá hafa yfirráð yfir Norvegi. Stýrði Hákon jarl Norvegi um mörg ár með miklum dugnaði og viturleik. Þegar Ottó keisari hafði unnið Danavirki, en Haraldur Gormsson flúið undan norður til Limafjarðar og orðið að taka kristni, þá var Hákon jarl þar staddur og hafði veitt Haraldi konúngi styrk móti keisaranum; í þeirri ferð nauðgaði Haraldur konúngur jarli til að taka trú og láta skírast og fekk honum klerka og kennimenn til að kristna Norveg. En Hákoni var annað betur lagið en halda orð og eiða, og þegar er hann sá sèr fært, skaut hann á land upp öllum lærðum mönnum og sigldi leið sína, herjaði í land Haralds konúngs, og gjörðist meiri blótmaður eptir en áður. Nokkru síðar en hèr var komið bar það til tíðinda, að *Jómsvíkíngar* komu til Norvegs í þeim erindum að leggja landið undir sig en reka Hákon jarl frá ríki. Fóru Jómsvíkíngar herskildi norður með landi, en Hákon jarl hafði liðsafnað í móti, varð fundur þeirra í *Hjörúngavogi.* Sigvaldi jarl var fyrir Jómsvíkíngum, en þessir voru höfðíngjar í liði hans: Þorkell háfi bróðir Sigvalda, Búi digri og Sigurður bróðir hans, og Vagn Ákason. En í liði Hákonar jarls þessir: Eiríkur og Sveinn synir jarls, Þórir hjörtur, Styrkár af Gimsum, Guðbrandur hvíti, Þorkell Leira, Skeggi af Yrjum og Rögnvaldur úr Ærvík. Þar vann Hákon jarl frægan sigur, en Sigvaldi flýði og mikill fjöldi af Jómsvíkíngum fèll og nokkrir voru handteknir; fengu sumir þeirra grið fyrir milligöngu hinnar veglyndu hetju Eiríks Hákonarsonar. Eptir þenna ágæta sigur gjörðust svo mikil brögð að ofmetnaði Hákonar jarls og ósiðum, að landsmenn tóku að kurra ílla og urðu mjög ósáttir við hann. Um þær mundir kom þar við land *Ólafur Tryggvason.* Hann var þriðji maður frá Haraldi hárfagra, og vildi nú komast til ríkis í Norvegi. Snerust bændur þá til vináttu við Ólaf, en Hákon jarl varð að flýja í felur, og var drepinn af þræli sínum þeim er *Karkur* hèt (995 e) Kr.). En Ólafur Tryggvason var til konúngs tekinn í Þrándheimi á alsherjarþíngi.

### Norðmenn nema lönd og setja ný ríki á stofn.

Norðmönnum var als ekki lundlagið að sitja í kyrð og hóglífi við heimastörf; hugurinn bar þá á hafið út til þess að leita sèr fjár og frægðar í öðrum löndum, og löngu fyr en sögur hefjast á Norðurlöndum, hafa þeir farið í víkíngu og herjað í ýmsar áttir, ýmist í Austurveg og ýmist vestur um haf til Englands, Skotlands, Írlands, og Vestureyja. Þegar fylkiskonúngar liðu undir lok en einvaldskonúngar hofust til valda á Norðurlöndum og kristni tók að breiðast út, þá eirðu sumir menn ekki slíkri yfirdrotnan og ófrelsi, fóru af landi burt og lágu á skipum úti og lifðu þannig sem einskonar sækonúngar. Ráku þeir hernað víða um lönd, jafnvel suður á Afríku strendur. Eptir daga Karls mikla urðu einkum mikil brögð að ránum og hernaði Norðmanna á Frakklandi. Þeir lögðu skipum sínum upp í stórárnar Rín, Signu og Rhóne, og gjörðu þar hinn mesta skaða í borgum og bygðum, brutu kirkjur og klaustur, drápu múnka og klerka og fjölda manna. En þar kom um síðir, að Norðmenn kröfðust bústaða í löndum þeim, sem þeir höfðu vanið komur sínar til, og settust þar að; tóku þar síðan kristni og samþýddust mentun þeirri, er þar var fyrir, tóku upp þá túngu sem þar var töluð og sömdu sig alveg að siðum og háttalagi þeirra þjóða, er þar bjuggu fyrir. Þannig settu Norðmenn ríki á stofn í Englandi, á Írlandi, í Rússlandi (þar voru Norðmenn kallaðir *Varegar*, sama sem Væríngjar í Miklagarði), Normandi (911) og sunnan á Ítalíu (í Neapel = á Púli) 1027 e. Kr. — En þær ferðir Norðmanna, sem oss varða mestu, eru landnámsferðir þeirra til *Íslands* og segir síðar frá því.

### Ólafur Tryggvason.

*Tryggvi* konúngur *Ólafsson*, Haraldssonar hárfagra, hafði til umráða nokkur fylki austur í Víkinni í Norvegi, um það leiti, er Hákon Aðalsteinsfóstri andaðist (961). Tryggvi konúngur var kvæntur og átti *Ástríði* dóttur Eiríks bjóðaskalla ríks manns á Ofröstöðum á Upplöndum. Gunnhildarsynir, er til ríkis komu í Norvegi eptir Hákon Aðalsteinsfóstra, drápu Tryggva konúng með svikum (963); varð þá Astríður kona hans að forða lífi sínu og fara huldu höfði. Hún gekk þá með barni Tryggva konúngs. Það er sagt, að hún lèt flytja sig út í vatn eitt og leyndist þar

í hólma nokkrum við fáa menn. Þar fæddi hún barn, var það sveinn, og kallaður *Ólafur* eptir föðurföður sínum. Þegar haustaði varð Ástríður að leita á burt úr hólmanum og flutti son sinn með sèr; komu þau fram í ýmsum stöðum, en njósnarmenn Gunnhildar voru jafan á hælum þeim. Þó komust þau Ástríður slysalítið austur til Svíþjóðar til Hákonar gamla, ríks manns og aldavinar Eiríks á Ofröstöðum; voru þau þar um hríð í góðum fögnuði. En er Gunnhildur konúngamóðir spurði, að Ólafur Tryggvason var í Svíþjóð, þá sendir hún þegar menn þángað með góðum gjöfum og vináttu málum, og kveðst vilja taka Ólaf til uppfósturs, en Ástríður gaf þess engan kost, og fóru sendimenn svo búnir aptur til Norvegs. Þegar Ólafur hafði verið 2 vetur í Svíþjóð fýstist Ástríður að fara þaðau til fundar við Sigurð bróður sinn austur í Garðaríki (Rússland). En á þeirri leið voru þau handtekin af víkíngum frá Eistlandi og seld mansali. Á Eistlandi var Ólafur 6 vetur, til þess er Sigurður móðurbróðir hans hitti hann þar og keypti og hafði með sèr til Hólmgarðs (Nowgorod). Komst Ólafur þar í kærleika við Valdimar (Vladimir) Hólmgarðakonúng og dvaldist þar nokkra vetur. Síðan fór Ólafur í víkíng og herjaði á ýms lönd við Eystrasalt; á þeim árum kom hann til Vindlands, kvongaðist þar (983?) og var þar 3 vetur, en er kona hans andaðist festi hann þar ekki yndi, og fór í hernað og herjaði vestur í lönd, bæði um Danmörk, Frísland, Flæmíngjaland, Skotland, Suðureyjar, Írland, og víðar. Þá var það að hann kom í eyjar þær er *Syllíngar* (Scilly-eyjar) heita. Þær liggja í hafi undan útsuðurskaga Englands. Þar var Ólafur skírður og nam rètta trú. Eptir það fór hann til Englands og dvaldist þar nokkur ár, kvongaðist öðru sinni (c. 988) og átti Gyðu, systur eða dóttur Ólafs Kvarans, er konúngur var á Írlandi í Dyflinni (Dublín). Um þær mundir kom Sveinn Tjúguskegg til móts við Ólaf, og sókti að honum traust og liðsinni, því að *Eiríkur* Svía konúngur *hinn sigursæli* hafði þá lagt undir sig Danmörku (989), en Sveinn konúngur stokkið úr landi. Þeir Ólafur og Sveinn gjörðu fèlag með sèr og herjuðu um hríð í ríki *Aðalráðs* Englakonúngs, þángað til hann gjörði samnínga við Ólaf; skildi þá með þeim Ólafi og Sveini; Ólafur fór til Dyflinnar en Sveinn til Danmerkur (994).

Nú víkur sögunni til Hákonar jarls Sigurðssonar í Norvegi.

Hann hafði fengið pata nokkurn af því, að vera mundi fyrir vestan haf sá maður, er Áli nefndist og vera af konúngaætt norrænni, og að öllum líkindum sonur Tryggva konúngs Ólafssonar, og heita rèttu nafni Ólafur. En þótt Hákon jarl hefði lengi stýrt Norvegi sem einvaldur, og menn myndi eigi ætla, að veldi hans stæði á völtum fæti, þá var honum þó kunnugt um, að Norvegsmenn vildu helzt konúng yfir sèr hafa einhvern af ætt Haralds hins hárfagra; jarl vissi og, að vinsældir hans fóru heldur mínkandi þar í landi, og fyrir því var honum mjög ant um, að fá sem sannastar sögur af Ólafi þessum og fyriræltun hans, og ef til þyrfti að taka, ráða hann af dögum. Til þess að framkvæma áform sitt í þessu efni, sendi Hákon jarl *Þóri Klökku*, vin sinn, vestur um haf, og bað hann annaðhvort lokka Ólaf til Norvegs, eða drepa hann að öðrum kosti. Þórir fer, sem fyrir hann var lagt, og hitti Ólaf Tryggvason í Dyflinni, og hvort sem það nú var af fortölum Þóris eða af öðrum rökum, þá fer Ólafur til Norvegs og kemur að landi við ey þá, er *Mostur* heitir á Hörðalandi. Þar söng Ólafur messu í landtjaldi, en síðan lèt hann reisa þar kirkju í þeim sama stað. Það var á öndverðu vori 995, er Ólafur Tryggvason kom til Norvegs; gjörði hann landsfólkið eigi vart við komu sína, en hèlt dagfari og náttfari norður með landi til Þrándheimsfjarðar, því að Hákon jarl var þar þá, en Ólafur vildi koma að honum óviðbúnum. En er Ólafur kom þángað norður frètti hann að jarl er orðinn ósáttur við bændur, og að alt er þar í uppnámi. Varð sú endalykt á því máli, að Hákon jarl misti lífið, en Ólafur Tryggvason var á Eyraþíngi í Þrándheimi tekinn til konúngs um land alt, svo sem haft hafði Haraldur hinn hárfagri. Norvegur var þá að miklu leiti heiðinn, er Ólafur kom til ríkis, en það var áform hans fult og fast að kristna ekki einúngis Norveg allan, heldur öll þau lönd, sem bygð voru af Norðmönnum og norræn túnga var töluð, og þessu áformi fylgdi Ólafur konúngur fram með hinum mesta ákafa og dugnaði. En þó hann boðaði mönnum trúna eins opt með stríðu sem blíðu, og kúgaði marga til kristni, þá er aldarfari því, sem þá var, um slíkt að kenna. Þau fáu ár, sem Ólafur konúngur rèð fyrir Norvegi, varð honum svo vel framgengt með kristniboðið, að eigi einúngis Norvegur allur varð kristinn, heldur einnig Hjaltland og Orkneyjar, Færeyjar, Ísland og Græn-

land. Eptir skipun Ólafs konúngs boðaði *Sigmundur Brestisson* kristni á Færeyjum, *Leifur Eiríksson* á Grænlandi, en Orkneyjar og Hjaltland kristnaði Ólafur sjálfur að nokkru leiti á leið sinni frá Dýflinni til Norvegs.

Um sama leiti sem Ólafur Tryggvason rèð fyrir Norvegi, stýrði Ólafur konúngur, sonur Eiríks sigursæla og Sigríðar stórráðu, Svíaveldi, en Sveinn tjúguskegg Danmörku. Sigríður stórráða var þá ekkja, og þókti mikið að henni kveða, enda hóf Ólafur Tryggvason upp bónorð sitt og bað hennar, og fór það mál alt líklega; en er að því kom, að þau myndi gjöra samgáng sinn, mælti Ólafur konúngur að Sigríður skyldi skírast og taka trú, en hún tók því fjærri, þá reiddist Ólafur konúngur og mælti: »hví mun eg vilja eiga þig afgamla og hundheiðna«, og laust hana í andlitið með glófa sínum. En Sigríður svaraði: »þetta mætti vel verða þinn bani«; síðan skildu þau. Sigríður giptist síðan Sveini konúngi tjúguskegg, en Ólafur átti *Þyri Haraldsdóttur* Gormssonar, systur Sveins konúngs. Þyri drotníng hafði fyrst verið gipt Styrbirni Svíakappa er fèll á Fýrisvöllum; síðan gipti Sveinn konúngur hana *Bóleslafi* (Búrizlafi) Vindakonúngi, en það er sagt, að henni væri það mjög á móti skapi, og þess vegna fór hún þegar un hæl burt af Vindlandi og til Norvegs á fund Ólafs konúngs Tryggvasonar og giptist honum. Þyri drotníng átti eignir miklar á Vindlandi og í Danmörku, og kærði opt fyrir Ólafi konúngi, að hún hefði ekki fjárhlut þar í landi, svo sem drotníngu sæmdi; kom hún svo sínu tali, að Ólafur konúngur bauð út liði miklu og sigldi suður til Danmerkur gegnum Eyrarsund og svo til Vindlands; er eigi annars getið en að allar ræður hafi farið líklega með þeim konúngunum Bóleslafi og Ólafi Tryggvasyni. En nú er hins vegar á það að minnast, að Sigríður stórráða var hinn mesti óvin Ólafs konúngs Tryggvasonar; hún eggjaði því mjög mann sinn Svein tjúguskegg að hefna skapraunar þeirrar, er hún þóktist hafa orðið fyrir af Ólafi konúngi. Sveinn konúngur sendi því næst menn til Svíþjóðar og skoraði á Ólaf Svíakonúng, stjúpson sinn, og Eirík jarl Hákonarson, dóttursmann sinn, að þeir skyldi hafa her úti og koma til móts við sig og skyldi þeir svo allir samt leggja til orustu við Ólaf Tryggvason. Þeir Ólafur Svíakonúngur og Eiríkur jarl komu til Danmerkur með mikinn skipaher í þann tíma,

er Ólafur Tryggvason var á Vindlandi. En Sveinn konúngur lèt Sigvalda jarl í Jómsborg halda njósnum um ferðir Noregskonúngs. Fór Sigvaldi þegar á fund Ólafs konúngs Tryggvasonar og kom sèr í mikla kærleika við hann og dvaldi ferð hans brott af Vindlandi sem mest hann mátti, meðan þeir Sveinn Danakonúngur, Ólafur sænski og Eiríkur jarl hèldu öllu liði sínu austur þángað og biðu Ólafs Tryggvasonar við ey þá, er *Svoldur* heitir, er menn segja sè ein af smáeyjunum milli Ódersfljótsósa og eyarinnar Rugen, þó enginn viti með fullum sanni hver þeirra það er. En nú er að segja frá Ólafi Tryggvasyni, að honum barst sú fregn, að Sveinn Danakonúngur hefði her úti og mundi vilja finna hann; en Sigvaldi jarl taldi Ólafi konúngi trú um, að slíkt væri hin mestu ósannindi, og því trúði konúngur. Nú kom sá dagur, er Ólafur konúngur lèt leysa flotann og blása til brottlögu af Vindlandi. Veður var lítið og hagstætt, gengu meira öll hin smáu skip og sigldu undan á hafið út, en hin stærri skipin, hèr um bil 11 að tölu, urðu á eptir; voru mörg þeirra fögur og furðumikil, en þó bar *Ormurinn lángi,* er Ólafur konúngur stýrði sjálfur, lángt af öllum. Er svo sagt, að til þeirra tíma hafi það skip verið lángmest og fríðast gjört í Norvegi, og var það ætlun margra, að það yrði aldrei á vatni unnið með vopnum; enda sagði svo Eiríkur jarl Hákonarson, að þetta hið ágæta skip væri maklegt og sæmilegt slíkum konúngi sem Ólafur væri Tryggvason, því að hann bæri svo af öðrum konúngum sem Ormurinn lángi af öðrum skipum; sagt er og að á Orminum hafi þá verið 600 manna, og valinn maður í hverju rúmi. Þeir höfðíngjarnir sátu fyrir Ólafi konúngi undir Svoldrar-ey, eins og áður er sagt, og höfðu óflýjandi her. En er skip Ólafs konúngs rendu fram með eyunni, rèri allur flotinn út í móti honum. Báðu þá nokkrir hann, að sigla leið sína út á hafið eptir hinu liðinu öllu, er um var siglt, en Ólafur konúngur sagði: »látið ofan seglið; ekki skulu mínir menn hyggja á flótta; eg hefi aldrei flúið í orustu; ráði guð fyrir lífi mínu, en aldrei mun eg á flótta leggja». Var svo gjört sem hann mælti. Því næst greiddu konúngar atróðurinn og tókst þar hin grimmasta orusta; var þar bæði höggorusta og spjótum lagt og kastað öllu því, er til vopna var, en sumir skutu bogaskoti eður handskoti; kom svo að lyktum, að öll voru hroðin skip Ólafs konúngs

Tryggvasonar nema Ormurinn lángi; var þar þá alt lið komið það er vígt var hans manna; gjörðust Ólafs menn þá svo óðir, að þeir hlupu upp á borðin til þess að ná með sverðshöggum til óvina sinna; gáðu sumir þá ekki annars en þeir berðist á slèttum velli, og gengu út af borðunum og sukku niður milli skipanna með vopnum sínum. Ólafur konúngur stóð í lyptíngu á Orminum, bar hann hátt mjög, hann hafði gyltan skjöld og gullroðinn hjálm, og rauðan kyrtil stuttan yfir brynju; var hann mjög auðkendur frá öðrum mönnum; hann skaut optast um daginn, stundum bogaskoti, en stundum gaflokum, og jafnan tveim í senn. Konúngur leit fram á skipið og sá að menn hans hjuggu hart og tíðt, en sverðin bitu eigi; gekk hann þá ofan í fyrirrúmið og lauk upp hásætis kistunni, tók þar úr mörg sverð hvöss og fèkk mönnum sínum; en er hann tók niður hinni hægri hendi, þá sáu menn að blóð rann ofan undan brynstúkunni; en enginn veit hvar hann var sár. Nú þótt Ólafur konúngur og kappar hans berðist svo hreystilega, að fá munu dæmi til slíkrar varnar móti ofurefli því, er að sókti, þá tók nú lið hans mjög að falla, og gjörðist fyrst þunnskipað um mitt skipið, og þar rèð Eiríkur jarl til uppgöngu á Orminn við fimtánda mann og komst upp á skipið, en Hyrníngur mágur Ólafs konúngs kom með sveit manna á móti jarli og fèkk rekið hann ofan aptur á Járnbarðan — svo hèt skip Eiríks jarls —; varð þá enn hin snarpasta orusta og mikið mannfall; rèð Eiríkur jarl þá í annað sinn til uppgöngu á Orminn, og, með því að víða voru þá auð borðin, tóku jarls menn víða upp að ganga, en þeir af Ólafs mönnum, er þá stóðu uppi til varnar, sóktu aptur á skipið þar til sem konúngur var, og snèrust þá enn til varnar; voru þá fáir einir uppi standandi af hans mönnum, og fèllu þeir nú flestir á lítilli stundu. Í þeirri svipan hljóp Ólafur konúngur Tryggvason fyrir borð; höfðu jarlsmenn lagt að utan smáskútur og drápu þá er á kaf hlupu; vildu þeir taka konúnginn höndum, en hann brá yfir sig skildinum og steyptist í kaf, og fengu þar eigi tekið hann. Þannig lauk hinni nafnfrægu Svoldrar-orustu, er háð var 9. sept 1000 árum eptir Kristsburð. Að Ólafur konúngur hafi látið líf sitt, þá er hann var fyrir borð hlaupinn, þykir mega fullyrða, þó margar sagnir gengi síðan um það, að hann hefði komizt lífs af og farið út í lönd og

gengið þar í klaustur. En að slíkar sagnir mynduðust um Ólaf Tryggvason var mjög eðlilegt, þegar lítið er til þess, hve merkileg öll hans æfi var frá upphafi til enda: hann fór huldu höfði úr landi á æsku árum sínum, umsetinn og ofsóktur af grimmum og fláráðum óvinum; hann kom eins og hann væri kallaður til Norvegs til að boða þar kristni og breiddi hana út bæði þar og annarstaðar um löndin með dæmafáum dugnaði, og þó hann færi stundum fram með mikilli hörku, þá var hann þó mjög vinsæll af öllum hinum betri mönnum; hann var íþróttamaður meiri en allir aðrir menn honum samtíða; hann hvarf í einni svipan við Svoldur, þá er frægð hans stóð sem hæst og að eins 36 ára gamall. Slíkur afbragðsmaður vildu menn að lifði sem lengst, og þess vegna trúðu menn því, er þeir vildu að svo væri. Það er sagt að Þyri drotníng væri með Ólafi konúngi manni sínum í ferð þessari, og andaðist eptir 9 daga af sárum harmi, þrátt fyrir alla viðleitni Eiríks jarls að hughreysta hana.

Eptir þessi tíðindi skiptu þeir Norvegi milli sín, Sveinn Danakonúngur, Ólafur Svíakonúngur og Eiríkur jarl Hákonarson; hafði Sveinn konúngur Víkina, Ólafur sænski hlaut Ránaríki frá Gautelfi til Svínasunds, 4 fylki í Þrándheimi, Norðmæri og Sunnmæri og Raumsdal, og yfir þessi lönd setti Ólafur Svein jarl Hákonarson mág sinn en bróður Eiríks jarls; en Eiríkur eignaðist öll önnur fylki í Norvegi; var hann mjög fyrir þeim bræðrum um forráð öll, og þótt Norvegur væri í orði kveðnu þannig sundur skiptur milli margra, þá kvað láng mest að stjórn Eiríks jarls um þessar mundir, og má kalla hann yfirráðanda landsins alla þá stund sem hann sat að ríki. Þeir bræður Eiríkur og Sveinn lètu skírast og tóku rètta tru, en þeir lètu hvern mann gjöra sem vildi um kristnihaldið, hèldu vel forn lög og lands siðu og voru vinsælir menn og stjórnsamir. Þeir bræður rèðu fyrir Norvegi þar til Eiríkur jarl fór til Englands til liðs við Knút konúng ríka mág sinn. Setti þá Eiríkur *Hákon* son sinn til ríkis eptir sig í Norvegi, og skiptu þeir Sveinn jarl föðurbróðir hans völdum með sèr. En *Ólafur Haraldsson* (hinn helgi) kom þá til sögunnar. Hann kom vestan frá Englandi um haustið 1014 og tók höndum Hákon jarl Eiríksson, en gaf honum líf og grið og lèt hann vinna sèr trúnaðareiða; fór Hákon síðan vestur til Englands á fund Knúts konúngs móðurbróður síns. En Ólafur barð-

ist við Svein jarl vorið eptir á pálmasunnudag (1015) fyrir Nesjum. Stökk Sveinn jarl úr landi og til Svíþjóðar á fund Ólafs Svíakonúngs mágs síns, ætlaði síðan að leita til hefnda í Norvegi, en entist eigi til þess, því að hann varð sóttdauður á næsta ári 1016. Ólafur helgi var síðan til konúngs tekinn yfir endilángan Norveg; hann efldi mjög kristni og kennilýð þar í landi, er hvorutveggja hafði hnignað síðan Ólafur Tryggvason fèll frá. Ólafur helgi fèll í Stiklastaðaorustu 1030.

### England frá 449—1014.

Eins og fyr er ritað[1], urðu Rómverjar þegar á dögum Hónóríus keisara að sleppa yfirráðum á Bretlandi, því að þá krepti svo mjög að þeim sjálfum heima fyrir, að þeir gátu með engu móti viðsnúizt og sent herlið á svo fjarlægt skattland sem Bretland. Bretar voru fyrir löngu kristnaðir, en orðnir því nær ó-vanir öllum vopnaburði síðan þeir komust undir Rómverja, og þess vegna varð þeim nú lángt yfir megn að verjast árásum Pikta og Skota norðan af Kaledoniu (Skotlandi). Er því sagt að Bretar hafi fengið *Engla* og *Saxa*, og fleiri heiðna menn austan af Germaníu til hjálpar; þeir hafi að sönnu orðið við bón Breta og rekið Pikta og Skota úr landi, en síðan snúið vopnum sínum móti Bretum sjálfum og átt við þá sárbeitt viðskipti, er þannig lyktuðu, að *Engilsaxar* lögðu alt Bretland undir sig, nema fjallbygðir þær vestur í landi, er *Wales* heitir[2]; í því fjalllendi settust Bretar að, þeir sem ekki flýðu suður á Gallíu til Armoríka, er síðan var kallað Bretagne eptir þeim. Í Wales höfðu Bretar ekki einúngis ríki og konúngsstjórn út af fyrir sig, er stóð þar um margar aldir, heldur hèlzt þar einnig við hjá þeim hin kristna trú, og þaðan fóru kristniboðendur yfir til Írlands (t. d. hinn helgi *Patrekur*, Írlands postuli, á ofanverðri 5. öld) og frá Írlandi kristnaðist síðan Skotland. Írskir múnkar áttu og mikinn þátt í kristniboðinu meðal Germana í hinu frakkneska ríki á áttundu öld.

Engilsaxar, sem lagt höfðu Bretland undir sig, voru þar á móti heiðnir; þeir settu þar 7 ríki á stofn er svo hètu: *Norðymbraland,* (höfuðstaður York-Jórvík), *Mercia* (höfuðst. Linkoln),

1) Sjá Fornaldars. bls. 244—245. 2) Wales er optast kallað Bretland í sögum vorum til aðgreiníngar frá Englandi.

*Austangeln* (h. Norwich), *Kent* (h. Canterbury), *Essex* (h. London), *Sussex* og *Wessex* (h. Winchester). Þessi smáríki voru optast hvert öðru óháð, en einatt áttust þau ílt eitt við og höfðu þá ýmsir betur.

Nálægt 600 árum e. Kr. sendi *Gregoríus* páfi hinn fyrsti með því nafni, Ágústínus múnk með kristniboði til Englands; hafa menn kallað Ágústínus þenna Englands postula, og hann setti erkibiskupsstól (597) í Canterbury, og hefir þar jafnan síðan verið æztur biskupsstóll á Englandi. Hinir rómversku klerkar kristnuðu þannig fyrst Kent og síðan hin önnur smáríki Engilsaxa þar í landi. Risu þar síðan upp hinir ágætustu klerkar og fræðimenn, t. a. m. sagnaritarinu *Beda* (Beda prestur hinn fróði = *Beda venerabilis* † 735), *Winfrið* eða *Bonifacius* Þýzkalands postuli † 755, *Alkuin* ráðgjafi og aldavinur Karls mikla, † 804. og fl.

*Jábjartur* (Egbert) hèt konúngur einn í Vessex. Hann hafði á æskuárum verið við hirð Karlamagnúsar. Hann var hreystimaður mikill og lagði fyrstur undir sig öll hin smáríkin og gjörði þau að einu ríki og kallaði England. En á hans dögum tóku víkíngar af Norðurlöndum að venja komur sínar til Englands. Herjuðu *norskir* víkíngar mest um Skotland og Írlands, en *danskir* um England. Kom þar að, er tímar liðu fram, að Danir fóru eigi heim á haustum heldur höfðu vetrarsetu á Englandi; herjuðu þar á sumrum í ýmsar áttir og gjörðu hin mestu hervirki. Einn af sonarsonum Jábjartar konúngs hèt *Elfráður hinn ríki* (Alfreð den Store). Hann kom til ríkis 22 ára (871) og ríkti 30 ár. Hann var einhver hinn mesti afbragsmaður á miðöldunum, og í mörgu líkur Karlamagnúsi. Hann varð um tíma að flýja ríki sitt fyrir ofurefli Dana, og fara huldu höfði um skóga og eyðimerkur. En meðan því fór fram, er sagt, að einhverju sinni hafi hann gengið í dularklæðum inn í herbúðir Dana, og tekið þá vel eptir hversu vígum þeirra og vörnum var til hagað og hvar þetta hvorttveggja var veikast fyrir, komizt þaðan út aptur, svo að Danir urðu eigi við varir, og því næst safnað liði og ráðizt á þá. Vann hann þar ágætan sigur og settist aptur að ríkisstjórn. Varð það þá að samuíngum með þeim, að Danir skyldi rýma landið, en halda að eins Norðymbralandi, Austangeln og nokkrum hluta af Mercia. Komst nú friður á um stundar-

sakir og kristnin tók að breiðast út meðal Dana á Englandi. Elfráður konúngur notaði friðinn sem bezt, reisti við aptur fallnar borgir, er lagzt höfðu í eyði á undanförnum ófriðartímum, og víggirti margar þeirra; setti kastala á ýmsum stöðum í ríki sínu; kom upp herskipaflota, svo að jafnan voru 120 herskip búin til orustu í ýmsum höfnum, og varðist hann þannig fyrir árásum víkínga, sem jafnan sveimuðu þar fyrir landi; akuryrkju lèt hann stunda af miklum áhuga. En árið 893 komu Norðmanna víkíngar af Frakklandi á 330 skipum í ríki hans og um sama leiti gjörðu Danir á Norðymbralandi hina mestu uppreisn; átti Elfráður þannig að verjast á tvær hendur; stóð hann í þeim ófriði um þriggja ára tíma, en að lyktum bar hann þó hærri hlut. Settust þá sumir af Norðmönnum að á Englandi og tóku sèr þar bólfestu, en sumir fóru aptur til Frakklands. Það segja menn að Elfráður konúngur háði 56 orustur, enda var honum sjaldan til setu boðið; en þegar hann gat verið í næði fyrir óvinum sínum, þá efldi hann á allar lundir framfarir landsins og þjóðarinnar. Hann skipaði lögum og landsstjórn í ríki sínu, og gætti þess vandlega að lögunum væri fylgt. Kirkjur og klaustur og skóla, er fallið höfðu til grunna meðan ófriðurinn stóð, lèt hann reisa af nýju; hann setti hinn nafnfræga skóla í *Oxforð;* hann var hinn mesti vísindamaður, safnaði fornum þjóðkvæðum og orkti sjálfur, snèri á engilsaxneska túngu ýmsum ritum, þar á meðal kirkjusögu Beda prests hins fróða, er upphaflega var rituð á latínumáli; hann bauð til sín lærðum mönnum af ýmsum löndum, og hafði þá í miklum hávegum; verzlun og iðnað styrkti hann og jók á ýmsa vegu, og alt bar vott um viturleik og starfsemi hins ágæta konúngs. Hann var meiri part æfi sinnar þjáður af vanheilsu og hafði að eins tvo um fimtugt þá er hann andaðist. Eptir hann kom til ríkis á Englandi *Játvarður* 1. (Edvarð) sonur hans (900—924). Hann átti lengstum í ófriði við frændur sína, er til ríkis vildu brjótast, eða við Dani á Norðymbralandi og jafnvel við Skota. Eptir hann varð *Aðalsteinn* (Athelstan) sonur hans konúngur á Englandi (924—940). Hann var hraustur maður og herkænn sem faðir hans, og af sumum kallaður hinn sigursæli; hann vann sigur á Dönum og lagði undir sig Austangeln og Norðymbraland, og enskir sagnaritendur segja, að hann hafi gjört Skota konúng skattgildan undir sig, en skozkir

fræðimenn bera á móti því[1]. Aðalsteinn konúngur fóstraði þá Loðvík (IV) Frakkakonúng og Hákon Noregskonúng, sem fyr er ritað. Hinrik hinn fyrsti (fuglari), Þýzkalands konúngur, sendi menn á fund Aðalsteins konúngs þess erindis að biðja systur hans einnar til handa Ottó syni sínum. Aðalsteinn sendi Hinriki konúngi tvær af þeim, til þess að Ottó gæti valið þá, er hann heldur vildi. Sú hèt Edít, er Ottó kaus, en hin giptist jarli einum. Aðalsteinn konúngur andaðist 940.

Eptir hans daga sátu ættmenn Elfráðs ríka að völdum á Englandi um nokkra hríð, en fæstir þeirra voru miklir atkvæðamenn; var þá bæði sundurþykki í landinu sjálfu með höfðíngjum og hinn mesti ágángur á ríkið af Dönum og Norðmönnum. En þó urðu lángmest brögð að hernaði Dana um daga *Aðalráðs* konúngs *annars* (hins ráðlausa 978—1016). Þá herjaði *Sveinn* tjúguskegg Danakonúngur á England. Sveinn var fremur heiðinn en kristinn, var hann marga vetur á Englandi og herjaði víða landið og brendi, og kölluðu landsmenn hann fjanda Engla. Aðalráður var ónýtur konúngur og keypti sèr frið af Dönum við ærnu gjaldi, en það kom fyrir ekki, því að hernaður þeirra fór fremur vaxandi en þverrandi eptir það. Aðalráður tók það til bragðs, til þess að styrkja ríkisstjórn sína og geta því betur varizt árásum víkínga, að hann mægðist við *Ríkarð annan* Rúðujarl og átti *Emmu* systur hans, en þær mægðir komu honum að engu haldi. Hið næsta ár á eptir að Aðalráður kvongaðist, lèt hann myrða á einum degi (13. nov. 1002) flestalla danska menn á Englandi, nema í þeim hèröðum, er Danir og Norðmenn höfðu aðalaðsetu og mest yfirráð, eins og á Norðymbralandi og Austangeln. Til þess að hefna þessa mikla manndráps kom Sveinn konúngur þegar á næsta ári til Englands og herjaði og brendi hvar sem hann fór yfir, og gekk svo þau 4 ár hin næstu. Um síðir þóktist Sveinn hafa nokkuð að gjört í því efni og fór burtu, en lèt Aðalráð kaupa frið af sèr við ærnum fègjöldum. Hin enska þjóð var ógurlega þjáð og aðþrengd um þessar mundir. Loksins kom Sveinn konúngur til Englands 1013

1) Þeir bræður *Þórólfur* og *Egill* Skallagrímssynir voru liðshöfðíngjar Aðalsteins konúngs í hinni miklu orustu, er hann átti við Skota og bandamenn þeirra á Vínuheiði (927) eða við Brunanborg; þar fèll Þórólfur.

í þeim erindum að láta skríða til skara og leggja landið undir sig. Sá Aðalráður þá engi önnur úrræði en flýja af landi burt yfir til Normandíu, en landsmenn gátu litla vörn af sèr sýnt og lagði Sveinn konúngur þannig alt England undir sig; þar andaðist hann að litlum tíma liðnum (1014), og er hann úr sögunni.

## Knútur ríki, konúngur í Englandi, Danmörku og Norvegi (1017—1035).

Þá er Sveinn konúngur tjúguskegg var liðinn undir lok, jókst Englendíngum hugur og dugur, og vildu eigi taka *Knút* son Sveins til konúngs, enda var Knútur þá úngur að aldri. Þá kom og Aðalráður konúngur aptur þar í land að vitja ríkis síns; varð Knútur því að leita þaðan á burt, og hèlt herskipum sínum til Danmerkur á fund Haralds bróður síns, er þá hafði þar konúngdóm tekið eptir Svein konúng föður þeirra. Knútur hafði hugfest að vinna England og fyrir því fèkk hann bæði skip og menn hjá Haraldi bróður sínum, Ólafi Svíakonúngi og Eiríki jarli Hákonarsyni mági sínum, og er hann þóktist hafa nægan liðsafla, hèlt hann öllu því liði vestur til Englands og tók þegar að herja landið og leggja undir sig. Um þessar mundir andaðist Aðalráður konúngur (1016), en *Játmundur* sonur hans var til konúngs tekinn. Hann var hinn mesti hreystimaður og kallaður Játmundur járnsíða (*Ironside*). Hann dró saman her mikinn og fór í móti Knúti, áttust þeir við margar orustur og veitti Knúti betur, en því ollu svik lendra manna, einkum þess manns, er *Heiðrekur Strjóna* (Eadrik Streon) er nefndur. Ár 1017 var sætt gjör milli þeirra Knúts og Játmundar, að skipta skyldi í helmínga landi með þeim, og hafa hálft ríki hver meðan þeir lifði, var sú sætt eiðum bundin. En skömmu þar á eptir dó Játmundur konúngur, og eru allar líkur til, að Heiðrekur Strjóna hafi drepið hann með morðvígi. Eptir það varð Knútur einvaldi alls *Englands* og á hinu sama ári var hann krýndur af erkibiskupi í Kantaraborg (Canterbury). Þá var Knútur konúngur tvítugur að aldri. Til þess að festa og tryggja yfirráð sín á Englandi beitti Knútur bæði grimd og slægvizku, en þó væri honum helzt of illa borin sagan ef híns væri eigi getið, er hann gjörði vel. Þegar er hann var til ríkis kominn á Englandi lèt hann drepa ættmenn hinna fyrri konúnga, eða reka í útlegð, en kvongaðist

ekkju Aðalráðs, er *Emma* hèt; var hún systir Ríkarðar Rúðujarls í Normandí, eins og áður er sagt, og var vitur kona og mjög vinveitt kristni og kennilýð; þókti hún bæta skaplyndi Knúts í mörgu, og kom það fram í ýmsum greinum. Hann gjörðist kristninni meðmæltur; lèt reisa kirkjur og skóla, er víða lágu í rústum síðan á ófriðarárunum; hann staðfesti hin fornu lög landsmanna, og leit vel og vandlega eptir að þeim væri fylgt, lèt þau gánga jafnt yfir alla, og gjörði í þeirri grein engan mun á Dönum og Engilsöxum; stórmenni og stórbokka, sem fóru með ofsa eða yfirgángi, bældi hann niður með miklum skörúngskap, og var í öllu stjórnsamur höfðíngi. Hann fèkk helztu vinum sínum og styrktarmönnum stór lèn í hendur í ríki sínu. Þannig setti hann *Heiðrek Strjónu* til jarls yfir Mercia, *Þorkel hinn háfa*, bróður Sigvalda jarls, yfir Austangeln, og *Eirík* jarl, mág sinn, yfir Norðymbraland. En ef Knúti konúngi þókti sem slíkir menn myndi verða sèr ofjarlar, þá áttu þeir vísan dauða eða útlegð. Þannig segja menn, að Eiríkur jarl yrði banamaður Heiðreks strjónu eptir skipan Knúts konúngs, og að hann hafi gjört Þorkel háfa útlægan af Englandi. Eiríkur jarl Hákonarson andaðist á Englandi, að því er sögurnar segja, og var þá búinn til Rómferðar; honum var skorinn úfur, varð blóð eigi stöðvað og fèkk hann af því bana (1024). Sumir segja að hann væri þá kominn í óvingan við Knút, og að Knútur væri eigi hlutlaus af dauða hans, hver tilhæfa sem fyrir því er. Þegar Knútur konúngur hafði stýrt Englandi um hríð, og friður og spekt var komin á í ríki hans, sendi hann mestan hluta liðsmanna þeirra, er hann hafði haft af Danmörku, heim þángað aptur, og mæltist vel fyrir því á Englandi, sökum þess að dvöl als þess margmennis hafði orðið landinu ærið kostnaðarsöm; hèlt konúngur að eins eptir hjá sèr hermannasveit þeirri, er nefnd var *þíngmannalið;* voru þeir að tölu um 6000 manna (aðrir segja 3000), og valdir mjög að hreysti og vopnum; lög þau, er Knútur konúngur setti liðsmönnum þessum, hètu *Viðurlagsrèttur,* og voru lengi síðan hermanna lög í Danmörku.

*Haraldur* bróðir Knúts ríka varð konúngur í *Danmörku* eptir Svein konúng föður þeirra, en ríkti mjög skamma stund (1014—1018). Erfði Knútur þá konúngdóm yfir Danmörku að Haraldi önduðum. En þó Knútur konúngur sæti lengstum á

Englandi, og teldi það vera höfuðríki sitt sökum auðæfa og mentunar, er þar var miklu meiri en i Danmörku, þá vanrækti hann þó engan veginn það bið minna ríkið, heldur lèt sèr umhugað að efla framfarir þess á marga vegu. Hann kom kristninni á fastan fót í Danmörku, og setti þángað biskupa og kennimenn frá Englandi, er fræddu landslýðinn; hann endurbætti þar akuryrkju, iðnað og ýmsar listir; rán og hernaður rènaði, og þjóðin hneigðist fremur en áður að friðsamlegri atvinnu; kaupferðir og siglingar tíðkuðust meir en áður um Eystrasalt, fyrir því að vindverskum víkingum var haldið í skefjum.

Knútur ríki átti England og Danmörku, en þókti það eigi nóg, og vildi þar á ofan eignast *Norveg*. Ólafur Haraldsson (hinn helgi) var þar þá konúngur, eins og fyr er ritað. Hann hafði með miklu kappi, og jafnvel hörku, boðað kristni þar í landi, enda eflt hana mjög og viðrètt, því að henni hafði farið lítið fram síðan Ólafur Tryggvason fèll frá. En fyrir þá sök, að Ólafur konúngur helgi fór fram með lítilli vægð við landsfólkið, þá urðu margir honum fráhverfir og leituðu liðs og trausts hjá Knúti konúngi; «en allir þeir, er komu á fund Knúts og hann vildu þýðast, fengu af honum fullar hendur fjár». Kom þar áður lángt liði, að Knútur konúngur sendi menn til Norvegs á fund Ólafs helga og krafðist þess, að Ólafur tæki Norveg í lèn af honum, og gildi skatta, því að Knútur kallaði allan Norveg sína eign. En Ólafur konúngur svaraði þúnglega, sem vænta mátti, og sendimenn Knúts fóru aptur til Englands við svo búið. Þessu næst gjörir Ólafur helgi fèlagsskap við Önund Svíakonúng, og, meðan Knútur konúngur var í Rómaför sinni, herjuðu þeir konúngarnir, Ólafur og Önundur, í Danmörku og gjörðu þar hið mesta hervirki. Knútur ríki hafði sett *Úlf jarl Þorgilsson* Sprakaleggs, Styrbjarnarsonar hins sterka, til landvarnar í Danmörk, og selt honum í hendur son sinn úngan þann er *Hörðaknútur* hèt. Úlfur jarl átti *Ástríði* systur Knúts ríka og var hinn mesti kappi. *Sveinn* hèt sonur þeirra Úlfs og Ástríðar, og verður hans síðar getið. En er þeir Ólafur og Önundur komu með ófriði til Danmerkur, þá lèt Úlfur jarl eptir ráðum Emmu drotníngar taka Hörðaknút til konúngs yfir Danaveldi, en Knútur konúngur, faðir hans, var þess dulinn. Kom hann nú sjálfur með mikinn her til Danmerkur áður en nokkurn varði, og brást

reiður við þessa ráðagjörð þeirra Úlfs jarls og Emmu drotníngar, en þó tók hann Hörðaknút son sinn í sátt, en sendi Úlfi jarli mági sínum þau orð, að hann safnaði her og skipum og kæmi til fundar við sig, en síðan skyldi þeir tala um sættir. Jarl gjörði svo. Fundur þeirra Knúts konúngs og Ólafs helga og Önundar Svíakonúngs varð austur á Skáni þar sem heitir *Áin helga* (1027). Varð þar hörð orusta; veitti Knúti miður og hefði beðið þar fullan ósigur, ef Úlfur jarl hefði eigi komið honum til liðs og rètt við bardagann. Urðu þau leikslok með þeim, að Norðmanna og Svía konúngar lögðu frá skipum sínum og lètu undan síga; hafði Knútur mist marga menn, en þeir konúngar fáa, þó leituðu hvorugir á aðra og skildi þar með þeim. Eptir orustu þessa hèlt Önundur konúngur heim til sín með sína menn, en Ólafur konúngur lèt skip sín eptir í Svíþjóð og fór landveg norður í Norveg. Arið eptir hèlt Knútur ríki til Norvegs og hafði óvígan her og eigi færra en 12 hundruð skipa, og fèkk þá enga mótstöðu, því að landsfólkið var Ólafi helga frásnúið; var Knútur til konúngs tekinn um allan Norveg orustulaust, en Ólafur helgi fór austur til Garðaríkis (Rússland). Þar lèt hann fyrirberast um hríð, en leitaði síðan til Norvegs og vildi ná aptur undir sig landinu. Höfðíngjar í Norvegi hèldu njósn austur til Svíþjóðar og fengu þegar spurt, að Ólafur konúngur var kominn til ferðar og stefndi liði sínu til Norvegs; sendu þeir þá herboð um alt land og buðu út almenníngi, kom þar saman mikill her, svo að Ólafur konúngur var miklum mun liðfærri. Hèldu bændur því næst liði sínu til Þrándheims og að bæ þeim, er að *Stiklastöðum* heitir; þar var fyrir Ólafur konúngur með lið sitt. *Kálfur Árnason* var höfðíngi fyrir bóndahernum. Þar stóð hin nafnfræga orusta 31. august 1030; bændur unnu sigur, en konúngur fèll og mikill hluti hans manna. Þá var Ólafur konúngur 35 ára gamall, er hann fèll; hann var fjórði maður í beinan karllegg frá Haraldi hárfagra.

Eptir fall Ólafs helga setti Knútur ríki *Svein* son sinn til landstjórnar í Norvegi og gaf honum konúngsnafn. Sveinn var þá á únga aldri. Móðir hans hèt *Alfífa,* ensk að kyni; hún fylgdi syni sínum til Norvegs, en varð þar mjög óvinsæl og kölluðu Norðmenn þá tíð *Alfífu öld,* er Sveinn sonur hennar stýrði Norvegi. Sveinn konúngur hafði ýms ný lög þángað til lands,

er flest voru sett eptir því sem lög voru í Danmörku, en sum miklu frekari. Þoldu landsmenn þau illa og tóku að bera ráð sín saman til þess að losast undan yfirráðum Dana, en þorðu eigi þá þegar að hefja ófrið og reka Svein af höndum sèr, því að bæði óttuðust þeir ofurveldi Knúts ríka, og svo áttu margir Norðmenn sonu sína og frændur í gíslíngu hjá honum. Sá maður, sem bezt studdi að því að stytta yfirráð Knytlínga í Norvegi, var *Einar þambarskelfir*, einn hinn ríkasti og merkasti maður þar í landi; hann varð og fyrstur til af höfðíngjum að halda upp helgi Ólafs konúngs, er síðan varð mikil um öll Norðurlönd.

En er Sveinn konúngur hafði verið 4 vetur í Norvegi fóru þeir Einar þambarskelfir og Kálfur Árnason austur í Garðaríki með þeim erindum að bjóða *Magnúsi*, syni Ólafs konúngs hins helga, að vitja föðurleifðar sinnar og konúngdóms í Norvegi. Magnús Ólafsson hafði um hríð alizt upp austur í Hólmgarði með Jaroslav konúngi, og var um þessar mundir 10 vetra gamall. Urðu þau erindislok þeirra Einars, að Magnús rèðst til ferðar með þeim. Komu þeir austan um Kjöl til Þrándheims; var þá Magnús til konúngs tekinn í Norvegi (1035); hann var kallaður *Magnús hinn góði*. Sveinn konúngur Knútsson flýði til Danmerkur og andaðist ári síðar.

Eptir orustuna við *ána helgu* (1027) hèlt Knútur ríki her sínum aptur til Sjálands og fór sjálfur til Hróarskeldu, en þar hafði Úlfur jarl, mágur hans, gjört veizlu á móti honum; konúngur var »fámáligur og heldur úfrýnn«; þeir lèku skáktafl konúngur og jarl, en þeim sinnaðist yfir taflinu, svo að jarl skaut niður taflborðinu og gekk í burt. »Rennur þú nú, Úlfur hinn ragi!« mælti konúngur. Jarl svaraði: »lengra mundir þú hafa runnið í ánni helgu, ef þú kæmir því við, kallaðir þú þá eigi Úlf hinn raga, er eg lagða til að hjálpa þèr, er Svíar börðu yður sem hunda áður!» Morguninn eptir gekk Úlfur jarl til kirkju, en Knútur lèt einn af hirðmönnum sínum drepa hann þar fyrir altari. Knútur iðraðist þegar þessa verks og keypti jarðir margar, svo að það voru tvö hèruð, og gaf kirkjunni, en Ástríði systur sinni bætti hann manngjöldum fyrir vígið. Eptir það fór Knútur konúngur til Englands og var þar til dauðadags.

Það er sagt, að þá er Knútur konúngur frètti, að Sveinn sonur hans var flúinn úr Norvegi, og Magnús Ólafsson til konúngs

tekinn, þá hafði hann fengið sjúkleik þann er gulusótt er kölluð, en við þessi tíðindi elnaði honum sóttin, og andaðist hann á öndverðum vetri (12. nóv. 1035,) ekki fertugur að aldri.

England frá 1035 til 1100.

Eptir dauða Knúts ríka tóku Danir *Hörðaknút*, son hans og Emmu drotníngar, til konúngs yfir sig. Þóktist nú Hörða Knútur eiga tilkall til Norvegs, er faðir hans hafði átt, en Magnús konúngur lèzt eiga Dönum og einkanlega Knytlíngum fyrir grátt að gjalda, þar sem að gamli Knútur (Knútur ríki) hafði stökt Ólafi föður hans úr landi, og svikið undan honum land og þegna. Varð af þessu ósætt mikil með þeim konúngunum, Magnúsi og Hörða Knúti, og gjörði hver þeirra öðrum mikinn skaða í manndrápum og hernaði. En er sá ófriður leiddist landsmönnum í hvorutveggja ríkinu, þá leituðu góðir menn um sættir og kom þá svo, að sættarfundur var lagður milli konúnganna í *Brenneyjum* í Gautelfarmynni, og sömdu þeir þar sætt á þann hátt (1038), að sá þeirra, er lengur lifði, skyldi taka allan arf eptir hinn, bæði lönd og lausa aura, ef barnlaus andaðist. En það er frá Englandi að segja, að landsmenn þar tóku *Harald hèrafót*, son Knúts ríka, til konúngs, en það var þvert á móti skapi Emmu drotníngar, því að Haraldur var ekki sonur hennar. Haraldur ríkti skamma stund og var illa þokkaður af grimd sinni. En er hann var dáinn (1039) var Hörða Knútur til konúngs tekinn á Englandi, og þókti ekkert að hans ríkisstjórn kveða. Hann var þá konúngur bæði í Danmörku og á Englandi. En það samband stóð skamma stund, því að Hörðaknútur andaðist 1042, og eignuðust Danakonúngar England aldrei síðan. Tóku þá Englendíngar til konúngs *Játvarð hinn góða* (Edvard Confessor), Aðalráðsson hins ráðlausa og Emmu drotníngar (1042—1066). Magnús góði Norvegskonúngur erfði þá konúngdóm í Danmörku eins og á var kveðið í sáttagjörðinni í Brenneyjum (1042—1047).

Játvarður þessi var uppalinn í Normandí hjá þeim Rúðujörlum frændum sínum, og átti að verða múnkur, og var betur til þess starfa kjörinn en til konúngstignar. Hann hèlt mjög fram háttalagi því og siðum, er hann hafði alizt upp við á Frakklandi, enda fluttust margir þaðan, bæði lærðir og leikir, til Englands; og er Englendíngar sáu að konúngur þeirra þýddist þá

fremur en sig og dróg þá fram til metorða, þá fengu þeir óþokka til hans; gengu menn þá í tvær sveitir á Englandi, og fylgdu aðrir konúngi og Frökkum, en aðrir hèldu fram ensku þjóðerni og landsrèttindum. *Gudini* (Godvin) jarl var foríngi þjóðernismanna, og eptir dauða hans (1053) *Haraldur* jarl, sonur Gudina, hinn vaskasti maður. Játvarður konúngur dó barnlaus 1066 á öndverðu ári; var þá Haraldur jarl Guðinason til konúngs tekinn, en *Tosti* jarl bróðir hans undi því illa, því að hann þóktist engu síður tilkall eiga til ríkisins, enda eldri maður en Haraldur. Fór Tosti jarl þá af landi burt og leitaði sèr styrks hjá útlendum höfðíngjum til að sækja ríki sitt í Englandi, en þeir færðust undan því.

*Haraldur Sigurðarson* hinn harðráði, Norvegskonúngur, varð loksins til að heita Tosta jarli liðveizlu, í þeirri von að geta sjálfur eignazt England. Hèldu þeir Haraldur og Tosti því næst vestur um haf og höfðu allmikið lið og harðsnúið; komu þeir við Norðymbraland og tóku þegar að herja og leggja landið undir sig. Haraldur konúngur Guðinason kom til móts við þá hjá bæ þeim, er *Stafnfurðubryggja* (*Stamfordbridge*) heitir (26. sept. 1066), og hafði hálfu meira lið en þeir Tosti og Haraldur Noregskonúngur, enda var þriðjúngur liðsmanna þeirra eptir við skipin, því að þeir áttu eigi ófriðar von þann dag. En er Haraldur Guðinason kom í móti þeim með her sinn, þá vildi Tosti jarl halda undan til skipa, en Haraldur Sigurðarson vildi fyrir engan mun flýja, og tók að fylkja liði sinu; «lèt hann vera fylkíng lánga, en ekki þykka, siðan beygði hann armana aptur á bak, svo að saman tóku, var það þá víður hríngur og jafn öllu megin, var skjöldur við skjöld utan öllu megin, og svo yfir ofan»; inní hrínginum voru bogmenn, og konúngur með sína sveit. Tosti jarl fylkti sínu liði í öðrum stað. Konúngur sagði þeim, er yztir stóðu í fylkíngu, að setja spjótshala sína á jörð, en oddana fyrir brjóst riddurum Englismanna; en þeim er næstir stóðu fyrir innan, að setja spjótsodda fyrir brjóst hestum þeirra, er þeir riðu að. Meðan Haraldur konúngur reið um fylkíng sína og leit eptir hvernig fylkt væri, fèll hesturinn undir honum og konúngur af baki; hann stóð upp og mælti: «fall er fararheill». Eptir það gekk konúngur í skjaldborgina, en enskir menn veittu atreið; var viðtaka hin harðasta, náðu riddarar eigi vopn-

um til Norðmanna, því að spjótsoddarnir stóðu á þeim, en bogmenn skutu á þá sem tíðast; riðu þeir þá frá, en Norðmenn hugðu þá flýja myndi, brugðu skjaldborginni og vildu reka flóttann, en þá snèrust enskir menn í móti og riðu að þeim öllu megin og báru vopn á þá; varð þá hinn grimmasti bardagi og gekk Haraldur Sigurðarson fram fyrir sína menn og hjó til beggja handa og «hèlt hvorki við honum hjálmur nè brynja». Í þeirri svipan var hann skotinn öru í hálsinn og var það hans bani. Varð þá Tosti jarl höfðíngi fyrir liðinu og barðist drengilega, en fèll við ágætan orðstír. Í því bili kom *Eysteinn orri* (bróðurson Kálfs Árnasonar) frá skipum með sveit manna og gjörði svo hart áhlaup að við sjálft var að enskir menn myndi flýja; sú orusta var kölluð orrahríð. Voru Norðmenn þá svo ákafir að þeir urðu nálega ófærir af mæði og steyptu af sèr hríngabrynjum, fengu enskir menn þá höggstaði á þeim, og fèll þar nálega alt stórmenni Norðmanna, en Haraldur Guðinason vann mikinn sigur.

Haraldur konúngur Sigurðarson var hálfbróðir Ólafs hins helga. Hann var í Stiklarstaða orustu með Ólafi konúngi bróður sínum og var þá 15 vetra; þar varð hann sár, en komst þaðan huldu höfði út í lönd og alt út í Miklagarð, gjörðist þar höfðíngi fyrir Væríngjaliði og var þar lengi. Hann kom síðan til Norvegs og gaf Magnús konúngur góði honum hálft ríki með sèr í Norvegi, og rèðu þeir báðir fyrir landi, til þess er Magnús konúngur andaðist (1047), en síðan var Haraldur einn konúngur yfir Norvegi til dauðadags. Hann var stórvitur maður og skáld gott, manna vopndjarfastur og flýði aldrei í orustu, ríklyndur og refsíngasamur, ágjarn til fjár og ríkis og átti alla stund í aga og ófriði; hann var mikill vinur Íslendínga og gjörði margt vel til þeirra. Hann var rúmlega fimtugur er hann fèll á Englandi.

Nú víkur sögunni til *Vilhjálms Rúðujarls*, er kallaður var *bastarður;* hann var kominn af Göngu-Hrólfi en frændi Játvarðar góða í móðurætt. En er hann spurði að Haraldur Guðinason var til konúngs tekinn, þá þóktist hann betur til ríkis kominn á Englandi en Haraldur; safnar því liði miklu og heldur sem hvatlegast yfir á England, og kemur þar við land 5 dögum síðar en orustan varð við Stafnfurðubryggju. Haraldur Guðinason

bregður við skjótt, þótt hann hefði liðið mikið manntjón, og fer í móti Vilhjálmi. Varð fundur þeirra sunnarlega í landi, þar sem hèt *Helsíngjaport* eða *Hastíngjaport*, en nú heitir *Hastíngs*. Varð þar hin mesta orusta (14. Okt. 1066), barðist Haraldur af hinni mestu hreysti og var lengi ósýnt, hverir sigrazt myndi, en þó lauk svo að Haraldur konúngur fèll og mikill hluti liðsmanna hans. Lèt Vilhjálmur sig til konúngs taka, á Englandi, og hefir aldrei siðan nè einn útlendur höfðíngi unnið það land.

*Vilhjálmur* konúngur var ríkur höfðíngi áður en hann vann England, því að bæði rèð hann fyrir Norðmandi og Maine á Frakklandi og hafði þar að auki náð yfirráðum yfir Bretagne; en er hann hafði lagt England undir sig, gjörðist hann þar svo ráðríkur konúngur, atkvæðamikill og harður í stjórn sinni, að engir konúngar, er þá voru uppi, komust til jafns við hann. Englendíngar þoldu illa slíkt ofríki og gjörðu uppreist, en Vilhjálmur bældi hana niður með dugnaði og hörku, eins og honum var lagið. Hann flutti lènshöfðíngjavaldið, er áður er sagt að drotnaði á meginlandinu (Frakklandi, Þýzkalandi o. s. frv.), til Englands, en þó kom hann því þar á annan og sèrstaklegan fót. Á Frakklandi og Þýzkalandi höfðu lènshöfðíngjarnir allmikil ríki til forráða, en Vilhjálmur konúngur skipti Englandi í ótalmörg og smá lèn (yfir 60 þúsundir) og fèkk þau í hendur *barúnum* (lendum mönnum) frá Norðmandi, eða þá kirkjunum, og hver þessara barúna varð að sverja konúngi hollustueiða, eins og líka hinir smærri höfðíngjar, er fengið höfðu lönd að lèni af hinum ríkari barúnum. Hinir ensku höfðíngjar (eða engilsaxnesku) urðu allir háðir konúnginum og hinu frakkneska stórmenni í landinu, og höfðu smá lèn ein til umráða. Alt bóndafrelsi hvarf í einu vetfángi á Englandi undir þessum umsvifamikla harðstjóra. En alt um það, þegar tímar liðu fram og þetta ólíka þjóðerni blandaðist saman, þá rann þar upp af einhver hin öflugasta og merkasta þjóð. Vilhjálmur konúngur lagði þúnga skatta á landsmenn og lènshöfðíngjarnir fóru eigi heldur varhluta af þeim, og þess utan voru þeir, þegar svo bar undir, skyldir af gefa konúngi stórgjafir; hafði Vilhjálmur meiri tekjur af ríki sínu en nokkur annar konúngur honum samtíða.

Með slíku móti gat hann alið mikinn her til þess að halda bæði Englendíngum og Norðmandíu mönnum í skefjum.

Alt kirkju og klerkavald var einnig í höndum þessa harðráða konúngs; páfinn rèð litlu sem engu á Englandi, og þó sat Gregoríus sjöundi, hinn mikli og merkilegi páfi, um þær mundir í postullegu sæti í Rómaborg. Til erkistóls í Kantaraborg setti Vilhjálmur konúngur biskup þann, er *Lanfrancus* hèt, einhvern hinn lærðasta mann er þá var uppi, og rèð hann miklu með konúngi í öllum kirkjumálum.

Vilhjálmur konúngur dó í Frakklandi 1087; var hann þá á herferð móti Filippusi Frakkakonúngi hinum fyrsta. Vilhjálmur átti 3 sonu: *Róbert, Vilhjálm rauða* og *Hinrik*. Varð Vilhjálmur konúngur á Englandi eptir föður sinn, en Róbert fèkk hertogatign yfir Norðmandíu, en misti það lèn nokkru síðar, er hann veðsetti hertogadæmið Vilhjálmi bróður sínum til þess að geta tekið þátt í hinni fyrstu krossferð.

*Vilhjálmur annar* (hinn rauði) var konúngur á Englandi frá 1087 til 1100; hann var harðstjóri bæði illur og ágjarn. Hann var skotinn til bana á dýraveiðum, en enginn þekti vegandann.

## Danmörk frá 1042—1134.

Þegar *Hörðaknútur* var dauður (1042) eignaðist *Magnús góði* Noregskonúngur Danaveldi, eptir því sem um hafði verið samið á Brenneyjafundi (1038); var Magnús síðan konúngur yfir Danmörku frá 1042 til þess er hann andaðist 1047. Magnús konúngur fèkk *Sveini Úlfssyni*[1] jarldóm yfir Danmörku, því að «hann fann að Sveinn var vitur maður, og hugði að hann myndi svo fastorður og tryggur sem hann var fagurmáll og fríður sínum»; en Einar þambarskelfir grunaði Svein þegar um hollustu og mælti: «ofjarl, ofjarl, fóstri!« Litlu síðar var Sveinn til konúngs tekinn yfir Danmörku á Vebjargaþíngi; leiddi af því mikinn ófrið milli þeirra Magnúsar konúngs og Sveins, og fór Sveinn jafnan halloka í þeirra viðskiptum, en á deyjanda degi (1047) gaf Magnús konúngur Sveini alt Danaveldi. Þegar Magnús konúngur var fallinn frá, stóð enn lengi ófriður milli Haraldar

1) Danir kenna Svein konúng jafnan við móður sína og kalla hann í ritum og ræðu Svend Estridsen.

konúngs harðráða, er ríki tók í Norvegi eptir Magnús, og Sveins Úlfssonar; en þó Sveinn hefði jafnan ósigur í þeirra viðskiptum, þá var hann allra manna þrástur og þrautbeztur og þar á ofan var hann ástsæll af öllu landsfólki, og fyrir því hafði hann fram sitt mál að síðustu, er þeir Haraldur gjörðu sætt sína og frið milli landanna (1064), tveim vetrum áður en Haraldur fèll á Englandi. Sveinn Úlfsson varð sóttdauður (1076), tíu vetrum eptir fall Haraldanna á Englandi. Um daga Sveins konúngs komust kirkna mál á fastan fót í Danmörku; setti hann marga biskupsstóla í ríki sínu, og einn þeirra í *Lundi* á Skáni, er síðan varð mjög frægur, en hitt tókst Sveini konúngi ekki, að losa hina dönsku kirkju undan yfirráðum erkibiskups í Brimum.

Sveinn konúngur Úlfsson átti Gunnhildi dóttur Sveins jarls Hákonarsonar, og sonu marga; urðu 5 þeirra síðan konúngar í Danmörku[1]. Fyrstur þeirra var *Haraldur*, er konúngdóm tók eptir föður sinn; hann var kyrrlátur og enginn atkvæðamaður og stóð af honum lítil stjórn. Danir kölluðu hann Harald *hein;* hann varð sóttdauður eptir 4 ára ríkisstjórn (1080). Eptir hann var *Knútur* bróðir hans (*hinn helgi*) til konúngs tekinn (1080—1086). Hann var hermaður mikill, ríkur og refsíngasamur og hegndi mjög ósiðu; hann varði ríkið harðfengilega fyrir víkíngum, og friðaði fyrir þeim bæði sjó og land; hann var mikill vinur klerka og leyfði þeim að öll andleg málefni mætti dæmd verða af þeirrar stèttar mönnum, en eigi af öðrum. Knúti konúngi kom til hugar að berjast til ríkis á Englandi eins og gjört höfðu hinir fyrri frændur hans, Sveinn tjúguskegg og Knútur gamli; safnaði hann liði miklu í því skyni og fèkk liðsafla af Norvegi frá Ólafi konúngi mági sínum; en er lið það var samankomið í Limafirði, og konúngur kom eigi svo snemma, sem þeir vildu, leiddist Dönum að bíða hans og rufu leiðángurinn og hèldu heim; en er Knútur konúngur kom til Limafjarðar varð hann reiður við og lagði stór gjöld á þegna sína fyrir óhlýðni þeirra, en Jótar risu öndverðir í móti, söfnuðu liði og veittu konúngi aðgöngu í Óðinsey og drápu hann þar í kirkju einni (1086). Eptir Knút helga kom til ríkis *Ólafur* bróðir hans; hann var óvinsæll af þegnum sínum; var um hans daga hallæri

1) Íngiríður dóttir Sveins konúngs Úlfssonar var gipt Ólafi kyrra Norvegs konúngi Haraldssyni hins harðráða.

mikið í Danmörku og lögleysur; hann var kallaður Ólafur húngur og dó 1095; var hann ekki harmdauði Dönum. Honum næstur tók konúngdóm í Danmörku *Eiríkur* bróðir hans (1095—1103) hinn góði (*Eiegoð*). Hann «reisti upp lög í landinu og leiðrètti siðu manna», og stýrði ríki sínu með miklum skörúngskap». Hann fèkk leyfi til þess af páfanum, að erkibiskupsstóll skyldi vera í Danmörku. Eiríkur konúngur andaðist í Jórsalaferð í eyunni Kípur (*Cyprus*) og kom þá *Nikulás* (eða *Niels*) bróðir hans til ríkis í Danmörku (1104—1134); hann var siðastur konúngur þeirra Sveins sona. Á því sama sumri, sem Nikulás kom til ríkis, settist erkibiskup að stóli sínum í Lundi, var þá hin danska kirkja laus af yfirráðum Brimabiskups.

## Hin rómversk-katólska kirkja.

### 1. Upphaf hennar.

Öndverðlega á dögum kristninnar hófust biskupar til hinna æztu valda í andlegum eða kirkjulegum málefnum, því að svo þókti, sem þeir hefði það vald frá guði. En á meðal hinna mörgu biskupa út um löndin urðu þeir efstir að tign, er sátu í höfuðborgunum[1], bæði sökum þess, að slíkar stórborgir höfðu hin mestu áhrif á lönd þau, er umhverfis lágu, og svo hins vegna, að menn sögðu, að postularnir sjálfir hefði sett kirkjur í þeim sömu borgum, og sem yfirbiskupar þessir þjónuðu. Yfirbiskupar þessir — er kallaðir voru *Metropólítar* — stefndu mönnum saman til *kirkjuþínga* og stýrðu þeim ásamt keisara, og á þeim þíngum var fyrst fram eptir öldum skorið úr ýmsum málum viðvíkjandi kirkjustjórn og lærdómssetníngum kirkjunnar.

Hinir helztu Metropólítar voru biskuparnir í þeim 4 höfuðborgum hins rómverska ríkis: *Róm*, *Alexandría*, *Antiokkía* og *Konstantínópel*; þeir lètu kalla sig *Patríarka* og tóku sèr yfirráð yfir öllum öðrum Metropólítum. En veldi patríarkanna á Sýrlandi (Antiokkía) og Egyptalandi (Alexandría) leið undir lok, þegar Múhamedstrúarmenn af Arabíu fóru herskildi yfir þau lönd. Hin *gríska* kirkja (Konstantínópel) skildist snemma á tímum við hina vesturlenzku, að því er snerti kirkjustjórn og trúargreinir, og þannig varð það, að hinn *rómverski* yfirbiskup (patríarki) fèkk æztu yfirráð kirkjunnar í öllum vesturlöndum

1) Sbr. Fornaldarsöguna bls. 233 og 240—41.

álfu vorrar, sá biskup, sem hafði aðsetu í *höfuðborg hins forna heims*, á þeim stað er heilagur *Pètur* hafði grundvallað kirkju sína, og sem hèlt því fastlega fram, að hann kendi trúargreinir kirkjunnar hreinar og ómeingaðar eins og postularnir hefði sjálfir flutt þær. *Gregoríus hinn mikli* (590—604), siðvandur maður, gjörði guðsþjónustuna í Rómaborg miklu viðhafnarmeiri en áður hafði verið bæði með söng, ljósum, reykelsi og hátíðlegri messufórn; varð sú guðsþjónustugjörð fyrirmynd allra kristilegra tíðahalda í öllum vesturlöndum. Við lærdómssetníngar kirkjunnar jók hann kenníngunni um *kvöldmáltíðar sakramentið*, svo sem ítrekun friðþægjandi pínu og dauða drottins, hann jók og við kenníngunni um *hreinsunareldinn*, svo sem reynslu eða þrautum, er hinir dauðu yrði að þola (sálumessur).

Hinn *rómverski biskup*, eða *páfinn*, sem hann einkum var nefndur, stóð framan af öldum undir jarli (*Exark*) hins austrómverska keisara í Ravenna (bls. 8). En er Lángbarðar lögðu jarlsdæmi þetta undir sig og vofðu yfir Rómaborg, og páfi hafði beðið keisarann í Konstantínópel hjálpar, en fèkk enga liðveizlu þaðan, þá snèri páfinn sèr, í nafni hins heilaga Pèturs, til Frakkakonúngs er hann hafði krýnt, og *Pipín* konúngur tók jarlsdæmið (*Exarkatið*) gríska frá Lángbörðum og fèkk það páfanum í hendur (756). *Karl mikli* staðfesti síðan (800) það er faðir hans hafði gjört og gefið. Síðan krýndi páfi Karl mikla til keisara yfir hinu vestlæga rómverska ríki, og kom þannig fram eigi einúngis sem óháður keisara, heldur einnig eins og sá, er að dæmi höfuðprests þeirra Gyðínganna, hefði vald til að veita þeim konúngdóm er hann vildi.

## II. Útbreiðsla hinnar katólsku kirkju.

Lærdómssetníngar hinnar rómversku kirkju, bæði um trúna og að nokkru leiti um stjórn kirkjunnar, breiddust smásaman út um öll vesturlönd Evrópu. En *kenníng Ariusar*, er flestar þjóðir í hinu rómverska ríki annarstaðar en á Ítalíu fylgdu fyrst framan af öldum, varð að rýma sæti fyrir *páfatrúnni* (*katólsku trúnni*), enda var páfatrúin nær orðum og anda hinnar kristilegu trúar. *Frakkar* og *Búrgundar* urðu að breyta trú sinni eptir boðum hins katólska Kloðvíks og sona hans (bls. 12); *Bekkareð* konúngur Vestgota á Spáni tók hina katólsku trú (589) og fjöldi af

þegnum hans, og var vel hlyntur katólskum klerkum. *Gregoríus mikli* kom því til leiðar, að mikill fjöldi Lángbarða tók katólska trú; vaknaði þá sundurþykkja meðal sjálfra þeirra, en páfinn færði sèr hana í nyt til þess að auka vald sitt meðal þeirra. Gregoríus lèt einnig boða kristni og páfalegt veldi meðal Engilsaxa. *Ágústínus* sendiboði hans var fyrstur erkibiskup í Kantaraborg (597), aðsetri hinnar rómversku kirkju á Englandi. Frá hinni engilsaxnesku kirkju breiddist aptur á áttundu öld páfatrúin til hinnar *írsku* og *brezku* (í Wales) kirkju, er þángað til höfðu verið óháðar hinu rómverska kirkjuveldi. Hinn engilsaxneski múnkur *Vinfriður (Bonifacius)* boðaði um *Þýzkaland* kristna trú og páfaveldi; hann varð eptír páfans boði erkibiskup í *Mainz* (745), setti biskupsstóla og klaustur víða um Þýzkaland og var hinn mesti styrktarmaður að útbreiðslu páfaveldsins. Hann reyndi líka til að koma hinni *frakknesku kirkju* undir yfirráð páfans, en það gekk eigi eins greiðlega. Bonifacius leið píslarvættis dauða á kristniboðsferð sinni meðal *Frísa* (755); þeir voru ramheiðnir og hinir mestu ribbaldar. Hin kristna kirkja á Norðurlöndum, er *Ansgaríus* setti fyrstur á stofn, stóð einnig undir yfirráðum páfans, þótt þeirra gætti minna sökum fjarlægðar frá stóli hans.

### III. Hið katólska kirkjuveldi (Páfaveldið).

Kirkjurnar í hinum rómversk-kristnu ríkjum mynduðu allar til samans eitt afarmikið fèlag: hina rómversk-katólsku kirkju; en höfuð kirkjunnar var páfinn í Róm. Undir hann lutu allir erkibiskupar, biskupar og allur klerkalýður frá hinum efsta til hins neðsta. Eptir ýmissa mótspyrnu hjá ýmsum þjóðum, varð það loksins að almennri reglu, að klerkar skyldi klerka dæma í öllum málum, en þeir skyldi vera undanþegnir öllu verzlegu dómsvaldi. Þessi undanþága eða þessi rèttur klerkanna var síðan rýmkaður þannig, að klerkar skyldi dæma leikmenn í þeim málum, er einkum snertu yfirtroðslur á guðs lögum, t. a. m. hjúskaparmál (er meinbugir voru á), meinsæri, okur. Til þess að grundvalla og efla *kirkjurèttinn* (*jus Canonicum*) stuðlaði að miklu leyti lagasafn eitt frá síðari hluta níundu aldar, er menn eignuðu Isidórus[1] biskupi, og kölluðu *Isidórs lagagreinir* (Isidors Decretaler).

1) *Isidorus* var biskup í Sevilla á Spáni og hinn nafnfræg-

Eitt hið áhrifamesta meðal, sem kirkjan beitti til þess að breiða vald sitt út yfir lönd og lýði, var *bannið*, eða útilokun frá öllu samneyti rètttrúaðra manna, og frá nautn sakramentauna; bannið var hegníng kirkjunnar helgað frá hennar fyrstu tímum. Með »*banninu*« var kirkju-forboð það einatt samfara, er kallað var *interdictum*; var þá fyrirboðin öll prestsþjónusta og öll opinber guðsþjónustugjörð í þeirri borg eða því landi, er geymdi þann er bannfærður var. Þar sem slíku forboði var yfir lýst, var öllum kirkjum lokað, mynd Krists og allra helgra manna var hulin svörtum blæum, klukkum mátti eigi hríngja, skírn lagðist niður, kvöldmáltiðar mátti eigi neyta, hjón mátti eigi saman gefa með kirkjulegri vígslu, lík mátti eigi grafa í vígðri moldu. Á þeim tímum, er menn voru mjög viðkvæmir í trúarefnum, og jafnvel hjátrúarfullir, og öllum þókti sem náðarmeðöl kirkjunnar greiddi mönnum einan og sannan veg til sáluhjálpar, gat ekkert land til lengdar staðizt undir slíku banni, og jafnvel hinir voldugustu konúngar urðu að beygja sig undir vald kirkjunnar. Í þessu var fólgið vald kirkjunnar *til að binda*. En kirkjan tók sèr líka vald *til að leysa*, það er með *aflàti* að leysa menn undan þeirri hegníngu kirkjunnar, sem glæpamennirnir höfðu unnið til. Og þó eigi sè talið hið *verzlega* vald, sem páfi, biskupar og ábótar höfðu, þá hlaut kirkjan með þessum *andlegu* meðölum að ná undir sig hinum æztu yfirráðum á jörðunni.

## IV. Múnkarnir.

Þess er áður getið[1], að á öndverðri æfi kristninnar, og jafnvel fyr á tímum, tóku einstöku ráðvandir menn sig út úr mannlegu fèlagi og settust að á eyðimörkum, til þess að geta þar í næði lifað guði eptir sjálfs síns hugþótta. Þetta átti sèr einkum stað austur í löndum og suður á Egyptalandi. Þessir hreinlífu menn höfðu þá trú, að líkaminn saurgaði sálina með vondum hugrenníngum, fyrir því lögðu þeir föstur og pyndingar á líkamann. Á Egyptalandi fóru kristnir einsetumenn eða *Múnkar* fyrst að setjast í sambýli, og síðan dreifðust þeir út um allt

asti rithöfundur á 7. öld († 635). Safn það af kirkjulögum, sem honum er ránglega eignað, heitir: Collectio canonum et epistolarum decretalium.

1) Sjá »Fornaldarsöguna» bls. 241.

Rómaveldi. Bústaði þeirra, sem voru út af fyrir sig, kölluðu menn *klaustur* og forstöðumenn þeirra *ábóta*, og störf þeirra voru fólgin í bænagjörðum, söng, vísindalegu námi og bókagjörð, jarðyrkjn og ýmislegri handiðjan. *Benedikt* frá Núrsia á Ítalíu setti klaustur eitt þar í landi (*Monte Cassino*), og samdi hinar fyrstu *klaustrareglur* (529); voru þeir múnkar kendir við hann, er fylgdu þeirri reglu er hann setti, og kallaðir *Benediktsmúnkar*. Hófust síðan klaustur víðsvegar um Norðurálfuna. Þá fóru og að koma upp nunnuklaustur. Það var þrent, er múnkar þessir hètu að þeir skyldi halda: vera ókvongaðir (Coelibat), lifa við fátækt, og hlýðnast yfirboðara sínum skildagalaust; hugðu þeir þannig að geta komizt lengra áleiðis í dygðugu líferni en aðrir menn, með því að bæla niður hinar sterkustu fýsnir í brjóstum manna. En jafnvel þó menn þessir misskildi stórum mannlegt eðli og mannlega ákvörðun, þá verður hinu ekki neitað, að lifnaður múnka, framan af öldum kristninnar, var mjög ólíkur og gagnstæður vanþekkíngu þeirri og siðleysi, sem drotnaði út um löndin, og þeir kendu út frá sèr marga þarflega hluti, svo að opt risu þar upp fjölmennar og auðigar borgir í nánd við klanstrin.

## V. Kirkjan gjörist verzleg.

Þegar tímar liðu fram eignuðust hinir æðri valdsmenn kirkjunnar ýms rèttindi og þau ekki smá, og urðu lènsmenn konúnga og keisara, en það leiddi til þess, að þeir tóku hlutdeild í verzlegum stjórnarstörfum ríkja og landa, lètu svo kirkjunnar hagsmuni verða á hakanum, og mistu fyrir þá sök álit sitt og þýðíngu í andlegum og kirkjulegum málefnum. Klerkar, sem ekki höfðu bundizt múnkareglu, máttu kvongast, og var þá allhætt við, að heimilis hagur þeirra og ættmanna gagn sæti í fyrirrúmi fyrir þörfum kirkjunnar, eða að jafnvel væri reynt til að láta embætti hennar gánga í erfðir til sona þeirra og niðja. En er klerkar þannig liktust leikmönnum í framferði sínu og háttalagi, fór svo fjærri því, að þeir gæti að nokkru liði staðið móti hinni miklu siðaspillíngu og vanþekkíngu, er þá átti sèr stað meðal þjóðanna, að þeir miklu fremur áttu mikinn og illan þátt í þeim óaldar sið er þá gekk alment yfir.

Hins vegar litu konúngar og aðrir veraldarhöfðíngjar svo á

*biskupadæmin,* sem þau hefði mjög *verzlega þýðíngu fyrir stjórn sína,* og leituðust þess vegna við að skipa til þeirra embætta þeim mönnum, er sjálfum þeim voru velviljaðir og háðir. Þegar því menn voru til þeirra kosnir var hagur kirkjunnar látinn verða útundan. Jafnvel sjálf *páfakosníngin* í Róm var komin undir flokkadráttum höfðíngjanna eða afskiptum hinna þýzku þjóðkonúnga. Og þar eð nú konúngar og hirðmenn þeirra litu sömu augum á embætti hinnar andlegu stèttar sem hinnar veraldlegu, þá var þess skamt að bíða, að hin andlegu embætti gengi kaupum og sölum. Verzlegir höfðíngjar seldu biskupsembætti; biskupar bættu sèr skaðann og seldu hin lægri embætti kirkjunnar. Þannig fengust öll kirkjuleg embætti keypt og seld. Þessa svívirðíngu kölluðu menn *Símoní,* eptir Símoni þeim er kaupa vildi hinar andlegu náðargjafir af postulunum.

VI. Viðrèttíng kirkjunnar. Gregoríus sjöundi.

*Hildibrandur* er maður nefndur, hann var ítalskur og af lágum stigum, og segja sumir að faðir hans væri járnsmiður, en sumir segja annað. Á ýngri árum var hann um hríð múnkur í klaustri einu á Frakklandi. Þar hitti Leó páfi hinn 9. hann, og með honum fluttist Hildibrandur til Rómaborgar, og komst brátt í ráðaneyti páfans (1048). En upp frá því færðist nýtt líf og fjör í stjórn páfans og hver framkvæmdin fylgdi á eptir annari, er miðaði páfaveldinu til viðrèttíngar og framfara. Hin gríska kirkja var fyrir löngu orðin ærið ólík hinni rómversku, bæði í kenníngu sinni og kirkjustjórn, svo að engar líkur voru til að þær myndi nokkru sinni geta samlagazt aptur hver annari og orðið að einni kirkju. Og þá gjörði Leó 9. skilnað þeirra að fullu, er hann *lýsti banni yfir hinni grísku kirkju* (1054). En hvortveggja kirkjan, bæði hin rómverska og hin gríska, vildi samt sem áður láta nefna sig «*hina katólsku kirkju*»[1]. Viðrèttíng kirkjunnar hafði sín upptök frá páfastólnum sjálfum. *Nikulás annar* lýsti yfir því (1059), að hinir rómversku *kardínálar* ætti einir saman að ráða páfakosníngum, en leikmenn skyldi þar engan þátt í eiga.

Árið 1073 settist Hildibrandur í postullegt sæti og tók sèr

1) Það er: hin *almenna kirkja,* sem gengur yfir allar þjóðir, og sem boðar *öll sannindi* guðlegrar opinberunar.

þá nýtt nafn, eins og páfum var títt, og nefndist *Gregorius sjöundi*. Þegar hann var nýkominn til valda gjörði hann tvö nýmæli, er öllum þókti mikils um vert. *Annað* var það, að upp þaðan í frá mætti *enginn klerkur kvongast*, heldur skyldi þeir allir lifa í einlífi, eins og múnkum hafði áður verið boðið (*Coelibatus*). Tilgángur páfans var sá, að losa klerkana við allar hjúskapar og heimilis skyldur, öll borgaraleg störf og heims áhyggjur, svo að þeir gæti varið æfi sinni eingöngu í þjónustu kirkjunnar. *Hitt* var það, að verzlegir stjórnendur, eða *leikmenn, hefði engan rètt til að veita andlegrar stèttar mönnum nokkurt embætti*, hvort sem þeim fylgdi lèn frá krúnunni eða ekki, því að kirkjan ein hefði vald til að skrýða menn tignarbendum (*pallium*[1]) hins helga embættis og veita þeim biskupslegan bagal og hríng (*Investitura*). Nýmæli þessi mættu afarmikilli mótspyrnu, bæði af klerkum og af þjóðhöfðíngjum. Klerkarnir mæltu harðlega móti hjúskaparbanninu; þó hafði páfinn sitt mál fram, en víðast leiddi það til frillulífis meðal klerkanna, eins og við mátti búast; en hin lögin, um embættaveitíngu klerkanna, snertu beinlínis rèttindi þjóðhöfðíngjanna og rírðu þau, og af þeim risu megnar deilur um alla Norðurálfuna, er sumstaðar urðu aldrei til lykta leiddar. Gregorius lèt ekki á sig fá, þó menn risu öndverðir gegn þessum nýmælum hans. Hann var manna skarpskignastur og allra manna þrekmestur; hann fekk komið því svo, að alþýðan æstist móti klerkum þeim, er kvongaðir voru, svo að þeim varð ekki vært, og urðu að lúta boði páfans. Hið sama er að segja um kaup og sölu embætta (Símoni); lögum þeim, er páfinn setti um það efni, framfylgdi hann af alefli, og þar fekk hann einnig lýðinn og hina óæðri lènsmenn í lið með sèr. Það kom páfaveldinu einnig í góðar þarfir, að Gregorius var mikill vinur *Matthildar hinnar auðgu markgreifa frúar* af *Toskana*, því að hún arfleiddi páfastólinn að öllum sínum eignum. Þannig hafði Gregorius veikt yfirráð konúnga og veraldlegra höfðíngja í öllum kristnum löndum þeim er páfanum lutu, en að því skapi aukið tign og veldi páfastólsins. »Það eru tvö ljós — sagði Gregoríus páfi — sem stýra heiminum, sólin, hið meira, og túnglið, hið minna ljósið. Hið postullega vald, er sem sólin, hið konúnglega vald sem túnglið. Eins og túnglið fær ljós sitt frá sólunni, eins fá

1) Um *Pallium* sjá ísl. fornbrèfasafn, ár 1255, bls. 586—587.

keisarar, konúngar og höfðíngjar allan sinn þrifnað frá páfanum, af því að páfinn þyggur sinn þrífnað af guði. Þess vegna er veldi páfastólsius miklu æðra en veldi konúngstólsins, og konúngur er páfanum háður og um hlýðni skyldur. Með því að páfinn er af guði settur, þá er alt undir hans vald gefið; hvort það er verzlegt eða audlegt á það alt fyrir hans dóm að koma; hann á að fræða, áminna, refsa, endurbæta, dæma og úr að skera. Hin rómverska kirkja er móðir allra kirkna meðal kristínna manna, og allar kirkjur eiga henni að lúta, eins og dætur móður sinni; allar áhyggjur tekst hún á hendur, og af öllum getur hún krafizt lotníngar, virðíngar og hlýðni. Hún, sem er móðir allra, hefir þess vegna yfirráð yfir öllum og hverjum einstökum í öllum greinum; þar eru tilskildir en ekki fráskildir keisarar, konúngar, þjóðhöfðíngjar, erkibiskupar og ábótar«.

Um þessar mundir var *Hinrik*, hinn fjórði með því nafni, keisari á Þýzkalandi (1056—1106). Hann var barn að aldri þá er hann kom til ríkis, og hafði fengið misjafna leiðtoga á æskuárum sínum. *Aðalbert*, erkibiskup í Brimum, var einna helztur á meðal þeirra, og hafði leyft hinum únga manni að lifa við svall og sællífi, til þess að styggja hann eigi, og geta notið vináttu hans sem lengst. Hinriki var margt vel gefið eins og föður hans og afa, en uppeldið skemdi hann. Á uppvaxtarárum Hinriks höfðu lendir menn í ríki hans leitazt við að sjá um sig og bæta sinn hag, hver eptir því sem hann bezt kunni. Þess vegna lenti Hinrik keisari þegar í stríð og styrjöld við þá, er hann var kominn til vits og ára og sjálfur setztur við stjórn. Einkum urðu mikil brögð að því á Saxlandi, og ýmsir höfðíngjar og biskupar gjörðu þar samband sín á milli gegn keisara. En þá var sem optar grunt á því góða milli þýzkra manna suður og norður í landi. Þeir suðurbyggjar fylgdu keisara og með liðveizlu þeirra vann hann sigur á Norðurbyggjum, eða Saxlendíngum (1075). En þá tóku óvinir keisarans það ráðs að leita verndar hjá páfanum, og kærðu yfirgáng keisarans fyrir Gregoriusi. Páfanum þókti bera vel í veiðar, og stefndi keisara fyrir sinn dóm, en Hinrik keisari skeytti því boði als ekki, heldur stefndi til kirkjufundar í *Worms*, og þar var lýst yfir því, að páfinn væri settur frá völdum. Gregorius var ekki seinn til svars, og bannfærði keisarann og alla þá biskupa, sem með honum höfðu staðið á

Worms-fundinum, og páfinn lét ekki þar við lenda, heldur setti hann alla þá biskupa frá völdum, sem þegið höfðu embætti sín af Hinriki keisara.

Þetta var ógnarlegt bragð af páfa; það var því nær óheyrt í sögunni að krýndur þjóðhöfðíngi væri bannfærður; enda brá nú svo við, að allir lendir menn á Þýzkalandi, sem ekki voru því betri vinir Hinriks keisara, og flestir aðrir þegnar hans, þóktust lausir við hann allra mála og sögðu honum upp hlýðni og hollustu, og lýstu yfir því, að meðan hann sæti í banni væri hann óhæfur til allrar ríkisstjórnar; kváðust þeir myndi velja sèr annan keisara, nema Hinrik næði sáttum og friði við heilaga kirkju áður eitt ár væri um liðið. Keisarinn sá að svo búið mundi eigi duga, og að hann var til neyddur að friðast við páfann; bjóst því til ferðar suður um fjöll til þess að sækja Gregorius heim og friðmælast við hann. Það var um hávetur (1077)' að keisarinn lagði af stað; var sú ferð bæði löng og erfið, því að óvinir hans sátu á öllum vegum og vildu banna honum suðurgöngu; varð því keisarinn að fara fjöll og jökla og vegleysur, og var það hin mesta glæfraferð. Loksins komst hann til borgar þeirrar á Ítalíu er *Canossa* hèt, þar var Gregorius páfi þá fyrír, en þá tók ekki betra við; fyr en páfi leyfði Hinriki viðtal við sig varð keisarinn að standa úti fyrir hallardyrum hans þrjá daga og þrjár nætur berhöfðaður og berfættur, íklæddur vondum flíkum. Á fjórða degi fekk keisarinn loksins inngöngu og náði tali Gregoríusar; leysti páfi hann þá af banni, en sagði honum þó, að hann skyldi snúa aptur heim til sín á Þýzkaland og fara með kyrð og spekt, en á engum stjórnarstörfum snerta, þángað til útgjört yrði um það á ríkisþíngi, hvort hann fengi að halda keisaratign eður eigi. Hinrik keisari vann eið að öllum þeim loforðum, og sneri því næst heim á leið. En er óvinir hans á Þýzkalandi frèttu, að hann væri leystur af banni, þá urðu þeir stórreiðir og kusu sèr annan keisara; sá hèt *Rúdolf* af *Svaben*. Hinrik keisari átti því eigi friði að fagna, er hann kom heim aptur. Hófst nú ófriður hinn mesti á Þýzkalandi. Gregorius páfi gekk í lið með óvinum keisarans, en með honum stóðu þeir af landlýðnum, sem frjálsir áttu að heita, og sem lendir menn og höfðíngjar höfðu eigi kúgað undir sitt vald, svo og flestir kaupstaðabúar, því að þeir höfðu góðs notið af keisaranum, og þeim var

eins og honum mest um það gefið, að lènshöfðíngjavaldið yrði niðurbælt. Um síðir vann keisarinn sigur á fjandmönnum sínum (1080) hjá Mersebúrg við Elsterfljót, og í þeirri orustu fèll Rúdolf hertogi; er sagt að *Gottfreð af Bouillon,* er síðar varð frægur í krossferðum, hafi felt hann.

Nú gengu nokkrir biskupar á Þýzkalandi og Ítalíu í lið með keisara; Gregoríus var settur frá völdum og annar páfi valinn í hans stað. Til þess að styrkja þann páfa til valda, hèlt Hinrik keisari liði sínu til Rómaborgar; páfinn settist í kastala þann í borginni er *Engilsborg* heitir; þar var örugt vígi, en keisarinn umkríngdi það með liðsmönnum sínum. Þá kom *Róbert Guiskard* Norðmanna höfðíngi til liðs við páfa og losaði hann úr þeirri prísund.

En það er í fáum orðum að segja frá Norðmönnum á Ítalíu, að öndverðlega á elleftu öld (1027) höfðu þeir setzt að á Suðurítalíu; voru þá synir *Tankreds af Hauteville* foríngjar þeirra. Vilhjálmur hèt hinn elzti af þeim Tankreds sonum; hann setti á stofn hertogadæmi í Apúlíu (Púl), en bróðir hans *Róbert Guiskard* lagði undir sig alla Suðurítalíu, og nefndist síðan hertogi af *Apúlíu og Kalabríu* (1057—1085). *Roger*, sem var ýngstur þeirra bræðra, fór herferð til Sikileyjar, barðist þar við Serki og vann sigur á þeim (1070). Nokkru síðar (1130) sameinaði *Roger annar*, sonur Rogers þess er nú var nefndur, bæði lönd þau er Róbert Guiskard hafði unnið, og þau sem faðir hans hafði undir sig lagt, og kallaði þau, «konúngsríkið Neapel og Sikiley» eða «báðar Sikileyjar»; í ríki þessu komu síðan upp lènshöfðíngjar eptir frakkneskri fyrirmynd.

Gregoríus páfi hafði alt til þessa litið óvinar augum til Róberts Guiskards, en nú óttuðust þeir hver um sig keisarann, og sá ótti knúði þá til að taka höndum saman og hjálpa hver öðrum. Róbert tók jafnvel ríki sitt að lèni af páfanum og hugði um stundarsakir af öllum herferðum móti Miklagarðskeisara og þeirri fyrirætlan að leggja hið gríska keisaradæmi undir sig. En í þess stað hèlt Róbert liði sínu til Rómaborgar (1084) og leysti páfann úr umsát keisarans, eins og áður var sagt; en liðsmenn Róberts Guiskards lètu engu betur en áður *Alarik* (Alrekur) og *Genserik,* og gjörðu bæði að brenna og ræna í Rómaborg. Gregoríus páfi hèlzt eigi við í borginni; flutti Róbert hann þá í

klaustur það er hèt *Monte Cassíno;* þaðan fór Gregoríus til *Salernóborgar* og þar andaðist hann (25. maí 1085), og mælti þetta síðast:» eg hefi elskað rèttlætið, en hatað ránglætið, og þess vegna dey eg í útlegð!». Róbert Guiskard andaðist á hinu sama ári.

En þó að Gregoríus sjöundi væri fallinn frá, þá voru eigi þar með á enda kljáðar þrautir og andstreymi Hinriks keisara hins fjórða, því að bæði fylgdu páfar þeir, er eptir Gregoríus komu, fastlega fram reglum þeim, er hann hafði sett, og reyndu að feta í hans fótspor að því leiti sem þeir höfðu mannskap til, en svo bættist hitt þar á ofan, að synir keisarans gjörðu uppreisn móti honum, fyrst Konráð, og, eptir að hann var dáinn, þá *Hinrik,* er síðan varð keisari og eptirmaður föður síns. Stóð sá ófriður um nokkur ár og til þess er hinn margþjáði keisari andaðist 1106.

*Hinrik* keisari sonur hans, hinn fimti með því nafni (1106 —1125), var páfum hinn auðveldasti og ljúfasti meðan faðir hans lifði, en þegar hann sjálfur var kominn til ríkis, snèrist hann á móti þeim og átti í sífeldum ófriði við þá flest þau ár, er hann sat að ríkjum; hann fór optar en einusinni herferð suður á Ítalíu og tók *Paskalis* páfa 2. höndum; en stríðinu milli páfa og keisara var eigi þar með lokið. Loksins komst sætt og friður á milli keisarans og *Kalixtusar* páfa hins annars, á þíngi því er haldið var í *Worms* (1125), á þann hátt: að biskupar skyldi kosnir af kerkasamkundu hvers biskupsdæmis (*Domkapitler,* það er einskonar klerkaráð hjá biskupum, eins og Kardinálaráð hjá páfum), en páfinn skyldi staðfesta þá kosníngu, og veita þeim er kosinn var, kápuna, bagalinn og hrínginn (*Investituren*), en hins vegar skyldi keisarinn veita biskupum land að lèni (verzlegt lèn). Þetta samkomulag (*Concordat*) milli páfans og keisarans var síðan haft eins og nokkurs konar fyrirmynd í samníngum þeim, er páfar síðan gjörðu við ýmsa konúnga í Norðurálfunni.

Þannig hafði kirkjan náð tilgángi sínum, að gjöra klerkastèttina styrka og óháða veraldlegri stjórn. En þó klerkavaldið væri nokkuð ískyggilegt og aptraði í sumu framförum hinnar veraldlegu stjórnar, þá var það þó nauðsynlegt á þeim tímum til þess að vernda líf og rèttindi manna. Klerkastèttin gat þá

með því valdi og áliti, sem hún hafði, staðið fast á móti þeirri harðýðgi og siðleysi, manndrápum og margvíslegri grimd, er þá drotnaði alment meðal manna, þegar öll mentun og öll friðsamleg störf voru því nær eingöngu hjá klerkunum; þegar hagsmunir kirkjunnar kröfðust þess, gat páfinn komið fram sem verndari hinna undirokuðu lènsmanna móti hinum drambláta lènshöfðíngja, sem hlífiskjöldur borganna gegn hinum ósvífnu hermönnum, sem huggari hinna hrelldu og harmbitnu, sem athvarf ekna og útskúfaðra kvenna og föðurlausra smælíngja. Enn var það eitt á þeim tímum, sem telja mátti prestastèttinni til gildis, það, að þó menn væri af lágum stigum gátu þeir komizt til æztu valda í kirkjunni, jafnvel til páfatignar, en í öllum öðrum stèttum var eigi unt að komast til upphefðar og metorða nema menn væri eðalbornir, eða af háum stigum.

## Austurlöndin.

### Hið aust-rómverska ríki.

Hið gríska eða aust-rómverska keisaradæmi fór að vísu eigi varhluta af þjóðabyltíngunni miklu og öllum þeim ófriði er henni fylgdi, en þó stóð það allan þann storm af sèr; átti keisaradæmið það að þakka bæði því, að hinar útlendu þjóðir, er þá byltu sèr vestur yfir löndin, beindu aðalárásum sínum einkum og sèr í lagi að hinum vestlægari hluta Rómaveldis, og líka því, að hin austlægu skattlönd, er lutu keisaranum í Konstantínópel (Miklagarði), voru auðugri og betri en vesturlöndin, og gátu því bæði greiðara og betur látið það í tè, er keisararnir þurftu til viðurhalds og varna, og að síðustu eigi hvað sízt því, að Konstantínópel var sett á svo ágætlega hagkvæmum stað og vel víggirt, en þjóðir þær, sem að sóktu, kunnu á þeim tímum mjög lítið að borga-umsátum, eða þeirri hernaðargrein að vinna víggirtar borgir. Konstantínópel var um margar aldir einskonar miðbik austurlandanna sökum verzlunar sinnar og auðæfa og hinnar grísku mentunar, er þar átti heima síðan í fornöld. Keisarar þeir, er þar sátu að völdum, voru allflestir ómerkir menn og lítt nýtir, herlið þeirra var útlent málalið, óhóf og eyðsla átti sèr stað við hirðina, og þar sem alt var haft í sukki, þá kom það þúnglega niður á skattlöndunum; að öðru leiti fór ríkis-

stjórn þar fram eptir því skipulagi sem Konstantínus mikli hafði sett[1].

Þegar kom fram á 6. öld eptir Krist, var svo að sjá sem lifna mundi að nýju yfir ríki þessu. Þá sat *Jústiníanus* 1. að völdum (527—565), og þó hann væri enginn aðkvæðamaður, þá kom honum til hugar, að ná undir sig aptur öllu Rómaveldi hinu forna; hann hafði ýmsa afreksmenn í þjónustu sinni, t. a. m. *Belisarius*, er vann Vandælaríki í Afríku (534), eptir að það hafði staðið um hundrað ár, og *Narses*, er vann Austgotaríki og Ítalíu (553). En þó þetta tækist vel, þá gekk elgi betur en svo austur í löndum, að Persar fóru herskildi inn í lönd keisarans, og kúguðu hann til að gjalda sèr skatt. *Slafar* brutust að norðan inn yfir landamæri og óðu suður á Grikkland; í sjálfri höfuðborginni Konstantínópel var upphlaup og ófriður, sem keisarinn nauðuglega gat sefað. Þó var þar um þessar mundir í ákafa verið að reisa kirkjur, og hin mikla og skrautlega Soffíukirkja er frá þeim tímum. En hið bezta og merkasta, sem liggur eptir Jústinianus keisara, er lagasafn það hið nafnfræga, sem safnað var um hans daga, og sem *Trebónianus* ráðgjafi hans einkum gekst fyrir og átti mestan þátt að. Alt lagasafnið hèt *Corpus juris Justiniani,* og í því voru bæði tilskipanir hinna fornu keisara (*codex Justinianeus*), lærdómsbók í lögfræði (*institutiones*), safn af álitsskjölum og úrskurðum nafnkendra lögfræðínga (*pandectæ, digesta*), og rèttarbætur eða nýmæli Justinians (*novellæ*). Hefir lagasafn þetta haft meiri eður minni áhrif á löggjöf allra þjóða í Norðurálfunni, og verður frægt um aldur og æfi sökum ágætis síns. Hinn merki sagnaritari *Prokopíus* var og uppi um þessar mundir; hann ritaði meðal annars »sögu sinna daga«.

Þegar þetta er talið, sem nú er nefnt, er sagan af hinu gríka keisaradæmi alt annað en glæsileg. Í höfuðborginni, Konstantínópel, voru einatt óeirðir og blóðugar stjórnbyltíngar; þar við bættust og trúarbragðadeilur og styrjaldir, sem dreifðust út um ríkið til allra hèraða, og urðu mjög mannskæðar; það sem menn einkum þráttuðu um, var eðli Krists, hvort það væri eitt eða tvent, eða hvort vilji hans væri einn eða tvenskonar.

Eptir Justinianus keisara kom *Justinus annar* til ríkis (†

1) Sbr. Fornaldarsögu, bls. 234—235.

(578); á hans ríkisstjórnarárum unnu Lángbarðar því nær alla Ítalíu, sem áður er sagt (bls. 8). Af keisurum þeim, er eptir hann komu til ríkis, má einknm nafngreina *Heraklíus* (610—641). Þegar hann tók við stjórn, var ríkið í miklum kröggum, því að Persar höfðu þá unnið því nær öll þau skattlönd, er keisarinn átti í Asíu, og það var mesti og bezti hluti ríkisins, þar að auki höfðu þeir náð yfirráðum á Egyptalandi, en að norðan streymdu *Avarar* inn í ríkið, og vorn þá og þegar setztir um Konstantínópel. Heraklíus keypti Avara af höndum sèr, snerist síðan í móti Persum og það með þvílíkum dugnaði og hamingju, að engu var líkara en aðförum Trajans keisara forðum. Keisarinn vann aptur undir sig öll skattlöndin og rak Persa allar götur austur yfir Eufrat. Það var hin síðasta viðureign Persa og íbúa hins austrómverska ríkis, en sigursæld Heraklíusar veitti að eins stundarfrið, því að þá komu *Arabar* og lögðu lönd og þjóðir undir sig, sem síðar mun sagt verða.

Eptirkomendur Heraklíusar keisara sátu að völdum til 711, og áttu mikinn ófrið við Araba. Það var galli á ríkisstjórn hins griska keisaradæmis, eins og fyrrum í Rómaborg, að ríkiserfðir (konúngserfðir) voru eigi fast-ákveðnar með lögum; þess vegna bar það opt við í Konstantínópel, að borgarskríllinn og herliðið leyfði sèr að ráða því, hver til ríkis kæmi, þegar keisaralaust var, og settu jafnvel stundum keisara frá völdum. Þannig liðu nokkur ár frá því að Heraklíus keisari dó, og til þess að *Leó þriðji* frá *Ísáríu* kom til ríkis (717). En það er helzt frá honum að segja, að honum má eigna trúarbragðastríð það, er þá hófst í ríki hans, og sem stóð lángt fram yfir hans daga. Hann bauð að taka burt úr kirkjunum allar helgra manna myndir og líkneski, sem þjóðin af heimsku sinni dýrkaði miklu fremur en drottinn sjálfan. En þessi heiðinglega tilbeiðsla var orðin svo römm og rótgróin hjá þjóðinni, að keisararnir rèðu ekki við neitt, og þar kom að *Irene* drotning, er var samtíma Karlamagnúsi, varð að láta undan og leyfa að líkneskin væri sett aptur í kirkjurnar. Ófriður þessi komst einnig vestur á Ítalíu, þar hèldu allir páfans taum, og það gaf meðfram tilefni til þess, að veldi hinna grísku keisara hnignaði á Ítalíu. En það er frá Irene drotníngu að segja, að hún lèt blinda *Konstantínus* son sinn, til þess að geta sjálf sem lengst setið að völdum. Síðan

var hin grimma drotníng rekin frá ríkjum, og dó í fátækt á ey einni út í Grikklandshafi. Eptir ýmsar óeirðir kom *Basilius hinn fyrsti* til ríkis (867). Hann og eptirkomendur hans eru kendir við Makedoníu, þaðan sem þeir voru. Sú ætt sat að ríkjum hátt á annað hundrað ára. *Nikeforos* keisari, einn af þeirri ætt, vann aptur Krítey frá Aröbum, og *Basilius* keisari, hinn annar með því nafni, lagði *Búlgara* undir sig (1018); þeir voru túrönsk þjóð og höfðu yfirráð yfir allvíðlendum sveitum norður við Dóná.

Keisaraættin frá Makedoníu leið undir lok 1056, og þá kom *Isak Komnenus* til ríkis; sú ætt sat að völdum til 1185. Þeir frændur (Komnenusættin) voru margir allnýtir höfðíngjar. Frá miðri elleftu öld fóru *Seldsjúkar* (Seldschuker) að gjöra árásir á ríkið og þá mistu Grikkja keisarar megnið af Litluasíu. Norðmenn tóku leifar þær, sem keisarinn átti á Ítalíu, og Robert Guiskard fór herskildi austur á Grikkland. *Alexius Komnenus* var Grikkjakeisari frá 1081—1118; það var ágætur höfðíngi bæði hraustur og vitur.

Þess hefir verið getið hèr að framan, að *lènsdrotnar* og *lènshöfðíngjadæmi* átti sèr hvervetna stað vestur og norður í löndum álfu vorrar. En þessu var öllu háttað á annan veg í hinu austrómverska eða gríska keisaradæmi. Þar voru engir lènsdrotnar. Keisarinn sjálfur var miðbik allrar ríkisstjórnar, en hafði sína landsstjóra út um skattlöndin, eins og fyrrum var siður hinna rómversku keisara. Stjórnin var hörð, optast eyðslusöm og óvinsæl, og skattaálögur þúngar. Hin *gríska* kirkja fjarlægðist meir og meir hina *rómversku*, og árið 1054 bannfærðu þeir hver annan, páfinn í Róm og Patriarkinn í Konstantínópel, og þá skildi með þeim til fuls og als. Grísk mentun og listir áttu sèr stað í hinu gríska keisaradæmi meðan allar mentir láu í dái vestur í löndum, og sumir meðal Grikkjakeisara voru sannir vísinda vinir, og jafnvel sjálfir rithöfundar, eins og t. d. Konstantínus keisari Porfyrogenitus († 969).

## Múhameð og Kalífarnir.

*Arabía* eða *Arabaland* er eins og menn vita afarmikið nes (hèr um bil 48,000 ferh. mílur), er gengur í suðvestur af Asíu út til hafs, milli *rauða hafsins* að vestan og *persneska flóans*

að austan. Landið er ákaflega þurlent; þar er mjög lítið um fljót og ár, en sandauðnir ákaflega miklar, einkum norður í landi; fjöll eru þar híngað og þángað og á sumum stöðum allfagrir pálmaviðarskógar. Á suðurströnd landsins og vestur við Rauðahafið er landið grösugra, sandar minni, bygðir og borgir almennari. Þjóðin, sem búið hefir í Arabíu frá aldaöðli, er ein af hinum mikla þjóðabálki, sem kendur er við *Sem* Nóason; en bæði sandauðnir, sólarhiti og sèrstakleg afstaða landsins olli því, að Arabar komust aldrei undir yfirdrotnan útlendra höfðíngja. Þjóðin hèlt þess vegna sínu upphaflega eðli í alla staði, og var Norðurálfubúum lítt kunn fyr en á sjöundu öld eptir Krist. Landslýðurinn greindist þegar í fornöld í 2 flokka: *staðarbúa eða akuryrkjumenn*, er höfðu fasta bústaði, og *Bedúína*, er lifðu hirðíngjalífi inn í landi og höfðu eigi fasta bústaði. Þeir höfðust við í smáhópum og hver hópur hafði sinn foríngja (*Scheik*); þeir lifðu einatt á ránum, voru hinir mestu reiðmenn, vopndjarfir og frelsisgjarnir, grimmir og slægvitrir, en gestrisnir og tryggir við þá, sem þeir tóku því. Þeir virtu lítils alla þá sem í stöðunum bjuggu og þóktu þeir vera ánauðugir og ófrjálsir, og svo er enn í dag. Trúarbrögð Araba voru framan af öldum blendíngur einn, því að sumir fylgdu *Zóróasters* kenníngu (*persnesk trú*), sumir Gyðínga trú og sumir hinni kristnu trú. Áður en þessi trúarbrögð komu þar í land, höfðu Arabar trúað á stjörnur og ýmsa aðra hluti; þegar nú öllum þessum ólíku trúarbrögðum lenti saman, og þjóðin með miklu og fjörugu ímyndunarafli, þá var eigi við öðru að búast, en hugmyndir Araba í trúarefnum væri á miklu reiki. Vestan til í landinu var borg sú, er *Mekka* hèt, og var eign ættar þeirrar, er *Koreisch* nefndist, borgin var haldin helg, því að þar stóð *Kaaba*, allra hofa mest og helgast á Arabíu.

*Múhameð* fæddist í Mekka seinast á sjöttu öld e. Kr. Á æskuárum var hann í kaupferðum og fór víða um lönd; hann var mjög námfús og kynti sèr trúarbrögð og siðu ýmsra þjóða. Þegar hann hafði um nokkur ár verið í kaupferðum þessum, kvongaðist hann og átti ekkju eina, er *Kadischa* hèt; hún var vel auðug, svo að upp frá því var Múhameð engum háður og haldinn meiri höfðíngi eptir en áður. Nú kom honum til hugar að kenna löndum sínum öllum að þekkja einn sannan guð,

og sameina þá alla í eina þjóð. Maðurinn var stórhuga, háfleygur í anda, vel máli farinn, fríður sýnum og tíguglegur. Eptir að hann hafði um hríð farið einförum, kom hann fram eins og spámaður, er fengið hefði guðlega opinberun, og tók að boða mönnum nýja trú. Höfuðatriðið í kenníngu hans var þetta: »Einúngis einn guð er til, og Múhameð er spámaður hans«; en að öðru leiti var meiri hlutinn af trúargreinum hans tekinn annaðhvort úr Gyðíngatrúnni eða hinni kristnu trú. Þannig kendi Múhameð, að bæði Móses og Kristur væri guðlegir spámenn, en að sú trú, sem þeir hefði boðað, væri að eins undirbúníngur og forspjöll undir hina fullkomnu trú, er hann flytti, og sem sèr væri ætlað að gróðursetja meðal mannkynsins.

Enn fremur má hèr geta þess, að Múhameð kendi: að eins og einn einasti guð væri til, svo væri líka sál manna ódauðleg, og eilíft líf til eptir þetta, en þar lifði menn í fullkominni nautn líkamlegra gæða; sálir rètttrúaðra manna myndi lifa í forsælu hinna himnesku aldingarða í Paradís í samvist við eilífar yngismeyjar (*Houris*), en vondir menn hreppa endalausar kvalir. En þó slík Paradís sè auðvirðileg i augum kristinna manna, þá átti þessi kenníng einkar vel við skapsmuni Austurlandaþjóða, með því líka að Múhameðstrú leyfði mönnum að eiga margar konur í einu, en hins vegar var mönnum bönnuð nautn víns og áfengra drykkja. Allir, sem hans trú tóku (*Moslemim* kallast þeir), voru skyldir til á allar lundir að boða öðrum þjóðum þessa trú (*Islam*), fyrst með góðu, en, ef það gengi ekki, þá með báli og brandi. Múhameð kendi að forlög hvers manns væri fyrirfram ákveðin frá eilífð (*Fatalismus*), til þess að hvetja þá til hugprýði og fyrirlitníngar fyrir dauðanum; hann þóktist og staðfesta kenníngu sína með ýmsum táknum og kraptaverkum.

Það liðu þó nokkur ár þángað til trú þessi breiddist út um alla Arabíu; og jafnvel fyrst framan af snerust ættmenn Múhameðs svo illa við trúarboði hans, að hann varð að forða sèr og flýja til *Medinaborgar*[1]. Þar var honum vel tekið og þaðan efldist hann svo að liði, að hann tók að brjóta þá til hlýðni við sig, er í móti stóðu; því næst sneri hann til Mekka og vann

1) Frá flótta hans (*Hegira*), 15. júlí 622, telja Múhameðstrúarmenn tímatal sitt, eins og kristnir menn frá Krists fæðíngu.

þá horg og svo lauk, að öll Arabía laut honum og tók trú þá er hann hoðaði. Muhameð dó 632.

Þegar Múhameð var andaður var tengdafaðir hans *Abúbekr* tekinn til höfðíngja yfir Araba, og nefndur *Kalíf* (þ. e. eptirkomandi, eptirmaður); hann hèlt þeirri tign frá 632—634. Eptir hann kom *Ómar* til valda (frá 634—644), hann var hinn mesti hermaður og hinn ákafasti að hreiða Múhameðs trú út meðal annara þjóða, veitti honum það því hægar sem Persar og Grikkir áttust ílt við um þær mundir og sintu því ekki aðförum Muhameðs manna. Sveimuðu þeir þannig á fáum árum yfir Sýrland og Palæstínu og mættu lítilli mótstöðu; þó leyfðu þeir (Múhameðsmenn) kristnum mönnum og Gyðíngum að halda trú sinni með því skilyrði, að þeir greiddi sèr skatta; því næst tóku Arahar Egyptaland; var þar lítið um vörn af hendi landsmanna, því að þeir vildu gjarnsamlega losast undan yfirráðum Miklagarðskeisara. Hið sama ár sem Heraklíus keisari andaðist (641) unnu Arabar Alexandríu höfuðborg Egyptalands. Um þessar mundir (642) komst Persaríki í höndur Araba, og konúngsætt *Sassans* (*Sassanídar*) leið undir lok, er þar hafði setið að ríkjum um 400 ára síðan á dögum *Alexanders* keisara *Severuss*[1]. Persar urðu að láta þá trú, er þeir áður höfðu haft, og taka Múhameðs trú, og drotnar hún þar eystra enn í dag. Um þetta leiti voru allar trúargreinir Múhameds ritaðar í eina hók, sem heitir *Kóran;* er sú hók hiblia Múhameðsmanna. *Ómar* kalífi var myrtur 644. Eptir hann kom *Óthman* eða *Ósman* til valda (644—656), og fekk sömu æfilok sem Ómar fyrirrennari hans. Þá loksins komst *Ali,* er átti *Fatime* dóttur Múhameðs, til Kalíf-tignar; en þá rèð jarl sá fyrir Sýrlandi er *Moawyah* hèt af *Ommýah-ætt*; hann var hinn mesti óvinur Ala og hóf uppreisn í móti honum; fèll Ali í þeim óeirðum (660). Kom þá *Ommýadanna* ætt til valda og sat að ríkjum 90 ár, og þá varð hin skrautlega horg *Damaskus* höfuðstaður í Kalífa ríkinu. En er ættmenn þessir hófust til valda, kom upp ágreiníngur mikill meðal Múhameðs manna, svo að þeir skildust að í tvo flokka, og er svo enn; heitir annar flokkurinn *Schitar* en annar *Sunnitar.* Hinn fyrnefndi flokkur fylgdi Ala að öllum málum, og þeir tóku ekki aðra Kalífa gilda, en þá sem komnir voru af Múhamed, eða af Fatime dóttur hans

1) Fornaldarsagan, bls. 225—26.

(Fatimidar), í trúarefnum fylgja þeir því einu, er ritað finst í Kórani; til þessa flokks teljast Persar nú á dögum. Hinn flokkurinn, Sunnítar, og þar til teljast Arabar og Tyrkir, bindur ekki kalífatignina við Múhameðs ætt, en stendur á sama hverrar ættar menn yfir þeim drotna; þeir fylgja einnig í trúarefnum ýmsum reglum og sögusögnum (Sunna) auk þess sem í Kórani finst ritað.

En þó að ágreiníngur þessi ætti sèr stað, þá lögðu Kalífar um daga Ommyadanna lönd og eyjar undir sig. Þeir komu sèr upp herflota, herjuðu um Kyprus-ey, Litluasíustrendur og til Konstantinópel; sóktu Arabar að borginni í 7 ár, hvort eptir annað (668—675), en feugu eigi tèkið hana, því að borgin var ramlega víggirt og Grikkir brendu skip Araba með hinum nafnkenda *»gríska eldi«*, er gjörður var af því efni, er logað gat í sjó sem á landi, en nú þekkja menn ekki þetta eldkveikjuefni. Á ofanverðri 7. öld unnu Arabar allar norðurstrendur Afríku undan Grikkjum vestur að útsjónum; hvarf þar síðan öll mentun og kristin trú, er áður stóð þar með miklum blóma, en Arabar komust í samband við *Berba* er bjuggu fyrir þar í landi og voru komnir af hinum fornu Máritaníu- og Númidíu mönnum; Kartagó var lögð í eyði en Kairwan-borg kom í hennar stað. Mikinn hluta Indlands unnu Arabar á dögum *Al Welids* Kalífa (705—714).

En Arabar lètu eigi þar við lenda. Í þetta mund voru óeirðir á Spáni. *Roderik* Vestgotakonúngur var orðinn missáttur við höfðíngja nokkra og klerka þar í landi; leituðu þeir þá liðs hjá jarli þeim í Afríku er *Músa* hèt; honum þókti bera vel í veiðar og sendi hershöfðíngja þann er *Tarík* er nefndur norður yfir sundið til Spánar. Stigu Arabar þar á land á Spáni, er hamrar voru fyrir, og kölluðu hamarinn: *Gebel al Tarik* þ. e. Tarisk klett; þar heitir nú *Gibraltar*. Róderik konúngur safnaði liði og bar fundum þeirra Tariks saman hjá borg þeirri í Andalúsíu er heitir *Xeres de la Frontera* (711). Þar varð hin mesta orusta og lauk svo, að kristnir menn biðu ósigur fyrir Aröbum (Serkjum) og Róderik konúngur fèll. Leið Vestgotaríki þannig undir lok, en Arabar unnu allan Spán, og brutust síðan norður yfir Pyreneafjöll, en þá kom *Karl Martel* í móti þeim og vann sigur á þeim við *Poitiers* 732, eins og áður er sagt (bls. 15); hörfuðu Arabar eptir þann ósigur suður fyrir Pyrenea fjöll, er

þannig urðu einskonar merkigarður milli kristinna manna og Múhameðsjátenda. Um þessar mundir náði Kalífaríkið austan frá Indlandi og Tartaríi vestur að Atlantshafi, það var yfir 200 dagleiðir vegar á lengd frá austri til vesturs. En því víðlendara sem Kalífaríkið varð, því erfiðara var að halda því öllu saman. Ommýadarnir hneigðust til harðstjórnar, og þá kviknaði ófriður í ríkinu; árið 750 var þeim steypt frá völdum, og sú ætt kom til ríkis er *Abbassídar* hètu. Svo nálega fèllu allir Ommyadar í stjórnarbyltíngu þessari, að einúngis einn maður af þeirri ætt hèlt lífi og komst á flótta undan til Spánar; hann hèt *Abderrhaman* og setti ríki á stofn í *Kordóva* á Spáni, og var óháður hinu mikla Kalífa ríki. En *Abbassídar* fluttu sig frá Damaskus og tóku sèr bústað í *Bagdað* austur við Tígris-á; sá hèt *Al Mansúr* (754—775), er fyrstur hafði þar aðsetu af Kalífum; varð sú borg síðan bæði mikil og fræg.

*Abbassídar* hugðu fremur á friðsamleg störf en hernað; verzlun og iðnaður tók miklum framförum og vísindi og mentir blómguðu, einkum stjörnufræði, mælingafræði og náttúruvísindi; ýmsum ritum Forngrikkja var snúið á túngu Araba, þar á meðal ritum Aristotelis spekings, og þá voru samdar ýmsar sögur og ýms kvæði, sem enn eru til, t. a. m. hið nafnkunna sögusafn «*þúsund og ein nótt*»; menn hafa því kallað þetta tímabil gullöld Kalífaríkisins. En einmitt þessi friðsamlega og vísindalega stefna Kalífanna varð fyrsta undirrót til þess, að ríki þeirra veiktist, skiptist í smærri ríki og leið að síðustu undir lok; trúarofsi og hernaður hafði myndað þetta mikla ríki og haldið því saman framan af æfinni, en er þetta hvorttveggja fór mínkandi, þá tók veldi Kalífanna þegar að hnigna; þar við bættist og, að hinn nafnfrægi Kalífi *Harún al Raschið*, sonarson Al Mansúrs, og samtíða Karlamagnúsi, skipti ríkinu milli sona sinna, og frá þeim tíma hófust styrjaldir um ríkiserfðir, sem stórum spiltu velmegun ríkisins. Þegar jarlar Kalífanna út um ríkið fóru að hefja uppreistir, reyndu Kalífarnir að styrkja veldi sitt með því að hafa um sig lífvörð mikinn (50000) af tyrkneskum hermönnum; en hinir tyrknesku lífvarðarforingjar í Bagdað urðu bráðum ofjarlar Kalífunum eins og fyrrum lífvarðarforingjar hinna rómversku keisara, og þar kom um síðir, að þessir tyrknesku foringjar, er kallaðir voru *Emir al Omrah,* náðu undir sig allri

ríkisstjórninni, svo að Kalífarnir í Bagdað urðu ekki annað en yfirráðendur Múhameðsmanna í trúarbragða efnum þeirra.

Þegar Kalífaríkinu þannig fór að hnigna risu upp ýms ný ríki á rústum þess. Eitt af þeim ríkjum er þá komu upp á 10. öld var í *Túnis* á *Afríku; Kairvan* var þar höfuðborg; þaðan lögðu Arabar undir sig Sikiley, og höfðu öll yfirráð á Miðjarðar hafinu. En er *Fatimidar* (afkomendur Ala og Fatime) komust til valda í Kairvan, lögðu þeir Egyptaland undir sig og settu Kalífastól í *Kairoborg* þar í landi, er mjög þröngvaði kostum Kalífans í Bagdað. En er Fatimidar voru feldir frá ríki, komu upp önnur og smærri ríki; eitt hið helzta af þeim var kent við *Moravida*, er á miðri elleftu öld brutu undir sig lönd og þjóðir á Norðurafríku; þeir settu ríki á stofn í *Marokkó*. Ríki Fatimidanna á Egyptalandi kollvarpaði *Saladin* (1171).

Einnig í *Asíu* skiptist Kalífa ríkið sundur í ýms smærri ríki. Þannig kom upp í Austur-Persíu (Afganistan) hèr um bil 1000 árum e. Kr. *Ghasnaríkið*, svo nefnt af höfuðborginni *Ghasna;* það ríki náði yfir mikinn bluta Norður-Indlands; en eptir nokkra manusaldra komu tyrkneskar hersveitir er *Seldschukar* (Seldsjúkar) nefndust, eptir Seldschuk fyrirliða þeirra, norðan úr löndum, og kollvörpuðu því; settu Seldschúkar síðan ríki eitt á stofn er varð ákaflega víðlent og voldugt. Þeir voru einn ættbálkur af hinum margmennu Mongolaþjóðum, austur og norður í Asíu, og höfðu á ofanverðri 10. öld tekið Múhameðstrú. Einn af eptirmönnum Seldschúks hèt *Malek* (┼ 1092); á hans dögum náði ríki það, er hann stýrði, austan frá Kínlandi vestur til Miðjarðarhafs, og norðan frá Samarkand suður á Arabíu. Eptir hans dag skiptist aptur það ríki sundur í önnur og smærri. Lönd þau í Vestur-Asíu, er Miklagarðskeisari hafði áður átt, voru til samans kölluð *Rúm*. Landstjórinn (Súltan) í þessum hluta Seldschukaríkis bjó í borg þeirri, er *Ikonium* hèt, nú heitir það *Konjeh* í Litlu-Asíu sunnanverðri.

*Ommyadar* á Spáni, er sátu í *Kordóva*, eins og áður er sagt, voru hinir fyrstu, er gengu undan Kalífaríki, og urðu sjálfum sèr ráðandi. Þeir eru mjög merkir fyrir þá sök, að þeir efldu vísindi og listir, og unnu alskonar fróðleik og mentun; fór svo mikið orð af því, að margir kristnir menn norðan úr álfunni sendu sonu sína suður á Spán til læríngar. Einn af

kalífunum (því svo nefndu þeir sig) í Kordóva, *Abderrhamann þriðji* (912—961), er var samtíða Ottó keisara mikla, varð svo frægur, að menn líktu ríkisstjórn hans við ríkisstjórn *Salómons* konúngs á Gyðíngalandi. Stóð alt um þær mundir með miklum blóma á Spáni. Kristnir menn og Gyðíngar sem þar voru í landi áttu einnig við allgóð kjör að búa. Síðan breyttist þetta alt og varð óöld af. Ommyada-ríkið á Spáni leið undir lok 1031 og skiptist í smá ríki; hin helztu, er þá komu upp, voru *Granada, Kordova, Sevilla,* o. fl.

### Hin kristnu ríki á Pýrenea-skaga.

Það fór eins fyrir *Vestgotum* á Spáni eins og flestum öðrum þjóðum, er undir verða í vopnaviðskiptum við aðra sterkari, að þá er Arabar unnu sigur á þeim, gengu sumir Vestgotar til hlýðni við þá og gáfust á vald þeirra, en sumir flýðu undan og settust að norður í *Astúríufjöllum;* þar komu síðan upp konúngsríkin *Astúria* og *Leon.* Karl mikli lagði undir sig, eins og fyr er ritað, þann hluta Spáns, er liggur norðan frá Pyreneafjöllum suður að Ebrofljóti (»*Hin spanska mörk*«). En er ríki Karlúnga tók að hnigna, gátu þeir ekki haldið því landi, og þar komu þá upp þrjú smáríki: *Barcellóna, Aragónia* og *Navarra*, og voru þau hvort fyrir sig öðrum óháð. *Sancho Major* hèt konúngur einn í Navarra († 1035); hann eignaðist bæði *Aragóníu* og *Kastilíu* (Kastilía var partur af Leon), en skipti ríkinu þannig með sonum sinum, að *Ferdinand* fyrsti fèkk Kastilíu, *Ramíró* Aragóníu og *Garcias* Navarra.

*Ferdinand fyrsti* Kastilíu konúngur, eignaðist með drotningu sinni konúngsríkið *Leon,* og hann lagði undir sig norður hlutann af ríki því, er nú heitir *Portúgal. Alfons* 6. sonur hans er eptir hann kom til ríkis, og kappi sá er *Cid* hèt, áttu ófrið mikinn við Araba og voru jafnan sigursælir. Kristnir menn unnu einnig *Tóledó-borg* af Aröbum (1085). En Arabar fengu lið sunnan af Afríku hjá *Móraviðum,* ættmönnnm sínum, og fyrir því ofurefli biðu kristnir menn mikinn ósigur hjá *Zelaca* skamt frá *Badajoz* (1087); þó rèttu kristnir menn við aptur en Móraviðum hnignaði.

*Alfons* konúngur hinn 6. fèkk *Hinriki* tengdasyni sínum til umráða vestustu fylkin af landi því, er hann hafði lagt undir

sig. Hinrik var frakkneskur riddari frá *Búrgund* og af Capetingaættum, hreystimaðnr mikill, og hafði komið til Spánar, eins og þá var siður margra riddara, til þess að berjast við Araba. Hinrik vann ýms hèröð undan Aröbum og jók þannig ríki sitt; en er tengdafaðir hans (Alfons 6.) dó 1109, lýsti hann yfir því, að ríki sitt væri óháð Kastilíu. Sonur Hinriks var *Alfons* hinn fyrsti; hann átti ófrið við Araba, sem faðir hans, vann sigur á þeim í hinni mannskæðu orustu við *Ourikve* (1139); og eptir þann sigur tók hann sèr konúngsnafn og kallaði ríki sitt *Portugal*, eptir Óportó-höfn (*Portus Cale*) við Duero-fljót. Á ríkisþíngi í Lamego (1143) gjörði hinn nýi konúngur ýmsa skipun á um ríkisstjórn sína.

*Ramíró*, Aragóníukonúngur (1035—1063) fèll í orustu við Araba. Alfons 1. (*el batallador*) er nokkru síðar rèð þar ríkjum, varð frægur af viðureign sinni við Araba, og vann *Saragossa* frá þeim, höfuðborg Aragóníu. *Petrónella* bróðurdóttir hans giptist *Raimundi* greifa af Barcellóna, og þannig sameinaðist *Aragonia* og *Katalonia* (1137).

*Garcias*, er var elztur sona *Sancho Majors*, hafði fengið konúngsríkið *Navarra* af föður sínum. En sá var galli á gjöf Njarðar, að nokkur hluti hennar var fyrir norðan Pyreneafjöll, var því sá hlutinn jafnan undirorpinn árásum af Frökkum, en Aragonía vofði yfir hinum syðri hlutanum; þess vegna gat Navarraríki aldrei náð þrifnaði til nokkurra muna.

---

# Síðari kafli

(frá 1100 til 1517).

**Yfirráð kirkjunnar yfir þjóðum og ríkjum. Veldi kirkjunnar hnignar. Trúvillíngar. Hinar frjálsu borgir. Heimsverzlun. Yfirráð krúnunnar, hnignan lènshöfðingja.**

## Krossferðir.

### Fyrsta krossferð

Þegar á öndverðum öldum kristninnar tóku kristnir menn af ýmsum löndum að fara pílagrímsferðir til Gyðíngalands (»landsins helga») og vitja þeirra staða, þar sem Kristur hafði lifað og þar sem hann hafði látið lífið fyrir syndugt mannkyn, og smásaman hafði sú trú rutt sèr til rúms hjá mönnum, að slíkar pílagrímsferðir væri ágætt meðal til þess að eignast eilífa sælu. Eptir að Múhameðstrúar-menn, á sjöundu öld eptir Krist, höfðu unnið Gyðíngaland undan Grykkjakeisara, hèldu kristnir menn áfram ferðum sínum til Gyðíngalands, engu síður en áður, og Kalífarnir leifðu kristnum mönnum greiða för til Jórsala, og lètu þá að eins svara lágu ferðagjaldi, enda var kaupmönnum í landinu helga enginn óhagur að komu þeirra. Þess er og getið, að *Karlamagnús* keisari hafi gjört samníng við *Harún al Raschíð* á þá leið, að kristnum mönnum er kæmi til Gyðíngalands, skyldi við engu verða hætt. En er fram liðu stundir og *Fatimídar* frá Egyptalandi náðu yfirráðum á Gyðíngalandi, þókti versna hagur kristinna manna, er þángað fóru Jórsalaferðir. Þó urðu miklu meiri brögð að því eptir að Seldschuka-Tyrkir höfðu unnið »landið helga« og tekið Jórsalaborg. En alt um það fjölgaði þó ferðum pílagríma þángað til lands, einkum nálægt 1000 árum e. Kr., því að um það leiti var það trú margra manna, að dómsdagur væri þá í nánd og koma Krists fyrir höndum. Þegar komið var fram á daga Gregorius páfa hins sjöunda, bárust svo íllar sögur af meðferð Tyrkja í Gyðíngalandi á kristnum mönnum, bæði þeim

er þar voru búfastir fyrir og þeim er þángað komu norðan úr löndum, að eigi þókti viðvært, og Gregoriusi kom til hugar, að heita á kristna menn til aðgjörða nokkurra, og hrífa Gyðíngaland úr höndum Tyrkja; en það er kunnugt, af því sem áður er sagt, að Gregorius hafði fult í fángi að snúast við Hinriki fjórða Þýzkalandskeisaraa, og sú fyrirætlan fórst því alveg fyrir. En það sázt bezt, að Gregorius hafði getið nærri aldarfari öllu og hugum manna, því að 10 árum eptir dauða hans, hófust *krossferðir* þær, er hann hafði fyrirhugað, en eigi enzt til að framkvæma.

Nú verður að nefna þann mann til sögunnar, er *Pètur* hèt, og var frá Amiens-borg á Frakklandi; »hann hafði verið hermaður, en lítill fyrir sèr, og unnið ekki til frægðar«, látið síðan af hernaði og gjörzt einsetumaður; hann var lítill vexti og ógjörvilegur, en allra manna málsnjallastur. Hann hafði farið út til Jórsala (1093), og sèð þar og heyrt, hversu kristnir menn voru hraktir og hrjáðir af Tyrkjum. En er hann sneri heimleiðis aptur, hitti hann *Úrbanus* páfa annan með því nafni, og skýrði honum af öllum þeim hörmúngum, er kristnir menn yrði að þola á Gyðíngalandi. Páfinn fól honum á hendur, að fara um lönd og borgir og telja menn á að fara herferð til Gyðíngalands. Fór Pètur þá fyrst um Ítalíu og taldi menn á að fara leiðángur móti Tyrkjum; því næst hèlt hann norður á Frakkland og flutti erindi sitt vel og sköruglega, hvar sem hann kom og við hvern sem hann hitti að máli; gjörðu allir góðan róm að hans erindi. Árið 1095 stefndi páfi alsherjarþíng í borg þeirri á Frakklandi, er *Clermont* heitir; kom þar saman svo mikið fjölmenni, að enginn fèkk tölu á komið, og varð því að halda þíngið úti á víðum völlum. Talaði páfi þar lángt erindi og snjalt, og lauk svo sínu máli: »hver og einn afneiti sjálfum sèr og taki Krists kross sèr á herðar, svo að hann geti öðlast Krist! Enginn hræðist hættur eða hörmúngar, því að sá sem berst fyrir drottinn, treður ofurveldi fjandmanna sinna undir fótum! Enginn hræðist skort eður neyð, því að sá, sem vinnur drottinn, er ríkur!« Æpti þá allur þíngheimur: »Guð vill það!« (Dieu le volt), og margar þúsundir manna buðust þegar til ferðar og báðu leyfis að mega gánga í hið heilaga stríð; lètu þeir sauma rauðan kross á hægri öxl sèr og kölluðust af því *krossfarar*.

Þíngið í Clermont kveikti hinn mesta ákafa í mönnum, allir vildu krossast til Jórsalaferðar, berjast við hina vantrúuðu illþýðismenn, og vinna landið helga úr höndum þeirra; áhuginn var hinn sami hjá úngum sem gömlum, ríkum sem fátækum, köllum sem konum. Miklu ákafastir voru menn þó í Ítalíu og á Frakklandi, því að bæði var trúarofsinn þar mestur í landi, og svo höfðu menn þar einnig áður fengizt við Múhameðstrúarmenn (Serki) bæði á Sikiley og á Suður-Ítalíu. En þar til komu og aðrar hvatir og ástæður: margur var sá, er við illan kost átti að búa heima fyrir; slíkir menn hugðu gott til að komast af landi burt og losast við daglega eymd og ófrelsi. En þar sem hèr var máli að skipta um svo háleita og fagra fyrirætlan, þá dirfðist enginn að aptra þeim, að fara þessa för, er fara vildu; alþýðumenn, sem voru undirokaðir af lènsdrotnum sínum, bjuggust því hópum saman til ferða; skuldunautar fengu sig lausa frá lánardrotnum sínum, sakamenn voru leystir úr höptum; sumir gengu og í lið krossfarenda af von um herfáng og gróða.

Nokkrir sem voru ákafastir, eins og *Pètur frá Amiens* og frakkneskur riddari að nafni *Valter hinn fèlausi*, eirðu ekki biðinni þángað til menn höfðu búizt tilhlýðilega að vopnum og vistum og öðru sem hafa þurfti til ferðar. Þeir söfnuðu að sèr án allrar fyrirhyggju hinum mesta sæg af alskonar lýð, bæði fáfróðum mönnum og fèlausum, og með þetta lið, ef lið skyldi kalla, hèldu þeir austur um Þýzkaland og Úngverjaland, gjörðu á sumum stöðum óspektir en komust þó með illan leik til Miklagarðs og yfir til Litluasíu, en þá tóku Tyrkir illa við þeim og gengu af þeim dauðum; Valter fèll en Pètur komst nauðulega undan við nokkra menn og snèri aptur til Miklagarðs (1096).

Á alt aðra leið fórst öðrum herflokkum, er bjuggust til Jórsalaferðar af Frakklandi, Þýzkalandi og Ítalíu, eins og við var að búast, því að þeim stýrðu hinir göfugustu og ágætustu foringjar, er þá voru uppi. Af fyrirliðum þessum teljum vèr fyrstan og fremstan *Gottfreð* af *Bouillon*, hertoga af Neðralóthringi, hinn hraustasta mann og bezta dreng; hann hafði verið í liði Hinriks keisara hins fjórða þá er keisarinn sat um Rómaborg og barðist við Gregoríus páfa; náði Gottfreður þá fyrstur manna uppgöngu á borgarmúra. Þeir bræður Gottfreðar, *Baldvin* og *Evstakk* rèðust til Jórsalaferðar með honum. Þar næst

má telja *Húgó* greifa af *Vermandois* bróður Filippusar Frakkakonúngs, *Róbert* hertoga af Normandí, son Vilhjálms bastarðar, *Raimund* greifa af Toulouse, *Stefán* greifa af Blois, *Róbert* greifa af Flandern, *Bohemund* af Tarent, son Róberts Guiskarðs, og *Tankreð* frænda hans; voru þessir allir hinir mestu kappar og stórauðugir menn. Það var ráðagjörð þeirra að skipta liðinu og halda sína leið hverri hersveit austur um land, en síðan skyldi allar hersveitir þeirra mætast í Miklagarði; því að auðvitað var, að ef svo mikill mannfjöldi færi allur í einu lagi saman, þá mundi ófært verða að afla nægra vista á leiðinni þar sem herinn fór svo margur yfir.

Það hafði um mörg undanfarin ár verið lítið vinfengi með mönnum vestur í álfunni og í löndum Grikkjakeisara, var sú fæð einkum risin af trúarbragðadeilum, og fyrir þá sök var Grikkjum lítið um öll þessi ferðalög vestan úr löndum; það bætti ekki heldur, þegar *Alexius Komnenus*, Grikkjakeisari, er um þessar mundir sat að völdum í Miklagarði, sá að *Bohemundur*, sonur hins forna fjandmanns síns Róberts Guiskarðs, var einn af fyrirliðum hersveita þessara. Það var því fyrst eptir miklar málalengingar og marga snúninga, að Alexíus keisari leyfði krossferða mönnum greiða för austur yfir sundið til Asíu (1097), og þó að eins með því skilyrði, að þeir tæki þau lönd af sèr að lèni, sem þeir ynni af Tyrkjum, en áður hefði legið undir Miklagarðskeisara. Í mai-mánuði 1097 var allur herinn kominn austur til *Nicæaborgar* í Litlu-Asíu, og höfðíngjar allir voru þar saman komnir; þar var og kominn Pètur einsetumaður; könnuðu menn þá liðið og voru taldar 100 þúsundir velbúinna riddara, og 300 þúsundir fótgönguliðs; en ef alt er talið sem slæddist með hernum, t. a. m. konur, börn, múnkar, þjónustusveinar o. fl., þá segja menn að lítið myndi skorta á 600 þúsundir manna. Enginn var kosinn aðalforíngi yfir þenna mikla her, en hver höfðíngi stýrði sínum flokki, og var það eigi alllítil ógæfa, því að sú sundurgreiníng olli flokkadráttum og tortrygni meðal krossfarenda, en gjörði Tyrkjum hægra fyrir bæði með vörn og sókn.

Í annan stað er nú að segja frá því hvað *Tyrkir* höfðust að. Þá er þeir frèttu að ófriður var kominn í land, höfðu þeir hvervetna hinn mesta viðbúnað; voru þeir hraustir menn og all-

kænir í orustum. Þeir höfðu varnir miklar í Nicæaborg, og tóku djarflega móti kristnum mönnum, en urðu þó undan að láta og gefa upp borgina á þeirra vald, en Grikkjakeisari fèkk með svikum náð borginni undir sig, og lètu krossfarendur við það sitja, þótt þeim líkaði illa. Því næst bèldu þeir áfram ferð sinni, og skiptu liði sínu í tvær aðalsveitir. Við *Dorylæum* í Frygíuhèraði hittu aðrir þeirra 150 þúsundir Tyrkja, varð þar mikil orusta og hallaði bardaganum mjög á kristna menn, en þá kom Gottfreður hertogi að með sína sveit og rètti við bardagann og rak Tyrki á flótta. Eptir þenna sigur hèldu kristnir menn sem leið liggur til Kilikiu; en þar skildist Baldvin greifi við þá og fór með sveit manna austur í land, og tók borg þá, er *Edessa* hèt, austur við Eufrat; þar bjuggu kristnir menn, og urðu þeir fegnir komu hans; gjörðist Baldvin þar höfðingi yfir landi (1097). Meginher krossfarenda hèlt áfram suður á Sýrland og segir ekki að ferðum þeirra fyr en þeir komu að *Antiokkíu*-borg við Orontesfljót. Það var forn borg og mikil og ramlega víggirt; settust krossfarendur um borgina, en Tyrkir vörðu og gekk svo um 9 mánuði, að borgin varð eigi unnin; tóku þá kristnir menn mjög að sýkjast, og dóu margir, en sumir mistu buginn með öllu og lögðu frá. En er komið var í óefni, þá segir Bohemundur af Tarent: «eg þekki mann einn í borginni er Pyrrus heitir, hann er fús til að selja oss í hendur turn þann, er honum var fenginn til varnar, ef þèr viljið heita honum frelsi og fè að launum, en mèr og niðjum mínum því, að eg fái borgina til eignar og umráða». Á þetta ráð fèllust höfðingjar og bundu svardögum, og er nótt var kominn gengu kristnir menn í turninn og því næst í borgina og luku upp borgarhliðum, dreif þá liðið þar inn, drápu borgarmenn, og þannig náðu þeir Antiokkíu (1098). En þar með var ekki alt búið, því að nú kom óvígur her af Tyrkjum og settist um borgina, og bannaði alla aðflutninga, og ekki var annað fyrir að sjá en að allir krossfarendur myndi deyja af sulti og seyru. En þá vildi það til, að klerkur einn í liði þeirra, er *Pètur Bartólómæus* hèt, sagði liðshöfðingjum, að Andrès postuli hefði vitrast sèr og sagt, að í kirkju einni þar í borginni væri geymt spjót það, er forðum var lagt í síðu Krists. Þóktust höfðingjar þegar sjá, að slíkur fyrirburður mætti verða til þess að hvetja og styrkja hugi manna,

því að öllum mætti verða ljóst, að drottinn væri með þeim. Var nú spjótsins leitað þar sem til hafði verið vísað og fanst það þar. En er liðsmenn sáu spjótið, urðu þeir sem aðrir menn og fyltust dug og djörfúng; þusti herinn þá út úr borginni og rèðst jafnskjótt á Tyrki, sem voru ugglausir og eigi við slíku áhlaupi búnir; fóru svo leikar með þeim, að Tyrkir lögðu á flótta og námu eigi staðar fyr en austur við Eufrat; en Bohemundur varð höfðingi yfir borginni og landi nokkru þar í grend. Voru þannig tvö kristinna manna ríki komin á stofn þar eystra: þetta í Antiokkíu, sem nú var nefnt, og hitt í Edessa, er Baldvin stýrði.

Þessu næst lagði herinn upp frá Antiokkíu og stefndi til Jórsalaborgar. Þá var þar svo ástatt, að *Fatimidar*, sem áður eru nefndir, voru setztir þar að völdum, eptir að hafa rekið burtu Seldschuka; höfðu Fatimídar liðsafla mikinn í Jórsölum svo að nema myndi 40 þúsundum; en hins vegar höfðu krossfarendur mist ógrynni liðs bæði í bardögum og í sóttum og með ýmsu móti, svo að sagt er, að þeir hafi haft að eins frekar 20 þúsundir vígra manna þá er þeir komu til Jórsala. En er krossfarendur eygðu borgina álengdar táruðust þeir af gleði, fèllu á knè og hófu upp lofsöngva, og var þá sem þeir hefði als engar þrautir liðið á leið sinni þángað. Því næst bjuggust þeir til aðsóknar, en borgin var ekki auðunnin, þar sem bæði var meira lið fyrir til varnar, en hitt er að sókti, og kristna menn skorti öll þau áhöld, er í þá tíð voru höfð til þess að vinna víggirtar borgir; en þó var eitt, er miklu var vest og erfiðast, og það var sólarhitinn og vatnsleysið. Landsmenn höfðu víða byrgt eða hulið brunna, eða þeir sátu í felum við þau vatnsból, er óbyrgð voru, og drápu kristna menn er þeirra vitjuðu, svo að kalla mátti að hver vatnsdrykkur væri keyptur við blóði; ofan á þessa neyð bættist vistaskortur. En þá minst varði komu byrðíngar margir frá Genúa til Joppe á Gyðíngalandi, er fluttu bæði vistir og aðrar nauðsynjar er kristna menn áður vantaði. Batnaði nú hagur þeirra stórum, og litlu síðar gjörðu þeir áhlaup mikið á Jórsalaborg og fengu tekið hana (15. júl. 1099); en manndrápið var ógurlegt, og engu minna en í Kartagó forðum, þá er Rómverjar unnu hana; í einni kirkju Múhameðsmanna drápu kristnir menn 10 þúsundir manna, er þángað höfðu flúið; Gyðínga sem þeir

hittu í borginni ráku þeir inn í samkundu húsin, lögðu síðan eld í og brendu alt upp til kola bæði hús og menn; af 70 þúsundum manna, er sagt að eigi kæmist svo margir lífs af, að nógur væri mannsafli til að jarða þá er fallnir lágu víðsvegar um borgina. Og þeir hinir sömu menn, er þannig höfðu vaðið um borgina sem villudýr, gengu að loknu starfi til «upprisukirkju drottins», báðust þar fyrir, gjörðu guði þakkir og súngu honum lof og dýrð með gleðitárum. En þannig var aldarfarið, þannig var trúin um þær mundir, og þannig sèst það hèr eins og svo opt í sögu mannkynsins, hve mjótt að er mundángshofið milli hins bezta og hins vesta í heiminum.

Nú var að vísu Jórsalaborg unnin, en þó mátti á hverri stundu búast við nýjum vandræðum, bæði sökum þess, að Tyrkir og Kalífinn á Egyptalandi hugðu til hefnda, og líka hins vegna, að alt af mátti óttast sundurþykkju og deilur milli sjálfra hinna kristnu höfðíngja. Menn urðu því ásáttir á, að kjósa einhvern til konúngs yfir hið nýunna ríki. Eptir nokkrar umræður kusu menn *Gottfreð* af Bouillon til þeirrar tignar, en hann taldist undan, og kvaðst eigi þess maklegur að bera gullkórónu á þeim stað, er Kristur sjálfur hefði borið þyrnikórónu; hann vildi þess vegna eigi taka sèr konúngsnafn, en við völdum tók hann og nefndi sig «gæzlumann hinnar helgu grafar.»

Gottfreður hafði skamma stund setið að völdum áður Egyptalands Kalífi kom með miklu liði til Gyðíngalands, og vildi vinna aptur Jórsali úr höndum kristinna manna. Gottfreður hafði lið miklu minna, en lagði þó til orustu við Kalífann og vann sigur á honum hjá Askalonsborg, en ári síðar (1100) andaðist hinn ágæti Gottfreður, til hins mesta harms fyrir land og lýð; gjörðist Baldvin bróðir hans þá foríngi fyrir Jórsalaríki og tók sèr konúngsnafn.

Þegar nokkuð leið frá magnaðist *Jórsalaríki* svo, að það náði norðan frá *Tarsus* í Kilikiu til *Gaza* í Filistalandi hinu forna. Höfðíngjadæmin Edessa, Antiokkía og Trípolis voru að nokkru leiti háð Jórsalaríki og í sambandi við það, en í þessu nýja konúngsríki var öll stjórnarskipan lík þeirri, sem um þær mundir átti sèr stað á Frakklandi, lènsherradæmi og lendir menn eins og þar; því að allur fjöldi manna hèr norðan úr álfunni, er fluttist til Gyðíngalands og Sýrlands og tók sèr þar bólfestu,

var kominn af Frakklandi; mátti því kalla konúngsríki þetta þar eystra frakkneska nýlendu. En þó aðaltilgángi krossferðanna væri náð, sem var að vinna Jórsali, þá hèldust ferðir þessar samt sem áður, og fjöldi manna kom á ári hverju norðan úr löndum út til Jórsalalands. Þannig fór *Sigurður Magnússon* Norvegskonúngur til Jórsala (1107—1111), og var hann af því kallaður *Jórsalafari.*

Um þessar mundir hófust hin nafnkendu *riddarafèlög* (Ridderordener), og urðu þau bæði krossfarendum og hinum kristnu nýlendumönnum í Austurheimi til hins mesta styrks og eflingar. Fèlög þessi höfðu litlu áður myndast í vesturlöndum Norðurálfu, einkum á Frakklandi; en tildrögin að þeim voru þau, að lendir menn (Feudaladelen), er jafnan voru konúngum skyldir um herþjónustu, svo sem í endurgjaldsskyni fyrir lèn þau, er þeir höfðu, voru vanir að hafa hesta til reiðar, er þeir voru kvaddir í leiðángur og gengu í orustur; voru slíkir riddarar einatt helzta sveitin í hverjum her. Riddaradómur gekk alment að erfðum í hinum helztu ættum, og á miðöldunum þókti það einhver hinn mesti sómi að komast í þá stètt, en til þess þurfti sèrlegan sið og ceremoniur t. a. m. föstur og bænahald, vissa þjónustu hjá tignum mönnum, sverðslag á herðar o. s. fl. Og þeir sem þannig voru «slegnir til riddara», tókust þá skyldu á herðar, að sýna í öllu sannan drengskap og veglyndi, gánga á undan öðrum að hreysti og hugprýði, vernda lítilmagna og einkum konur, og umfram alt berjast fyrir heilaga kirkju og hlýðnast hennar fyrirskipunum.

Þegar ríkið í Jórsölum var komið á fastan fót, komu einnig upp þessi *riddarafèlög;* en auk þess sem þau fylgdu hinum almennu lögum og venjum riddarastèttarinnar, þá bundust þau einnig ýmsum múnkareglum, t. a. m. að lifa ókvæntur, og berjast alla æfi við Múhameðstrúarmenn, og verja kristindóm og landið helga fyrir þeim.

Hèr um bil 20 árum síðar en kristnir menn unnu Jórsali voru *tvö riddarafèlög* komin á fót; tók annað þeirra nafn af Jóhannesi skírara, og voru þeir kallaðir *Jóhannesriddarar,* er í það fèlag gengu; það var eitt af ætlunarverkum þeirra, að annast sjúka og sára trúarbræður sína; hitt riddarafèlagið tók nafn af Salómons musteri hinu forna, því að fèlagsmenn höfðu fengið

til íbúðar hús eitt í Jórsölum á þeim stað, er musterið hafði staðið, voru þeir riddarar síðan kallaðir *musteris riddarar,* þeir báru hvíta kápu með rauðum krossi, en hínir sem fyr voru nefndir, svarta kápu með hvítum krossi. Voru fèlög þessi höfð í miklum metum hjá konúngum og höfðíngjum Norðurálfunnar, eignuðust jarðir miklar víða um lönd og urðu stórauðug, en allur sá mikli auður leiddi riddarana, þá er frá leið, lángt frá því takmarki, er þeim var í öndverðu sett, og gjörði þá drambsama og drotnunargjarna, og þóktu þeir ókostir einkum við brenna hjá musterisriddurum, en Jóhannes riddarar hèldu miklu fastar við hinar fornu reglur, og, löngu eptir þá daga er krossferðir lögðust niður, stóðu þeir fast á móti Múhameðsmönnum og börðust við þá, fyrst frá *Rhódusey* og síðan, er þeir höfðu mist hana fyrir Tyrkjum (1522), frá *Maltey,* og mátti með öllum sanni telja þá sem forvígismenn kristninnar gegn árásum Tyrkja frá Asíu og Afríku. Foríngi hvers riddarafèlags var nefndur *stórmeistari;* undir honum stóðu forstöðumenn, en allir fèlagsmenn skiptust í þrjá flokka: bardagmenn, kennimenn, þjónustumenn.

Krossferð hin önnur og þriðja.

En jafnvel þó bæði riddarafèlög þau, er nú voru nefnd, og í annan stað aðstreymi kristinna manna norðan úr Norðurálfu, styrkti eigi alllítið hin kristnu ríki austur í heimi, þá er þó sannast að segja, að þau voru nauðuglega stödd, því að þau áttu að verjast þrem óvinum, og öllum illum: Egyptalandsmönnum, Seldschúka-Tyrkjum og Miklagarðskeisara. Þannig tók Jóhannes keisari, sonur Alexius Komnenus, harðsnúinn maður og vel að sèr um marga hluti, frá þeim Kilikíu og vofði yfir Antiokkíu. Þó var sú þrautin þýngri, er *Zenki,* tyrkneskur jarl frá *Mosul*, vann *Edessafylki* (1144) undan kristnum mönnum, og eptir lát Zenkis varði *Núreddin* sonur hans harðlega það, er faðir hans hafði unnið undir sig.

Um þessar mundir var sá maður uppi er *Bernarð* hèt, ábóti í klaustri einu í Búrgund er *Clairvaux* (*Clara vallis*) nefndist. Bernarð ábóti var einn af hinum merkustu og nafnkendustu mönnum klerkastèttarinnar á tólftu öld, siðavandur, trúmaður hinn mesti og allra manna bezt máli farinn; þókti svo mikils um hann vert og að orðum hans kveða, að bæði kom hann því

til leiðar, að múnkareglur tóku miklum framförum til hins betra, og að tveir hinir voldugustu þjóðhöfðíngjar í Norðurálfu lètu krossast til Jórsalaferðar, til þess að rètta aptur hlut kristinna manna þar austur. *Konráð þriðji* Þýzkalands konúngur (af Hohenstáfaætt, 1137—1152) og *Loðvík sjöundi* Frakkakonúngur (1137—1180), gjörðust fyrirliðar krossferðar þessarar (*önnur krossferð* frá 1147 til 1149) og höfðu mikið lið, en bæði sviku Grikkir þá í trygðum, og Tyrkir hjuggu svo gjörsamlega niður liðsmenn þeirra, þegar kom austur í Litlu-Asíu, að leiðángur þessi varð að engu gagni.

Nú var það þessu næst að stjórnarbylting varð á Egyptalandi. Fatimídar liðu þar undir tók (1174), en til ríkis brauzt höfðingi sá er *Saladín* hèt, af *Ajúbíða*-ætt, er síðan sat þar að ríkjum til 1250. Saladín var hinn mesti afbragðsmaður, hermaður hinn mesti, vitur og mildur og ýmsum þeim kostum búinn, er marga kristna þjóðhöfðíngja skorti bæði fyr og síðar á tímum. Eptir nokkrar óeirðir hafði Jórsalakonúngur gjört vopnahlè við Saladín, en það var kristnum mönnum að kenna, að þau grið stóðu svo skamma stund; bófst þá ófriður með þeim að nýju og lauk svo, að Saladín vann mikinn sigur á kristnum mönnum við *Tiberiasvatn,* (1187) og tók *Guidó* af *Lúsignan* konúng þeirra höndum. Litlu síðar gafst Jórsalaborg upp, og gengu kristnir menn bæði þar og í flestum öðrum borgum á vald Saladíns; lèt hann þá halda frelsi við þolanlegu lausnargjaldi, en manndráp urðu því nær engin, og þeim, sem ekki gátu keypt sèr grið og frið sökum fátæktar, gaf hann talsvert fè og frjálst burtfararleyfi. Svo ólík var aðferð Saladíns hinna fyrstu krossfarenda, þá er þeir unnu Jórsali, og þó var hann ekki kristinn maður.

Þegar þessi tíðindi bárust til Norðurálfu, sló miklum ófögnuði á krístna menn. Það var af ráðið að krossast að nýju til Jórsalaferðar, og þeir sem ekki gátu farið urðu að gjalda fè, og var það kallað *Saladíns-tíund.* Fyrirliðar hinnar *þriðju krossferðar* (1189—1192) voru þeir *Friðrik fyrsti* Þýzkalandskeisari (1152—90) *Barbarossa* (rauðskeggur), er á ýngri árum hafði farið Jórsalaferð með Konráði 3. föðurbróður sínum, *Filippus Ágústus* Frakkakonúngur (1180—1216), og *Ríkarður Ljónshjarta* Englakonúngur (1189—1199). Um sumarmál 1189 lagði Friðrik keisari af stað með það lið, er honum fylgdi — hèr um bil

100,000 manna —, fór hann að öllu með ráði og fyrirhyggju, eins og við var að búast af slíkum manni; honum fylgdu margir ágætir þjóðhöfðíngar og riddarar af Þýzkalandi, þótt þeirra sè hèr eigi getið. Áður en keisarinn lagði upp, hafði hann ritað Grikkjakeisara brèf og mælzt til vináttu hans og liðveizlu, og fengið loforð hans fagurleg um hvorttveggja, en er til kom, sveikst Grikkjakeisari um það altsaman, og sat á öllum þeim svikráðum við krossfarendur, er hann kunni. Jafnvel patríarkinn í Miklagarði prèdikaði mönnum, að hver sá, sem drepið gæti 100 manns af krossfarendum, skyldi fá aflausn fyrir tíu morðvíg. En er Friðrik keisari sá vèlræði Grikkja, gjörði hann þeim sárkeypt í móti, og kúgaði þá til spektar og fararbeina við sig; hèldu krossfarendur þannig leiðar sinnar yfir til Litlu-Asíu, en er þángað kom, höfðn Tyrkir alstaðar viðbúnað og varnir fyrir og bönnuðu krossfarendum leiðina; við *Íkonium* varð harður bardagi og höfðu kristnir menn sigur; hèldu því næst til Kilikíu, en þá druknaði Friðrik keisari í *Kalykaðnus-* eða *Salef-*fljóti við Selevkíu (1190); var hann þá sjötugur að aldri, og hafði verið hin mesta hetja. *Friðrik* hertogi sonur hans tók við herstjórn, og hèlt ferðinni áfram suður að *Ptolomais* eða *Akkonsborg* (*Acre*), og settust kristnir menn um hana, en borgin var mjög torsókt. Þar sýktist liðið og dó fjöldi manna; þar dó Friðrik hertogi keisarason (1191), en það, sem eptir lifði af liði hans, hèlt umsátinni um Akkonsborg áfram.

Nokkru eptir þetta komu þeir konúngarnir, Filippus og Ríkarður, sjóleið frá Frakklandi og höfðu allmikið lið; höfðu þeir fengið sèr skip í Genúa, Písa og Venedig og flutzt þannig austur um haf, en gengið þó heldur ógreiðlega; var það og fyrirætlun þeirra og samvinnu allri til hins mesta ógagns, að bæði voru konúngarnir sundurlyndir og ósamþykkir sín í millum, og liðsmenn þeirra hötuðu hvorir aðra. Á leiðinni austur til Jórsalalands kom Ríkarður við *Kýprusey*; rèð þar fyrir konúngur sá, er *Ísak* hèt, frændi þeirra Miklagarðskeisara. Hann tók krossfarendum mjög ílla, en Ríkarður galt honum svo greiðann, að hann lagði eyna undir sig og setti þar jarl yfir; eptir það seldi hann *Guido af Lusignan* eyna, og rèðu ættmenn hans síðan fyrir henni nærfelt um þrjú hundruð ára; höfðu menn þar katólska trú og stjórnarskipun að Európumanna sið. En það er

að segja frá þeim konúngunum, að þeir hèldu liði sínu til Akkonsborgar, og settust um hana ásamt krossfarendum þeim, er þar voru fyrir. Höfðu borgarmenn varizt af hinni mestu prýði því nær um tveggja ára tíma, en nú urðu þeir upp að gefast, er slíkur liðsafli bættist við. Það er sagt, að *Leópold* hertogi af Austurríki gengi vel fram og næði einna fyrstur inugöngu í borgina, og setti þar upp merki sitt, en er Ríkarður konúngur sá það, tók hann merkið niður og trað það undir fótum; þókti Leópold sèr gjörð hin mesta smán, og hèt að hefna þess seinna ef hann mætti. Ríkarður var hinn mesti stórbokki og allra manna sterkastur og hamaðast svo í orustum, að ekkert fèkk staðizt fyrir hans ógnaafli og aðgángi. Þeim Filippusi Frakkakonúngi og Ríkarði samdi illa, eins og áður var sagt, og eptir þetta vesnaði heldur með þeim, og er þeir höfðu skamma stund saman verið á Jórsalalandi, þóktist Filippus konúngur hafa nóg að gjört, og sneri heim aptur í ríki sitt, en Ríkarður varð eptir og átti nokkrar orustur þar í landi, og vann ýmsar borgir, en ekki náði hann Jórsölum úr hendi Saladíns. Skömmu síðar gjörði hann vopnahlè við Saladín, er standa skyldi 3 ár, og hèlt við það heim aptur (í Október 1192). Á þeirri heimleið lèt Leópold hertogi taka Ríkarð höndum og fá hann Hinriki keisara 6., er setti konúng í varðhald, og sat hann þar á annað ár til þess er hann keypti sig lausan með ærnu fègjaldi. Um þessar mundir andaðist Saladín (1193), og mælti áður þessum orðum til sonar síns: »trúðu á guð hinn æzta og fylgdu hans boðum, þá muntu verða hamíngjumaður; varastu að úthella manns blóði; úthelt blóð krefur hefnda; reyndu að ná hylli þegna þinna, og lát þèr ant um hag þeirra, sem þèr eru á hendur faldir af guði og mèr; gjörðu engum manni skapraun; mennirnir sættast eigi fyr en hefnd er fengin, en guð einn, sem er miskunsamur, fyrirgefur þeim sem iðrast«.

Meðan stóð á hinni þriðju krossferð kom upp nýtt riddarafèlag (1190), og voru þeir sem í það gengu kallaðir *Maríuriddarar* eða hinir *þýzku riddarar*. En tildrögin voru þau, að þegar krossfarendur sátu um Akkon, sem áður er getið, þá liðu þeir bæði sult og seyru og sjúkleika, og voru þá þýzkir menn vest farnir, því að Musterisriddarar önuuðust þá af Frökkum, sem hjálpar þurftu við, og Jóhannesriddarar hjálpuðu Ítölum, en

hvorigir skiptu sèr mikið af hinum þýzku sjúklíngum. Þá tóku nokkrir góðgjarnir menn af Þýzkalandi sig saman um að stofna fèlag þeim til bjargar, og Friðrik hertogi keisarason gekst einna helzt fyrir því, og þannig komst þetta riddarafèlag á fót; varð það síðan allmerkilegt, því að löngu siðar en hèr var komið, lögðu hinir þýzku riddarar *Prússland* undir sig; en þar bjuggu slafneskar þjóðir og siðlausar, en þegar landið var unnið, þá fluttist þángað kristin trú og mentun og góðir siðir.

krossferð hin fjórða. Sundurliðan hins gríska keisaradæmis. Endir krossferða.

Þegar *Saladín* Egypta-Súltan var dáinn urðu deilur miklar með sonum hans, og ríkisstjórn hnignaði í löndum þeirra. Páfanum þókti bera vel í veiðar, og skoraði á kristna menn að krossast til nýrrar Jórsalaferðar. *Hinrik* keisari hinn sjötti lèzt mundi liðsinna slíku fyrirtæki, því að honum var ríkt í huga, að ná undir sig hinu gríska keisaradæmi, en þá kom það fyrir að keisarinn dó (1197), og hurfu menn svo frá þeim leiðángri að sinni.

En árið 1198 settist *Innócentíus þriðji* í postullegt sæti, einhver hinn merkasti páfi sem nokkru sinni hefir uppi verið; fèkk hann því brátt til leiðar komið með höfðíngskap sinum, að menn bjuggust að nýju til krossferðar; gjörðist þá til margt stórmenni og riddarar af Ítalíu og Frakklandi að krossast til Jórsalaferðar, og sömdu við hinn auðuga verzlunarstað Venezía (Feneyjar) gegn ákveðnu gjaldi, um flutníng þaðan sjóveg til Gyðíngalands. Þegar til kom gátu krossfarendur ekki goldið þenna fararéyri, en til þess þó ekki að verða af förinni, hètu þeir Feneyíngum liðveizlu sinni móti nokkrum öðrum verzlunarstöðum við Adríahaf, er um þær mundir áttu ófrið við Feneyinga. *Dandoló* Feneyjahertogi[1] gjörðist fyrirliði þessa leiðángurs, þótt hann væri þá kominn yfir nírætt, og þar á ofan blindur; en hann skorti hvorki áræði nè orku. Dandoló sá, að bæði myndi sèr verða hinn mesti styrkur að krossfarendum til þess að kúga borgir þær við Adriahaf, er hann átti í illdeildum við, og svo

1) Síðan um endalok 7. aldar var hinn æzti yfirmaður í Feneyjaborg nefndur *Doge*, og er myndað af latínska orðinu *dux*, sem þýðir leiðtogi, foríngi, hertogi.

lèk honum einnig hugur á, að ná undir sig hinu gríska keisaradæmi; höfðu Feneyjar lengi verið því háðar og unað illa við sinn kost, en nú gafst hið bezta tækifæri til að jafna hluta sinn á Grikkjum.

Í Miklagarði hafði stjórnarbylting orðið 1185; var þá drepinn *Andrónikus* keisari, hinn síðasti af hinni nafnfrægu Komnenaætt, en til keisara tekinn sá maður, er *Ísak Angelus* hèt. Nokkru seinna (1195) var Ísak keisari rekinn frá ríkjum og blindaður af bróður sínum; sá hèt *Alexius Angelus*. Ísak átti son, er líka hèt Alexius og hafði orðið að fara í útlegð. Nú snèri þessi útlagi keisarason sèr til krossfarenda, og beiddi þá styrkja Ísak föður sinn og sig til að komast aptur til valda í Miklagarði, og hét þeim öllu fögru, ef þeir vildi veita sèr bænheyrslu. Krossfarendur voru tregir til slíkra stórræða, enda hafði Innócentius páfi lagt ríkt á við þá, að láta öll kristin lönd í friði; en samt sem áður lètu þeir tilleiðast, þegar Alexius lèt á sèr skilja, að Grikkir myndi játast undir öll kirkjuleg yfirráð páfans, og jafnvel taka þátt í krossferðum, enda hvatti Dandólo þá mjög að halda alla leið til Miklagarðs. Nú var þetta afráðið og krossfarendur lögðu að borginni og tóku hana; hafði Mikligarður aldrei verið unnin síðan þar varð aðsetur keisaranna. Krossfarendur settu Ísak og Alexius son hans aptur til valda (1204) og settust sjálfir að í borginni til þess að staðfesta þá fegða i völdum. En sú dvöl þeirra þar í staðnum varð ekki til annars, en að auka á úlfúð milli Vestanmanna (Frakka) og Grikkja. Því þegar Grikkir sáu að keisarinn og sonur hans hændust mjög að hinum útlenda her (krossfarendum) og voru honum háðir, þá gjörðu þeir uppreisn og drápu þá feðga. Gripu þá krossfarendur til vopna og tóku borgina í annað sinn, og hlífðu þá engu, drápu menn en brutu kirkjur og lètu sópa greipar yfir eignir manna í hinni miklu og auðugu borg.

Þegar höfuðborgin var unnin var ríkið einnig komið i hendur krossfarenda, og fóru þeir með það eins og annað herfáng; var nú sett nýtt keisaradæmi á stofn í Miklagarði og nefnt *hið latínska*, fyrir þá sök að kirkjan og kirkjunnar málefni skyldi lögð undir yfirráð páfans, en landstjórn allri hagað á þann hátt, sem títt var vestur í löndum, þ. e. að ríkinu skyldi skipt í mörg lènsherradæmi. *Baldvin* greifi af Flandern varð keisari yfir ríki

þessu; en þó var það að eins lítill hluti sem hann beinlínis rèð yfir, því að mestum hluta þess var skipt meðal hinna helztu höfðíngja af krossfarendum, og fenginn þeim að lèni; svo fengu og Feneyíngar drjúgum lönd og borgir til umráða, einkum eyjar og kaupstaði með sjó fram; þannig eignuðust þeir alla Krítey (*Kreta*), Jóna-eyjar sjö að tölu, og allmiklar lendur á Pelopsey (*Mórea*). Í ýmsum stöðum Forngrikkja, t. a. m. Argos, Spörtu, Aþenu, hófust nú frakknesk höfðíngjadæmi.

En öll þessi stórkostlega nýlunda, allar þessar byltíngar og breytíngar voru Grikkjum alsendis á móti skapi og gátu því ekki þrifizt til lengdar; enda komust þær aldrei á í sumum löndum hins gríska keisaradæmis. Þannig komu upp tvö ný keisaradæmi austur í Asíu. *Þeódór Laskaris*, mágur Alexiusar Angelusar hins eldra, tók sèr keisaranafn yfir vestur hluta Litlu-Asíu og hafði aðsetu í *Nicæa-borg*; austur í *Trapezúnt* settust ættmenn Komnenanna á keisarastól og stýrðu þaðan norðaustur hluta Litlu-Asíu, alt fram að 1461. Hið *latínska* keisaradæmi komst þannig aldrei á fastan fót. *Mikael Palæologos*, keisari í Nicæa, tók Miklagarð með tilstyrk Genúaborgar-manna 1261, rak Latínumenn úr landi, og setti aptur á stofn hið gríska keisaradæmi.

Þannig gjörði hin *fjórða krossferð* talsverðar byltíngar austur í löndum, en aðaltilgángur hennar, að vinna Jórsali úr höndum Múhameðsmanna, varð að als engu. Páfarnir hættu ekki að predika nýjar krossferðir, en það liðu lángar stundir til þess er nokkur aðkvæðamaður gæfi því gaum og lèti krossast til Jórsalaferðar. Riddarar vestur í löndum vildu heldur leita sèr frægðar og frama í hinu latínska keisaradæmi og gánga í herþjónustu ýmsra höfðíngja á Grikklandi, en fara til Gyðíngalands og berjast þar. En einn atburður varð þó um þessar mundir, sem sýnir bæði að menn voru reyndar alt annað en afhuga orðnir krossferðum, og líka hitt hve ráðlauslega slíkar ferðir voru stofnaðar. Árið 1212 bjóst mikill sægur af börnum til Jórsalaferðar bæði af Þýzkalandi og Frakklandi; hèldu stórhópar af börnum þessum suður yfir Mundiafjöll og ofan á Ítalíu, en dóu þar af húngri og þreytu; en hèr um bil 30 þúsundir komust til Marseille-borgar og gengu þar í greipar kaupmönnum, sem buðust

til að flytja þau sjóleiðis út til Jórsalalands, en svikust um alt og seldu börnin í hendur Serkjum í Afríku.

*Fimtu* krossferðina (1228—1229 fór *Friðrik annar* Þýzkalands keisari Hinriksson hins sjötta, Friðrikssonar rauðskeggs. Friðrik keisari var bæði stórvitur maður og framkvæmdarsamur; fekk hann komið því til leiðar, því að þá var ófriður með Múhameðsmönnum, að *Kamel* Egyptalands-Súltan og bróðurson Saladíns, gjörði svofeldan samníng, að Jórsalir og ýmsar aðrar borgir á Gyðíngalandi skyldi koma í hendur kristnum mönnum, og vera undir yfirráðum þeirra, en leyft skyldi Múhameðsmönnum að búa þar í næði eptir sem áður. Friðrik keisari tók sèr konúngsnafn yfir Jórsölum, og setti sjálfur kórónu á höfuð sèr, því að *Gregorius* páfi 9. var um þær mundir hinn mesti fjandmaður hans, og hafði bannfært hann, svo að enginn klerkur vildi sýngja messu þar sem keisarinn var, og því síður gjöra honum þá sæmd að krýna hann. Af þessum ófriði milli páfa og keisara kom það, að hið kristna ríki í Gyðíngalandi hafði lítið gagn af aðgjörðum keisarans, enda voru þá bráðum uppi dagar þess; því að þjóðflokkur einn af Seldsjúka kynþætti, er nefndist *Kóvaresmíar,* brauzt inn í Gyðíngaland, tók Jórsalaborg herskildi (1244) og gjörði þar mörg grimdarverk; komust Jórsalir aldrei síðan í hendur krossfareudum.

Hin *sjötta krossferð* (1248—1254) varð einnig árángurslaus, þó að *Loðvík* 9. Frakkakonúngur *(hinn helgi),* væri oddviti hennar, og var hann bæði góður maður og dugandi. Honum þókti sem aðalstyrkur Múhameðsmanna væri á Egyptalandi, og þess vegna vildi hann fyrst halda þángað; gæti hann unnið það land, þá hugði hann Gyðíngaland liggja laust fyrir. Var nú svo gjört; hafði konúngur mikið lið og mörg hundruð skipa og gekk honum ferðin allgreiðlega yfir hafið og tók land við Nílárósa. Þar var borg ein á landi uppi er *Damiette* hèt; henni náði konúngur eptir litla mótstöðu, og lèt þar fyrirberast um hrið, þángað til meiri liðsafli kæmi heiman af Frakklandi. Liðið kom og herinn lagði upp frá Damiette og hèlt til *Kairó-borgar;* en þá tók herinn að sýkjast, og landsmenn komu með ógrinni liðs og sóktu að Frökkum; lauk svo þeirra viðskiptum að Loðvík konúngur varð handtekinn, en keypti sig lausan við ærnum fègjöldum (1254). Þaðan hèlt konúngur til Sýrlands, en fekk litlu sem

engu komið þar til leiðar kristnum mönnum til gagns, og fór að svo búnu heim aptur til Frakklands. Mörgum árum seinna fór Loðvík konúngur krossferð móti Serkjum í Túnis, því að víkingar þaðan höfðu herjað mjög um suðurstrendur Európu, einkum á Sikiley og Napóli, en *Karl of Anjou*, bróðir Loðviks, var þar þá konúngur yfir. En það fór sem fyrri, að lið Loðvíks konúngs þoldi ekki loptslagið og varð sjúkt; konúngur sýktist sjálfur og dó úr þeirri sótt (1270). Sá leiðángur varð því að engu liði.

Hin sjötta krossferð var hin síðasta sem teljandi er. Að sönnu áttu einstöku krossferðir sèr stað eptir þetta, (þannig fór Játvarður konúngsson, er síðan varð konúngur í Englandi og kallaður Játvarður 1. Jórsalaferð hèr um bil 1270); en áhuginn á slíkum hlutum var nú mjög farinn að kulna meðal kristinna manna. Staðir þeir á Gyðíngalandi, sem enn þá voru í höndum Norðurálfumanna, gátu þess vegna ekki til lengdar varizt árásum óvina sinna. Árið 1291 mistu kristnir menn *Akkon*, hina síðustu borg, er þeir áttu þar eystra; unnu *Mamelúkar* hana eptir frægustu vörn. Mamelúkar voru komnir norðan úr Kákasus-fjöllum, höfðu tekið Múhameðstrú og gengið síðan á mála hjá Egyptalands súltani (Soldáni), en 1250 tóku þeir *Móaltam*, hinn síðasta súltan af Saladins ætt, af lífi; en sú ætt sat 80 ár að ríkjum á Egyptalandi. Eptir það rèðu Mamelúkar landinu um mörg hundruð ára, fyrst framan af öðrum óháður, en síðan 1517 játuðu þeir yfirráðum Soldáns í Miklagarði.

---

Þannig lauk hinum merkilegu krossferðum. Múhameðstrúarmenn urðu að síðustu hlutskarpari og hèldu »landinu helga«, þrátt fyrir það, að hin helztu þjóðlönd Norðurálfunnar, því nær um tvær aldir, sendu hvað eptir annað mikið lið og marga ágæta menn austur þángað, til að vinna landið og verja það. En jafnvel þó hinn öndverðlegi og helzti tilgángur krossferðanna mishepnaðist með öllu, verða þær þó jafnan taldar með þeim viðburðum sögunnar, er haft hafa miklar og merkilegar afleiðíngar. Auk þess sem þær (einkum hin fjórða krossferð) höfðu mikil áhrif á Austurlönd, með því hið gríska keisaradæmi fèkk þau áföll, að það beið þeirra aldrei bætur, þá urðu áhrif þessi miklu meiri og affarasælli fyrir vesturlönd Norðurálfunnar, og það hartnær í öllum greinum. Mun það betur sýnt verða í sögu

hvers lands hèr á eptir, en drepið skal hèr að eins á nokkur höfuðatriði.

Tímabil það sem næst gekk á undan krossferðum, hafði verið gullöld *lènsdrotnanna;* þá stóð veldi þeirra með mestum blóma, en konúngar rèðu litlu og voru lítið meira en nafnið tómt. En á krossferðatímunum breyttist þetta mjög á annan veg, einkum á Frakklandi, þar sem krossferðir höfðu sín aðalupptök. Fjöldi lènsdrotna (lendra manna) hafði farið af landi burt til Jórsalalands; sumir fèllu og komu aldrei aptur, sumir komu að sönnu aptur, en voru orðnir fèlausir, höfðu veðsett lènsjarðir sínar og gátu aldrei náð þeim aptur; alt slíkt jarðagóz, er sumstaðar náði yfir heilar sveitir og hèröð eða jafnvel stór fylki og landshluta, eignuðust konúngar og náðu undir sig. Þannig jókst ríki konúnganna að því skapi sem auður og veldi lendra manna mínkaði.

*Bændastèttin* hafði um margar aldir og í flestum löndum verið undir ánauðaroki lènsdrotna og annara höfðíngja, og tekið því nær engan þátt í málefnum ríkja og þjóða. Einstöku mönnum af bændastèttinni tókst að komast til upphefðar og valda með því móti að gjörast klerkar, en að öðru leyti lifði bændalýðurinn í hinni mestu niðurlægíngu, og það var lengi fram eptir tímum, að hann hafði lítil sem engin not af þeim breytíngum sem af krossferðunum leiddu. Óspektir þær og upphlaup, sem bændalýðurinn gjörði á ýmsum stöðum, eptir þá tíma sem hèr ræðir um, bættu heldur ekki svo teljandi sè kjör og kosti alþýðunnar. En því meiri framförum tók *borgarastèttin.* Frá því á dögum þjóðbyltínganna miklu höfðu *borgir* og *bæir* í löndunum átt erfitt uppdráttar; peningar voru sjaldgæfir, verzlun lítil og, sú sem var, mestöll í höndum Gyðínga, þó þeir væri fyrirlitnir og ofsóktir. En þegar krossferðir hófust og samgöngur fóru að tíðkast milli Norðurálfu og Austurlanda, þá lifnaði yfir verzlaninni, atvinna og iðnaður komust á fót, borgirnar risu upp hver af annari, jukust að mannfjölda og efldust að auðæfum, náðu allvíða sjálfsforræði, að miklu eður öllu leiti, og fengu þannig mikla hlutdeild í málefnum ríkja og þjóða. Einkum voru það nokkrar borgir á norðanverðri Ítalíu t. d. *Feneyjar, Milanó* (Mailand), *Genúa, Písa* og fl. sem urðu stórauðugar. Feneyjar urðu jafnvel ríki fyrir sig. Frá Ítalíu dreifðust síðan framfarir

þessar til ýmsra borga norður við Rín, á Flandern og norður Þýzkalandi (*Hansastaðirnir*).

*Kirkjan* hafði stýrt þessum stórkostlegu þjóðaleiðángrum (krossferðunum)[1]. Páfa- og klerkaveldið var hvað ríkast og mest á dögum krossferðanna, einkum meðan hinn stórhugaði og starfsami páfi, Innócentius 3. sat að völdum (1198—1216), og eptirmenn hans þeir er næstir komu. En svo fór að klerkavaldið, sem um daga Gregoríusar sjöunda hafði vel og einarðlega staðið í móti ómentuðum og róstumiklum aldarhætti, og mjög svo bætt úr ókostum hans, það hið sama klerkavald varð nú smásaman hið vesta og óeðlilegasta ok, er lagðist á allar stèttir og sem alla þess vegna lángaði til að leysast undan. En að sá lausnardagur síðan rann upp, var að þakka þeirri mentun, því andlega fjöri og frelsi og framförum sem krossferðirnar kveiktu hjá þjóðunum. Klerkastèttin kom fótum undir krossferðirnar, en krossferðirnar kiptu fótum undan klerkavaldinu.

### Hinar frjálsu borgir.

Eins og bent hefir verið á hèr að framan voru á miðöldunum hin æztu yfirráð í höndum lènsdrotnanna og klerkastèttarinnar; alþýðunnar gætti eigi, en hins vegar komst borgarastèttin í *hinum frjálsu borgum* til auðs og virðíngar, og það leiddi til þess, að slíkar borgir vildu engum vera háðar, og gjörðu þegar fram liðu stundir samband sín í millum til þess að verjast áráum og yfirgángi veraldlegra og andlegra höfðíngja. Sambönd þessi eður fèlög, er þannig mynduðust, voru bæði suður og norður í álfu vorri, og eru þessi hin merkustu: *borga-fèlagið á Lángbarðalandi* og *Hansastaða-fèlagið.*

### Borga-fèlagið á Lángbarðalandi.

Snemma á tímum hófst iðnaður og verzlun í borgum Norður-Ítalíu. En á krossferðaöldunum tók hvorttveggja geysi-miklum framförum. Borgir þessar tókust á hendur að flytja krossfarendur milli landa, og fengu ærið flutníngskaup fyrir störf sín; bar það og opt til, að ferðamenn þessir fengu fè og aðrar nauð-

1) Það er sagt, að um sex milliónir manna hafi farið úr öllum katólskum löndum í þessar Jórsalaferðir, á því 200 ára tímabili sem þær stóðu yfir.

synjar sínar hjá þeim, sem og hitt, að borgir þessar fluttu vistir og hernaðaráhöld til landsins helga. Þær náðu þannig undir sig bæði mikilli verzlun og líka urðu þær, eptir því sem tímar liðu fram, því nær einráðar yfir öllum peníngaviðskiptum Norðurálfunnar, og seldu mönnum penínga í hendur gegn veði og hárri leigu. Páfunum var illa við atvinnu þessa, því að þeir kölluðu ókristilegt að taka leigu af lánsfè. En bæði var, að páfinn þurfti opt á peníngum að halda, og borgir þessar hlýðnuðust því að eins boðorðum kirkjunnar, að þau kæmi eigi í bága við atvinnu þeirra og ábata. Þegar það kom fyrir að páfinn bannfærði þær, þá settu þær hart á móti hörðu, og gjörðu erindsrekum páfa alt til mæðu og miska; rændu stundum eignum kirknanna og kúguðu klerkana með ofurefli til þess að láta af fyrirætlan sinni. En er Þýzkalands keisarar tóku að beita veldi sínu til þess að ná yfirráðum á Ítalíu, þá lögðust flestar borgir þar í landi í móti keisaranum og gengu í lið með óvinum hans, því að þær óttuðust hann miklu meir en klerkavaldið. Þannig hófst hið mikla borgmanna-fèlag á Lángbarðalandi gegn *Friðriki* keisara *Barbarossa* árið 1167. Þó var fèlagsskapurinn milli borga þessara ekki fastari en svo, að þegar einhver af borgunum þóktist sjá sinn hag við að slíta fèlagið, þá gjörði hún það. Borgir þessar höfðu í öndverðu *heldri manna stjórn,* en seinna meir breyttist þetta víða til *lýðstjórnar.* Helztu borgirnar á Norður-Ítalíu voru *Feneyjar* og *Genúa* og *Písa,* en sú borg var ekki í sambandinu.

*Feneyjar* (Venezia) bygðust á 5. öld e. Krist, þegar Húnar óðu yfir Ítalíu[1]; voru þar þá fleiri smáríki, og sinn forfngi yfir hverju. En árið 697 sameinuðust þau öll í eitt ríki, og ríkisforínginn var kallaður *Doge (hertogi).* Seinna komst þar á höfðingjastjórn og við endalok 13. aldar var ákveðið, að þeir einir gæti orðið ráðherrar og kosið ríkisforsetann, er væri aðalsmenn. Verzlun var aðal-atvinnuvegur borgarmanna, og þeir reyndu til að ná undir sig allri verzlun á austurströndum Miðjarðarhafsins. Feneyíngar höfðu þegar eignast lönd á Dalmazíuströndum, er hin fjórða krossferð byrjaði, en þá jókst og margfaldaðist verzlun þeirra, eins og áður er sagt.

Feneyíngar einir höfðu verulegt gagn af því, þegar Mikli-

1) Sbr. Fornaldarsöguna bls. 248.

garður var unninn 1204; því þá eignuðust þeir víða strendur og eyjar á Grikklandi alt norðan frá Svartahafi og vestur til Epírus, og þar á meðal Krítey. Frá þeim tíma jókst verzlun þeirra svo mjög, að Feneyjar urðu eitt hið merkilegasta ríki í Norðurálfu. Feneyíngar áttu alla verzlun á Svartahafi og Assófshafi, sömuleiðis höfðu þeir mikla verzlun á Sýrlandi og Egyptalandi, og náðu þannig í mestallan varníng, sem fluttist innan frá Asíu, austan af Indlandi og sunnan af Afríku. Frá löndum þessum fengu þeir gimsteina, perlur, gull, silfur, baðmull, silkivefnað, kryddjurtir, strútsfjaðrir, fílstennur, sykur o. fl., en lètu í móti kornvöru, húsavið, járn, ull, skinnavöru og þræla, er þeir keyptu austur í Svartahafsborgum fyrir klæði, leður, gullsmíðar og vopn heiman að frá sèr, eða frá öðrum borgum á Ítalíu. Þeir ráku og verzlun norður yfir Mundíafjöll til Dónár og Óderfljóts og til Eystrasalts. Þó breyttist verzlun þessi stundum; þannig eignaðist Genúa því nær alla verzlun á Svartahafi, þegar Mikligarður var unninn aptur 1261, en þó fór það svo, að Feneyjar urðu hlutskarpari á endanum. Á ofanverðri 14. öld eignuðust Feneyjar eyjuna Korfú, og nokkru seinna Verónaborg, Padúa, Vísenza og talsvert meira land norðan á Ítalíu, og að síðustu Kýprusey. En þó Feneyjar misti mikinn hluta af eignum sínum á Grikklandi, þegar Tyrkir tóku það herskildi á 15. öld, þá stóð þó hagur þeirra allvel fram á 16. öld.

*Genúa* er, eins og menn vita, mikil og fögur borg sunnan undir Apennínafjöllum við flóa þann, er gengur til norðurs af Miðjarðarhafi vestanvert við Ítalíu. Borg þessi er miklu eldri en Feneyjar, og átti snemma á öldum talsverða verzlun vestur um Miðjarðarhafs-strendur, þ. e. á Frakklandi sunnanverðu, Spáni, Marokkó og á Sikiley. Á krossferðatímunum efldist verzlun Genúamanna stórum, en óeirðir þær, sem einatt áttu sèr stað í borg þessari milli höfðíngjanna og lýðsins, milli keisaraflokksins (Gíbellína) og klerkaflokksins (Welfa), stóðu henni allmjög fyrir þrifum. Í Genúa var lýðstjórn, og ekki nærri því eins föst á fótum eins og höfðíngjastjórnin í Feneyjum. Það spilti einnig talsvert fyrir framförum Genúa, að hún átti einatt í stríði við Feneyjar eða við Písa. Þó tókst Genúa undir lok 13. aldar að ná Korsíku og meiri hluta Sardínareyjar undan Písa. Þegar Feneyíngar höfðu náð undir sig allri Svartahafsverzlun, kostuðu

Genúamenn kapps um að kollvarpa hinu latínska keisaraveldi og koma hinu gríska aptur á fót, og þegar Grikkir með tilstyrk Genúaborgar unnu aptur Miklagarð árið 1261, varð Genúa hlutskarpari en Feneyjar og náði verzlunaryfirráðum á Svarta- og Assófshafi. Einnig náðu Genúamenn undir sig *Smyrnaborg* vestan á Litlu-Asíu, og *Pera*, sem var ein af helztu undirborgum Miklagarðs, þá komst og Kaffa á Krímskaga í þeirra hendur, og þángað safnaðist varningur ýmsa vegu að austan af Asíu.

*Písa* sem er við *Arnófljót*, hèrumbil 1 mílu vegar frá sjó, lá eigi eins vel við verzlun eins og Feneyjar og Genúa, og átti því erfiðara uppdráttar en þessar borgir. Þar við bættist og að *Flórenz*, sem er skamt frá Pisa, var i allmiklum uppgángi. Alt um það var Písa bæði stór og auðug borg. Þar var lýðstjórn, en höfðingjar rèðu þó öllum aðalmálefnum manna. Borgarmenn hèldu með keisara (Ghibellina) flokknum af miklum ákafa, og áttu fyrir þá sök í lángvinnum deilum og óeirðum, og verzlun Pisverja vegnaði eptir því vel eður illa, sem keisarans máli vegnaði vel eður illa. Þegar ríki keisarans hnignaði á Ítalíu, þá hnignaði og verzlun þeirra, og á 15. öld varð Písa háð borg þeirri, er *Milanó* (Mailand) heitir. Það voru einnig krossferðirnar, er komu fótum undir verzlunina í Písa, og þegar hún var i blóma síuum, var hún öllu meiri en verzlun Genúamanna, og svo mikil var aðsókn kaupmánna af ýmsum heiðnum löndum til Písa öndverðlega á 12. öld, að klerkur einn frá þeim tímum kallar í ritum sínum borgina óguðlega.

### Hansastaða-fèlagið.

Í óeirðum þeim hinum miklu er gengu á Þýzkalandi frá miðri þrettándu öld, gjörðu borgirnar *Hamborg* og *Lybek* (1241) fèlag með sèr, til þess að vernda verzlun sína móti ránum og ofbeldi; síðan bættust fleiri borgir við og gengu í þetta fèlag; var það kallað *Hansafèlag*, og *Hansastaðir* sem í því voru, og dregið af orðinu «*hansa*», sem á miðöldunum þýddi verzlunarfèlag í einni borg. Fèlag þetta magnaðist svo mjög að loksins voru yfir 80 borgir gengnar i það. *Lybek* var höfuðborgin í þessu sambandi, og þar voru aðalfundir fèlagsins haldnir þriðja hvert ár. Þegar fram liðu tímar eignuðust borgir þessar mikil verzlunarrèttindi á Norðurlöndum, i Rússlandi og á Englandi;

höfðu verzlunarstöðvar miklar í *Nowgorod* í Rússlandi, *Björgvin* í Noregi, *London* í Englandi, *Brugge* í Niðurlöndum og víðar, en bæði borgarastríð og fávizka eða dáðleysi konúnganna olli því, að Hansastaðirnir náðu undir sig því nær allri verzlun á Norðurlöndum svo að innlendra kaupmanna gætti þar als ekki; kaupför Hansastaðanna sigldu um öll höf, og þeir höfðu bæði land og sjólið til þess að verja verzlun sína; lenti þeim þá einatt í stríðum og styrjöldum við Svía og Danakonúnga. En er konúngsveldið á Norðurlöndum magnaðist og konúngar fóru að geta losað þegna sína undan verzlunar ánauð Hansastaðanna, og þegar nýjar uppgötvanir fóru að koma í ljós annarstaðar, ný lönd fundust og nýir verzlunarvegir, þá dró smásaman alt afl úr verzlun þessa volduga fèlags og seinast varð það að engu.

## Hið þýzka ríki frá 1125—1215.

Þegar *Hinrik keisari fimti* andaðist 1125, var aldauða karlleggur hinnar *frankversku* keisaraættar, er setið hafði að ríkjum á Þýzkalandi um tíutigi vetra, frá því er Konráð 2. af Franken kom þar til ríkis (1024), eins og fyr er ritað. Var þá eigi annað fyrir en að velja keisara af öðrum ættum og nýum. En ætt sú, er þá þókti einna líklegust til kjörsins, enda næst borinn til ríkiserfða, var *hohenstáfa* (hohenstaufiske) ættin, því að *Friðrik* riddari af Hohenstaufen í Schwaben átti Agnesi systur Hinriks keisara fimta; synir þeirra hètu Friðrik og Konráð, hinir vöskustu menn og stórauðugir, og höfðu þar á ofan stór fylki að lèni; Friðrik var hertogi af Schwaben og Konráð hertogi af Franken.

En öllum hinum hèlztu lènsdrotnum í ríkinu þókti óráð að hefja til keisaradóms menn af þeirri ætt, er bæði var stórauðug, og sem auðvitað var að leggja mundi alt kapp á, að auka mátt og megin keisarans en rira veldi lènsdrotnanna. Þar til kom og, að klerkastèttin var enginn vinur hinnar frakknesku ættar, var því hvorigur þeirra bræðra kjörinn til keisara, heldur *Lóthar* hertogi af *Saxen* (1125—1137). Af þessu leiddi borgarastríð á Þýzkalandi, því að *Lóthar* keisari vildi þröngva þeim bræðrum til að láta laus hertogadæmin, en þeir vildu ekki vægja fyrir honum, gripu til vopna og vildu brjótast til keisaradóms. Endirinn varð sá, að þeir bræður hèldu hertogadæmum sínum, en sleptu tilkalli til keisaratignar.

Að málalyktir þessar urðu Lóthar keisara svo hagfeldar, sem raun gaf vitni um, átti hann einkum því að þakka, að hin ríka *Welfa-ætt* hafði gengið í lið með honum. Sú ætt var komin sunnan af Ítalíu, og höfuðmaður ættarinnar um þær mundir var *Hinrik hinn drambláti*, hertogi af Baiern; honum gipti Lóthar keisari einkadóttur sína, og þar á ofan fèkk keisarinn honum hertogadæmi sitt Saxen að lèni; eignaðist Hinrik þannig tvö hin helztu hertogadæmi á Þýzkalandi; hafði slíkt aldrei fyr átt sèr stað, og þóktu hin mestu fádæmi.

Lóthar keisara var síður umhugað um, að efla ríkið og keisaratignina, en að auka veldi og auð ættmanna sinna. Hann fór tvisvar til Ítalíu og reyndi að ná undir sig ríki Norðmanna á Suður-Ítalíu, en tókst það eigi; og til þess að öðlast krýníngu af páfanum, gjörði hann sig allauðmjúkan við hann. Á Ítalíu voru víðlend hèröð, sem Mathildur ríka af Toskana forðum hafði átt, og sem einatt höfðu valdið ágreiníngi milli keisara, er átti þau með öllum rètti, og páfans, er hafði fengið þau með órèttu. þessi hèröð tók Lóthar nú að lèni af páfa, til þess að ná þeim undir ættmenn sína, og fèkk þau síðan Hinriki drambláta dótturmanni sínum. Á dögum Lóthars keisara varð það að lögum, að hin stærri lèn í Ítalíu skyldi gánga að erfðum í ættir lènsdrotnanna, og bráðum komst sú venja einnig á í Þýzkalandi. Þannig jókst lènsdrotnavaldið í löndum þessum einmitt um samaleiti sem því fór að hnigna á Frakklandi. Hin minni lèn höfðu gengið í erfðir alt í frá dögum Konráðs annars.

*Lóthar* keisari andaðist í Tyrol á heimleið til Þýzkalands (1137); þóktist þá Hinrik drambláti standa næstur til ríkis. En bæði páfanum og þjóðverzkum höfðíngjum þókti Welfar hafa helzt til mikið ríki á Ítalíu og á Þýzkalandi; stóð þeim því ótti af honum og fyrir þá sök rèðu þeir af að kjósa heldur *Konráð* af *Hohenstáfen*, og komst hann þannig til ríkis og nefndi sig *Konráð þriðja* (1137—1152). Hinrik vildi ekki sverja honum hollustu eiða, en Konráð kvað ólöglegt að tvö hertogadæmi væri undir eins manns yfirráðum, og tók af Hinríki bæði Saxen og Baiern. Setti hann *Albrekt der Bär* yfir Saxen, (af honum var askanska ættin komin), var hann hreystimaður mikill og frægur af framgöngu sinni móti Slöfum; en Leopold markgreifa af Austurríki fèkk keisarinn Baiern í hendur. Nú hófust deilur miklar og ó-

friður með *Welfum* og *Hohenstáfum,* og nú var það, að upp komu þau tvö alkunnu flokkanöfn, er um lánga tíma auðkendu þá tvo aðalflokka, er stóðu hver móti öðrum, og lengi börðust um yfirráðin bæði á Ítalíu og á Þýzkalandi. Sá flokkurinn, er fylgdi Hohenstáfum voru nefndir *Waiblíngar* (en Ítalir kölluðu þá *Ghíbellína*) af höll einni er Hohenstáfar áttu, en hinn flokkurinn var kallaðnr *Welfar* (Guelfar). En er fram liðu stundir varð þýðíng þessara tveggja flokka yfirgripsmeiri en hún var með fyrsta — meðan að eins tvær voldugar ættir áttust við — því að seinna meir voru allir kallaðir *Ghíbellínar,* sem keisaranum fylgdu, en allir sem í móti stóðu *Guelfar,* og með því að páfarnir jafnan fyltu hann flokkinn voru allir páfans áhángendur móti keisaranum kallaðir Guelfar.

Hinrik dramblátí dó 1139 og varð þá hlè á ófriðnum um stundarsakir, enda fèkk *Hinrik ljón,* sonur Hinriks drambláta, hertogadæmið Saxen að lèni af Konráði keisara, þó skyldi Albrekt der Bär halda Brandenborg, er nú varð lènsdæmi út af fyrir sig.

Frá hlutdeild Konráðs þriðja í hinni annari krossferð er áður sagt (bls. 101). Nokkrum árum síðar andaðist Konráð keisari (1152), og sýndi áður hve ant honum var um velferð ríkisins; því að hann fèkk höfðíngjana til þess að kjósa ekki son sinn til keisara að sèr látnum, heldur bróðurson sinn, Friðrik Barbarossa, hertoga af Schwaben, af því Konráð hafði kynzt við þenna frænda sinn á krossferðinni og komizt að raun um, að hann mundi verða afbragðsmaður sökum vitsmuna og dugnaðar.

*Friðrik 1. Barbarossa* (1152—1190) reyndi að hefja keisaraveldið og gjöra það jafnt því sem verið hafði um daga Ottóanna og Hinriks þriðja. Og til þess að *Hinrik ljón,* foríngi Welfanna, truflaði ekki þá viðleitni sína, fèkk keisarinn honum einnig hertogadæmið Baiern að lèni, þó þannig, að Austurríki, er til þess tíma hafði verið sameinað Baiern, var frá skilið og gjört að lèni fyrir sig undir krúnuna, að sínu leiti eins og Brandenborg áður var tekin frá Saxen. Því næst jafnaði Friðrik á hinum öðrum lènsdrotnum í ríki sínu, er vildu óhlýðnast honum, og kúgaði landsstjórana í Böhmen og Pólen til að játast undir yfirráð keisarans.

En lángmest kveður að viðureign Friðriks keisara við Ítali,

og aðförum hans öllum þar í landi, enda fór hann sex herferðir þángað suður. Þegar hann fór þángað fyrstu ferðina (1155) var hann krýndur af *Hadrianus* páfa hinum fjórða, því að hann hafði gjört páfann sèr að vini með því að selja honum í hendur *Arnold* múnk frá *Brescía,* hinn merkasta mann; hann hafði bæði á Ítalíu og á Þýzkalandi predikað gegn spillingu kirkjunnar og hinu veraldlega valdi páfanna, »biskupar og klerkar ættu ekki að sækjast eptir veraldlegri upphefð og auð, heldur lifa við fátækt eins og postular krists.» Hadrianus páfi lèt kasta hinum djarfmælta múnk á logandi bál og brenna til dauða. Hreifíngar þær, er kenníng Arnolds hafði vakið, hættu skjótt, því að hugir manna voru enn þá ekki orðnir meðtækilegir fyrir slíkar hugmyndir og lærdóma.

Borgirnar á Lángbarðalandi (Lombardí) höfðu losað sig undan yfirráðum andlegra og veraldlegra lènsdrotna, og tekið miklum framförum í mentun og velmegun. *Milanó* var þar fremst í flokki. Vildu borgir þessar verja frelsi sitt og rèttindi, hver sem í hlut átti. En það vildi keisarinn eigi samþykkast og skýrskotaði til hinna fornu rómversku laga, að hann væri lögborinn erfíngi hinna rómversku keisara til allra hinna sömu rèttinda og yfirráða á Ítalíu, sem þeir hefði haft. Árið 1162 lagði Friðrik keisari Milanó í eyði, en borgin reis bráðum aptur af rústum og litlu síðar gengu 16 borgir þar í landi í fèlag til þess að verjast yfirgángi keisarans; studdi það og eigi alllítið fèlag þetta, að *Alexander* páfi hinn þriðji (1159—1181), er næstur kom eptir Hadrian, var óvinur keisarans og bannfærði hann. En alt um það mundi keisarinn að líkindum hafa sigrazt á fèlags borgum þessum, ef *Hinrik ljón,* hinn hraustasti og ríkasti af jörlum hans, hefði eigi brugðizt keisara, þá er hann fór hina fjórðu herferð til Ítalíu, og snúið aptur heim á Þýzkaland með því liði er honum fylgdi. En þó Hinrik gjörði keisara þenna óleik, þá lagði keisarinn samt til orustu við Ítali hjá *Legnano* (1176) en beið þar ósigur; varð hann þá að gjöra vopnahlè við páfann og hinar ítölsku borgir, og sex árum síðar, þegar Alexander páfi var dauður, komst friður á í Konstanz (1183). Var það þá að skilmálum gjört með þeim, að keisarinn varð lènsherra borganna, en í raun og veru voru þær honum óháðar og sjálfum sèr ráðandi, því að þær máttu gjöra sèr virki og víggirð-

ingar, hafa herlið, hefja stríð og semja frið ef svo bæri undir, og sjálfar kjósa sèr valdsmenn og foríngja. Páfinn gjörðist yfirráðandi Rómaborgar.

Betur tókst Friðriki að ná hefndum á Hinriki ljóni. Að vísu var Hinrik hinn voldugasti af öllum lènsdrotnum, er þá voru á Þýzkalandi, því að bæði hafði hann tvö hertogadæmi til umráða og svo hafði hann unnið ýms lönd undan Slöfum norðan og austan á Þýzkalandi, þar sem nú er Pommern og Meklenborg; en er keisarinn hafði gjört vopnahlè við páfann og Ítali og gat beitt alefli sínu móti Hinriki, þá varð hertoginn ofurliði borinn (1181), og gjörður útlægur, og skyldi utan vera 3 vetur; fór hertoginn þá til Hinriks konúngs annars á Englandi, tengdaföður síns, og lèt þar fyrirberast; af löndum þeim, er hann rèð fyrir, hèlt hann engu eptir nema Brúnsvíg-Lyneborg; hertogadæmin voru bæði tekin af honum, og skipti keisarinn þeim með ýmsum, svo að landaskipun á Þýzkalandi breyttist nú stórum. Meiri hluti hins forna *Saxlands* var fenginn erkibiskupum og biskupum í hendur þannig, að þeir voru keisaranum einum háðir og engum öðrum, en hitt, sem þá var eptir, fèkk hin ýngri grein af *askansk-brandenborgar ættinni. Baiern* var einnig skipt, svo að *Steyermark* og Týról voru tekin undan, en hitt annað, sem þá var eptir, fèkk *Ottó* hertogi af *Wittelsbakk.* Ýmsar borgir, t. a. m. Nyrnberg, Speier, Regensborg o. fl. urðu þá lausar af yfirráðum allra annara en keisarans sjálfs, og voru kallaðar *frjálsar ríkisborgir* (frie Rigsstæder). Friðrik keisari sá, að hann gat ekki alveg kollvarpað eða afnumið lènin og lènsdrotnana, en hann gat takmarkað þá nokkuð, og þess vegna skipti hann lènum þessum í sundur, fjölgaði þeim, en gjörði hvort fyrir sig smærra og veikara en áður hafði verið. Þess vegna gat hann nú, þegar bæði Hinrik ljón var af baki dottinn og friðurinn í Konstanz kominn á, ráðið ríki sínu hartnær sem einvaldur konúngur; þess vegna gat hann nú fengið *Hinrik* son sinn kosinn til eptirmanns eptir sig, og krýndan í borginni *Mainz*, sem rómverskan keisara (1184). Ári síðar kvæntist Hinrik keisarason í Milano og gekk að eiga *Constantíu,* dóttur *Rógers* konúngs hins fyrsta, er rèð fyrir Norðmannaríki á Sikiley og Suðurítalíu; var Constantía borinn til erfða að því ríki. Vegur Hohenstáfanna var nú sem mestur, og samband Þýzkalands við

Ítalíu miklu sterkara fyrir manna sjónum en áður. Friðrik keisari hafði á ýngri árum farið krossferð til Jórsala og vildi nú á elliárum sínum fara þángað aptur til þess að frelsa Jórsali (er Saladín hafði tekið 1187), úr höndum vantrúaðra manna, en á þeirri suðurferð druknaði keisarinn (1190), eins og áður er sagt. Sonur hans *Hinrik sjötti* tók ríki eptir hann og varð keisari yfir (1190—1197).

Hinrik sjötti líktist föður sínum bæði að frábærum dugnaði og vitsmunum, en ekki var hann vandur að meðölum til þess að koma því fram, er drotnunargirni hans blès honum í brjóst. Hann lèt krýna sig í Rómaborg til keisara og hèlt þegar suður í land til þess að vitja arfs drotníngar sinnar bæði á landi uppi og út í Sikiley. En lendir menn í því ríki bræddust harðstjórn keisarans, og höfðu tekið til konúngs mann þann er *Tankreð* hèt, og var náfrændi Constantíu drotníngar, óskilgetinn; um sama leiti hóf Hinrik ljón óeirðir norður á Þýzkalandi gegn keisara. *Ríkarður* konúngur *ljónshjarta,* mágur Hinriks ljóns, var þá kominn sunnan af Gyðíngalandi úr Jórsalaför sinni, og bjóst að veita þeim fjandmönnum keisarans liðveizlu, en Hinrik keisari varð þeim skjótari og fángsælli, er hann fèkk náð Ríkarði á sitt vald, sættist hann því næst við Hinrik ljón og aðra mótstöðumenn sína á Þýzkalandi, og snerist að því búnu af alefli við þeim á Neðri-Ítalíu; var Tankreð þá dáinn, en Vilhjálmur sonur hans orðinn konúngur. Genúa og Písa, sem jafnan hèldu með Ghibellinum, veittu keisaranum örugga liðveizlu og með þeirra tilstyrk náði hann öllu Norðmannaríkinu á Ítalíu — er svo var nefnt — undir sig; fór keisarinn þá fram með mikilli grimd, lèt hengja og brenna og ýmislega af lífi taka erkibiskupa, greifa og aðalsmenn á Sikiley og Neðri-Ítalíu, en Vilhjálm lèt hann blinda og flytja til Þýzkalands (1194). Árið eptir dó Hinrik ljón, og var þá fallin hin helzta stoð Welfanna á Þýzkalandi.

En Hinrik keisari var ekki smáhuga. Það er kunnugt að um þessar mundir gekk allt á trèfótum hjá Grikkja keisara. Komnenar voru þar liðnir undir lok en komin til ríkis Angela ætt, sem lá í innbyrðis óeirðum, eins og fyr er sagt. Nú var það áform Hinriks keisara að nota óeirðir þessar ttl þess að ná undir sig hinu gríska keisaradæmi, um leið og hann færi krossferð til Jórsala. En meðan hann var að bylta þessu öllu fyrir

sèr og búa sig af stað til þessara stórræða þá andaðist hann í Palermó 1197, af köldum þorstadrykk, er hann drakk heitur og ný kominn heim af dýraveiðum. Hann var 32 ára gamall er hann dó. Eitt af því sem Hinriki keisara hafði verið mjög hugfast og sem hann hafði ætlað sèr að framkvæma, var, að fá með lögum ákveðið að *keisaratignin gengi erfðum til ættmanna hans.* Hann bauð að sameina fyrir fullt og allt *Neapel og Sikiley* við hið Þýzka ríki, láta öll lèn gánga erfðum í ættir lènsmannanna, sleppa öllu tilkalli til eigna þeirra er biskupar lèti eptir sig, móti því að lènsdrotnar og landshöfðíngjar vildi gefa samþykki sitt til að keisaratignin gengi í erfðir. Urðu þá 52 lènsdrotnar til að samþykkjast þetta, en aðrir vildu ekki og fórst það svo fyrir. Var þetta án als efa viturlegt ráð og vel hugsað af keisaranum, því að ekki verður því neitað, að víðast kveikti það óeirðir í álfu vorri á miðöldunum, og ekki sízt í Þýzkalandi, að ríkiserfðir voru ekki lögákveðnar, heldur í höndum lènsdrotna og annars stórmennis, og alsendis komnar undir kosníngum þeirra í hvert skipti. Þegar Hinrik keisari var dáinn kom það einnig í ljós, hvílíkum deilum það gat valdið, að hið þýzka ríki var *kjörríki.* Hinrik keisari hafði átt son við drotníngu sinni, er *Friðrik* hèt, og var hann tævetur er faðir hans dó; hann var borinn til ríkis í Neapel og Sikiley, og kjörinn til ríkisstjórnar á Þýzkalandi eptir föður sinn, en hinir þýzku lènsdrotnar hirtu nú als ekki að minnast þess að svo var. Erkibiskupinn í Köln og þeir Welfarnir vildu taka til keisara *Ottó,* son Hinriks ljóus, og móðurbræður hans, þeir Ríkarður ljónshjarta og Jóhann landlausi, studdu fast að því eins og við var að búast. Þá var annar flokkur, er vildi hefja til ríkis *Berthold* hertoga af *Zäringen,* er rèð fyrir miklu landi við Rín ofanverða. En flestir landshöfðingjar, bæði biskupar og annað stórmenni, vildu hafa Hohenstáfana til ríkis og halda trygðir við þá ættmenn; þó vildu þeir ekki hafa Friðrik son Hinriks keisara til ríkisstjórnar, heldur *Filippus* af Schwaben, son Friðriks Barbarossa og bróður Hinriks sjötta; var hann góður maður sagður og vinsæll, og varð það bráðum að menn kusu hann almennt um ríkið til keisara. Hertoginn af Zäríngen slepti tilkalli til keisaradóms, en *Ottó Hinriksson* er kallaður var *Ottó* hinu fjórði vildi fyrir hvern mun halda keisaratign. Þannig hófst borgarastríð að nýju milli Ghibellina og

Guelfa. Hvorirtveggja reyndu á allar lundir að fá páfann í lið með sèr. En þá var *Innocentius þriðji* (1198—1216) ný seztur að völdum, hinn voldugasti af öllum páfum á miðölduuum. Hann hafði þegar er Hinrik 6. var dáinn lagt undir páfastólinn alt miðbik Ítalíu, og síðan hafa þau lönd lotið páfanum (Kirkestaten); Constantía drotníng hafði á deyjanda degi falið honum á hendur tilsjón alla með Friðriki syni sínum og ríki hans í Neapel og Sikiley; gjörði Innocentius það rækilega, en því gleymdi hann ekki, að láta hinn únga konúng taka ríkið að lèni af páfanum. Óeirðirnar á Þýzkalandi voru honum allkærar og fyrir því sat hann hjá og veitti hvorigum fyrst um sinn. Um síðir skarst Innocentius í leikinn og bauð öllum stèttum að hlýðnast Ottó, en lýsti banni yfir þeim er fylgja vildu Filippusi af Schwaben. Alt um það lutu allar líkar að því, að Filippus mundi verða hlutskarpari og halda ríkinu; en þá var það að Ottó greifi af Wittelsbakk myrti Filippus keisara (1208). Var Ottó 4. krýndur ári síðar af páfa og þóktist nú öruggur í ríki sínu, en eigi leið lángt um áður keisarinn færi að hlutast til um mál manna á Ítalíu; hann vildi þannig ná undir ríkið lènsdæmum þeim á Mið-Ítalíu er undan höfðu gengið, en Innocentius dregið undir páfastólinn; hann vildi eigi láta laus lönd þau er Mathildur ríka hafði arfleitt páfastólinn að, því að keisarinn sagði að hún hefði enga heimild haft til að gefa gjöfum eður sölum selja þau lèn, er keisarinn hafði yfirráð yfir. Nú sá Innocentius að svo búið mundi eigi duga og tekur þá það ráðs, að hann bregður fyrir sig Friðriki fóstra sínum, og sendir hann þegar frá Neapel til Þýzkalands, og býður honum að kalla þar til arfs og ríkis (1212), en bannfærir Ottó keisara. Þá var Friðrik 17 vetra, og þókti manna vænstur til vits og framkvæmda. En er hann kom til Þýzkalands tóku Ghibellinar við honum tveim höndum; urðu þeir bráðum margir er hans flokk fyltu. *Filippus Ágústus* Frakkakonúngur skarst einnig í lið með Hohenstáfum, fyrir því að Ottó keisari hafði styrk af móðurbróður sínum Jóhanni konúngi landlausa, en þeir Filippus og Jóhann voru hiuir mestu fjandmenn. En þá var Ottó svo grunnhygginn að hann rèðst í móti Frakkakonúngi, í stað þess að beita afli sínu móti Friðriki á Þýzkalandi. Fundur þeirra Ottós og Filipps varð vestur á Flæmíngjalandi (Flandern) hjá *Bouvines* (1214) og

lauk svo að Ottó hafði ósigur. Ári síðar (1215) var Friðrik krýndur í *Aachen*; Ottó veltist úr keisaratign, en fèkk þó að halda erfðalöndum sínum til dauðadags (1218). Stjórnendur í Hannover, Brunsvik og á Englandi eiga ættir að rekja til Ottós keisara.

## Frakkland frá 1108—1270.

Konúngar þeir er fyrstir sátu að ríkjum á Frakklandi og komnir voru af *Húgó Capet* (Capetúngar) höfðu lítið laud til forráða, var því ríkisstjórn þeirra allóstyrk, en lendir menn (Lènsdrotnar) voru stórríkir og sjálfráðir að mestu. En með hinni tólftu öld tók þetta að breytast nokkuð á annan veg. Konúngar voru sumir svo framsýnir, að þeir settu sonu sína til ríkisstjórnar með sèr og lètu krýna þá til konúnga og eptirmanna sinna að sèr lifandi; komst það þannig á smásaman að *konúngdómurinn gekk í erfðir* á Frakklandi. Eins og fyr er getið áttu krossferðir mikinn þátt í því að fækka lènsdrotnum og ríra veldi þeirra, og konúngar náðu þá stundum undir krúnuna lènsherradæmum, er lènsdrotnar voru fallnir frá, eður á annan hátt ófærir til að stýra.

*Loðvík* hinn sjötti (1108—1137) sonur *Filipps fyrsta* tók ríki eptir föður sinn, og var svo láusamur að hafa ráðgjafa þann er *Suger* hèt, ábóta af St. Denis, framúrskarandi dugnaðarmann, þessi vitri maður sá að krúnunni mundi verða mikill styrkur að því, ef *borgirnar* losuðust undan veldi lènsdrotnanna og gæti tekið framförum, og að hans ráði veitti því Loðvík konúngur borgunum það sjálfsforræði er þær beiddu um.

Eptir Loðvík 6. kom sonur hans *Loðvík sjöundi* til ríkis (1137—1180). Á öndverðum ríkisstjórnarárum sínum kvongaðist hann og átti Eleónóru, dóttur Vilhjálms hertoga af Akvitaníu; stóð hún til að erfa ríki eptir föður sinn, og voru það viðlend hèröð, hugði konúngur gott til auðs og viðbótar við ríki sitt. En er konúngur fór hina aðra krossferð til Jórsala eptir áeggjan Bernarðar ábóta, sem áður er sagt, var drotníng í för með honum, og þá var hún honum ótrú, svo að konúngur vildi skiljast við hana, en Suger, sem hafði haft ríkisstjórn á hendi, meðan kouúngur var utaulands, og farizt það ágætlega, rèð konúngi fastlega til að láta ekki drotníngu frá sèr, til þess að

hann þyrfti eigi að skila aptur öllum þeim löndum er drotningu höfðu fylgt. En er Suger var dáinn skildi konúngur Eleónóru drotníngu við sig, og sex vikum síðar giptist hún *Hinriki Plantagenet af Anjou,* er litlu síðar (1154) varð konúngur á Englandi og hertogi yfir Norðmandí (Hinrik annar 1154—1189). Englands konúngur eignaðist á þenna hátt alla norður og vesturströnd Frakklands, eður helmíngi meira land, en það sem þá lá undir Frakkakonúng. Að sönnu varð Hinrik, að svo miklu leiti þetta ríki hans á Frakklandi snerti, nokkurskonar lènsmaður (jarl) Frakkakonúngs, en í raun rèttri var það ekki nema að nafni einu.

Að ná þessum mörgu og miklu löndum, er Englakonúngur hafði að lèni á Frakklandi (Guienne, Poitou, Maine, Anjou, Norðmandi og Bretagne), undir Frakklands krúnu, var hið mikla verkefni, sem *Filippus annar Ágústus* (1180—1223), sonur Loðvíks og eptirmaður hans, tókst á hendur. Filippus Ágústus var bæði vitur maður og framkvæmdarsamur, og er hann jafnan talinn með hinum merkustu konúngum Frakklands, en ótryggur var hann, harðdrægur og brögðóttur þegar því var að skipta. Meðan Hinrik annar Englakonúngur sat að völdum, og synir hans gjörðu uppreist í gegn honum, veitti Filippus konúngur þeim lið og efldi þá þannig til ófriðar móti föður þeirra. Meðan *Ríkarður ljónshjarta* var fjærri ríki sínu og sat í varðhaldi, eins og áður er sagt, rèð Filippus á lönd þau, er Ríkarður hafði að lèni á Frakklandi — og þó hafði Filippus heitið því og bundið svardögum, að hann skyldi láta lönd Ríkarðar óáreitt meðau hann væri hvergi nærri. Þegar Ríkarður var heim kominn gat hann að vísu stöðvað aðfarir Frakkakonúngs, en þegar Ríkarður var dáinn, og *Jóhann landlausi,* bróðir hans, hafði tekið við ríki (1199—1216), þá varð Filippusi því betur framgengt.

*Jóhann landlausi* var bæði illur maður og ónýtur konúngur; hann drap *Arthúr* Gottfreðsson, bróðurson sinn, því að hann óttaðist að hann mundi komast til ríkis á Englandi. Gottfreður var eldri en Jóhann og hafði fengið Bretagne að lèni af föður sínum, var því Arthúr þar til arfs borinn eptir hann. Fyrir þá sök stefndi Filippus Frakkakonúugur Jóhanni, sem frakkneskum jarli fyrir sinn dóm, en Jóhann sat kyr og kom ekki til Frakklands, lýsti þá Filippus yfir því, að Jóhann hefði fyrir

gjört jarlsdómi (*lènsrètti*) sínum. Og þar eð nú Innocentius þriðji einnig kom til sögunnar og bannfærði Jóhann, þá gat Filippus því betur haft það fram, er hann vildi í viðskiptum þeirra Jóhanns, og lagt undir sig öll þau lönd er Englakonúngar höfðu haft að lèni á Frakklandi, suður að *Loire-fljóti*, en þær sveitir (Guienne) sem voru fyrir sunnan fljótið fylgdu Englandi lengi eptir það, einkum vegna þess að íbúar þeirra landa (*Akvitanía forna*) vildu eiga sem minst saman að sælda við norður byggja á Frakklandi. *Ottó* keisari hinn fjórði vildi síðan hjálpa Jóhanni landlausa móðurbróður sínum, en Filippus snèrist í móti keisara og vann sigur á honum hjá *Bouvines* á Flæmíngjalandi (1214) eins og fyr er ritað; hafði Filippus konúngur engar ónáðir af honum eptir það. En Jóhann landlausi varð svo óvinsæll á Englandi að við sjálft lá, að hann yrði rekinn frá ríki en Loðvík sonur Filippusar Frakkakonúngs tekinn til konúngs; fór konúngsson í því skyni til Englands, en sú för varð þó að erindisleysu.

Greifarnir af *Toulouse*, er flestir hètu *Remundar*, voru ríkastir af lendum mönnum (lènsdrotnum) á Suður-Frakklandi. Þar hafði um þessar mundir hæli sá flokkur manna er *Albigensar* hètu (af biskupssetrinu *Alby*). Trú þeirra var í mörgum greinum frá hverf hinni rómversku kirkju, og komin með fyrsta austan úr Asíu með krossfarendum. Albigensar vildu «*hreinsa*» kirkjuna frá öllu því, er þeir kölluðu mannasetníngar; þeir voru því kallaðir grísku nafni Καϑαροί þ. e. hinir hreinu[1]; en þeir fóru fram með ákefð og ofsa, og gerðu gys að helgum tíðum, og brutu kirkjur. Annar trúarbragðaflokkur var sá, er *Valdensar* hètu, og tóku nafn af kaupmanni einum í Lyon er hèt *Petrus Valdus*. Þeir höfðu aðsetu í Alpadölum og í Júrafjöllum, voru í sumu líkir Albigensum, en siðlátari og stiltari; þeir höfnuðu öllum auði og öllu verzlegu valdi gagnstætt katólsku kirkjunni, en vildu hafa alt einfalt og óbrotið eins og á postulanna dögum; þeir neituðu yfirdrotnan páfans, en vildu halda fast við ritnínguna, sem þá einu og rèttu uppsprettu trúarinnar. Leifar Valdensanna hafa jafnan haldizt við í Alpafjöllum, þrátt fyrir allar ofsóknir. Valdensar fóru sèr hægt svo að lítið bar á þeim,

1) Af þessu gríska orði segja sumir að nafnið «*Kjetter*» = trúvillíngur, sè myndað.

og þeim var lítill gaumur gefinn fyrst framan af, en um Albigensa var alt öðru máli að gegna; þess vegna skarst kirkjan í leikinn og tók harðlega í tauma. Öndverðlega á þrettándu öld hófust þannig tvö *múnka fèlög*: *Dominikanar*, eptir spánverskum höfðíngja Dominikus, og *Fransiskanar*, eptir ítölskum manni Fansiskus af Assisí. Hvorirtveggja voru kallaðir *ölmusu bræður* (*Tiggermunke*), því að þeim var gjört að reglu að lifa við fátækt og af ölmusum. Aðalstarf þeirra skyldi vera það, að predika, og Dominikönum var á hendur falið að stemma stigu fyrir fjölgun og útbreiðslu trúvillínganna; enda var það þetta múnka fèlag sem fèkk komið á fót hinum voðalega *ransóknarrètti* (*Inkvisition*), er einkum átti sèr stað á Spáni. Bæði fèlögin voru um lánga tíma hinar öflugustu stoðir páfaveldisins.

En er menn sáu að flokkum trúarvillínga í Suður-Frakklandi varð eigi eytt með góðu, þá rèð *Innocentius* þriðji það af, að beita hörðu við þá (1209); bauð út leiðángri á hendur þeim og kallaði það krossferð. Rèðust margir aðalsmenn norðan úr Frakklandi til þeirrar ferðar, en *Símon* af *Montfort*, er og var jarl af Leicester í Englandi, var einna helztur af foríngjum fyrir liðinu; var nú ferðinni einkum heitið gegn Remundi 6. greifa af Toulouse, því að sagt var að hann hèldi Albigensum í skjóli sínu. Remundur varðíst krossfarendum þessum um stund, og hafði styrk af Pètri konúngi 2. í Arragonín, en þó varð hann svo aðþrengdur að hann varð að gánga í lið óvina sinna og bera vopn í móti þegnum sínum. Þó leizt páfa ekki annað ráðlegra en setja Remund frá völdum, og stofna þar nýtt höfðíngjadæmi og setja Símon af Montfort til landstjórnar. Krossfarendur fóru yfir landið með guðlausri grimd, og þar sem áður hafði verið auður og fullsæla varð nú eymd og volæði.

Þegar Símon af Montfort var dáinn (1218) tók Filippus Ágústus þátt í krossferð þessari, því að þá fyrst þóktist hann sjá sèr fært að ná Toulouse greifadæmi undir krúnuna. Meðan Filippus konúngur var í þeim umsvifum andaðist hann (1223), en sonur hans *Loðvík* konúngur *áttundi* (1223—1226)[1] tók við

1) Loðvík var eptir fyrstu konu Filippusar. Árið 1193 kvongaðist Filippus öðru sinni og átti Íngibjörgu dóttur Valdemars 1. Danakonúngs, til þess, hafa menn sagt, að geta eignast tilkall Danakonúnga til Englands. Þegar eptir brúðkaupið rak

þeim óeirðum; stóðu þær um hans daga og lyktuðu þannig, að Remundur sjöundi varð að láta meiri bluta ríkis sins til krúnunnar, en hitt sem eptir var fèkk Jóhanna dóttir Remundar, er var gipt *Alfons,* ýngra syni Loðvíks áttunda. Alfons dó barnlaus (1271) og þá komu einnig hans lönd undir Frakklands krúnu.

Eptir Loðvík áttunda tók sonur hans, *Loðvík níundi (hinn helgi)* konúngdóm á Frakklandi (1226—1270). Er hans áður getið í krossferðunum. Í óeirðum þeim, er afi hans átti við England og faðir hans við Albigensa, höfðu lönd krúnunnar stórum aukizt, og að því skapi magnaðist konúngur, en lènsdrotnar minkuðu. Konúngsvaldið efldist einnig á dögum Loðvíks níunda, þó hann legði eigi ný lönd undir ríki sitt; því að lög og rèttarfar tók þá stór miklum endurbótum: lög sem áður höfðu verið sett handa einstöku stèttum eða stöðum voru nú látin gánga yfir alt ríkið; hólmgöngur voru teknar úr lögum, en í staðinn settir vitnisburðir manna og önnur málsgögn; dómendum skipað um landið til að dæma mál manna; hin fornu lög Rómverja tekin sem fyrirmynd frakkneskrar lagasetníngar. Lènsdrotnar urðu að láta sèr lynda, hvort sem þeim líkaði betur eða ver, að málum væri skotið frá þeirra dómi til dóma þeirra er konúngur hafði skipað, og varð þetta atriði eitt með fleirum hið öflugasta ráð til þess að konúngsvaldið breiddist út um Frakkland og festi rætur í huga þjóðarinnar. En að þessu studdi eigi hvað minst rèttlæti Loðvíks konúngs níunda, sem var orðlagt bæði utanlands og innan, enda var það alvenja, að bæði höfðíngjar og alþýða lögðu vandamál sín á hans vald og beiddust hans úrskurðar. Þegar páfinn gjörðist svo ráðríkur, að hann vildi einn öllu ráða um kirknagóz og klerka embætti á Frakklandi, og enda skerða í mörgu vald frakkneskra lènsmanna, þá lèt Loðvík konúngur eigi á sig gánga eður sína menn, heldur mótmælti fastlega aðgjörðum páfans og verndaði með djörfúng og dugnaði rèttindi krúnunnar og lènsmanna sinna, og árið 1266 gaf konúngur út nafnkenda rèttarbót *(pragmatisk Sanction),* er skipar fyrir um öll kirkna og klerkamál í ríki hans. Í viðskipt-

Filippus drotníngu frá sèr og setti bana í klaustur, og kvongaðist í þriðja sinni. Þá skarst Innocentius 3. í leikinn, og kúgaði konúnginn til að taka Íngibjörgu drotníngu heim aptur. Er það eitt til merkis um mikilmennsku Innocentiusar páfa.

um við önnur ríki var Loðvík miklu sanngjarnari og ósèrdrægnari en konúngar voru alment um hans daga, og þess vegna vildi hann eigi færa sèr í nyt bágindi Englands og þýzkalands á þeim tímum; enda sýndi hann í öllum greinum að hann var guðhræddur maður og göfuglyndur, og mjög var *Karl af Anjou*, bróðir hans, honum ólíkur í skapi, því að hann var bæði grimmur og svikull; hann fekk Neapelsríki og Sikiley að lèni af páfa 1266. Höfðu Hohenstáfar ráðið fyrir því ríki um lángan aldur, eptir að ættleggur Norðmannakonúnga var liðinn þar undir lok. Loðvík helgi fór tvær krossferðir, eins og áður er sagt, og dó á hinni síðari suður við Túnis 1270.

## England frá 1100—1272.

Þegar *Vilhjálmur annar*, sonur *Vilhjálms Bastarðar* var dauður, átti Róbert bróðir hans, sem var elztur þeirra bræðra, að koma til ríkis á Englandi, en hann var þá í Jórsalaferð og hvergi nærri. *Hinrik Beauclerc*, sem var ýngstur þeirra Vilhjálmssona Bastarðar, sætti því lagi, lofaði Englendíngum öllu fögru og kom sèr svo vel við, að þeir tóku hann til konúngs. Hann var hinn *fyrsti* með því nafni konúngur á Englandi (1100—1135. Þegar Róbert kom úr Jórsalaferð og kallaði til ríkis á Englandi, vildi Hinrik eigi laust láta, og lá við ófriði ef *Anselmusi* biskupi af Kantaraborg hefði eigi með góðgirni sinni og mælsku tekizt að koma sáttum á milli bræðranna. Lèt Robert sèr lynda að halda Norðmandí og nokkurt lausafè að auki. En litlu síðar rauf Hinrik sættina, lagði Norðmandí undir sig og tók Róbert bróður sinn höndum og hèlt honum í varðhaldi til dauðadags. Hinrik átti í deilum við páfann; páfinn vildi einn eiga rètt á því í Englandi, eins og annarstaðar, að veita öllum andlegrar stèttarmönnum embætti, en konúngur vildi það eigi, þó fór svo að hann varð að láta undan páfa. Hinrik konúngur var vitur maður og vel máli farinn og hreystimaður mikill, en grimmur og ótryggur. Hann andaðist 1135 og átti eigi sonu á lífi skilgetna. En *Matthildur* dóttir hans, er fyrst hafði verið gipt *Hinriki fimta* Þýzkalands keisara, og síðan *Gottfreð Plantagenet*, greifa af *Anjou*, hafði fengið loforð lendra manna á Englandi fyrir því, að hún skyldi erfa þar ríki að föður sínum látnum. En er að því kom varð frændi hennar *Stefán af Blois*, dótturson

Vilhjálms bastarðar, hlutskarpari og var tekinn til konúngs á Englandi og hertoga í Norðmandí (1135—1154). Hófst nú ófriður milli hans og Matthildar; varð Stefán höndum tekinn en þó komst sú sætt á, að hann skyldi ríki halda til dauðadags, en tilskilið í móti, að Mathildur og Hinrik sonur hennar skyldi eignast ríkið eptir hans dag. Þegar Stefán konúngur dó (1154) kom þannig til ríkis á Englandi *Hinrik* (Gottfreðsson Plantagenet) *annar* (1154—1189).

Áður en Hinrik varð konúngur hafði hann kvongazt og átt *Eleonóru*, er Loðvík 7 Frakkakonúngur hafði skilið sig við. Með henni fèkk hann lönd mikil á Suður-Frakklandi, auk þess sem hann erfði eptir Gottfreð föður sinn. Þegar hann varð konúngur á Englandi fèkk hann einnig Norðmandi til forráða; hann átti því furðumikið land á Frakklandi (frá Flandern með sjó fram og alt suður til Pyreneafjalla) þó hann væri að nafni til jarl eða lendur maður Frakkakonúngs. Þessi voldugi og ráðríki konúngur, sem í mörgu líktist Vilhjálmi bastarði forföður sínum, lèt sèr fyrst og fremst ant um að koma kirkjunni undir yfirráð krúnunnar, því að um daga Stefans konúngs og meðan ófriður var í landi, hafði kirkian eða klerkavaldið á Englandi stórum magnazt. Konúngur sagði að, frá því er hann kom til ríkis, hefði klerkar að öllum jafnaði unnið 10 morðvíg á ári hverju, og engar refsíngar fyrir komið, því að klerkar dæmdu öll klerka mál, en nú vildi hann að sami rèttur næði til allra, og klerkar væri undirgefnir veraldlega dómendur sem aðrir þegnar hans; svo vildi hann og ráða því, hverjir biskupar yrði í ríkinu. Konúngur hafði fengið því fram komið, að Kanselleri hans og góður vinur *Tómas Becket* varð erkibiskup í Kantaraborg, og taldi sèr því víst að hanu mundi reynast sèr vel og styrkja sig til þess að takmarka klerkavaldið í landinu. Konúngur stefndi þing í *Clarendon* (1164) og bauð þángað öllum barúnum og biskupum í ríkiuu, og á því þíngi hafði konúngur það fram, að klerkar skyldi kosnir að konúngs ráði, og í öllum veraldlegum málum standa undir konúngs úrskurði og dómi, biskupar skyldi að sínu leiti eins og barúnar (lènsdrotnar) í ríkinu, þyggja og halda stólsjarðir sínar að lèni af konúngi. Hinrik konúngur vildi þannig alveg losa hina ensku kirkju undan yfirráðum páfans í Róm. Tómas erkibiskup og aðrir biskupar þorðu

eigi annað en samþykkjast frumvarpi því, er konúngur bar upp, og staðfestu það með undirskriptum. En Tómas erkibiskup sá sig þegar um hönd, kvaðst hafa verið tilneyddur af konúngi að samþykkjast gjörðina í Clarendon, og mótmælti öllu harðlega, er þar hafði verið afráðið, og fèkk páfann, *Alexander 3.* til þess að leysa sig af þeim eiði, er hann hafði konúngi unnið. Nú reiddist konúngur, sem von var, og erkibiskup varð að flýja úr landi. Tók Loðvík Frakkakonúngur 7. við honum fegins hendi og hèt honum sinni ásjá. Þar hafði erkibiskup ágætt skjól og þaðan lèt hann án afláts gánga mótmæli sín og mótþróa gegn Hinriki konúngi, en páfinn reyndi að miðla málum, og tókst það að lyktum og erkibiskup snèri aptur til Englands, en vægði þó í engu til við konúnginn; varð konúngi þá einhverju sinni það að orði við sína menn: hvort þorir enginn yðar að losa mig við þennan óhlýðna klerk? Fóru þá nokkrir þeirra til og drápu erkibiskup fyrir altari í kirkju hans (1170). En svo erfiður sem Tómas hafði verið konúngi áður, þá varð hann honum nú miklu háskalegri eptir dauðann, því að nú var hann tekinn í helgra manna tölu og páfinn hótaði banni yfir ríkið; þjóðin kendi konúngi um vígið, og alt snèrist svo í móti honum, að hann varð að vinna þess dýran eið, að erkibiskup hefði eigi verið veginn eptir hans ráði og vilja; hann varð en fremur að játast undir, að öllum kirkjunnar málefnum skyldi skotið til páfans atkvæða og úrlausnar, og að Clarendons-samþyktin skyldi ógild. En svo reis mikið orð á um helgi Tómasar biskups, að menn sóktu þúsundum saman til legstaðar hans, svo að sagt er, að á einu ári hafi komið til Kantaraborgar hundrað þúsundir pílagríma. Konúngur sjálfur fór og þángað nokkru síðar, gekk berfættur að gröf Tómasar, sat þar með föstu og bænahaldi einn sólarhríng, og að því búnu lèt hann múnka húðstrýkja sig svo vægðarlaust, að allur lýður tárfeldi sem á það horfði. Páfinn fèkk eptir þetta meira vald en áður yfir málefnum kirkjunnar á Englandi.

*Írland* hafði fram til þess, er hèr var komið, verið sjálfu sèr ráðandi og óháð Englandi. Þar voru 5 smákonúngar í landi er einatt áttust ílt við og börðust um yfirráðin, og þángað herjuðu jafnan víkingar af Norðurlöndum (*Austmenn*), gjörðu þar mikinn skaða og settu þar ríki á stofn. *Magnús* Noregs konúngur *berbeinn* hafði ætlað að leggja Írland undir sig en fèll

þar (1103). Írar voru keltnesk þjóð, hèldu hinni fornu brezku trú og kirkjusiðum, prestar voru þar kvongaðir og fátækir og voru alsendis lausir við páfann, eða hina katólsku kirkju. Nú hafði *Hadrianus* páfi hinn 4. falið Hinriki konúngi á hendur að vinna Írland undir rómversku kirkjuna, og gefið honum landið, því að páfarnir þóktust eiga ráð á öllum kristnum löndum í þá daga. Hinriki þókti boðið allfýsilegt, en þó liðu mörg ár þángað til að hann sá sèr fært og gat við snúizt því starfi. Ár 1171 fór hann herferð til Írlands. Þar voru hvergi samtök fyrir en alstaðar sundurlyndi og flokkadrættir, og fyrir því veitti konúngi hægt að leggja landið undir sig. Vann Hinrik konúngur bæði hin norrænu og hin keltnesku ríki á Írlandi. Klerkar þar í landi gengu undir yfirráð páfans og tóku upp siðu hinnar rómversku kirkju, einlífi klerka, tíundir, og Pèturspenínga. Frá þeirri tíð hefir Írland legið undir Englands krúnu. Þó reyndu Írar til öðru hverju að brjótast undan oki Englendinga, og lengi var það fram eptir öldum, að Írar guldu Englakonúngi skatta þegar þeir voru aðþrengdir og smeykir, en neituðu skattgjöldum þegar þeir þóktust óhræddir og öruggir til mótstöðu; þeir hötuðu Englendinga sökum ofríkis, en gátu aldrei orðið á eitt sáttir, eða hvorir öðrum samþykkir og samtaka.

Hinrik konúngur hèlt frillur margar, og kom það honum loksins á kaldan klaka, því að Eleónóra drotning hans æsti fyrir þá sök sonu sína og Hinriks til uppreistar móti honum, en þeir bræður voru óeirðarmenn miklir. Tveir af þeim dóu á undan föður sínum, en hinn eldri, er þá var lífs eptir, og *Ríkarður* hèt (*ljónshjarta*) varð konungur eptir föður sinn (1189—1199). Þegar er Ríkarður var til ríkis kominn fór hann Jórsalaferð, sem fyr er sagt, varð síðan handtekinn og sat í varðhaldi á Þýzkalandi, og kom eigi heim aptur til Englands fyr en 1194. Meðan Ríkarður var erlendis og í þeim nauðum staddur, hafði *Jóhann* bróðir hans (*hinn landlausi*) reynt að brjótast til ríkis á Englandi, en varð að hverfa frá þegar Ríkarður kom heim. Eptir það átti Ríkarður konúngur jafnan í óeirðum á Frakklandi, stundum við Filippus Ágúst Frakkakonúng, en stundum við lenda menn. Hina síðustu herferð fór Ríkarður þángað til lands og sat um kastala þann, er einn lendur maður átti. Þá var konúngur lostinn öru í handlegg, og varð það hans bani.

Því næst kom til ríkis *Jóhann hinn landlausi* (1199—1216) bróðir Ríkarðar, ráðlaus maður og grimmur. Ófriði þeim er hann átti við Frakkakonúng lauk svo, að Jóhann misti öll hin víðlendu hèröð, er Englakonúngar, fyrirrennarar hans, höfðu haft að lèni á Frakklandi, nema *Guienne* (þ. e. vesturhlutann af Frakklandi fyrir sunnan *Loire*-fljót). En svo ílt sem þetta var þá var þó viðureign Jóhanns við páfann, og ófarir þær, er konúngur þá hrepti, hálfu verri; enda munu sjaldan ójafnari menn hafa við átzt, en Innócentius þriðji og Jóhann konúngur landlausi. Svo bar til (1205) að menn höfðu eigi orðið ásáttir um erkibiskups kosníngu í Kantaraborg, og var því máli vísað til páfans. Innocentius 3. ónýtti kosnínguna, og lèt kjósa til erkibiskups mann þann, er hèt Stefán Langton, enskan að ætterni og hin merkasta mann; þessu reiddist Jóhann konúngur ákaflega, sendi menn til Kantaraborgar, lèt tvístra klerkunum víðsvegar sem kosið höfðu, og tók undir sig eignir þeirra. Páfinn ritaði Jóhanni áminníngarbrèf og sagði á reiði sína ef hann leiðrètti eigi þessa yfirsjón, en það kom fyrir ekki. Litlu síðar fól páfinn þremur biskupum í Englandi á hendur, að fá konúng til að láta undan, en bannfæra hann, ef hann vildi eigi bæta ráð sitt. En er þessir menn hittu konúng að máli, þá mælti Jóhann: »ef þèr dirfist að nefna bannfæríngu á nafn, þá sendi eg yður og alt klerkahyskið til páfans, en kasta eign minni á alt yðar jarðagóz. Alla rómverska menn, sem finnast í ríki mínu, læt eg taka, skera af þeim nef og stýnga út augu og sendi þá síðan heim til sín, til þess að þeir verði öllum mönnum auðþektir. Og ef þèr viljið halda heilli húðinni, þá verðið sem fyrst hèðan á burt og komið aldrei optar fyrir augu mèr». Í umboði páfans lýstu nú biskupar banni (*Interdict*) yfir Englandi. Allri guðsþjónustugjörð hætti þegar í stað um alt ríkið; ölturu voru svipt öllum skrúða, krossar, helgra manna myndir og klukkur ofan teknar, sveipaðar svörtum hjúpi, og lagðar á jörðina; öll lík voru grafin með vegum fram út um landið og í óvígðri moldu; öll hjón gefin saman á kirkjugjörðum; allar skemtanir og öll samkvæmi fyrirboðin; enginn maður mátti kjöt eta, enginn öðrum heilsa, enginn raka skegg sitt. Það var eins og alt landið væri búið sorgarbúníngi fyrir eins manns skuld, og óttaðist guðlega reiði og refsingu. En þrátt fyrir þetta ógnarlega bann lèt Jóhann ekki undan, en

svalaði heipt sinni á klerkunum; hann lèt reka þá af stöðum og taka eignir þeirra. Og í stað þess, að ná hylli þegna sinna og leita trausts hjá þeim móti páfanum og klerkavaldinu, þá gjörði hann þeim alt til skapraunar sem hann gat og fældi þá frá sèr, lagði á þá nýjar álögur, tók börn höfðingjanna í gislingu og hafði þau sèr við hönd, og kúgaði þannig landsfólkið með herliði því, er hann hafði tekið á mála; gekk svo um hríð. Innocentius páfi fór að engu ótt, en sá svo um að altaf smáþýngdi fyrir fæti. Árið 1209 lýsti hann banni yfir Jóhanni konungi og hverjum manni, er nokkur mök vildi við hann hafa; stukku þá klerkar allir af landi burt, þeir er eptir voru. Og þegar kirkjan hafði unnið fullkominn sigur á trúvillumönnum (Albigensum) á Suður-Frakklandi um þetta leyti, þá loksins (1212) leysti páfinn alla lenda menn Jóhanns konúngs af hollustu eiði þeim, er þeir höfðu honum svarið, og skoraði á alla kristna landshöfðingja og barúna að gjöra samtök gegn hinum óguðlega konúngi, og fól Filippusi Frakkakonúngi á hendur að fara herferð til Englands og taka landið herskildi. Frakkakonúngur hafði þegar liðsafnað mikinn bæði á sjó og landi. Þá fór Jóhanni ekki að lítast á blikuna; annarsvegar óvinaher búinn til landgöngu, hinsvegar liðsmenn hans sjálfs all-ótrúlegir. Sló þá á hann svo miklu hugarvíli og hræðslu, að hann sá eigi annað vænna en friðmælast við páfann, og afsala sèr ríki sitt páfastólnum til handa. Í afsalsbrèfi Jóhanns segir svo: »af góðum og ljúfum vilja og til þess að öðlast fyrirgefningu synda minna og miskun hjá guði, afhendi eg guði, postulunum Pètri og Páli, Innocentíusi páfa, mínum herra, og hans eptirmönnum, England og Írland, en áskil mèr eptirleiðis að hafa lönd þessi að lèni og gjalda páfastólnum árlegt afgjafd af«. Því næst lagði konúngur af sèr bæði kórónu og veldissprota, gjörði knèfall og sór lènsmannaeið, en Pandólfur legáti páfans tók í móti.

Nú var landið leyst af hínu mikla banni, er á því hafði legið í 6 ár, og klerkar vitjuðu aptur staða sinna. Stefán Langton erkibiskup krafðist að fá aptur einkarèttindi þau, er Hinrik konungur fyrsti hafði veitt biskupum og barúnum, en Jóhann tekið af þeim. Barúnarnir, sem fyrirlitu Jóhann eptir alla þá niðurlægingu, er hann var kominn í, styrktu erkibiskup að málum þessum, en Jóhann vildi ekki verða við bæn þeirra. Þá gripu

höfðingjar þessir til vopna og gjörðu konúngi aðsúg og kúguðu hann til að samþykkja og undirskrifa skjal eitt, er mjög er frægt orðið og heitir: *frelsisskrá hin mikla* (*magna charta libertatis*) 19. dag júním. 1215. Þetta merkilega skjal, sem enn er undirstaða hins enska stjórnarfyrirkomulags, veitti kirkju og kennilýð aptur hið forna frelsi, setti fastar reglur um skyldur og rèttindi lendra manna, kom allri kaupverzlun og allri bæjarmálefnastjórn borganna undir vernd laganna, endurbætti alt rèttarfar og lagði grundvöllinn undir hið enska *þjóðarþing* (*Parlament*). Því að upp frá þessu mátti konúngur ekki leggja *skatta* á þjóðina, nema því að eins, að hann kveddi klerka og barúna til þíngs og fengi þeirra samþykki til skatta-álögunnar. Frá þeim tíma fór þjóðfrelsinu einlægt fram á Englandi, eins og hins vegar konúngsvaldinu á Frakklandi. Konúngur reyndi að vísu til að prettast um loforð sitt og rjúfa alla samnínga, og hafði nú Innócentíus páfa meðmæltan sèr, því að páfa stóð stuggur af orku og frelsi hinnar ensku þjóðar, og hugði að England mundi brjótast undan yfirráðum páfastólsins, kvað frelsisskrána ógilda og bannfærði barúna alla. En þá snerist Langton erkibiskup í móti páfa og barúnar voru hvergi uppnæmir, heldur settu Jóhann af ríki og buðu það aptur Loðvík syni Filippusar Ágústs Frakkakonúngs, en þá andaðist *Jóhann* (1216) um það leyti; var þá *Hinrik* sonur Jóhanns, en þá barn að aldri, til konúngs tekinn og kallaður *Hinrik priðji*, en Loðvík konúngsson fór jafnnær aptur heim til Frakklands.

Þannig var einmitt á dögum hins ónýtasta konúngs grundvöllurinn lagður undir hið eptirfaranda veldi og mikilmennsku hinnar ensku þjóðar. Að England misti lönd á Frakklandi fyrir handan sund, var því í raun og veru til gagns en ekki skaða, því að alla þá stund sem Englands konúngar áttu löndum að ráða á Frakklandi, höfðu þeir og allur sá sægur af frakkneskum höfðíngjum, sem fylgdi þeim til Englands og settist þar að, ekki viljað heita Englendíngar heldur Frakkar, og fyrirlitið hina engilsaxnesku þjóð á Englandi, svo sem undirokaða og ánauðuga. En eptir að löndin frakknesku voru gengin undan, varð alt þetta stórmenni á Englandi að skoða sig sem enska menn, England sem fósturjörð sína og hina ensku þjóð sem bræður sína; það sem var hagur þjóðarinnar, það var og hagur höfðíngja þessara.

Frelsisskráin (*magna charta*) er einmitt hinn fyrsti vottur, hinn fyrsti ávöxtur af samtökum og samvinnu þjóðarinnar og höfðíngjanna. Þjóðernin blönduðust nú saman (það sem komið var frá Norðmandí og handan af Frakklandi, og hitt sem fyrir var á Englandi), og þaðan er hin mikla og styrka enska þjóð runnin. Þegar *Hinrik þriðji* (1216—1272) var komin til lögaldurs brá hann út af því er stóð í frelsisskránni, og lagði skatta á þjóðina eptir geðþótta sínum; hann vildi og ná undir sig Neapelsríki, þegar Hohenstáfa-ættin var liðin undir lok, og verða keisari á Þýzkalandi, en það gat ekki tekizt; hann lèt og páfanum haldast uppi þúngar fjárheimtur af Englandi, og mælti ekki í móti, var í flestu aðgjörðalítill, en lèt frakkneska vildarmenn ráða sem mestu. Varð konúngur af öllu saman þessu mjög óþokkaður. Tóku þá höfðíngjar sig saman gegn honum og höfðu fyrir oddvita *Símon Montfort*, jarl af *Leicester*, son þess er áður er nefndur og stóð í ófriði við Albigensa. Fyrst kúguðu höfðíngjar konúnginn til ýmsra loforða, en síðan er hann sveikst um alt, gripu þeir til vopna og áttu við hann bardaga hjá *Lewes* (1264). Þar varð konúngur handtekinn og Ríkarður af Cornwallis bróðir hans, og Játvarður sonur hans. Símon Montfort tókst nú ríkisstjórn á hendur, stefndi alsherjarþíng 1265 (Parlament), og kvaddi þángað helztu barúna og klerka, en þar að auki fulltrúa fyrir hönd hinna smærri jarðeigenda í hverju greifadæmi (*Shire*), og frá borgarastèttinni í hverri borg. Af þessu þíngi myndaðist síðan *efri* og *neðri málstofan*, eða *Lávarðastofan (house of lords)* og *alþýðumannastofan (house of Commons)*, sem hið enska »*parlament*» skiptist í. En Símon Montfort sat skamma stund að völdum, því að sama árið slapp Játvarður konúngsson úr varðhaldi, safnaði liði, barðist við Símon hjá *Ewesham* 1265, og fèll Símon í þeirri orustu, en Hinrik 3. komst aptur til ríkis. Nokkru síðar fór Játvarður konúngsson Jórsalaferð og hitti á þeirri leið hinn frakkneska skipaflota, er flutti heimleiðis lík Loðvíks konúngs hins helga.

## Innócentíus þriðji. (1198—1216).

Eptir andlát Cölestinus páfa hins þriðja (1198) var *Lóthar* kardínáli kosinn í hans stað til páfa; tók hann sèr þá nýtt nafn eins og siður var til og nefndist *Innócentíus* hinn *þriðji* með

því nafni. Hann var af göfugri ætt rómverskri, rúmlega hálf fertugur að aldri, hafði iðkað vísindi af mikilli kostgæfni í hinum nafnfrægu háskólum í París og Bologna, og þókti vera hið mesta afbragð annara manna sakir vitsmuna og náms, alvörugefni og siðprýði. Þegar hann var seztur að völdum kom það bráðum í ljós, að hann var djúpsær stjórnvitríngur, óþreytandi starfsmaður, rèttlátur og manna þrekmestur; það mátti segja um hann, að í honum kæmi sýnilega fram hið ógnarmikla veldi, andlegt og veraldlegt, er smámsaman hafði sameinazt og þroskast í hinni rómversku páfatign.

Hann lèt sèr mjög ant um að *Ítalía gæti öll sameinazt í eitt ríki,* sem væri öðrum þjóðhöfðíngjum óháð, en innbyrðis sátt og sammála, og gæti þannig með verzlegu valdi staðizt gegn allri ótilhlýðilegri afskiptasemi hinna þýzku keisara um hag og málefni kirkjunnar. Hann stýrði Neapelsríki og Sikiley fyrir hönd *Friðriks* af Neapel (meðan Friðrik var í bernsku) með hyggindum og dugnaði, og gjörði alla *Welfúnga* á Ítalíu vini og liðsmenn kirkjunnar. Þegar styrjöld varð um konúngs kosníngu á Þýzkalandi eptir dauða Hinriks 6. rèð Innócentíus því, að Ottó 4. var kjörinn, því að hann var Welfúngur og sjálfkjörinn verndari kirkjunnar; en páfinn var ekki lengi að hugsa sig um, að senda Friðrik fóstra sinn, þótt úngur væri og fremstur af Gíbellínum (Giblúngum), til Þýzkalands, til þess að heimta þar konúngstign, þegar Welfa-konúngurinn brást og vildi seilast til landa á Ítalíu, er heilög kirkja var eigandi að. Því að Innócentíus hugði að Friðrik myndi sízt bregðast sèr; hann hugði jafnvel að gíbellinskur keisari myndi líka beygja knè fyrir kirkjunin, og þókti frelsi Ítalíu nægilega borgið, er hann hafði látið Friðrik heita sèr því með svardögum, að sonur hans skyldi að eins hljóta Neapelsríki, og það skyldi laust við Þýzkaland.

Filippus annar Ágústus, Frakkakonúngur, hafði rekið Íngibjörgu drotníngu sína frá sèr, eins og fyr er ritað, og kvongast aptur annari. Þegar Innocentius 3. var seztur að völdum skarst hann í málið, því að hèr var bæði að tala máli saklausrar konu og gæta rèttar og virðíngar kirkjunnar. Páfinn reyndi lengi og á marga vegu að fá hinn volduga og drambláta konúng að vægja til, en það hafði engan árángur, því að margir biskupar í norðurhluta Frakklands stóðu með konúngi. Þá lýsti legáti páfans

banni yfir Frakklandi. Filippus konúngur setti hart í móti hörðu, en varð þó um síðir undan að láta, og játa opinberlega á klerkaþíngi, er páfinn lèt setja (1201), að Íngibjörg væri eiginkona sín og drotníng.

Þegar á hinu fyrsta ríkisstjórnarári sínu lèt Innócentíus boða mönnum Jórsalaferð. Saladín súltan var fyrir skömmu andaður, og þá lifnaði von manna, að geta rètt við aptur hið hnignanda veldi kristinna manna í landinu helga, og náð Jerúsalem. Krossferðin lyktaði með því, að Konstantínópel var tekin (1204). Innocentius páfa mislíkaði aðferð krossfarenda, og veitti þeim þúngar átölur fyrir, að þeir hefði borið vopn móti kristnum mönnum í stað þess að beita þeim móti vantrúuðum; en þó færði hann sèr það í nyt, er krossfarendur höfðu afrekað; hann setti rómverskan yfirbiskup (*Patríarka*) í Konstantínópel, og var eigi annað sýnna, en að hin gríska kirkja væri alveg sameinuð orðin hinni rómversku kirkju, og að páfinn í Róm drotnaði yfir öllum kristnum söfnuðum á jörðu.

Trúvillumenn á Norður-Ítalíu og Suður-Frakklandi reistu flokk í móti kirkjunni. Innocentius prèdikaði krossferð móti þeim, og hið grimma Albigensa-stríð endaði þannig, að kirkjan fèkk yfirráð í Toulouse, en Valdensana þóktist páfinn geta tekið í sátt við kirkjuna með því að setja múnkareglu á meðal þeirra.

Frá viðureign Jóhanns Englakonúngs og Innócentíusar páfa er áður sagt.

Árið 1215 stefndi Innócentíus fjölmennt kirkjuþíng í Rómaborg og var það haldið í kirkju þeirri er Laterankirkja heitir; það þíng sóktu 71 erkibiskup, 412 biskupar og fjöldi klerka; þángað komu «patríarkarnir» frá Konstantínópel, Jerúsalem, Alexandríu og Antiokkíu, eða sendu erindsreka sína; þángað komu sendi menn frá Þýzkalands og Grikklands keisurum og frá ýmsum konúngum; hafði engi maður fyr sèð slíkt mannval samankomið, og Innocentius, sem hafði sett niður greinir þær, er urðu með konúngum, skorið úr málum milli konúnga og þegna þeirra, brotið uppreist trúvillumanna á bak aptur, en eflt og aukið hina katólsku trú, hann gat nú komið fram á þíngi þessu sem sá, er alt vald hefði á jörðu, bæði andlegt og veraldlegt, og hann gat með sanni

líkt páfaveldinu við sól, en konúngsveldinu við túngl, er þyggur ljós sitt af sólunni.

Páfinn bar upp fyrir þíngmönnum ýmsar greinir, er snertu hin helztu trúaratriði hinnar katólsku kirkju, um kirkjustjórn, og kirkjuaga, en þíngheimur samþykti þær allar. Þar voru og gjörðar nokkrar samþyktir um trúvillumenn, og var ákveðið, að þeir skyldi ofsóktir og afmáðir með báli og brandi. Á því sama ári hafði páfinn sett múnkareglu, er hinn helgi *Dominicus* af Spáni var yfirskipaður; var það ætlunarverk hans og múnka þeirra, er við hann voru kendir, að efla hina einu *sáluhjálplegu katólsku trú,* og einkum að snúa trúvillumönnum til rèttrar trúar. Á þínginu fèkk Innocentius dómendum kennimannlegrar stèttar það erindi í hendur, að halda spurnum fyrir um alla trúvillumenn og eyða þeim; voru einkum tilnefndar leifar Albigensa; en áður lángt liði höfðu Dominicus-múnkar alveg tekizt það starf á hendur.

Eitt af umtalsefnum kirkjuþíngsins var að finna ráð til þess að vinna landið helga aptur úr höndum Múhameðsmanna; almennum *guðsfriði* var lýst yfir til þess, að hvorki sundurlyndi eða stríð meðal kristinna manna skyldi spilla þessu hinu almenna áformi. Innocentius fór sjálfur norður á Ítalíu til að miðla málum milli borgarmanna í Genúa og Písa, en þá lagðist hann í sótt, er leiddi hann til bana. Hann var 55 vetra, er hann andaðist (1216).

Páfaveldið sem Gregoríus 7. hafði komið á fastan fót stóð með mestum blóma um daga Innocentiusar þriðja, og mátti með sanni segja að Rómaborg væri þá í annað sinn höfuðborg heimsins. Í augum þjóðanna var alt andlegt og veraldlegt veldi sameinað hjá páfanum. Hann var eptirkomandi Pèturs postula, og jarl Krists á jörðu, og hann rèð því, hverju kristnir menn skyldi trúa, og hvernig menn skyldi trúa. Sú kenníng ruddi sèr von bráðar til rúms, að páfanum gæti eigi skjátlað, eða með öðrum orðum, að úrskurður páfans í andlegum málefnum hlyti að vera samkvæmur guðlegum sannindum og rèttlæti; frá páfanum fengu biskupar alt sitt vald, frá páfanum gekk út bannfæríng til einstakra manna, eður ríkja og landa; frá páfanum kom öll fyrirgefníng syndanna (aflát, lausn); hann hafði sina erindsreka (legáta) út um öll lönd til að framkvæma sinn vilja; allur konúng-

dómur og veraldarvald var undirgefið páfanum, og frá honum hafði keisarinn sverð sitt að lèni. Þannig hafði páfaveldið náð því takmarki sem því var fyrir sett. En eins og það nú var orðið hlaut það að hafa í sèr fólgna rót sinnar eigin eyðileggíngar. Því að ekki gat hjá því farið, að *kristilegt frelsi* risi í gegn þeim ógna misskilníngi, er setti lærdómsgreinir kirkjunnar í stað hins lifanda og guðdómlega orðs; það gat eigi hjá því farið, að *ríkin* gripi til varnar móti ráðríki og yfirgángi páfanna, er svo voru mikil brögð að orðin, að við sjálft lá, að öll borgaraleg röð og regla myndi um koll kastast.

### Friðrik keisari annar (1215—1250). Endalykt Hohenstáfa.

Þess er áður getið að Innocentius 3. sendi *Friðrik* fósturson sinn til Þýzkalands og styrkti hann til keisaradóms (1215). Það ræður því að líkindum, að hinn úngi keisari hafi gjört margt að ráði og vilja fósturföður síns, og verið honum eptirlátur; og svo var um það, að Friðrik lofaði páfa því, að elzti sonur sinn, sem erfa átti Sikiley og Neapel, skyldi ekki verða valinn til keisara. því að ekki var það álitlegt fyrir páfaveldið, að Ítalía nyrðst og syðst skyldi lúta einum og sama þjóðhöfðíngja. Einnig hèt Friðrik páfanum að fara krossferð til Jórsala. En Innocentius dó, og Friðrik keisari var of vitur og mikill maður til þess, að láta páfana leiða sig hvort sem þeir vildu. Hann hafði hugfest, að hefja kesaratignina svo, að hún væri engum veraldlegum yfirráðum háð, og brjótast fast í móti sèrhverri fyrirstöðu, hvort sem hún kæmi frá lènsdrotnum, hinum frjálsu borgum, eða frá páfanum sjálfum, og þá fyrirætlan sína efndi hann trúlega. Hann lenti því bráðum í missætti við eptirmann Innócentiusar, *Hónóríus* páfa hinn 3. (1216—1227), er bar Friðriki keisara á brýn, að hann hefði látið kjósa Hinrik elzta son sinn til keisara, og þannig gengið á heit sín, en Friðrik svaraði því svo, að hann gæti eigi ráðið frjálsum kosníngum hinna þýzku höfðíngja er kosið hefðu. Keisarinn hafði og, eins og fyr er sagt, heitið að fara krossferð til Jórsala, en dregið þá ferð ár eptir ár; páfinn minnti hann jafnan á það, en Friðrik þóktist ekki eiga heiman gengt fyr en ríki hans væri orðið vel friðað. Þá hafði hann mist drotníngu sína, er hèr var komið, og fèkk páfinn komið því til

leiðar að Friðrik kvongaðist öðru sinni og gekk að eiga einkadóttur Jóhanns greifa af Brienne, er þá var konúngur að nafni í Jerúsalem, hún hèt *Jólantha;* hafði keisarinn þannig fengið tilkall til ríkis í Jórsölum, og meiri hvöt en áður til fararinnar. Þó drógst það enn um tveggja ára tíma að hann færi þángað. En um þær mundir dó Honórius páfi, og eptir hann settist *Gregoríus 9.* í páfa sæti (1227—1241). Hann var hníginn að aldri, en hinn harðasti og einbeittasti maður og fetaði hvað hann kunni í fótspor Innócentiusar þriðja. Áður en Gregoríus var seztur að völdum minnti hann keisara á krossferðina, og Friðrik sá að nú myndi eigi lengur duga að teljast undan, og lagði af stað (1227). Þá bar svo til að keisarinn sýktist og varð að snúa aptur, svo krossferðin fórst fyrir í það skipti. Varð páfinn þá æfareiður, og kvað þetta undanbrögð ein og skrópasótt og lýsti banni yfir keisaranum. En þegar er Friðrik var kominn aptur til heilsu, lagði hann af stað til Jórsala, og mundu menn ætla að slotað hefði þá reiði páfans, en það var öðru nær. Hann lèt kunngjöra bannið um allar jarðir, safnaði liði og brauzt inn í Neapelsríki til að ná því undir sig meðan keisari var út í Jórsölum. En það er frá ferðum Friðriks keisara að segja, að þó páfinn legði þar ýmsar tálsnörur fyrir hann, þá varð honum þar þó betur framgengt sökum vitsmuna sinna, heldur en þeim sem fyrir hann höfðu þángað farið með ærnu liði. Súltaninn af Egyptalandi lèt Jórsali lausa við Friðrik og þar krýndi keisari sig sjálfur, því að enginn klerkur þorði nærri honum að koma. Áður en nokkurn varði var Friðrik aptur kominn heim í ríki sitt á Suður-Ítalíu, og skipti það engum togum áður liðsmenn páfans hrukku undan allar götur út úr Neapelsríki. Keisarinn þóktist þá nóg hafa aðgjört og bauð Gregoríusi sættir, og með því að illa mæltist fyrir aðförum páfa, og menn urðu ekki fúsir til liðveizlu við hann móti keisara, þá lèt páfi tilleiðast, komst þannig friður á og keisarinn var leystur af banni (1230).

Þau fáu ár, sem friður þessi stóð, notaði Friðrik sem bezt hann kunni til þess að efla hverskonar framfarir í ríki sínu. En einkum sá þess menjar í Neapelsríki og á Sikiley, því að honum voru þau lönd kærari en Þýzkaland, enda sat hann öllum stundum þar syðra. Hann skipaði þar lögum og landsrètti, setti

þjóðþúng og kvaddi þángað ekki að eins höfðíngja, eins og siður var til, heldur einnig fulltrúa frá borgum og bæum; hann reisti borgir og jók sumar og prýddi, verzlun dafnaði, vísindi tóku miklum þroska. Friðrik keisari hafði nokkrum árum áður (1224) sett háskóla í *Neapel*;[1] keisarinn var og sjálfur hinn mesti vísindavinur, og hafði jafnan lærða menn við hirð sína og í miklum metum. Voru margir þeirra serkneskir (Arabar), enda voru margar þúsundir Serkja búsettar í ríki hans þar á Íalíu; keisarinn hafði og marga menn þeirrar þjóðar í liði sínu, og reyndust þeir jafnan hinir hraustustu til framgöngu. En þessa vináttu keisarans við Serki og öll hans viðskipti við þá, kallaði páfinn og klerkalýðurinn allur hina mestu vantrú og guðleysi, og spöruðu engan hlut til að telja mönnum trú um slíkan óhróður, var það og auðgjört á þeim tímum, er hjátrúin drotnaði meðal manna.

Það var nú þessu næst, að ófriður mikill hófst með Friðriki keisara og borgunum norður á Lombardíu. Borgir þessar voru vellauðugar og vildu enga yfirdrotnan þola, en keisarinn krafðist af þeim hlýðni og hollustu, því að hann var lènsdrottinn þeirra, samkvæmt Konstanzar-friðnum (1183), er gjörður hafði verið á dögum afa hans, Friðriks barbarossa. Keisaranum veitti í fyrstu betur og vann mikinn sigur á Lombardi-mönnum (1237) við *Cortenova*. Páfinn reyndi að miðla málum, en keisarinn vildi eigi gánga að þeim friðarkostum, er boðnir voru, og um þær mundir setti hann *Enzio* son sinn, ágætan dreng, til ríkis á Sardinarey, þvert í móti vilja páfans, er vildi halda eyjunni undir páfastól. Af þessu öllu saman snèrist Gregoríus páfi í móti Friðriki og bannfærði hann að nýju (1239). Páfinn lèt eigi þar við sitja; hann skoraði á alla höfðíngja á Þýzkalandi að kjósa nýjan keisara, en þeir svöruðu, að það kæmi ekki til páfans að bjóða slíka kosníngu, heldur einúngis hitt, að krýna þann, er þeir hefði kosið. Þegar þetta brást rítaði páfi til Frakklands, og kvaðst hafa sett keisarann frá völdum sakir hans ótal mörgu afbrota, er öllum væri kunn, og kveðið svo á, að Robert af Anjou bróðir Frakkakonúngs skyldi verða hans eptirmaður. Loðvík konúngur 9. svaraði brèfi páfa svo: «með hvaða rètti getur

1) Í *Salernó* þar í landi hafði um mörg ár verið nafnfrægur *læknaskóli*, að sínu leiti eins og háskólinn í *París* var nafnkendur *guðfræðíngaskóli* og háskólinn í *Bólogna lögvitríngaskóli*.

hinn heilagi faðir dæmt og rekið frá völdum án allra sannana slíkan þjóðhöfðíngja, er engan á sèr æðri? Hafi Friðrik verðskuldað það, þá getur það að eins gjörzt á almennu kirkjuþíngi. Hvað afbrot hans snertir, þá er ekki ráðlegt að trúa ákærum fjandmanna hans, og þá heldur ekki páfans. Oss hefir hann verið góður nábúi, og vèr getum eigi sèð, að hann hafi í nokkru brotið móti trúnni. Vèr viljum ekki úthella blóði voru gegn þeim höfðíngja, er hefir svo mikið veldi við að styðjast, og því meiri styrk af rèttlátu málefni». Keisarinn var hins vegar ekki aðgjörðalaus. Hann refsaði klerkum þeim í ríki sínu, er eigi vildu halda helgar tíðir eður gegna prestsþjónustu, rak af landi, burt múnkana í *Monte Cassino*-klaustri, því að þeir höfðu gengið vel fram, að auglýsa bannfærínguna, og lagði undir sig ýmsar borgir í páfa ríkinu (kirkjulöndunum). Þrengdi nú mjög að páfa, og tók hann þá það til bragðs, að stefna kirkjuþíng í Rómaborg (1241). Keisarinn bjóst við engu góðu af þeim kirkjufundi, og einsetti sèr að eyða honum. Liðsmenn hans sátu á vegum öllum er lágu til Rómaborgar, og var því eigi auðsókt þángað óvinum hans; en kardinálar og biskupar sem til þíngs bjuggust, hèldu allir til Genúa, og fengu sèr þar far og ætluðu þannig sjóleið suður til Róms. Enzio keisarason sat fyrir þeim og barðist við þá, hrauð skip Genúa manna og handtók klerkalýðinn; varð því eigi af þeim kirkjufundi. Keisarinn tók hverja borgina af annari í löndum páfa. Gregoríus 9. var nú því nær tíræður að aldri og gat eigi lengur enzt, þótt seigur hefði verið. Þetta mikla andstreymi vann á honum að fullu og lagði hann í gröfina 1241. Honum næstur varð páfi *Cölestinus* hinn 4. með því nafni, en hann var hníginn mjög að aldri og heilsu og dó fáum vikum síðar. Leið þá hátt á annað ár til þess er Sinibald Fieskó karðináli frá Genua var til páfa kosinn (1243), tók hann sèr, eins og siður var til, nýtt nafn og nefndi sig *Innócentius fjórða*. Hann var slúnginn maður og fastráður. Hann hafði verið mikill vin Friðriks keisara; hugðu því margir gott til sátta og samkomulags, en Friðrik keisari mælti: «það hygg eg, að nú eigi eg einum vini færra en áður í flokki kardinála, en hafi fengið í móti óvinveittan páfa; enginn páfi getur fylgt Ghibellínum». Keisarinn var löngum sáttgjarn, og bauð páfa góða kosti, en páfi vildi hvorki neita þeim eða

játa, meðan keisarinn var í nágrenni við Rómaborg, og rèð sem mestu á Mið-Ítalíu; þess vegna tók páfi það til bragðs, að hann strauk burt frá Róm til Lyonsborgar á Frakklandi. Þóktist hann þá fyrst geta um frjálst höfuð strokið, er keisarinn var hvergi nærri. Þegar Innocentius var kominn til Frakklands bannfærði hann keisarann og kvaddi þíngs í Lyonsborg (1245). Frá því þíngi gekk það páfaboð út, að keisarinn hefði fyrirgjört ríki og keisaratign, og páfinn beitti öllum brögðum til þess að fá boði þessu framgengt; hann leysti hvern mann af eiðum sínum við keisarann, og sendi múnka með fè og fagurmælum til Þýzkalands og um Neapelsríki til þess að æsa þegna Friðriks til óhlýðni og uppreistar gegn honum. Þetta tókst og að nokkru leiti á Þýzkalandi; borgirnar reyndust að sönnu flestar trúar keisaranum, en biskupar brugðust, og kusu til keisara *Hinrik* Raspe greifa af Tyringen; þó náði hann þar lítilli fótfestu, því að *Konráð* sonur Friðriks keisara vann sigur á honum hjá Úlm, og ári síðar dó Hinrik. Páfinn lèt eigi undan að heldur, en bauð keisaratignina ýmsum, þar á meðal *Hákoni* Noregskonúngi Hákonarsyni, en konúngur vildi eigi þyggja og svaraði svo: »fús er eg að berjast við alla óvini kirkjunnar, en eigi við alla óvini páfans». Loksins lèt einn úngur greifi af Hollandi, *Vilhjálmur* að nafni, tilleiðast og var kjörinn til keisara; Konráð keisarason gat ekki við ráðið; alt Þýzkaland var í uppnámi og hver höndin uppi á móti annari.

Á Ítalíu, þar sem Friðrik keisari var sjálfur, geisaði hinn mesti ófriður; keisarinn lèt aldrei hugfallast hversu margir og skæðir óvinir sem í móti honum risu og gekk svo um hríð að hann varð þeim öllum drjúgari. En á öndverðu ári 1248 beið hann ósigur hjá borg þeirri er Parma heitir, og upp frá því varð honum flest mótdrægt; en þó var sú þrautin þýngst, að ári síðar varð Enzio konúngur sonur keisarans handtekinn af Bólogna-mönnum, og hversu mikið fè, sem faðirinn bauð þeim, til útlausnar þessum hrausta og ágæta syni sínum, þá var það ekki fáanlegt. Enzio var 24 ára er hann var tekinn og sat í dýflissu 22 vetur til dauðadags.

Þegar hèr var komið var Friðrik keisari þrotinn að heilsu, og var það engin furða, í slíkum stórræðum sem hann hafði jafnan staðið, og átt að brjótast í móti páfaveldinu, eins og það

var þá í almætti sínu. Hann andaðist 1250, rúmlega hálf sextugur að aldri, og er sagt að enn sjái legstað hans í Palermo á Sikiley. Friðrik keisari var án alls efa einhver hinn merkasti þjóðhöfðíngi á miðöldunum; vísindamaður var hann umfram flesta á sinni tíð, og bera rit þau sem eptir hann eru þess ljósar menjar; svo var stjórn hans viturleg og góð yfir Neapelsríki, að almennt segja sagnaritendur, að því ríki hafi aldrei verið eins vel stjórnað eins og á hans dögum; hvílíkur þrekmaður hann hefir verið, sjèst bezt af því, hve lengi og vel hann barðist í móti páfunum, slík mikilmenni sem þeir þó voru bæði Gregoríus 9. og Innocentius 4. og sem kalla mátti að drotnuðu yfir hugum manna og aldarfari öllu um þær mundir, og þó keisarinn yrði að hníga að síðustu fyrir því ofurefli, þá má að nokkru leiti segja, að hann sigraði páfaveldið um leið og hann fèll, því að það varð aldrei samt og jafnt eptir það og fór smásaman hnignandi úr því.

*Konráð* fjórði sonur Friðriks keisara var að nafni einu eptirmaður föður síns á Þýzkalandi (1250—1254), en náði þar aldrei neinum almennum yfirráðum, því að þar ríkti þá óstjórn ein og flokkadrættir. Í Neapel og á Sikiley gekk betur, því að þar var *Manfreð*, sonur Friðriks keisara, landstjóri, og eptir dauða Konráðs bróður síns tók Manfreð sèr konúngsnafn yfir Neapelsríki; hann var hin mesta hetja og í flestu líkur því sem keisarinn hafði verið faðir hans. Innocentius 4. sá það glögglega, að þótt Friðrik 2. væri fallinn frá, þá yrði páfaveldinu jafnan hætta búin meðan nokkur af þeirri ætt væri uppi, þess vegna lèt hann Manfreð engar náðir hafa, heldur ofsókti hann og alla hans menn. Manfreð hafði jafnan sigur í þeirra viðskiptum og páfinn gat litlu áorkað í ríki hans. Meðan á þeim ófriði stóð dó Innocentius fjórði (1254), en páfar þeir, sem eptir hann komu, höfðu erft hatrið til Hohenstáfa, og hèldu ófriðnum áfram. Loksins leitaði *Urban* páfi hinn 4. sèr liðs á ættjörðu sinni Frakklandi, og bauð *Karli af Anjou*, bróður Loðvíks konúngs 9. ríki í Neapel og Sikiley. Karl var hinn grimmasti maður og vesti og mjög ólíkur Loðvíki bróður sínum, en hraustur var hann og dugandi til allra stórræða. Hann hugði gott til konúngdóms og tók Neapelsríki að lèni af pafa, safnaði þegar liði miklu af Frökkum og Guelfum og hèlt suður til Neapel. Manfreð varðist

vel, en í orustunni við *Benevent* (1266) var Manfreð svikinn af greifa einum, er verja átti fjallskörðin við Gariglianó; þau svik veittu Karli sigurinn. En er Manfreð sá sitt óvænna, þá vildi hann eigi lifa við ósigur og sókti fram þar sem mest var óvina þröngin fyrir og fèll með miklum orðstír. Eptir þessi tíðindi gáfust allir upp og gengu á hendur Karli, en stjórn hans var svo grimm, og menn hans svo drambsamir og rángsleitnir, að þeir sem enn þá voru lífs eptir af Manfreðs flokki (Gibellínum), gjörðu boð eptir *Konradín,* syni Konráðs fjórða, og beiddu hann koma og frelsa þá af harðstjórn og taka konúngdóm yfir föðurleifð sinni. *Konradín* var þá 16 vetra og var uppfæddur á Þýzkalandi, og ágætt mannsefni. Móðir hans beiddi hann að fara hvergi, því að Ítalir væri jafnan ótrúir, en hinn úngi maður hugði á frægð og frama, og tjáði eigi að letja hann. Hann hèlt því suður á Ítalíu, og safnaðist þegar lið til hans, og með fyrsta veitti honum betur en Karli, en svo fór, að við *Scurcola* eða *Tagliacozzo* (1268) vann Karl sigur og fekk handtekið *Konradín,* og lèt höggva hann ásamt vini hans *Friðriki* af *Baden.* Þegar Konradín var leiddur á höggpallinn kastaði hann glófa sínum til þeirra, er þar stóðu um hverfis, bað þá færa hann *Pètri* konúngi í *Arragoníu,* dótturmanni Manfreðs konúngs, sem fyr er nefndur, og kvaðst afhenda honum eptir sinn dag allan þann rètt, er hann hefði haft til ríkis í Neapel. Svo dó Konradín, sonar son Friðriks annars, fyrir böðuls exi Karls af Anjou.

Eptir fall þeirra Konradíns gjörðist Karl svo grimmur að engum varð viðvært. En sökum þeirrar grimdar hans og ofstopa frakkneskra manna misti Karl Sikiley nokkrum árum síðar. Maður hèt *Jóhann af Procida;* hann var fjáður maður á Sikiley og hafði verið vinur Konradíns og þeirra feðga. Hann flýði til Pèturs konúngs í Arragoniu (1276—1283) og eggjaði hann á allar lundir til hefnda. Konúngur þóktist að svo stöddu eigi hafa nægan styrk til slíkra stórræða, en kvaðst þó allfús til þess. Fór þá Jóhann land úr landi til þess að vinna menn í samband við konúnginn, og varð honum vel framgengt hjá ýmsum höfðingjum. Þessu næst fór Jóhann til Sikileyjar í dularbúníngi og kom þar fótum undir samsæri, en Pètur lagði af stað og suður til Afríku og lèt þar fyrirberast um sinn, til þess hann frètti hvað mönnum liði á Sikiley. En það er frá Sikiley

að segja, að á *annarsdagskvöld páska* (1282) gengu menn til aptansöngs í Palermóborg eins og vant var. Frakkar höfðu bannað landsmönnum að bera vopn þann dag, og einn frakkneskur maður, að nafni *Drouet*, vildi í því skyni leita á konu einni, hvort hún hefði eigi falið vopn undir klæðum sínum; frændum hennar, sem við voru staddir, þókti sèr og konunni gjörð smán með slíkri frekju og ókurteysi; Drouet var drepinn, og í einu vetfángi stóðu vopn á öllum frakkneskum mönnum, er þar voru í nánd. Þetta flaug eins og eldur í sinu bæ frá bæ; uppreisnin breiddist út um alla Sikiley, og svo nálega voru þar allir frakkneskir menn drepnir — en það voru margar þúsundir manna —, að sagan segir að einir tveir menn hafi komízt lífs af. Atburður þessi er almennt kallaður *Sikileyjar kvöldið (Den sicilianske Vesper)*. Þannig var Konradíns hefnt. Karl af Anjou var staddur hjá páfa, er honum bárust þessi ógnatíðindi; hann hafði reiðst fyrir minni sakir, og bjóst að hefna þessa manndráps og fór þegar með her manns til Sikileyjar, en þá kom Pètur af Aragoníu með 30,000 manns, og eyddi mestum skipaflota Karls; varð hann þá að hörfa undan, en Sikileyingar gengu allir á vald Pètri konúngi. Karl dó ári síðar og náðu ættmenn hans aldrei síðan yfirráðum á Sikiley, en um margar aldir var hún síðan undir stjórn Spánar konúnga eða ættmanna þeirra.

### Frakkland frá dögum Loðvíks helga til þess er Valois-ættin hófst til ríkis. (1270—1328).

Þar er nú til að taka sem fyr var frá horfið, að *Loðvík* konúngur hinn helgi andaðist (1270) á krossferð suður við Túnis á Afríku. *Filippus* sonur hans[1] flutti lík föður síns til Frakklands og tók þar konúngdóm eptir hann (1270—1285), og nefndist *Filippus þriðji*. Litlu síðar andaðist *Alfons* föðurbróðir hans og þá erfði Filippus konúngur meiri partinn af Suður-Frakklandi (Poitou, Auvergne, Toulouse og nokkurn hluta af Provence).

Páfinn hafði gefið *Karli af Valois*, ýngra syni Filippusar

1) Auk Filippusar má hèr geta *Róberts* ýngsta sonar Loðvíks helga, því að frá honum er *Bourbona-ættin* komin, er hófst til ríkis á Frakklandi 1589 með *Hinriki fjórða*, hinum merkasta konúngi.

konúngs, Aragoníu-ríki, fyrir þá sök að Pètur konúngur þar í landi, dótturmaður Manfreds og vinur Hohenstáfa, hafði tekið undir sig Sikiley og varið hana móti Karli af Anjou eptir Sikileyjar kvöldið (1282), eins og fyr er sagt. Filippus konúngur fór því herferð til Spánar til þess að ná landinu undir son sinn, en misti skipaflota sinn í viðureign við Aragonsmenn og sneri við það heim á leið aptur; í þeirri ferð andaðist konúngur (1285).

Sonur hans *Filippus fjórði, hinn fríði* (1286—1314) kom því næst til ríkis, og er talinn einn af hinum merkustu konungum á Frakklandi. Það var mark og mið hans að auka og efla konúngsveldið, en mínka og eyða hinu tvennu er því var til fyrirstöðu: *klerkavaldinu* og *lènsmannavaldinu*. Og til þess að ná takmarki sínu beitti hann öllum þeim meðölum, sem honum þókti við eiga, hvort þau voru rètt eða röng, og lèt sig alls engu skipta hvern dóm aðrir menn lögðu á gjörðir hans. Hann líktist í mörgu forföður sínum *Filippusi Ágústusi*, en var miklu drotnunargjarnari og ásælnari en hann nokkru sinni hafði verið; hann var starfsmaður mikill og hinn slægvitrasti, og ríkisstjórn hans hafði mikil áhrif eigi einúngis á hag Frakklands heldur allrar Norðurálfu. Eins og siður var til komu lendir menn (lènsmenn, Vasaller) til konúngs og sóru honum hollustu eiða, þar á meðal kom Játvarður 1. Englands konúngur, því að kunnugt er, af því sem áður er sagt, að Englands konúngar áttu lönd á Frakklandi, er þeir höfðu að lèni af Frakka konúngi. Filippus tók Játvarði með miklum virktum, og Játvarður reyndi að miðla sáttum milli Frakklands og Aragons, þó að eigi tækist að fullu fyr en nokkru síðar. En vináttan milli Englands og Frakklands átti sèr skamman aldur. Sjómönnum enskum og frakkneskum hafði lent saman. Filippus krafðist skaðabóta fyrir hönd sinna manna, og stefndi Játvarði sem lènsmanni Frakkakrúnu fyrir sinn dóm. Játvarður vildi jafna alt með góðu, því að um þær mundir hafði hann í fullu trè við Skota; sendi því bróður sinn til Frakklands (1293) og hann giörði þann samníng við Filippus konúng, að konúngur skyldi fá yfirráð 6 borga í *Gascogne*, en Játvarður vera laus af utanstefnum til Frakklands. Það kom og til orða, að Filippus mundi gipta Játvarði Margrètu systur sína, og til þess alt væri sem tryggilegast af beggja hálfu, fekk Engla konúngur Filippusi í hendur Gascogna fylki til allra

umráða um nokkurn tíma, en Filippus lofaði statt og stöðugt að skila Engla konúngi því aptur, er frá liði. Nú leið og beið, en ekki efndi Filippus loforð sitt, og lèt þar á ofan stefna Játvarði fyrir höfðíngjadóm á Frakklandi. Játvarður kom eigi, og þá lýsti Filippus yfir því, að Engla konúngur hefði fyrirgjört öllum lènsrètti sínum á Frakklandi.

Þessu reiddist Játvarður sem von var, leitaði sèr liðs hjá ýmsum þjóðhöfðíngjum, því að mestum þorra manna sinna varð hann að beita um þær mundir móti Skotum, og fekk loforð hjá *Adolf* keisara um liðveizlu, en Filippus kom svo ár sinni fyrir borð hjá *Ottó* greifa af Búrgund, að greifinn hèt honum að gipta dóttur sína frakkneskum konúngssyni og koma þannig landinu undan lènsdrotnan hins Þýzka keisara, en undir Frakka konúng. Á Flæmíngjalandi (Flandern) var greifi sá er *Veit* nefndist; hann var óvinur Filippusar konúngs, því að konúngur hafði gjört á hluta hans. Greifi þessi lofaði Játvarði liðveizlu móti Filippusi, en Játvarður hèt í móti að sonur sinn, prinsinn af Wales, skyldi eiga *Filippu* dóttir greifans. Þetta frèttir Filippus Frakka konúugur, býður greifanum og dóttur hans með miklum blíðmælum á sinn fund, áður hún fari alfarin til Englands. Greifinn var grunlaus með öllu og fer með dóttur sína á konúngs fund, og þar er þeim tekið með miklum fögnuði; en er burtferðardagur kom, segir konúngur, að sèr sè kunnugt um samband greifans við Engla konúng, fjandmann sinn, hann hafi því fyrirgjört fè og frelsi og lætur því næst hepta þau feðgin og setja í dýflissu. Játvarður ætlaði að fara herferð til Frakklands, en Filippus áfstýrði því með slægvizku sinni; því að hann æsti til uppreistar íbúana í Wales, er Játvarður hafði fyrir skemstu unnið undir sig, og Jóhann Skota konúng fekk hann til að segja Engla konúngi upp allri hlýðni og hollustu. Játvarður gat því ekki að svo stöddu snúizt við og náð aptur Gascogne úr höndum Filippusar.

Um þessar mundir hófust deilur miklar með Filippusi konúngi og páfa, er loksins urðu að fullum fjandskap. Þá var páfi *Bónifacíus* hinn 8 með því nafni (1294—1303), harður maður og drotnunargjarn en hníginn að aldri; hann hèlt sömu stefnu sem þeir Gregoríus 7. og Innócentíus 3. höfðu farið, og var mest um það hugað, að páfinn fengi öll yfirráð á jörðu í hendur, bæði andleg og veraldleg. Páfinn þóktist hafa köllun til að semja

frið milli þjóða og konúnga, þar sem sundurþykkja og ófriður átti sèr stað, og þess vegna skoraði Bónifacíus á Englands og Frakklands konúnga, að þeir skyldu hætta öllum deilum og semja frið milli sín. Játvarður tók því vel, enda átti hann þá fult í fángi við Skota, en Filippus svaraði á þá leið, að þetta mál kæmi ekki til páfans nema hann vildi vasast í með þeim, hèr væri ekki misklíð um trúarbrögð milli þeirra konúnganna, og páfinn gæti að eins gefið áminníngar en alls ekki skipanir. Var Filippus meðfram svo styggur í svari, af því að páfinn hafði tekið að sèr málefni Veits greifa af Flæmíngjalandi, og boðið Filippusi að rèttlæta meðferð sína á honum.

Filippus hafði lagt skatta á kirkjur í ríki sínu, því að hann skorti fè til hernaðar, og kostnaðar þess er þar af leiddi. Bónifacíus greip það tækifæri; hótaði hverjum banni, er dyrfðist að leggja gjöld á kirkjur og kennimenn án síns leyfis. Filippus hefndi þessa á páfa og lagði blátt bann á útflutníng penínga eður annarara dýrgripa úr ríki sínu, og brèfi páfans svaraði hann djarflega og með engri vægð; meðal annars komst hann svo að orði: »konúngar rèðu ríkjum löngu áður en klerkar komust á fót og vildu vera sjálfum sèr ráðandi. Klerkar mega aldrei fá svo mikið frelsi að alt þjóðfèlag bíði halla af; þeir eru limir á þjóðlíkamanum eins og leikmenn, og fyrir því verða þeir að bera sömu byrðar sem aðrir þegnar, og það því fremur, sem þeir eiga meira jarðagóz en aðrir menn. Ef klerkum er leyft að hafa leikara og halda frillur, þá á það vel við, að þeir verji nokkru af efnum sínum til almennra heilla; vilji páfinn banna þeim það, þá er það hið sama sem að gánga í lið með óvinum vorum«. Höfðingjadómurinn (Pairsretten) á Frakklandi dæmdi Veit greifa sýknan sakar, og varð því Filippus að gefa hann lausan, en hèlt dóttur hans eptir í gíslíngu. En jafnskjótt sem greifinn komst heim til sín, gjörði hann samband að nýju við Englakonúng og sagði Filippusi stríð á hendur. Brá Filippus þá við og hèlt liði sínu til Flæmíngjalands og lagði þar undir sig land og borgir, því að bæði Játvarður og Þýzkalands keisari brugðust greifanum með liðveizlu og þar kom að greifinn komst öðru sinni á vald Filippusar konúngs.

Bannið móti útflutníngum penínga af Frakklandi var mjög tilfinnanlegt fyrir páfa, því að páfastóllinn misti fyrir þá sök

allar tekjur af því landi, sem eigi voru smáar. Páfinn sá sèr því ekki annað fært, en að slaka til við konúnginn, og það því heldur sem Ítalir sjálfir voru honum hinir erfiðustu um þær mundir. Hins vegar tók þá Filippus konúngur aptur þetta flutnínga bann, og fór þá laglega með þeim; bauðst páfi til að leita um sættir með konúngi og fjandmönnum hans, en það leiddi þó til einskis, því að Filippus vildi eigi gánga að þeim friðarkostum, er páfinn hafði borið upp; sókti þá alt í hið sama horf og áður hafði verið. Filippus var svo fjarlægur því að vægja í nokkrum hlut fyrir páfa, að hann þvert á móti lèt taka höndum legáta hans og setja í varðhald. Ritaði þá páfinn Filippusi brèf og segir svo: «Bónifacius þjónn guðs þjóna sendir Filippusi Frakkakonúngi kveðju sína. Óttastu guð og haltu hans boð! Vita mátt þú, að þú ert oss undirgefinn bæði í andlegum efnum og veraldlegum. Það kemur eigi til þín að veita kennimannleg embætti, en ef svo ber undir að eitthvert brauð losnar, og þú ræðst í það að hafa umsjón kirknanna meðan brauðið er óveitt, þá er það vitaskuld, að þú afhendir þeim er brauðið hlýtur allar kirknanna tekjur. Hafir þú veitt einhverjum brauð, þá segjum vèr slíka veitíngu alveg ógilda, og ónýtum það alt er í því efni hefir verið gjört. Og lýsum yfir því, að sá er villumaður, sem er á öðru máli». Ráðgjafar Filippusar rituðu þegar í móti[1]: «Filippus af guðs miskun Frakkakonúngur sendir Bónifaciusi, er vera má að sè páfi, kveðju sína litla eða alls enga. Kunnugt má það vera stórflónsku þinni (*sciat tua magna fatuitas*), að vèr erum alls engum undirgefnir í veraldlegum málum; að vèr eptir konúnglegum rètti höfum fult vald til að veita kennimannleg embætti, og hirða tekjur þeirra meðan þau eru óveitt; að það skal í þessu efni standa óhaggað, sem vèr höfum gjört og ætlum oss að gjöra, og að vèr ætlum að verja þá og vernda sem vèr höfum til valda sett, við hvern sem er um að eiga. Og lýsum yfir því, að sá er fífl og fáráðlíngur, sem er á öðru máli.»

En Filippus lèt eigi þar við lenda; eitt hið helzta og merkilegasta af brèfum páfa lèt hann brenna í Parísarborg fyrir allra augum (1302) og sama ár stefndi hann allsherjarþíng í höfuðborginni og kvaddi þángað lenda menn og klerka og þar að auk

1) Sagt er að brèfið væri eigi sent páfa.

fulltrúa frá hverri borg í ríki sínu, og var það í fyrsta sinn á Frakklandi að borgarastèttin var kvödd til slíkra mála, en það var kænskubragð konúngs að fá þannig alla þjóðina í lið með sèr, og gjöra sitt mál og misklið við páfan að þjóðmálefni; enda tókst honum það til fulls og alls. Á þínginu lèt konúngur bera fram ýmsar sakargiptir á hendur páfa, og leggja fyrir menn þá spurníngu, hvort þeir kysi heldur að konúngar hèldi fornu frelsi, eða hitt, að páfaveldið fengi öll yfirráð í landinu. Lendir menn og fulltrúar borganna gengu í gildru konúngs, og kváðust fyr skyldu lífið láta, en þola hitt að frelsi konúngs yrði í nokkru þröngvað af páfa eður nokkurs annars völdum. Klerkar voru lengi tregir, en konúngur hótaði þeim hörðu ef þeir yrði á öðru máli en aðrir þíngmenn; urðu þá klerkar undan að láta, og reyndu síðan að koma sættum á milli konúngs og páfa.

En Bónifacius vildi engum sáttum taka, ritaði harðorð brèf til Frakklands og hótaði konúngi banni ef hann bætti eigi ráð sitt[1]. *Vilhjálmur* af *Nogaret* hèt maður einn á Frakklandi, er uppi var um þessar mundir, nafnfrægur lögfræðíngur og einn af ráðgjöfum Filippusar konúngs. Hann gaf sig fram á þíngi einu í París og bar þúngar sakir á páfa og leiddi rök að því að Bónifacius væri í alla staði óhæfur til þeirrar tignar, menn skyldu skora á konúng að stefna kirkjuþíng er setti páfann frá völdum og kysi annan í hans stað. Hins vegar setti Bónifacius konúnginn í bann og lèt kunngjöra það um alt Frakkland, en Filippus skipaði að setja þá alla í dýflissur er styddu að útbreiðslu páfabannsins. Litlu síðar sendi konúngur Vilhjálm Nogaret til Ítalíu með nægu fè, svo að fáir vissu. Og með því móti safnaði hann þar mannafla nokkrum, fór að páfa þar sem hann sat í bæ einum er *Anagni* hèt og tók páfann höndum og hèlt honum 3 daga í ríku varðhaldi. Varð Bónifacius sjúkur af öllu því ofríki og dó litlu síðar 1303, var hann þá einum vetri meir en hálf níræður.

Tveim árum síðar kom Filippus því til leiðar, að frakkneskur biskup var kosinn til páfa, og nefndi sá sig *Clemens* 5. Hann hafði heitið konúngi ýmsu áður en hann varð páfi og kom nú

1) Í einu af brèfum þessum segir páfinn: «vèr gjörum það heyrum kunnugt að sú trú, að sèrhver maður sè páfanum í Róm undirgefinn, er nauðsynleg til sáluhjálpar».

flest af því fram, þar á meðal það, að leysa konúng af banni, og láta hann hafa tíundir um 5 ára tíma af öllu kirkna gózi. En eptir alt þetta þóktist páfinn sjá að sèr mundi eigi verða vært í Rómaborg, og flutti því bústað sinn til Frakklands og settist að í borg þeirri er *Avignon* heitir. Eptirmenn hans sátu þar síðan um hin næstu 70 ár (1309—1378) og voru Frakkakonúngum háðir. Hafa því margir ritböfundar nefnt þessa dvöl páfanna á Frakklandi: *Babylonar útlegð páfanna* (Pavernes babyloniske Exil).

Filippus konúngur var maður mjög ágjarn, þess vegna hafði hann fèflett Gyðínga og því næst rekið þá af landi burt. Og nú þegar páfinn var í hendi hans, þá beitti hann honum fyrir sig til þess að geta svælt undir sig eigur *musterisriddaranna*. Allflestir af riddurum þessum voru frakkneskir menn, höfðu tekið sèr bólfestu á Frakklandi eptir að landið helga var komið aptur í hendur Múhameðsmanna, og áttu þar eignir miklar; voru margir þeirra ójafnaðarmenn og gátu orðið landstjórninni viðsjárverðir, ef því var að skipta. Það gaf konúngi átyllu til að bregða þeim um vantrú og galdur og gefa þeim sök á hvorutveggja. Lèt konúngur handtaka þá alla og höfða ransókn gegn þeim, voru þeir píndir til sagna og sumir brendir. Páfinn varð að aftaka þetta riddara fèlag 1312. Foríngja riddaranna *Jakob af Molay* fengu menn með svikum á sitt vald, og var hann brendur á báli og margir riddarar með honum (1314). Konúngur kastaði eigu sinni á eignir þeirra á Frakklandi; í öðrum löndum komu þær víða í hendur á Jóhannesar riddurum.

*Filippus* fjórði átti þannig í höggi við ýmsa og bar jafnan hærra hlut, en þó gat hann eigi við því spornað, að Flæmíngjaland gjörði uppreist og brauzt undan valdi hans og kúgan Frakka. Synir Veits greifa, er dáið hafði í varðhaldi, stýrðu uppreistinni. Filippus konúngur sendi her manns norður á Flæmíngjaland til að kúga uppreistina; varð þar orusta mikil, en Flæmíngjar fengu sigur, og varð Filippus að semja frið við þá (1305) og veita þeim aptur fult frelsi og forn rèttindi; *Róbert* greifi sonur Veits varð þar landstjóri.

*Filippus fjórði* dó 1314, en til ríkis kom sonur hans *Loðvík hinn tíundi* (1314—1316); hann er kallaður «*Hutin*» þ. e. hinn þrætugjarni. Hann varð að slaka til í mörgu við klerka

og lendamenn og veita þeim ýms rèttindi er að fornu höfðu verið, því að hinn vesti kurr var kominn í landsmenn sökum ofríkis Filippusar fjórða, svo að víða hèlt við upphlaupum. Loðvík konúngur átti engan son á lífi er hann dó, en eina dóttur er *Jóhanna* hèt, og gjörði hún tilkall til ríkis eptir föður sinn. En höfðíngjar og stórmenni ríkisins kváðu það fjarstætt fornum lögum hinna *salversku Frakka*, að konur gengi til ríkiserfða á Frakklandi, og varð sú niðurstaða þess máls, að konúngserfðir skyldi einúngis gánga í karllegg á Frakklandi. Þegar slíkum erfðalögum síðan hefir verið beitt hafa menn kallað það *hin salversku lög* (*Lex Salica*). Jóhanna komst því ekki til ríkis, en bræður Loðvíks 10., *Filippus fimti* (1316—1322) og *Karl fjórði* (1322—1328) urðu konúngar hver eptir annan. Navarra og Champagne, sem Jóhanna fékk, gengu þannig undan Frakklandi. Þegar Karl fjórði andaðist leið karlleggur Filippusar fjórða undir lok, og hin ýngri ættkvísl *Capetúnga* hófst til ríkis á Frakklandi; hún var kominn af Karli af Valois ýngra syni Filippusar konúngs hins þriðja.

## England frá 1272 til 1327.

Þegar Hinrik þriðji Englakonúngur andaðist (1272) var *Játvarður* sonur hans á heimleið utan úr Jórsölum. Var hann nú til konúngs tekinn á Englandi eptir föður sinn og kallaður *Játvarður hinn fyrsti;* hann rèð ríkjum frá 1272 til 1307. Á hans ríkisstjórnar árum tók England miklum framförum, ríkið stækkaði, efldist innanlands og jókst að áliti í augum annara þjóða, þjóðþíngið magnaðist, löggjöf og rèttarfar var í mörgum greinum endurbætt, og þókti svo mikils um það vert, að menn gáfu Játvarði konúngi viðurnefni og kölluðu: hinn enska Justinian. Játvarður konúngur var ágjarn maður til fjár og ríkis, hermaður mikill og hinn mesti aðgjörðamaður í allri stjórn. Hann átti ófrið mikinn bæði við *Wales* og *Skotland,* og skal þess nú getið.

Konúngurinn í Wales vildi eigi taka ríki sitt að lèni af Játvarði, því að konúngar þar höfðu um daga Jóhanns og Hinriks þriðja, verið að mestu leiti óháðir Englands konúngum. Játvarður hafði því liðsafnað í ríki sínu og fór herferð vestur á Wales og braut landið undir sig (1283) og sameinaði það Englandi, setti þar ensk lög og enska stjórn. Meðan konúngur dvaldist í Wales,

ól drotníng hans sveinbarn; þar af er það komið, að konúngsefni á Englandi heita síðan: *prins af Wales.* Alexander þriðji Skotlands konúngur andaðist 1286, og var þá aldauða karlleggur hinnar fornu *Kenneths* ættar, er lengi hafði þar ráðið fyrir landi. Dóttir Alexanders konúngs var gipt Eiríki Magnússyni Norvegskonúngi (1280—1299), en dó úng að aldri. Þau Eiríkur konúngur höfðu átt dóttur eina, er Margrèt hèt; henni gaf Alexander konúngur ríki á Skotlandi eptir sinn dag. Játvarður konúngur fekk því til vegar komið að Margrèt þessi skyldi giptast elzta syni sínum, og þannig einn verða konúngur yfir báðum löndum, Englandi og Skotlandi. Skotar voru þessu eigi mótfallnir. En á leiðinni frá Norvegi til Skotlands (1290) dó Margrèt, til hinnar mestu óhamíngju fyrir Skotland. Gáfu þá ýmsir menn sig fram á Skotlandi og kváðust vera þar bornir til ríkis; hinir helztu meðal þeirra voru þeir *Jóhann Baliol* og *Róbert Bruce.* Til þess að afstýra borgarastríði gripu Skotar til þess óyndis úrræðis, að snúa sèr til Játvarðar og biðja hann skera úr málinu. Konúngur var fús til þess, því að slíkt tækifæri vildi hann eigi láta gánga sèr úr greipum, en setti Skotum þá kosti, að þeir skyldu játast undir hans yfirráð. Skotar urðu að heita honum þessu því að yfir þeim vofði ófriður innanlands, og í annan stað hersveitir Játvarðar konúngs á næstu grösum. Höfðíngjar þeir, er um konúngstignina keptu, sóru Játvarði hver í sínu lagi hollustu eiða, og honum voru fengnar í hendur allar konúngs hallir í landinu. Málalyktir urðu þær, að *Baliol* skyldi konúngur verða yfir landinu (1292). En er frá leið þoldu Skotar eigi kúgun Játvarðar; Baliol konúngur sagði honum upp trú og hollustu og gjörði samband við Filippus 4. Frakka konúng. En Játvarður brá þegar við, er hann spurði þessi tíðindi, og hèlt her sínum til Skotlands, vann sigur á Skotum við *Dunbar*-borg (1296); Baliol varð handtekinn og fluttur til Lundúna, og enskur jarl settur yfir landið. Skotar undu við hið vesta og gripu að nýju til vopna. *Vilhjálmur Wallace* hèt einn göfugur maður á Skotlandi, hann var hin mesta hetja; hann gjörðist fyrirliði uppreistar manna. Játvarður sendi þegar lið mikið til Skotlands til þess að kúga landsmenn til hlýðni, en Wallace vann frægan sigur á konúngsmönnum. Þá gjörði Játvarður frið við Frakka konúng, og krafðist þess, að hann veitti Skotum enga hjálp, og það gjörði Filippus,

því að hann sá sèr þá engan hag af sambandi við þá. Því næst hèlt konúngur liði miklu til móts við Skota. Þeir voru eigi samtaka nè á eitt sáttir, og það sem vest var, að þeir vildu eigi fyrir öfundar sakir fela Wallace herstjórn á hendur. Þetta sundurlyndi og samtakaleysi leiddi til þess að Játvarður vann sigur á þeim við *Falkirk* (1298). Skotar flýðu norður til fjalla, og gjörðu þar áhlaup á Englendínga, og unnu loks sigur á þeim hjá *Edinborg* (1303); hrukku Englendíngar þá suður yfir landamæri. En Játvarður einsetti sèr að brjóta Skota til hlýðni, hèlt en að nýju norður þángað, hafði óvígan her og fór þá alt norður til fjalla; sáu Skotar sèr eigi fært að leggja til orustu við slíkt ofurefli; þóktist Játvarður nú hafa alt ráð þeirra í hendi sèr, og það því heldur, sem varmenni nokkur meðal Skota höfðu tekið Wallace höndum og komið honum á vald Játvarðar (1304); lèt hann síðan taka Wallace af lífi, en orðstýr hinnar ágætu hetju lifir enn í kvæðum á Skotlandi.

Skotar lètu eigi hugfallast fyrir það þó að Wallace væri fallinn, en lituðust um eptir nýjum fyrirliða, og fengu hann áður lángt liði. Það var *Róbert Bruce* hinn ýngri, sonarson þess er fyr var getið. En hèr var sem fyr, að þjóðin, eða rèttara sagt höfðíngjar hennar, voru eigi á eitt sáttir. *Jóhann Comyn*, frændi Baliols, hafði um hríð verið landstjóri á Skotlandi; honum vildu margir fylgja, og allir þeir voru mótstöðumenn Róberts Bruce. Nú bar það til að þeir hittust einhverju sinni Róbert Bruce og Jóhann Comyn, varð þeim þá mjög að orðum og lauk svo að Róbert veitti Jóhanni banasár. Þessu næst hèt Róbert á Skota til fylgdar við sig móti Englendíngum, gengu þá margir undir merki hans, og tóku hann til konúngs yfir sig. En frændur og vinir Jóhanns Comyns gengu í lið með Englendíngum, varð þá Róbert Bruce að flýja til fjalla. Játvarður hafði ógrynni liðs og ætlaði nú að láta skríða til skara með þeim, og kúga Skotland að fullu og öllu, en áður það tækist varð Játvarður sjúkur og andaðist 1307 vetri miður en sjötigur.

Honum næstur kom til ríkis á Englandi sonur hans *Játvarður annar* (1307—1327). Hann var ólíkur föður sínum um flesta hluti, afskiptalítill um alla ríkisstjórn en hneigður til glaums og gleði. Faðir hans hafði á deyjandi degi lagt ríkt á við hann að halda fram hernaði við Skota og leggja landið undir sig, en

Játvarður annar hafði engan kjark til þess, og snèri þegar aptur og suður á England. Róbert Bruce var þá ekki seinn til aðgjörða, vann sigur á mótstöðumönnum sínum, rak enska menn út úr borgum og kastölum og var krýndur til konúngs á Skotlandi.

Játvarður annar lenti þegar í illdeilum og ófriði við barúna og alt stórmenni á Englandi fyrir þá sök, að hann lèt um of stjórnast af útlendum vildarmönnum. Einn af þeim hèt *Pètur Gavaston*, frakkneskur maður og svallari mikill; hann rèð nálega öllu hjá konúngi; hafði Játvarður fyrsti rekið hann burt af Englandi, því að honum þókti hann spilla siðferði sonar síns. En jafnskjótt sem Játvarður annar var kominn til ríkis, lèt hann þenna fornkunníngja sinn koma aptur til hirðarinnar og hafði í hinum mestu hávegum. Þá urðu barúnar óvægir, og kúguðu konúnginn til að reka Gavaston af landi burt og að takmarka stjórn sína nokkuð meira en áður hafði verið; en er Gavaston þrátt fyrir þetta kom aptur, þá lètu barúnar taka hann og drepa. Skotar höfðu, eins og áður var sagt, rekið Englendínga burt af Skotlandi, og Róbert Bruce hèlt liði sínu suður á England og herjaði þar. Játvarður konúngur safnaði liði og fór í móti honum, varð fundur þeirra hjá *Bannockburn* (1314) og fengu Skotar sigur, og gjörðu síðan óspektir miklar norðan á Englandi.

Ekki batnaði samlyndið milli barúna og Játvarðar eptir þetta, því að nú var bæði, að þeim þókti hann hafa gjört Englandi smán með því að bíða ósigur fyrir Skotum og svo hitt að hann lèt þann mann, er *Hugh Spenser* hèt, ráða öllu fyrir sína hönd, þar til kom og að konúngur gat handtekið foríngja barúnanna, jarlinn af Lancaster, og lèt drepa hann. Konúngur átti drotníngu þá, er Ísabella hèt; hún var dóttir Filippusar fríða, Frakkakonúngs, drotnunargjörn og hrekkvís eins og faðir hennar. Hún þóktist eigi geta haldizt við á Englandi fyrir yfirráðum Spensers og fór til Frakklands og var þar lengi hjá Karli fjórða bróður sínum. En er henni þókti færi gefast fór hún aptur til Englands, og sá maður í för með henni er *Mortimer* hèt, vinur hennar mikill, en fyr meir einn af flokki Lancasters jarls. Þau drotníng og Mortimer tóku konúng og Spenser höndum. Spenser var þegar drepinn, en konúngur settur í dýflissu og haldinn hart, þángað til hann var með viðbjóðslegri grimd ráðinn af

dögum (1327). Lèt drotníng þessu næst taka *Játvarð son sinn hinn þriðja* til konúngs (1327—1377). En fáum árum siðar svipti þessi hinn framgjarni og framkvæmdar mikli konúngur móður sína og Mortimer völdum (1331); var drotníng sett í varðhald en Mortimer dæmdur til dauða og líflátinn. Þá var Játvarður konúngur þriðji 18 vetra er þessi tíðindi gjörðust; tók hann upp frá því sjálfur við allri stjórn ríkisins, og má kalla að með honum byrji nýtt framfara tímabil í Englands sögu, allmerkilegt bæði af ágætum sigurvinníngum og af endurlifnun þjóðarandans.

## Englendíngar og Frakkar berjast um yfirráðin, (1328--1453).

Híngað til hafa sögur Englendínga og Frakka verið sagðar sín í hverju lagi, en þegar hèr er komið verða viðskipti þessara tveggja þjóða svo mikil og margbrotin, þar sem þær eigast við lángvinnan ófrið er tekur yfir meir eu heila öld, að kalla má að saga þeirra renni saman, og þykir því rèttast að segja sögu þeirra beggja í einu lagi.

Þar er þá til að taka, að *Karl fjórði* Frakkakonúngur var liðinn undir lok (1328), en *Filippus sjötti* af *Valois* kominn til ríkis (1328—1350); hann var sonur Karls af Valois, Filippussonar hins þriðja. Þeir Karl konúngur fjórði og Filippus sjötti voru því bræðra synir. Játvarður Englandskonúngur hinn þriðji var reyndar systurson Karls fjórða, og honum því nærskyldari en Filippus 6., en gat eptir frakkneskum konúngaerfðum eigi komizt að; hann vann því Filippusi sjötta trúnaðareiða, sem jarl (lènsmaður) yfir Guienne.

Það voru þannig öll líkindi til, að hið frakkneska konúngsveldi stæði föstum fótum, hverju sem var að skipta bæði við lènsmenn og við útlenda fèndur; páfinn í Avignon var lítið meira og annað en þegn Frakkakonúngs; tekjur krúnunnar fóru dagvaxandi, því að föst regla var komin á skattgjöldin, og jarðir klerka voru einnig komnar undir þær álögur.

En Filippus konúngur 6. var maður drambsamur og grunnhygginn og spilti öllu á skömmum tíma. Hann lagði þúngar álögur á verzlun borganna, og jafnframt því jók hann skatta og kvaðir á landsmenn; hann rak Róbert greifa af Artois af eign-

um sínum, og kastaði eigu sinni á land hans; Róbert flýði til Brüssel og þaðan til Játvarðar þriðja á Englandi.

Borgirnar á Flæmíngjalandi (og þar á meðal einkum *Gent, Brugge* og *Ypern*) voru sökum dugnaðar og iðjusemi orðnar bæði miklar og auðugar, áttu verzlun víða um lönd og meiri partur Norðurálfunnar keypti þaðan klæði og lèrept. Borgir þessar líktust einnig þeim á Ítalíu og Þýzkalandi í því, að þær voru óróagjarnar og þoldu mönnum illa yfirráð, og iðnaðarmenn rèðu þar mestu. Loðvík greifi, sem næstur kom eptir Róbert, og hafði landstjórn á hendi á Flæmíngjalandi, rèð litlu, og aðallinn sætti hinum mesta yfirgángi og ójöfnuði. Greifinn snèri sèr þess vegna til Filippusar Frakkakonúngs og beiddi hann, svo sem lènsdrottinn sinn, ásjár og fulltíngis. Filippus hèt honum því, og sendi lið til Flæmíngjalands. Hins vegar voru Flæmíngjar eigi aðgjörðalausir, þeir leituðu liðs hjá Játvarði 3. Englandskonúngi, því að bæði vissu þeir sem var, að hann var enginn vinur Frakkakonúngs, og þar að auki höfðu þeir hin mestu verzlunarviðskipti við England, og fengu þaðan nálega alla þá ull, er þeir höfðu til klæðavefnaðar. Ölgjörðarmaður einn í Gent, *Jakob af Artevelde*, ríkur maður og framgjarn, gjörðist oddviti Flæmíngja og hvatti þá mjög til sambands við England.

Játvarði þriðja þókti nú bera vel í veiðar, því að honum hafði lengi búið í skapi að bera fram kröfur sínar til ríkis á Frakklandi, þar sem afi hans og móðurbræður, hver af öðrum, höfðu ráðið þar fyrir landi, eins og áður er sagt[1]. Hann sagði svo, að Frakkar hefðu reyndar, eptir fornri venju, bægt Ísabellu móður sinni frá ríki, en það gæti eigi náð til sín, sem væri dóttursonur Filippusar konúngs fjórða. Þegar Játvarður konúngur þóktist viðbúinn, hèlt hann liði sínu til Frakklands (1339), en Filippus konúngur kom sèr hjá orustu að sinni. En vorið eptir (1340) rèðust Englendíngar á herskip Frakka fyrir framan höfn þá á Flæmíngjalandi, er *Sluys* heitir, og uunu þar hinn frægasta sigur, þó þeir hefði bæði færri skip og minni liðsafla; þar fèllu um 30000 manns af Frökkum. Á landi urðu aðfarir Englendínga miklu minni, því að Frakkar vöruðust allar stórorustur; komst þá vopnahlè á með þeim um stundarsakir. En það er að segja frá Flæmíngjum, að þeim þókti Jakob af Arte-

1) *Loðvík níundi* † 1270.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| *Filippus þriðji* † 1285. | | | | | Róbert ∽ Beatrice af Bourbon.* |
| *Filippus fjórði,* † 1314. | | | | | Karl af Valois. |
| *Loðvík 10.* †1316. | *Filippus 5.* †1322. | *Karl 4.* †1328. | Isabella ∽ Játvarður 2. Englakonungur. | | *Filippus 6.* † 1350. |
| | | | Játvarður 3. Englakonúngur. | | *Jóhann góði,* † 1364. |
| | | *Karl 5.* † 1380. | | | *Filippus djarfi,* † 1404. |
| | *Karl 6.* † 1422. | | Loðvík af Orleans. | | *Jóhann hugprúði,* † 1419. |
| *Karl 7.* † 1461. | Katrín ∽ Hinriki 5. Englakon. | Karl. | Jóhann af Angouleme. | | *Filippus góði,* † 1467. |
| *Loðvík 11.* † 1483. | Hinrik 6. Englakon. | *Loðvík 12.* † 1515. | Karl. | | *Karl djarfi,* † 1477. |
| *Karl 8.* † 1498. | | | *Franz 1.* † 1547. | | María ∽ Maximilian keisara. |

Hertogar af Búrgund. (*Filippus djarfi* – María)

Merkið ∽ þýðir: kvongaður eða gipt.

*) Frá þeim er kominn *Hinrik 4.* og með honum kom *Bourbona-ættin* til ríkis á Frakklandi 1593, eptir að *Valois-ættin* var undir lok liðin 1589.

velde draga um of taum Englendínga, og drápu hann síðan (1345); rèð Játvarður konúngur þar eigi eins miklu eptir það.

Vopnahlè það, sem þeir konúngarnir höfðu samið með sèr, varð eigi nema stundar friður, því að árið 1346 hófst ófriður að nýju. Játvarður konúngur rèðst á Norðmandí og fór herskyldi yfir landið alt suður til París en þar kom Frakkakonúngur í móti honum og hafði lið miklu meira; varð Játvarður þá að láta undan síga norður í land, og nam staðar við borg þá, er *Crecy* heitir og beið svo þess að Filippus kæmi. Litlu síðar kom Filippus konúngur með Frakkaher og hafði 60000 manna, en Játvarður hafði lið miklu minna. Tókst þar hin harðasta orusta (26. ágúst 1346). Í liði Játvarðar voru bogmenn ágætir og gjörðu þeir Frökkum hinn mesta skaða; vann Játvarður konúngur þar frægan sigur, en Frakkar mistu yfir 30 þúsundir manna, og konúngur þeirra flýði undan til Amiens borgar. Játvarður, prinz af Wales, var með föður sínum í orustu þessari, og þó hann væri þá ekki nema 15 vetra, barðist hann af mikilli hreysti og sýndi það þá þegar, að hann var ágætt hershöfðíngjaefni, eins og síðar kom fram. Hann er jafnan nefndur, «*hinn svarti prinz*» af herklæðum þeim er hann bar[1]. Eptir þennan sigur hèlt Játvarður konúngur til *Calais*-borgar og settist um hana. Sú borg er við sundið milli Englands og Frakklands, og var þá vel víggirt; sat konúngur lengi um borgina áður hún gafst upp fyrir honum (1347); var hún síðan í höndum Englendínga yfir tvö hundruð ár (til 1558). Konúngur rak alla frakkneska menn burt úr borginni og lèt enska menn aptur setjast þar að í þeirra stað, og þaðan hófu síðan Englendíngar jafnan árásir á Frakkland, meðan ófriður stóð milli landanna. Þegar Englendíngar höfðu náð *Calais*, lètti ófriðnum af um stundarsakir, enda gekk hin næstu ár þar á eptir «*svarti dauði*» yfir Norðurálfuna, hin mesta drepsótt ef til vill sem nokkru sinni hefir heimsókt mannkynið. Það er mælt að árin 1348—1350 hafi dáið í henni 25 milliónir manna í Norðurálfu. Drepsótt þessi kom upp austur í Asíu og gekk þaðan vestur yfir öll lönd álfu vorrar.

1) Það segja menn, að í orustu þessari hafi Englendíngar haft *fallbyssur* (kanónur), og sè það í fyrsta sinni sem því vopni hafi beitt verið í bardaga.

Filippus 6. andaðist 1350. Á síðustu árum sínum hafði honum heppnast að auka ríki sitt á þann hátt, að hann eignaðist fylki það er *Dauphiné* heitir; sá sem þar var síðastur hersir (greifi) ánafnaði Frakkakrúnu landið eptir sinn dag, og Þýzkalands keisari, sem var lènsdrottinn, staðfesti þann gjörníng. Eptir það var ríkiserfínginn (krónprinzinn) á Frakklandi kendur við þetta fylki og kallaður *Dauphin* (*Delphinus*).

Eptir Filippus 6. kom *Jóhann* sonur hans til ríkis (1350—1367), og var kallaður hinn *góði*. Hann var eigi maður fyrir þeim ófriði sem yfir vofði ríkinu bæði innanlands og utan. Til þess að geta fengið nægan liðsafla móti Englendíngum varð Jóhann konúngur að stefna alsherjarþíng, og heita landsfólkinu ýmsum rèttindum, og með því móti safnaðist honum mikið lið. Játvarður svarti prinz braust inn í ríki hans frá Guienne; varð fundur þeirra Jóhanns hjá *Poitiers* (1356). Liðsmunur var ærinn, því að Jóhann hafði 40 þúsundir manna, en Játvarður konúngsson einar 8 þúsundir. Þar var viðstaddur legáti páfans og vildi koma á sættum; Játvarður konúngsson sá sitt óvænna og bauð góð boð, en Frakkar þóktust hafa sigurinn í hendi sèr og höfnuðu öllum boðum, nema þeim einum, er Játvarður gat alseigi gengið að. Þar tókst því næst orusta mikil og lauk svo, að Frakkar flýðu víðs vegar, en Jóhann konúngur þeirra vildi fyrir hvern mun ekki flýja. Er svo sagt að hann berðist af mikilli hreysti og hjó á tvær hendur og feldi margan mann, en um síðir varð hann handtekinn; var hann þá bæði sár og yfirkominn af mæði. Fór Játvarður einkar vel með konúng, og sýndi honum allan sóma þótt hann væri á hans valdi, og flutti hann með sèr til Englands, en Játvarður konúngur 3. fagnaði Jóhanni með mikilli blíðu og setti hann í hásæti hjá sèr. Var vegur Játvarðar Englakonúngs þá sem mestur, því að hann hafði tvo konúnga á sínu valdi, Jóhann Frakkakonúng og Davíð Bruce Skotakonúng.

Meðan Jóhann konúngur sat í varðhaldi á Englandi gekk hin mesta óöld yfir Frakkland. Hin frakkneska þjóð barðist innbyrðis, eins og löngum hefir verið venja hennar, þegar ekki var við útlenda um að eiga; *borgarar* heimtuðu meira frelsi, meiri ráð en þeir höfðu og gripu til vopna móti konúngsvaldinu og höfðíngjunum; *bændurnir* höfðu lengi verið kúgaðir af lend-

um mönnum, og risu nú upp og rèðust með hræðilegri grimd á höfðíngjana, undirokara sína, drápu hvern af þeim sem þeir gátu hönd á fest og brendu borgir þeirra. *Karl* elzti sonur Jóhanns konúngs hafði um þessar mundir landsstjórn á hendi í Frakklandi meðan faðir hans var á Englandi; var Karl hygginn maður og dugandi, og fèkk stöðvað þessar hinar blóðugu óeirðir með tilstyrk lendra manna, því að hvorumtveggja, bæði konúngi og höfðíngjum, hafði verið jafnmikill háski búinn. Hins vegar höfðu menn, meðan á þessari innanlands styrjöld stóð í Frakklandi, leitast við að semja frið milli landanna. Jóhann konúngur vildi fyrir sitt leiti gánga að þeim kjörum og kostum sem Játvarður konúngur setti, en þjóðþíngið frakkneska setti þar þvert nei fyrir. Játvarður konúngur hèlt því liði sínu til Frakklands, og ætlaði að þröngva Frökkum til samnínga og friðar, en hann komst brátt að raun um, að Parísarborg var öruggari og sterkari fyrir til varna, en hann hafði viðbúizt, og varð hann því við svo búið frá að hverfa og heim í ríki sitt, en stórum eyddi hann bygð á Frakklandi í för þessari, og þókti hún farin með lítilli sæmd. Litlu síðar komst friður á í *Bretigny* (1360). Voru hin helztu atriði í friðarmálum þessum þau: að Jóhann konúngur fèkk frelsi sitt og ríki, en greiða skyldi hann Englakonúngi áður 6 ár væru liðin 3 milliónir gulldala, en setja bróður sinn og svo sonu og nokkra höfðíngja í gislíngu á meðan gjaldi væri ólokið; Poitou og Gienne-fylki samt Calais og sveitina þar í grend skyldi England fá til fullrar eignar og umráða, svo að Frakkakonúngur hefði þar als engin lènsrèttindi yfir, — en þau hafði hann áður haft, — en þar í móti lèt Játvarður konúngur allar kröfur niður falla til konúngserfða á Frakklandi. Jóhann konúngur kom þannig heim í ríki sitt eptir 5 vetra útivist, en honum varð ekki svo gott til fjár í ríki sínu, að hann gæti lokið því ákveðna lausnargjaldi til Játvarðar konúngs, og fyrir því snèri Jóhann konúngur aptur til Englands og andaðist þar (1364). Flokkadrættir og óeirðir hèldust enn um stund í Frakklandi, og þó að Jóhann konúngur eignaðist hertogadæmið Búrgund árið 1363, þá gjörði hann mjög óhyggilega í því, að fá það syni sínum, *Filippusi hinum djarfa,* að lèni (hann var þar hertogi frá 1363—1404), því að hertogadæmi þetta varð mikið og voldugt og næsta geigvænlegt Frakkakonúngum. Filippus og eptir-

menn hans[1] eignuðust bæði að erfðum og kaupum og með ofríki því nær öll þau lönd, sem nú heita Niðurlönd og Belgía, og fl.; voru það einhver hin auðugustu lönd í Európu, og hertogarnir í Búrgund fyrir þá sök flestum þjóðhöfðíngjum ríkari og afskiptameiri af öllum þjóðmálefnum.

*Karl* sonur Jóhanns konúngs, sá er fyr var nefndur, tók því næst konúngdóm á Frakklandi (1364—1380), og var nefndur *Karl hinn fimti*, og öðru nafni hinn *vitri* (einkum af því að hann lagði mikla stund á stjörnufróðleik og stjörnuspádóma — Astrologi — eins og alment var á miðöldunum). Að öðru leiti var hann hygginn maður og hinn kjarkmesti. Á hans dögum unnu Frakkar aptur undan Englandi því nær öll þau fylki og hèröð, sem þeir höfðu laus látið þá er friðurinn í Bretigny var saminn, svo að Englendíngar hèldu að eins eptir *Calais* og *Bordeaux*. En sigursæld sína í ófriði þessum áttu Frakkar einkum því að þakka, að Játvarður Englakonúngur var þá hníginn mjög að aldri († 1377), og líka því, að Játvarður svarti prinz var orðinn heilsulaus og andaðist 1375,[2] enda hafði Karl konúngur fimti riddara þann fyrir liði sínu, er *Bertrand du Guesclin* hèt, ágætan hershöfðíngja og veglyndasta mann.

Þegar Karl 5. andaðist kom sonur hans *Karl 6.* til ríkis á Frakklandi (1380—1422) og var þá ellefu vetra gamall. En með því að hann gat ekki sjalfur stýrt ríki sínu fyrir æsku sakir, og síðan, þegar hann hafði aldur til, varð vitskertur, þá hlutu aðrir að hafa ríkisstjórn á hendi. Urðu þá miklar deilur um það í Frakklandi millum konúngsfrænda. En þeir voru einkum tveir er næstir þóktust standa til þeirra mála: *Loðvík* hertogi af Orleans, bróðir Karls konúngs, og *Filippus* hertogi af Búrgund,

1) Jóhann hugprúði (1404—1419), Filippus góði (1419—1467), Karl djarfi (1467—1477). — 2) Um þessar mundir rèð fyrir Kastilíu á Spáni konúngur sá, er Pètur hèt, og kallaður hinn grimmi. Bróðir hans Hinrik af Trastamara flýði til Frakklands og beiddist liðveizlu. Karl 5. sendi Bertrand riddara með liði miklu til Spánar. Pètur leitaði á fund Játvarðar svarta prinz og beiddist hans ásjár. Játvarður fór einnig suður á Spán og setti Pètur aptur til valda. Á þeirri herferð misti Játvarður heilsuna, og snèri aptur norður á Frakkland, því að þar hafði hann aðsetu. En sem Englendíngar voru burt farnir, varð Bertrand riddari yfirsterkari, setti Hinrik af Trastamara í hásæti, og svo er sagt að Hinrik dræpi síðan Pètur bróður sinn (1368).

föðurbróðir Karls. Þá batnaði heldur ekki þegar Filippus hertogi andaðist (1404), því að *Jóhann* hertogi sonur hans (hinn hugprúði) lèt vega Loðvík frænda sinn (1407). En Orleansmanna flokkur var eigi yfirbugaður að heldur, því að greifinn af *Armagnac*, hraustur maður og herkænn, gjörðist fyrirliði þeirra; í þann flokk gengu flestir aðalsmenn á Frakklandi, en allur þorri borgarastèttar gekk í lið með Jóhanni hertoga af Búrgund; þannig tvískiptist hin frakkneska þjóð. Morð og manndráp og alskonar óhæfa geisaði um landið, eins og verst mátti verða í borgarastriði; flokksforíngjarnir á Frakklandi leituðu til skiptis hjálpar hjá Englendíngum; þeir sáu hvernig Frakkar eyðilögðu hvorir aðra innbyrðis, og hugðu gott til að geta fært sèr í nyt sundurlyndi þeirra og vanmátt.

Þá var *Hinrik* 5. konúngur á Englandi (1413—1422). Hann var sonur Hinriks konúngs hins 4. (af Lankasterætt), en fjórði maður frá Játvarði konúngi 3. Hinrik konúngur 5. var hraustur maður og vitur vel og mjög vinsæll af alþýðu, en alt stórmenni landsins var í minna vinfengi við hann; hann hafði á ýngri árum verið hneigður mjög til sukks og sællífis, en hætti því alveg þegar hann varð konúngur, og hugði eigi á annað en frægð og frama og gagn ríkisins. Nú er Frakkland var alt í uppnámi og nauðulega statt, eins og áður er sagt, þá reis Hinrik 5. upp og hóf tilkall til allra þeirra hèraða og fylkja, sem Játvarður 3. forfaðir hans hafði átt þar í landi; hann krafðist og að fá Katrínar, dóttur Karls Frakka konúngs hins 6. til eginkonu og 2 millíónir króna í heimanmund með henni. Frakkastjórn bauð honum nokkurn hluta af Guienne-hèraði, konuna og 600 þúsundir króna, en þverneitaði allri annari tilslökun. Hinrik gaf því boði engan gaum, en safnar liði í skyndi og heldur sem hvatlegast til Frakklands (1415). Frakkar höfðu þegar liðsafnað í móti og varð fundur þeirra Hinriks við þorp eitt í Calais-hèraði, er *Azincourt* heitir (25. Okt. 1415). Liðsmunur var mikill, því að Frakkar höfðu 50000 manns en Englendingar að eins 14000. Þó skildi svo með þeim, að Hinrik fèkk sigur; fèllu þar mjög margir frakkneskir höfðingjar og margir urðu handteknir. Eptir orustu þessa gjörði Hinrik konúngur vopnahlè, því hann vantaði fè og mannafla og hèlt aptur heim í ríki sitt. En það er af Frökkum að segja, að þeir hèldu

fram innanlands óeirðum eptir sem áður. Greifinn af Armagnac hafði ríkisstjórn á hendi og beitti hinni mestu hörku einkum við íbúa Parísborgar, enda voru þeir hinir óspökustu. Ísabellu drotníngu vèk greifinn burt úr borginni; varð drotníng að fara suður í land og setjast að í Tours; en *Karl* konúngsson, er þá var úngur að aldri, hafði greifinn hjá sèr, og sterkar gætur á, að aðrir menn hefði sem minnst afskipti af honum. Þetta leiddi til þess, að drotníngin, sem þóktist vera hart haldin, gjörði samtök við hertogann af Búrgund móti greifanum og syni sínum; hèlt hertoginn liði sínu til Parísar og náði inngöngu í borgina með svikum þeirra, er þar bjuggu fyrir, og þóktust eiga greifanum fyrir grátt að gjalda; urðu þar hin mestu hryðjuverk og manndráp, og í því upphlaupi var greifinn drepinn (1418). Misti Karl konúngsson þar hina helztu stoð sína, en sjálfur komst hann undan þó hann hefði litla von um að geta komizt til ríkis á Frakklandi.

Hinrik Englakonúngur gleymdi ekki Frakklandi, þótt hann hefði margt að starfa í ríki sínu. Sama árið sem greifinn af Armagnac var veginn, fór konúngur aptur yfir á Frakkland með her manns, lagði undir sig alt Norðmandí og tók Rúðuborg (Rouen). Flokkadráttur og sundurlyndi var svo mikið og megnt á Frakklandi, að hvorki Armagnacs flokkur eða mótsöðumenn hans, Jóhann hertogi af Búrgund og þeir sem honum fylgdu, gáðu annars en gjöra hvorir öðrum það ógagn er þeir gátu, en um fósturjörðina skeyttu þeir als ekki, eða um hinn útlenda her sem yfir henni vofði. Þó kom þar um síðir, að farið var að tala um sættir og samtök á Frakklandi gegn Hinriki konúngi, og í því skyni mæltu þeir sèr mót flokksforíngjarnir, Jóhann hertogi af Búrgund og Karl konúngsson. En hver alvara mönnum hefir verið með þær sættir og samtök, sèst bezt af því, að á þeim fundi var hertoginn veginn af mönnum Karls konúngssonar (10. sept 1419). Varð þá ekki af sættum, sem heldur ekki var við að búast, en hatrið og heiptin varð miklu verri en áður. *Filippus góði*, sonur Jóhanns hertoga, hugði nú ekki á annað fremur en hefndir, og vorið eptir (1420) gjörði hann svo feldan samníng við Hinrik Englakonúng í borg þeirri er Troyes hèt, að Karl konúngsson skyldi hafa fyrirgjört ríkiserfðum á Frakklandi, en Hinrik skyldi fá Katrínar dóttur Karls konúngs

sjötta, og verða konúngur Frakka að honum látnum. Þjóðþíngið í París lagði samþykki sitt á gjörð þessa, landsfólkið hugði gott til að fá slíkan konúng yfir sig, sem Hinrik fimta, og alt laut að því að þetta mundi takast. En það átti ekki svo til að gánga. Hinrik konúngur andaðist á bezta skeiði rúmlega þrítugur að aldri (1422), tveim mánuðum fyr en tengdafaðir hans Karl konúngur sjötti. Nú rýmkaðist að vísu hagur Karls konúngssonar, þar sem bæði Hinrik og faðir hans voru fallnir frá, enda tók hann sèr nú konúngsnafn yfir Frakklandi og nefndi sig *Karl sjöunda.* En í annan stað gáfu Englendíngar og mótstöðumenn Karls, Hinriki, syni Hinriks 5. og Katrínar drotníngar, konúngsnafn yfir Frakklandi. Hinrik þessi — er einnig erfði ríki á Englandi eptir föður sinn, og var kallaður *Hinrik sjötti* (1422—1461) var barn í vöggu þegar þessi tíðindi gjörðust, en föðurbræður hans höfðu alla ríkisstjórn á hendi hans vegna: Jóhann hertogi af Beðforð á Frakklandi, en hertoginn af Glocester á Englandi, hvortveggja dugandi menn, en Jóhann þó talinn fyrir þeim bræðrum. Honum varð mjög vel framgengt á Frakklaudi; borgir og hèröð gengu undan Karli sjöunda, svo að lítið var eptir óunnið, nema *Orleans*-borg, sem teljandi væri, og nú sátu Englendíngar um hana; ynnu þeir þá borg, svo var Karl konúngur frá með öllu; en þá kom honum hjálp úr þeirri átt, sem engan varði. Bóndadóttir ein, að nafni *Jeanne d' Arc,* 17 ára gömul, frá Lothringen í Frakklandi, kvaðst hafa fengið guðlega köllun til þess að leysa fósturjörðu sína undan oki og yfirdrotnan Englendínga. Þrátt fyrir öll mótmæli og allar mótspyrnur vina og óvina tókst henni að komast þángað, sem hirðin og Karl konúngur var, og ná hans fundi; sagði hún honum að guð hefði sent sig til hans, bað hann fá sèr liðsmenn, og svo skyldi hún leysa Orleans-borg af umsátri, koma konúngi síðan til Rheimsborgar, og þar skyldi hann láta krýnast, því að sá væri guðs vilji, að Englendíngar, óvinir hans, sneri burtu af Frakklandi og heim aptur til Englauds. Menn lögðu í fyrstu lítinn trúnað á orð og athæfi stúlku þessarar, en annað varð þó bráðum ofaná. Hún bjó sig riddarabúníngi, tók sèr merki í hönd, — merkisblæan var fannhvít og þar á dregin mynd lausnarans — og þannig fór hún fyrir liðinu og eggjaði það til framgöngu. Englendíngar urðu skelkaðir og hörfuðu undan, en Orleans var

borgið, og Frakkar unnu hvern sigurinn á fætur öðrum. Því næst fór konúngur til Rheims og var krýndur þar (1429). Stúlka þessi, sem síðan hefir verið kölluð »*mærin frá Orleans*«, kvaðst nú hafa lokið erindi sínu, og vildi halda heim til sín aptur, en fyrir bænastað konúngs og liðsmanna hans lèt hún tilleiðast og dvaldist enn um stund við herinn. Litlu síðar fengu Englendíngar náð henni á sitt vald, báru sakir á hana um galdur og fjölkyngi, dæmdu hana til dauða, og brendu síðar á báli (1431); en það var siðvenja þá og lengi þar á eptir, að brynda þeim mönnum á bál og brenna til ösku, er grunaðir voru um galdur og fjölkyngi. Það segja menn, að hægt hefði verið fyrir Karl konúng sjöunda að frelsa stúlku þessa frá dómi og dauða, hefði hann viljað; en hann var vanþakklátur og framkvæmdarlítill um flesta hluti, og það var engan veginn dáð hans og drengskap að þakka, að Frökkum tókst að reka Englendínga af höndum sèr, og losast undan þeirra yfirráðum, heldur hinu: *að* »mærin frá Orleans« hafði vakið þjóðernistilfinníngu Frakka, *að* Filippus hertogi af Búrgund skildist við Englendínga, því að hann óttaðist aðfarir þeirra í Niðurlöndum, og gekk í lið með Frökkum (1435), og *að* innbyrðis ófriður geisaði um þær mundir meðal höfðíngja á Englandi (Rósa-stríðið), en konúngur þar lítt nýtur, og Jóhann af Beðforð dáinn. Árið 1453 áttu Englendíngar þannig ekki annað eptír á Frakklandi en borgina *Calais* og nokkrar eyjar fyrir Norðmandíuströndum. Ófriður þessi, sem svo lengi hafði staðið milli landauna, datt þannig niður án þess nokkur friðarsamníngur væri gjörður, en lengi var síðan kalt á milli þjóða þessara, Englendínga og Frakka.

## England frá 1327 til 1485. Rósa-stríðið[1].

*Játvarður Englakonúngur hinn þriðji* (1327—1377) átti ófrið mikinn á Frakklandi, eins og fyr er ritað (bls. 157), en um sama leyti stóð ófriður milli Englendínga og Skota. *Róbert Bruce* Skotakonúngur vann svo ágætan sigur á Englendíngum hjá Bannockburn, eins og áður er sagt, að Skotar náðu fullu frelsi og friður komst á milli landanna um stundarsakir. En þegar frá leið og Játvarður konúngur stóð í óeirðum yfrá Frakklandi og hafði ærið að starfa, þá rauf *Davíð Bruce*, sonur Róberts, friðinn, og fór með her manns suður á England, og tók


1) *Játvarður þriðji* † 1377.
1. Játvarður svarti prinz, † 1375.
Ríkarður 2. † 1400.
2. Lionel af Clarence.
Anna Mortimer.
3. Jóhann af Lancaster (hin rauða rós).
Hinrik fjórði † 1413.
Hinrik fimti † 1422.
Hinrik sjötti † 1471.
Margrèt af Beaufort, gipt Játmundi Túdor.
Hinrik sjöundi (giptur Elísabet af York dóttur Játvarðar 4.) † 1509.
Hinrik áttundi † 1547.
4. Játmundur af York (hin hvíta rós).
Ríkarður af Cambridge, giptur Önnu Mortimer.
Ríkarður af York † 1460.
1. Játvarður 4. † 1483.
2. Georg af Clarence † 1478.
3. Ríkarður 3. eða hinn ílli † 1485.
1. Játvarður 5. † 1483.
2. Elísabet, gipt Hinrik sjöunda.

að herja þar. En Filippa drotníng Játvarðar þriðja safnar liði, og fer í móti Skotum. Hittast þau drotníng og Skotarnir við *Duram*, og berjast þar Lýkur svo með þeim, að drotníngarmenn vinna sigur og taka Davíð Bruce höndum (1346) og settu í varðhald. Sat hann þar ellefu vetur, en fèkk síðan lausn, og komst aptur til ríkis. Þegar hann dó (1371), kom *Stúartaættin* til ríkis á Skotlandi. Játvarður konúngur átti löngum í stríði og styrjöldum, og varð því einatt að leita þjóðþíngsins (*parlamentsins*), og biðja það veita fè til herútgjörðar. Af þessu leiddi, að þjóðþíng þetta fèkk meiri þýðíngu og meira vald en áður hafði verið; þá (1347) skiptist og þíngið algjörlega í tvær deildir (tvær málstofur) þannig, að *riddarar gengu í sveit með borgurum*, og var sá hlutinn kallaður *alþýðustofan* (*undirhúsið*) til aðgreiníngar frá hinum hlutanum, *lávarðastofunni* (*yfirhúsinu*), þar sem allt stórmenni ríkisins, lendir menn og klerkar áttu setu. Til þess að lagafrumvörp gæti orðið að lögum, urðu báðar þíngdeildir að samþykkja þau; þíngið hafði vald til að leggja skatta á þjóðina, og alþýðustofan til að ransaka bæði umkvartanir yfir embættismönnum og sèrhvað eitt, er ábótavant þókti í alþjóðlegum málefnum. Um þessar mundir hóf *Jóhann Wycliffe* († 1384), háskólakennari í Oxford, kenníngu sína móti páfatrúnni og hinni rómversku kirkjustjórn; studdi aðallinn þá hina nýju kenníngu um hríð, því að hann bjóst við hag af því, ef klerkavaldið minkaði. En er aðallinn sá, að konúngur ætlaði sjálfum sèr allan haginn, þá dró hann sig í hlè; en kenníngar Wycliffs opnuðu augu alþýðunnar á Englandi svo að hún ófriðaðist móti höfðíngjunum, undirokurum sínum. Rit Wycliffs breiddust víða út um lönd, og höfðu einkum mikil áhrif á hugi manna austur í Böhmen (Bæheimi), því að þar var það sem *Jóhann Húss* og hans flokkur löngu seinna reis upp gegn páfavaldinu, og urðu þá mikil tiðindi, eins og síðar mun sagt verða.

Játvarður konúngur 3. átti 4 sonu; var Játvarður svarti prinz elztur þeirra, en hann andaðist á undan föður sínum (1375), eins og fyr er ritað. Þegar Játvarður þriðji dó (1377), kom Ríkarður sonarsonur hans (sonur Játvarðar svarta prinz) til ríkis á Englandi, og var kallaður *Ríkarður annar* (1377—1400). Hann var þá barn að aldri, og rèðu föðurbræður hans ríki með honum fyrst framan af ríkisárum hans. Einhver hin helztu tíðindi

um hans daga, voru hinar miklu óeirðir, sem bændaupphlaupið þar í landi kom til leiðar (1381). En þær óspektir risu af púngum sköttum sem parlamentið hafði lagt á bændur; heimtuðu þeir nú að lètt væri á sèr þúngri ánauð og sköttum, brutu hallir og búgarða höfðíngjanna og unnu Lundúnaborg. *Wat Tyler* hèt forîngi þeirra. Aðallinn hljóp í felur og forðaði sèr. Konúngur lèt í orði kveðnu sem hann mundi veita bændum alt það er þeir beiddust; við það sefaðist flokkur þeirra; en í þeim umsvifum var Tyler foríngi þeirra veginn, tvístraðist þá liðið, en aðallinn herti upp huginn og hefndi sín grimmilega. En jafnvel þó bændur biði ósigur í uppreist þessari, þá mínkaði smásaman ánauð bænda í Englandi, og það svo, að þeir áttu miklu meira frelsi að fagna heldur en bændastèttin á meginlandi.

Ríkarður annar var rekinn frá ríkjum, og drepinn síðan af frænda sínum Hinriki af *Lancaster* (1400), er þá kom til ríkis og nefndur var *Hinrik fjórði* (1400—1413). Meðan hann sat að völdum í Englandi, var ófriður þar engu minni í landi, en verið hafði um daga Ríkarðar konúngs fyrirrennara hans, því að mörgum þókti hann rángléga hafa til ríkis komizt, þar sem hann bæði hefði steypt Ríkarði úr völdum, og aðrir af niðjum Játvarðar 3. hefði staðið nær ríkiserfðum, svo sem voru afkomendur Lionels af Clarence, er var eldri af sonum Játvarðar en Jóhann af Lancaster faðir Hinriks. En Hinrik konúngur var bæði harðgjör og hamíngjusamur í viðskiptum við mótstöðumenn sína og gjörði annaðhvort að ráða þeim bana eða reka þá í útlegð. Klerkarnir styrktu eigi heldur alllítið stjórn Hinriks, því að þeim þókti ærið undir því komið, að konúngur bældi niður áhángendur Wycliffs þar í landi, er víða lètu til sín heyra, svo að klerkum stóð stuggur af. Þannig friðaði Hinrik konúngur ríki sitt að mestu leiti áður hann andaðist 1413. Tók þá ríki eptir hann sonur hans *Hinrik fimti* (1413—1422), og er hans áður getið. Þau fáu ár sem hann rèð fyrir Englandi var þar friður í landi, því að höfðíngjar stóðu í styrjöldum með konúngi sínum yfrá Frakklandi og höfðu þar nóg að starfa og gátu eigi alla þá stund viðsnúizt innlendum ófriði heima hjá sèr. En eptir lát hins ágæta konúngs (1422) hófst innanlands ófriður að nýju á Englandi. *Hinrik 6.* varð konúngur á Englandi eptir föður sinn (1422—1461), og var honum næsta ólík-

ur. Hann misti því nær alt það aptur, er faðir hans hafði undir sig lagt á Frakklandi, og varð mjög óvinsæll á Englandi bæði fyrir þá sök og svo hins vegna, að hann lèt gæðínga sína og *Margreti* af *Anjou* drotníngu sína ráða öllu; en hún var ráðrík og drotnunargjörn, og það þoldu Englendíngar illa. Loks varð konúngur hálfsturlaður eins og afi hans, Karl 6. Frakkakonúngur, hafði verið, og með öllu óhæfur til ríkisstjórnar. Þegar svo var komið gaf *Ríkarður* frændi hans, hertogi af York sig fram, og kvaðst hafa meiri og betri rètt til konúngstignar á Englandi, en þeir feðgar af Lancasters ættinni, því að hann væri bæði í föður og móðurætt kominn af Játvarði konúngi þriðja. Þó gjörði Ríkarður fyrst um sinn að eins tilkall til að verða *ríkisforseti* (Protector) meðan konúngur væri veikur á geði. Þegar þetta gat ekki gengið með góðu greip Ríkarður til vopna og tók konúnginn höndum í orustunni við St. Albans 1455. Þetta var upphaf að hinum grimmu og lángvinnu innanlands óeirðum á Englandi (1455—1485), er menn hafa kallað *stríðið milli hinnar rauðu og hvítu rósar,* því að Lancasters ættin hafði rauða rós í merki sínu, en Yorks ættin hvíta. Þegar Ríkarður af York hafði náð konúngi á sitt vald, fór hann að sönnu vel með hann, en krafðist nú konúngstignar fyrir sig og niðja sína, og þjóðþíngið játaði því á þá leið, að Ríkarður skyldi til ríkis koma að Hinriki konúngi önduðum. Þetta lètu þeir sèr vel líka konúngur og Ríkarður, en Margrèt drotníng neitaði þverlega fyrir hönd sonar síns að samþykkjast þeirri ráðagerð. Fór drotníng að því búnu norður í land og safnaði liði; varð henni gott til manna, því að hún var kvenna þrekmest og ákötust, fríð synum og vel máli farin; heldur síðan liðinu suður í land, og hefir um 20 þúsundir manna, en Ríkarður hertogi snýr í móti og eru hans menn einar fimm þúsundir. Verður fundur þeirra hjá bæ þeim er *Vakefjeld* heitir (1460) og lýkur svo, að hertoginn fellur og nálega allir hans menn. Drotníng lèt höggva höfuð af Ríkarði og festa yfir borgarhliði í York, og mörg voru þá hryðjuverk unnin af drotníngarmönnum, þótt eigi sèu hèr nefnd. En þó Ríkarður hertogi væri fallinn og margir af vinum hans og vandamönnum, þá átti hann mörg börn á lifi, og urðu enn margir til að fylla flokk þeirra; enda kom það brátt í ljós, því þegar að ári liðnu var *Játvarður*, elzti sonur

Ríkarðar, tekinn til konúngs og kallar *Játvarður hinn fjórði* (1461—1483) en Hinriki konúngi varpað í fángelsi. Jarlinn af *Warvík* var um þær mundir einn hinn ríkasti maður og mest virður á Englandi, og honum átti Játvarður öðrum fremur að þakka, að hann komst til konúngstignar. En Játvarður þakkaði jarli eigi sem skyldi dygga þjónustu, svo að jarlinn gjörðist hans óvinur og gekk í lið með Lancastersmönnum; varð Játvarður konúngur þá að flýja ríki sitt og komst nauðuglega undan til Hollands, en jarl leysti Hinrik sjötta úr fángelsi og setti hann aptur til ríkis (1470). Skamma stund átti þó Hinrik því láni að fagna, því að árið eptir kom Játvarður og hafði fengið öfluga liðveizlu hjá Karli hinum djarfa mági sínum, hertoga af Búrgund. Játvarður hitti lið Hinriks við *Barnet* (1471) og fékk sigur, jarlinn af Warvík féll, en Hinrik konúngur var að nýu settur í fángelsi. Í það mund kom Margrèt drotníng frá Frakklandi með Játvarð son þeirra Hinriks konúngs 18 vetra gamlan, og er hún frètti ófarir hans vildi hún forða sèr, en Játvarður konúngur náði henni og sveininum á sitt vald. Þegar sveinninn var leiddur fram fyrir konúng, mælti hann: «því varstu svo djarfur að koma í ríki mitt»? Sveinninn svaraði: «til þess að berjast til ríkis og arfs eptir föður minn». Konúngur reiddist svo djarfmannlegu svari og laust sveininn í andlit með glófa sínum, en konúngsmenn lögðu því næst höndur á hann og unnu á honum. Litlu síðar dó Hinrik konúngur faðir hans í fángelsi, og sögðu menn að Ríkarður af Glocester, bróðir Játvarðar konúngs, yrði banamaður hans. Margrèt drotníng fèkk lausn úr dyflissu móti ærnu gjaldi, er Loðvík 11. Frakkakonúngur greiddi fyrir hennar hönd, og andaðist á Frakklandi nokkru síðar. Fjöldi mikill göfugra manna, er fylgt höfðu Hinriki konúngi, voru þá af lífi teknir, og loksins lèt Játvarður konúngur dæma bróður sinn, Georg hertoga af Clarence, til dauða, og drepa síðan (1478)[1]. Eptir öll þessi hryðjuverk rèð Játvarður fjórði ríki sínu stórtíðindalaust það sem eptir var æfi hans. Hann andaðist á öndverðu ári 1483, þrem vikum fyr en Loðvík 11. Frakkakonúngur.

Þegar Játvarður konúngur dó, átti hann tvo sonu á lífi,

1) Hertoginn fèkk að kjósa sèr dauðdaga; hann kaus að sèr yrði drekt í Malvasia-víni, því að sá drykkur hafði honum jafnan þókt beztur. Svo var gjört sem hann beiddi.

Játvarð 13 vetra og Ríkarð 7 vetra. Hinn eldri var til konúngs tekinn og kallaður *Játvarður fimti*, en föðurbróðir þeirra, *Ríkarður hertogi af Glocester*, sem áður var nefndur, einhver hinn versti maður sem sögur nefna, lét myrða þá bróðursyni sína báða til þess að geta sjálfur komizt til ríkis. Hann er nefndur *Ríkarður þriðji* og *hinn illi*. Hann stýrði Englandi frá 1483 til 1485. Þá tóku nokkrir menn sig saman, sem undu illa harðstjórn Ríkarðar, og skoruðu á *Hinrik* greifa af *Richmond* eða *Túdor*, sem í móðurætt var kominn af Lancaster-mönnum, og hafði um hríð verið í útlegð suður á Frakklandi, að hann kæmi til Englands og gjörðist þar konúngur. Hinrik lèt að orðum þeirra og fór til Englands, gengu þá margir í lið með honum. En er Ríkarður fréttir komu hans þar við land, safnar hann liði og heldur til móts við Hinrik. Varð fundur þeirra á Bosworthsvöllum skamt frá Leicesterborg (21. ág. 1485); varð þar hin harðasta orusta áður Ríkarður konúngur féll; brast þá flótti í liði hans; var Hinriki gefið konúngsnafn, og kallaður *Hinrik sjöundi*. Þannig lauk hinu blóðuga *rósa-stríði* á Englandi.

Hinrik sjöundi (1485—1509) átti Elísabetu, dóttur Játvarðar konúngs fjórða, er þá var ein orðin eptir af Yorksmannaættinni. Þannig sameinaðist í Tudors-ættinni báðar hinar konúngsættirnar (Lancaster og York) er um lángan tíma höfðu barizt um yfirráðin og borizt banaspjót á. England var sem máttfarið eptir hina lángvinnu óöld, er yfir það hafði geisað, en meðan Hinrik sjöundi sat að völdum rètti það við og tók aptur framförum. Konúngur gaf sig lítið við málefnum annara þjóða, átti eigi heldur í deilum innanlands svo teljandi sè, en lagði allan hug á að safna fé og auka konúngsvaldið í landinu; mætti drotnunargirni hans lítilli mótspyrnu, því að höfðíngjaættir voru margar gjöreyddar í borgarstríðinu, og þær sem eptir voru miklu þróttminni og friðsamari en áður; parlamentið rèð litlu, og þó konúngur legði ekki beinlínis skatta á menn eptir sjálfs síns geðþótta, þá kom hann því svo fyrir, að menn lètu fè af hendi rakna, eptir því sem hann kallaði til. En þó þessu væri þannig varið, var samt mikill munur á stjórnarháttum Englands og Frakklands undir endalok miðaldanna; konúngsveldið á Frakklandi var rótgróið, og stóð um margar aldir, en þjóðfrelsinu á Englandi var ekki þröngvað nema um stundarsakir. Það sem umfram alt

studdi frelsið á Englandi, var það að landið var eyland, afskekt og umflotið, og þurfti því eigi *stöðugt* á *herliði* að halda. Á meginlandinu var hinsvegar miklu meiri þörf á, að dæmi Frakklands, að hafa vígbúið lið til taks, hvenær sem á þurfti að halda, og slíkt herlið — sem kalla mátti setulið — var hið bezta verkfæri í hendi þjóðhöfðíngja til þess að halda þjóðunum í spekt, eða jafnvel í ánauð og kúgan.

## Þýzkaland frá 1254 til 1493. Hin lánga millibilsstjórn. Habsborgar og Lúxemborgarættin hefst til keisaradóms.

Vèr höfum um hríð látið fyrirberast meðal Frakka og Englendínga, en nú víkur aptur sögunni til Þýzkalands og þar að, sem fyr var frá horfið, að ofanverðum dögum Hohenstáfa.

*Friðrik keisari annar* var lengstum á Ítalíu, eins og fyr er ritað, og átti þar optast málum að gegna, gætti því stjórnar hans á Þýzkalandi miklu minna en ella hefði orðið. Þýzkaland var eins og höfuðlaus her; alt fór í þverúð með lènsdrotnum, borgamenn og höfðíngjar (aðallinn) lágu í illdeilum, lögum og landsrètti var lítið sinnt. Til að ráða á þessu nokkra bót, var gripið til þeirra úrræða, að setja þar (hèr um bil 1220) eins konar *höfuðdóma* (Hemmelige Retter, Fehmgerichte), er í kyrþei dæmdu hina verstu illgjörðamenn; voru þeir dómar tíðkaðir víða um Þýzkaland fram á 16. öld. *Bændastèttin* sætti miklum yfirgángi af höfðíngjum, er reyndu til að drepa niður öllu frelsi hennar, hvar sem það var að finna. Þannig tókst greifanum af Oldenborg árin 1232—33, að brjóta undir sig hina hraustu *Stedínga*, þeir voru af ættbálki Frísa, og bjuggu við Veserfljót. Það voru að eins bændurnir í *Ditmarsken* (þèttmerski) og *Sweiz*, sem varizt gátu kúgun og harðstjórn lènsdrotnanna. Verzlun staðabúanna var jafnan undirorpin gripdeildum aðalsins; því riddaraborgir og ræníngjaborgir voru á þeim tímum hartnær eitt og hið sama; borgir þessar stóðu jafnan á hömrum eða hæðum, sátu riddararnir þar og horfðu niður á láglendið eins og hræfuglar á bráð. Borgirnar við Rín og í Schwaben gengu því í fèlag til þess að friða og verja verzlun sína; en þetta borgafèlag varð þá aldrei eins öflugt og víðfrægt, eins og *Hansa-*

*staða* fèlagíð á Norður-Þýzkalandi, sem áður er nefnt, er stóð hèr um bil frá 1241—1630.

Eptir dauða Friðriks keisara annars liðu yfir 20 ár þángað til Þýzkaland fèkk þann alsherjarkonúng, er allir vildu játa hlýðni og hollustu. Konráð sonur Friðriks keisara, Vilhjálmur af Hollandi, Ríkarður af Cornwallis (bróðir Hinriks þriðja Englakonúngs) og fleiri, urðu að vísu allir yfirráðendur Þýzkalands, en það var ekki nema nafnið tómt. Lènsdrotnar á Þýzkalandi færðu sèr þetta stjórnleysi í nyt, hrifsuðu undir sig öll þau yfirráð, sem keisarar höfðu áður haft um alt ríkið (t. a. m. æzta dómsvald, tolla, jarðir krúnunnar o. fl.), og urðu einvaldar yfir, hver þeirra í sínu fylki, og nú var eigi lengur til þess að hugsa, að alt Þýzkaland yrði framar *ein ríkisheild,* en einmitt fyrir því höfðu Hohenstáfarnir verið að berjast. Fjandskapur páfaveldisins gegn Hohenstáfa-ættinni og eyðilegging hennar, leiddi þannig til þess, að Þýzkaland sundraðist alt í ótal smáríki.

Þetta stjórnleysis tímabil, eptir að Hohenstáfar liðu undir lok (1254—1273), hafa menn kallað: *millibilsstjórn hina löngu* (det store Interregnum); síðan hefir Þýzkaland verið greint í mörg ríki og smá. Árið 1273, þegar lènsdrotnarnir þóktust vera orðnir fullfastir í sessi, hver í síuu ríki, en óttuðust hins vegar löggleysur þær, er þá áttu sèr stað um alt Þýzkaland, þá settust þeir á ráðstefnu til þess að velja yfirstjórnara als ríkisins. Nú voru eigi lög til um það, hverjir kjósa mætti konúnginn. Hinir fornu Germanar höfðu gjört það á alsherjarþingum, en á lènsherra tímunum kjöru lendir menn og annað stórmenni. Nú varð niðurstaðan sú að »*kjörfurstarnir*« skyldi ráða kosníngu. En er hèr var komið voru því nafni nefndir hinir æztu þjóðhöfðíngjar á Þýzkalandi, nefnilega 3 af klerkastèttinni; erkibiskuparnir af *Mainz*, *Cölln* og *Tríer*, og 4 af verzlegu stèttinni: hertoginn af *Saxlandi, Pfalsgreifinn við Rín*, er einnig var hertogi af Neðri Bajern (eða Efri-Pfalz), Markgreifinn af *Brandenborg* og konúngurinn[1] í *Böhmen*. Kjörherrar þessir kusu til konúngs á Þýzkalandi *Rúdolf greifa af Habsborg*[2] (í Sweiz); hann og ættmenn hans áttu lítil lönd í Elsas og Sweiz, og fyrir því hugðu kjörfurstarnir, að þeir mundu geta ráðið öllu sínu fyrir honum.

Rúdolf af Habsborg (1273—1291) var herkænn maður og

1) *Böhmen* var gjört að konúngsríki á dögum Hohenstáfanna.

2) Rúdolf af Habsborg † 1291.

- Albrekt fyrsti, † 1308.
  - Friðrik fríði † 1330.
  - Leópold (Morgarten † 1315).
  - Albrekt vitri og öðru nafni hinn máttlausi † 1358.
    - Albrekt
      - Albrekt
        - Albrekt annar, † 1439.
          - Ladislás posthúmus, † 1457.
    - Leópold, † 1386 við Sempach.
      - Ernst
        - Friðrik þriðji, † 1493.
          - Maximilian, † 1519.
            - Filippus, † 1506
              - Karl fimti, † 1558.

vopndjarfur, vitur maður og vel stiltur; hann friðaði landið með miklum dugnaði fyrir óaldarmönnum, stökti spillvirkjum og braut borgir þeirra svo tugum skipti. En bæði hann og eptirkomendur hans flestir höfðu aðra stefnu í ríkisstjórn sinni en Hohenstáfakeisarar höfðu haft. Hann gaf sig nefnilega ekkert við Ítalíu; hann vildi jafnvel ekki fara til Rómaborgar til þess að láta krýna sig til keisara, og þegar hann mintist á afdrif forverja sinna í Ítalíu mælti hann þessum orðum úr dæmisögunni: »eg sè spor þeirra sem til þín liggja, en engin hinna sem frá þèr liggja;» hann lèt páfann ráða ríki sínu á Mið-Ítalíu, en borgirnar á Norður-Ítalíu höfðu fríveldisstjórn, og voru engum háðar. En hugur Rúdolfs var allur á Þýzkalandi og á því, að auka virðíngu og veldi sitt og ættmanna sinna, enda varð honum vel ágengt í þeim efnum. Þá rèð fyrir Böhmen konúngur sá er *Ottókar* hèt, ríkur höfðíngi og rembilátur. Hann hafði á meðan millibilsstjórnin stóð, lagt undir sig *Austurríki, Steiermörk, Kärnthen* og *Krain* og viljað gjörast keisarì yfir Þýzkalandi, en Rúdolf kallaði til þessara landa, og þegar Ottókar vildi þau eigi laus láta, þá börðust þeir og fekk Rúdolf sigur en Ottókar fèll. Rúdolf fekk því næst sonum sínum tveim, Albrekt og Rúdolfi, að lèni hin austurrísku lönd, er hann hafði tekið af Ottókar, og jók þannig stórum veldi *Habsborgar-ættarinnar* (eða *Austurríkis-ættarinnar* sem hún einuig upp frá því var kölluð).

En einmitt þetta — að Rúdolf og ættmenn hans auðguðust svo mjög að löndum — leiddi til þess, að þegar Rúdolf dó (1291), þá vildu kjörfurstarnir ekki kjósa *Albrekt* son hans til konúngs, heldur kusu þeir *Adolf* greifa af *Nassau* (1292—1298), af því að hann átti fyrir miklu minni erfðalöndum að ráða heldur en Albrekt. Þau fáu ár sem Adolf sat að ríkjum átti hann miklu ónæði að gegna, einkum snerist erkibiskupinn af Mainz og nokkrir kjörfurstar mjög í móti honum, og loksins fèll hann í bardaga móti Albrekt af Austurríki, er þá varð eptirmaður hans í ríkisstjórn um tíu ár, frá 1298 til 1308.

Albrekt var óþýður maður i skapi og þrekmikill, stillíngarmaður minni en Rúdolf keisari faðir hans, og ágjarn mjög til fjár og landa. Kjörfurstarnir, er þó höfðu kosið hann til ríkis, urðu skjótt óvinir hans, fyrir þá sök, að hann vildi setja yfirgángi þeirra og ásælni nokkrar skorður. Þar á meðal var það

eitt, að þeir höfðu lagt óbærilegan toll á alla vöruflutnínga eptir Rhín-fljóti; þá tolla vildi keisarinn af nema, en kjörfurstar beittu vopnum í móti. Páfinn (Bonifacius 8.) snerist einnig öndverður við Albrekti, af því að keisarinn var vinur mikill Filippusar fríða Frakkakonúngs. En þetta kom alt fyrir ekki; keisarann skorti ekki fè; með því gat hann fengið mikið lið á mála, kúgað kjörfurstana og gjört þá fyrirskipan um Rhínartollinn sem hann vildi; páfinn sættist við keisara litlu síðar. Bæði Hollandi og Böhmen vildi Albrekt ná undir sig, en það fórst hvorttveggja fyrir. Þau urðu æfilok Albrekts keisara að Jóhann af Schwaben, bróðursonur hans, myrti hann (1308) fyrir þá sök, að honum þókti Albrekt halda inni föðurarfi sínum. Niðjar Albrekts sátu að ríki í hinum Austurríksku erfðalöndum í góðu gengi, en svo liðu rúm hundrað ár (til 1437), að þeir komust eigi til keisaratignar á Þýzkalandi.

Viðburðir þeir, sem nú voru sagðir, komu í góðar þarfir bændaþjóð einni, sem lengi hafði búið á einum útkjálka Þýzkalands, og litlar sögur höfðu af gengið, það voru *Sveizlendíngar.* Mestur hluti Sveizalands hafði áður legið undir hið *arelatneska* ríki. En síðan það ríki sameinaðist Þýzkalandi á elleftu öld, höfðu hertogarnir af *Zäringen* haft umráð yfir Sveizalandi fyrir hönd keisarans. Þegar sú hertogaætt leið undir lok (1218), hófust greifarnir af Habsborg þar til valda, en þó voru umhverfis *Vierwaldstädtersjó* nokkrar sveitir (*Sveiz, Uri, Unterwalden*), er nutu hins mesta frelsis og voru að kalla engum háðar öðrum en keisara sjálfum, því að lènsherrar og yfirráð þeirra höfðu aldrei fest þar fót. En er Habsborgarmenn hófust til ríkis á Þýzkalandi, þá freistuðu þeir að ná löndum þessum undir sig og ættmenn sína, en dalabændur á Sveizalandi vildu alt annað en gjörast ánauðugir þegnar Habsborgar keisara. Bændur ráku fógeta keisarans úr landi[1] og sveitir (kantónur) þær, sem áður voru nefndar, sórust í fèlag (1307) til þess að verja fjör og frelsi. Albrekt keisari var á leið þángað til þess að jafna hluta sinn á þeim,

1) Það hefir jafnan verið sagt, að Vilbjálmur Tell hafi átt mikinn þátt í burtrekstri fógetanna, skotið einn þeirra er Gessler hèt o. fl. en nú hafa menn fyrir satt, að sagnir þær, er af Tell hafa gengið, sèu eigi áreiðanlegar eða sannar, heldur skáldleg munnmæli er myndast hafa hjá Sveizlendingum.

en þá var hann myrtur, eins og áður er sagt. Sjö árum síðar fór *Leópold* hertogi sonur hans þángað með her manns, og er sagt að hann hefði snörur margar meðferðis til þess að hengja í bændur þá, er hann handtæki á Sveizalandi. Þegar hersagan barst Sveizlendíngum höfðu þeir liðsafnað, og urðu þó eigi fleiri saman en 13 hundruð manna, því að eigi var á mörgum að taka, en þó að þeir væri fáir þá skorti hvorki hug nè dug; hèldu þeir flokknum upp í skarð það er *Morgarten* nefnist (í kantónu þeirri, er Zug heitir) og biðu svo Austurríkismanna. Þegar lið hertogans sókti upp í skarðið lètu Sveizlendíngar dynja grjót á þeim niður eptir hlíðunum, því næst gjörðu þeir áhlaup á þá sem harðast, riðluðust þá fylkíngar Austurríkismanna og snerust á flótta, varð þar hið mesta mannfall, en Sveizlendíngar unnu frægan sigur (1315). Eptir þessi tíðindi urðu fleiri sveitir til (t. a. m. *Lúzern, Zürich, Glarus, Bern* o. fl.) þar í landi og sórust í fèlag með hinum, sem fyr voru nefndar (*Eidgenossenschaft* = Edsforbund), án þess þó að áformið væri þá þegar að losast alveg undan hinu Þýzka ríki, heldur hitt, að vera beinlínis keisaranum háðar, en engum öðrum smáhöfðíngjum. Austurríkis keisarar reyndu opt eptir þetta að brjóta Sveizaland undir sig, en landsmenn vörðust ofurefli þeirra af mestu prýði, og unnu sigur á þeim optar en í eitt skipti, einkum er orustan við *Sempach* (1386) orðin fræg. *Leópold* hertogi, sonarsonur Albrekts 1., var þá fyrir Austurríkismönnum; hann var hraustur maður og hinn mesti fullhugi, og hafði mikið lið og frítt og vel að vopnum búið; skipaði hann riddurum fremst en fótgönguliði að baki þeim. Liðsmunur var svo mikill, að sagt er að 4 menn austurrikskir mundu vera um einn sveizneskan. En er riddarar sáu, að eigi var öðrum að mæta en fótgángandi mönnum, og að engir voru riddarar í móti, þá stigu þeir af hestum sínum og stóðu svo maður við mann; voru þeir albrynjaðir, með hjálma á höfðum og höfðu spjótin fyrir sèr. Sveizlendíngar fèllu á knè og báðust fyrir. Þá mæltu riddarar Leópolds: »nú falla þeir á knè kotúngarnir og biðjast miskunar«. Í því vetfángi spruttu bændur upp og hlupu að þeim, en riddarar stóðu fastir fyrir, hlífarnar dugðu vel, og fengu hinir ekki aðgjört. Þá beygðu riddarar saman fylkíngararma á liði sínu og vildu umkríngja bændur. En maður einn í þeirra flokki, er hèt *Arnold af Vinkel-*

*ried,* tók til orða og mælti: »eg skal ryðja yður braut, en þèr skulið síðan sjá á með konu minni og börnum«. Því næst hljóp hann á riddarana sem harðast, lögðu þeir til hans mörgum spjótum í senn og unnu á honum, en af þessari viðureign þeirra varð hlíð á fylkíngu riddaranna, ruddust bændur þar í gegnum og börðust sem óðir væru, rofnaði þá fylkíng Austurríkismanna, fengu bændur sigur, en Leópold hertogi fèll og margir ættgöfugir menn með honum. Þrem árum síðar biðu Austurríkismenn ósigur fyrir Sveizlendíngum við *Näfels* (1389) og gjörðu því næst vopnahlè og frið við þá. Frá viðureign Sveizlendínga og *Karls djarfa* af Búrgund verður síðar sagt.

En þegar þar var komið, að Sveizlendíngar höfðu rekið útlenda óvini af höndum sèr og friðað bygð sína fyrir árásum þeirra, þá tók hinn forni hetjuandi og hin hreina frelsisást hjá fjallaþjóð þessari að dofna og taka aðra lakari stefnu. Hin elztu sambandsfylki brutu önnur smáhèruð undir sig þar í landi og beittu ójöfnuði við íbúa þeirra. Frá dögum Loðviks ellefta, Frakkakonúngs, tíðkaðist það að Sveizlendíngar gengu á mála bæði hjá Frakkakonúngum og öðrum þjóðhöfðíngjum, og urðu einatt verkfæri í höndum þeirra til að efla harðstjórn og ránglindi, en jafnan hafa Sveizlendíngar þókt hinir vöskustu liðsmenn.

Þegar Albrekt keisari hinn fyrsti var liðinn undir lok (1308) reyndi Filippus fríði, Frakkakonúngur, að koma Karli bróður sínum til keisaradóms á Þýzkalandi, en kjörfurstarnir sáu við brögðum hans og kusu til þeirrar tignar *Hinrik greifa* af *Luxemborg*, dugandi mann. Hann var hinn *sjöundi* keisari með því nafni á Þýzkalandi og sat að ríkjum frá 1308—1313. Hann fèkk komið *Jóhanni* syni sínum til konúngstignar í *Böhmen,* og lagði á þann hátt grundvöllinn undir auð og veldi Luxemborgarmanna síðar á tímum. Eptir það fór Hinrik keisari með her manns til Ítalíu, eins og siður hafði áður verið með Þýzkalands keisurum; tóku Gíbellínar þar í landi við honum tveim höndum, og hið nafnfræga þjóðskáld *Dante* († 1321) orti lofkvæði um hann, en Gvelfar voru helzt of margir á Ítalíu til þess að keisarinn næði þar yfirráðum. Hann dó snögglega á Ítalíu 1313, og varð þá að nýu mikill ágreiníngur með mönnum á Þýzkalandi um það, hvern kjósa skyldi til keisara í hans

stað. Þeir sem voru mestir vinir Luxemborgarmanna kusu *Loðvík* hertoga af *Baiern,* (1314—1347) því að Jóhann sonur Hinriks sjöunda, var bæði úngur að aldri og lèt sèr nægja að vera konúngur í Böhmen. Aðrir vildu kjósa Friðrik fríða af Austurríki, son Albrekts keisara; varð af því ófriður mikill og vopnaviðskipti. Loðvík vann sigur á Friðriki í orustunni hjá Mühldorf (1322), tók hann höndum og setti í varðhald, en síðan sættust þeir og skiptu völdum með sèr.

Meðan Loðvík af Baiern rèð fyrir Þýzkalandi átti hann jafnan að stríða við páfana út af afskiptum þeirra af málefnum þýzkra manna; voru þau afskipti því verri og viðsjálli, sem páfarnir voru um þær mundir allmjög háðir Frakkakonúngum og unnu þeim í hag það sem þeir unnu á Þýzkalandi. En þessi niðurlæging páfanna rírði einnig álit þeirra í augum manna, og þess vegna lýstu höfðíngjar Þjóðverja yfir því á samkomu í Rense (1338) að keisara kosníng hinna þýzku kjörfursta væri einhlít, og að hvorki þyrfti staðfestingu páfans eða krýningu í Rómaborg til þess að verða rómverskur keisari. En fyrir þá sök að Loðvík keisari beitti stundum frekju og ofdrambi í málefnum kirkjunnar, en lèt páfann aðra stund öllu ráða, og sýndi hina mestu auðmýkt og undirgefni, þá misti hann smásaman virðíngu sína, og eptir að hann tók *Týról* frá Luxemborgarmönnum tókst páfanum að fá nokkra af kjörfurstunum til að velja *Karl,* son Jóhanns konúngs af Böhmen[1], til keisara, en þó hèlt Loðvík með allmiklum dugnaði ríki sínu til dauðadags 1347.

*Karl* keisari *hinn fjórði* með því nafni (1347—1378) átti á öndverðum stjórnarárum sínum í deilum við *Günther* af *Schwarzburg,* er mótstöðumenn Karls höfðu tekið sèr til keisara, en sá varð endir þeirrar þrætu, að Karl keypti að Günther fyrir ærið fè, að sleppa öllu tilkalli til keisaratignar, og litlu síðar andaðist Günther; lèt Karl keisari þá krýna sig að nýju. Meðan hann sat að ríkjum, lèt hann sèr allannt um að efla framfarir *Böhmens,* er var erfðaland hans, og setti þar háskóla í borg þeirri, er *Prag* heitir (1348); það var hinn fyrsti háskóli á Þýzkalandi. En hinsvegar lèt hann sèr liggja í lèttu rúmi, hvernig fram fór

1) Jóhann konúngur gekk í lið með Frökkum, og fèll í orustunni við *Crecy* 1346.

á Þýzkalandi, og á Ítalíu seldi hann fyrir fè þau rèttindi, sem keisarinn átti þar í landi. Á ríkisþíngi í *Nürnberg* lèt keisarinn semja nákvæma skrá um keisarakosníngu á Þýzkalandi, er sú skrá nefnd *gullskrá* (*den gyldne Bulle*), og lögleidd árið 1356. Þar er kveðið skýrt á um það, hverjir þjóðhöfðíngjar skuli kjósa keisarann, en hann sá um það, að Wittelbakksættin í Bajern og Habsborgarmenn í Austurríki fengi eigi að kjósa, en þar á móti skyldu kosníngar vera í höndum hinna 7 þjóðhöfðíngja (kjörfursta), er áður hafa verið nefndir. Kjörfurstar þessir fengu samkvæmt »gullskránni« miklu meiri völd og rèttindi, en aðrir þjóðhöfðíngjar á Þýzkalandi, og urðu þvínær einvaldir, hver í sínu ríki. En jafnvel þó Karl keisari gjörði þá fyrirskipan um ríkiskosníngar, sem nú var nefnd, gjörði hann þó sitt til að sundra hinu þýzka ríki, með því að fá höfðíngjum þessum ýms rèttindi í hendur, er áður höfðu verið eingöngu í höndum keisaranna; gjörði hann það til þess að þóknast þeim[1], og ná aptur í móti ýmsum hagsmunum fyrir sig og ættmenn sína. Tókst keisara það svo vel, að hann bæði náði undir sig Brandenborg og nokkrum parti af Slesíu, og lagði þau hèröð til erfðalanda sinna (Böhmen og Mähren), og fèkk líka *Wenceslás* eða *Wenzel* son sinn kosinn til keisara eptir sig.

Á dögum Karls keisara gekk *svarti dauði* um Þýzkaland, og gjörði þar ógurleg mannspjöll eins og annarstaðar, urðu þá ofsóknir miklar á Gyðínga þar í landi, því að þeim var um kennt að þeir hefðu eitrað vatnsbólin og þannig valdið plágunni.

*Wenceslás* rèð ríkjum frá 1378 til 1400 og sat löngum í Böhmen. Hann var latur og lítt nýtur keisari, enda leiddi stjórnleysi hans til hinnar mestu óaldar og lögleysu um alt Þýzkaland. Ef menn leituðu rèttar síns hjá keisaranum, fengu þeir litla eða enga áheyrzlu, og skömtuðu sèr svo rèttinn sjálfir. En þegar svo var komið, gengu 34 borgir í Schwaben (*hið schwabneska samband),* og stórborgirnar (ríkisstaðirnir) við Rhín í fèlag, til þess að verja líf og eignir manna. Hèlt fèlag þetta her úti og lagði í eyði ýmsar riddaraborgir, er voru bústaðir hinna verstu óeirðarmanna og spillvirkja. Þegar höfðíngjar og

---

1) Karl fjórði var sá fyrsti er veitti mönnum tignarnöfn án þess veruleg rèttindi fylgdu. Þannig fengu greifarnir af Luxemborg, Meklenborg og fl. hertoganafn.

riddarar sáu þetta og sitt óvænna, gjörðu þeir einnig fèlagsskap sín í millum; urðu þá bardagar með mönnum á sunnanverðu Þýzkalandi, einkum árið 1388; riddarar voru hinum vígkænni þegar til orustu kom, og fyrir því veitti borgamönnum einatt miður í þeim viðskiptum. Wenceslás keisari hafði hvorki vit eða dug til að taka hèr í taumana eins og þurfti og gjörði einatt vont verra, ef hann skarst í leika; en hins vegar æsti hann þegna sína í Böhmen svo mjög, með kúgun og lögleysum, að þeir tóku hann optar en einu sinni höndum og settu hann í varðhald, en hann slapp jafnan úr varðhaldi og sá aldrei að sèr að heldur. Loksins risu þegnar hans á Þýzkalandi einnig upp móti honum, og kjörfurstarnir kusu þann til keisara, er *Rúprecht* hèt og var kjörfursti af *Pfalz* (1400). Margar borgir á Þýzkalandi hèldu þó trygð við Wenceslás, enda þótt hann hefði sýnt þeim litla vernd og vináttu, og þó þær mættu búast við ofsóknum og afarkostum af hinum nýja keisara. Fyrir slíka trygð og hollustu varð *Aachens-borg* að þola 5 ára umsátur. *Nürnbergs*-menn beiddust leyfis, að mega vera lausir af hollustueiðum við keisarann og þjóna undir Rúprecht. Wenceslás gjörði sem borgarmenn beiddu og leysti þá af eiðum, en áskildi sèr fyrir þá tillátsemi nokkrar tunnur af víni. Rúprecht var ekki vaxinn því, að stýra Þýzkalandi eins og þá stóð á, og því ver fór þegar hann 1401 hèlt með her manns til Ítalíu, í þeim eríndum að sameina Mailand — sem Wenceslás keisari hafði veitt *Jóhanni Galeazzo Visconti* öll umráð yfir — við hið þýzka ríki, því að þá beið Rúprecht algjörðan ósigur, og eptir það bar hann að eins keisaranafn til dauða síns (1410).

Þegar Rúprecht var fallinn frá, var til keisara valinn *Sigismundur* bróðir Wenceslás, kjörfursti af Brandenborg og konúngur í Úngarn; en Úngarn hafði hann fengið (1383) með Maríu drotníngu sinni, dóttur Loðvíks hins mikla Úngverjakonúngs. Brandenborg, sem Sigismundur hafði erft eptir föður sinn, seldi hann vini sínum *Friðriki* af Hohenzollern; þaðan eru Prússakonúngar komnir. Ríkisstjórn Sigismundar (1411—1437) er einkum merkileg orðin fyrir sakir *kirkjumálefna* þeirra, er við báru á hans dögum.

Páfarnir höfðu, eins og fyr er ritað, setzt að í Avignon (1309) á Frakklandi og þannig orðið háðir Frakkakonúngum.

Eptir að svo hafði staðið um 70 ár (*Babylonar útlegðin*), kusu Rómverjar sèr páfa (1378), er varð að heita þeim því, að hann skyldi hafa aðsetu í Rómaborg. En hinir frakknesku kardiuálar kusu jafnharðan annan páfa til stólsins í Avignon. Þannig hófst hin *mikla sundrúng* (*Schisma*) í kirkjunni, og stóð alt fram að 1417, komst þá öll kirkjustjórn í hið mesta óefni, og páfaveldið á fallanda fót; mátti þá segja um kristna menn eins og segir um heiðíngja, »að þeir leituðu stundum til eins og stundum til annars« af páfum þessum, og vissu eigi hverjum hlýða skyldi, en páfarnir bannfærðu hvor annan á víxl. Til þess að ráða bót á slíkum ófögnuði var stefnt til almenns *kirkjuþíngs í Písa* (1409), en þá tók eigi betra við: þíngið kaus nýjan páfa; hinir tveir páfarnir vildi hvorigur leggja niður völdin, og þannig voru nú *þrír páfar* uppi í einu (Benedikt 13., Gregorius 12. og Alexander 5.). Að þessu varð almennt hneyksli í kirkjunni, eins og við var að búast, og menn æsktu almennt breytingar og endurbótar á kirkjustjórn og kirkjulegum málefnum.

Sigismundur keisari var maður lèttúðigur í skapi, en þó gekst hann fyrir því með talsverðum dugnaði, að *Jóhann* páfi 23. er kom eptir Alexander 5. kvaddi til *kirkjufundar* í borg þeirri er *Kostniz* heitir, eða *Konstanz*, við Bodensjó í Sweiz (1414). Þessi fjölmenni og nafnkendi mannfundur stóð um 4 ár[1], og sóktu þángað menn þvínær af öllum kristnum löndum. Klerkarnir af hinum 5 höfuðþjóðum (Englendingum, Frökkum, Ítölum, Spánverjum og Þjóðverjum) á fundi þessum komust að þeirri niðurstöðu, að páfarnir væru undirgefnir slíku alsherjar kirkjuþíngi, og settu alla þrjá páfa frá völdum. En fyr en aðalmálin væri leidd til lykta kusu fundarmenn (1417) nýjan páfa *Martein* 5. og urðu þannig nokkuð fljótir á sèr, því að Marteinn, sem óttaðist að þíngið mundi setja veldi páfanna einhver takmörk, ef það stæði lengi, sagði því slitið ári síðar (1418). Hið mikla þíng kom þannig mjög litlu til leiðar.

Þó var það einn merkilegur viðburður sem gjörðist á Kostnizar-fundinum. Maður er nefndur *Jóhann Húss*. Hann var háskólakennari í Prag í Böhmen; hann hafði kynnt sèr rit Jóhanns Wycliffs hins enska, sem fyr er nefndur, og hneigzt

1) Svo er sagt, að jafnan væru 80,000 manna á þíngi þessu, en 150,000 þegar fjölmennast var.

mjög að kenníngum hans, og bæði talað og ritað af mikilli djörfung og málsnild á móti ágirnd klerkanna, ósiðum múnkanna, og hverskonar páfavillu. Í Böhmen var tvennskonar þjóðerni, og engin vinátta á milli: *Czechar* og *Þjóðverjar*. *Wenceslás* keisari var fylgjandi hinum fyrra þjóðflokki, eptir að Þjóðverjar höfðu hrundið honum úr völdum, og Jóhann Húss, sem heita mátti oddviti Czechanna, hafði því hið bezta tækifæri til að breiða kenníngu sína út um landið. Fundurinn í Kostniz stefndi Jóhanni Húss þángað, til þess hann verði þar kenníngu sína; fèkk Húss verndarbrèf hjá Sigismundi keisara að fara til þíngs og standa þar fyrir málum sínum. En þrátt fyrir það rufu þíngmenn grið á Jóhanni Húss, settu hann í fjötra, dæmdu til dauða og brendu hann á báli (1415). Ári síðar var einnig á sama stað og fyrir sömu sakir vinur hans *Hierony̌mus* frá Prag brendur.

Þegar þessi grimdarverk spurðust í Böhmen fyltust vinir og áhángendur Jóhanns Húss bæði heipt og harmi. Þeir eru kallaðir *Hússitar* og voru margir að tölu. Þeir kröfðust að leyft væri að úthluta leikmönnum víni af kaleiknum í kvöldmáltíðarsakramentinu, en í katólsku kirkjunni drekkur presturinn einn vínið. Marteinn páfi hinn 5. bannfærði Hússíta, en þeir gáfu því engan gaum og grípu til vopna. Þannig byrjaði hið grimma Hússíta-stríð (1419) er stóð um mörg ár. Sama árið sem stríð þetta hófst dó Wenceslás keisari, er um mörg ár hafði haft aðsetu í Böhmen. En sem hann var dauður vildu Hússítar ekki taka Sigismund til konúngs yfir sig, því að þeim þókti hann hafa svikið Jóhann Húss, og vera lángt um of þýzkur í skapi; varð nú af þessu fullur fjandskapur með þeim. Sigismundur sendi her manns á hendur þeim og vildi brjóta þá til hlýðni við sig, en Hússítar tóku sèr þann foríngja, er *Jóhann Ziska* hèt, hinn mesta kappa og grimmasta mann, og unnu hvern sigurinn eptir annan á keisarans mönnum. Svo sem eitt dæmi um þá miklu grimd, sem átti sèr stað í þessum Hússíta-ófriði, skal þess getið, að einhverju sinni náðu þeir Ziska borg þeirri, er Prachatiz hèt, tóku þar alla þá menn, er eigi voru fallnir, byrgðu þá inni í kirkju einni, báru síðan eld að og brendu alt til kola; í öðrum stað voru karlmenn allir fallnir, þá tóku konur Hússítanna kveunfólkið í bænum sem eptir lifði, settu það í hús og

brendu alt til ösku. Jóhann Ziska var eineygður, en misti hitt angað sem eptir var í bardaga einum, þó var hann í orustum eptir það, lèt teyma undir sèr hestinn og vann sígur jafnt sem áður þótt blindur væri. Hann hafði verið með Hinriki 5. Englakonúngi í orustunni við Azíncourt (1415) og fengið ágætan orðstír. Hann varð sóttdauður 1424. Eptir fráfall hans urðu Hússítar sundirþykkir sín í millum, og Sigismundur keisari reyndi að færa sèr það í nyt; hann fèkk því til leiðar komið, að kirkjufundurinn í *Basel*[1] leyfði þeim flokknum meðal Hússíta, sem vægari var, að hafa kirkjusiðu sína sem þeir vildu, og þar á meðal var það, að leikmönnum mætti úthluta vín af kaleiknum. En hinir af Hússítum, sem frekari voru og vildu umsteypa öllu, urðu ofurliða bornir og kúgaðir til hlýðni. Komst nú sætt á milli Hússíta og Sigismundar litlu áður en hann dó 1437. En eptir dauða hans komu aptur upp óeirðir í Böhmen og hèldust að mestu fram undir lok 15. aldar. Hinir *mährisku bræður, er* svo heita, eru leifar af Hússítum.

Sigismundur keisari átti ekki sonu á lífi þá er hann andaðist, og var hann síðastur keisari af Lúxemborgarættinni; en að honum látnum varð keisari eptir hann, tengdasonur hans *Albrekt annar* af Austurríki (1437—1439). Hann var af Habsborgarætt, og þannig komst keisaratignin eptir 100 ár aptur til þeirrar ættar, og hèlzt þar síðan. Hann var einnig konúngur í Böhmen og Úngarn. Hann þókti gott höfðíngjaefni, en andaðist að tveim árum liðnum, og er því lítil saga af honum. Var þá til keisara tekinn *Friðrik* 3. af Steiermörk frændi hans. Hann sat lengi að ríkjum (1439—1493), en lítið þókti kveða að dugnaði hans og ríkisstjórn. Á hans ríkisstjórnarárum var slitið kirkjuþínginu í Basel (1449), án þess að það hefði meiru til leiðar komið en Kostnizarfundurinn, því að erindisreki páfans, *Æneas Sylvius Piccolomini* (er seinna varð páfi og nefndist þá *Píus annar*), hinn vitrasti maður, tók einn og einn af þjóðhöfðíngjum þeim, er á fundinum sátu, og gjörði samnínga við þá fyrir páfans hönd, og ónýtti þannig fyrirætlun fundarins, sem var að setja páfaveldinu einhverjar skorður með atkvæðum sínum og úrskurðum. Páfarnir fóru því öllu hinu sama fram eptir sem áður, en menn þoldu því ver ráðríki þeirra og rángindi sem tímar

1) Sá fundur stóð frá 1431 til 1449.

liðu lengra fram, og fáum mannsöldrum síðar en hèr var komið laust ofviðrinu á, og siðabótin mikla hófst á Þýzkalandi.

Litlu síðar en Albrekt keisari annar deyði, fæddist sonur hans *Ladislás (posthumus)*; hann erfði föðurleifð sína í Austurríki, varð konúngur í Böhmen og (síðan 1444) einnig í Úngarn, en hann dó barnlaus 1456, og þá eignaðist Friðrik keisari þriðji öll hin austurriksku lönd Habsborgarættarinnar, en í Böhmen og Úngarn gat hann eigi náð yfirráðum. Þeir í Böhmen tóku Hussítaforíngjann *Georg Podiebrað* til konúngs yfir sig, en hetjan *Mathias Corvinus* varð konúngur Úngverja.

Eignir og óðöl Habsborgarkeisara jukust þar á móti stórum í annari átt, því að einkennilegt er það við marga af þeirri ætt, að þó að þeir hafi í öðrum greinum engir afbragðsmenn verið, þá hafa þeir haft gott lag á því, að hljóta ríkar giptíngar og komast þannig yfir lönd og þegna. *Maximilian hinn fyrsti* (1493—1519), er til ríkis kom eptir föður sinn, Friðrik keisara hinn þriðja, var kvæntur, löngu áður en faðir hans dó, og átti *Maríu*, dóttur *Karls hertoga* hins *djarfa* af Búrgund, og fèkk með henni hin stórauðugu og fögru *Niðurlönd*. Þegar María var dáin, kom Maximilian til hugar að kvongast Önnu, einkadóttur Franz hertoga í Bretagne (vestur á Frakklandi), og ná því fylki þannig undir sig, en sá ráðahagur fórst fyrir, eins og síðar mun sagt verða. Keisarinn lèt þó eigi þar við sitja, en kvæntist hertogadóttur einni af Ítalíu, er Bianca María hèt, og hugðist með því móti að ná þar nokkrum yfirráðum, en það vildi þó eigi heppnast. Með Maríu af Búrgund, fyrri konu sinni, átti keisarinn son þann er *Filippus* hèt; hann dó (1506) á undan föður sínum en hafði þó kvongast og fengið *Jóhönnu* dóttur Ferdínands katólska og Ísabellu á Spáni; en Jóhanna var borin til arfs eptir foreldra sína, að Spáni, Neapel, Sikiley og Sardiníu o. s. frv. Þannig voru úr ýmsum áttum samankomin öll hin miklu og mörgu þjóðlönd, sem *Karl keisari hinn fimti* (sonur Filippusar og Jóhönnu) rèð fyrir litlu síðar, en hér var komið sögunni. En það var og hefir jafnan síðan verið hinn mesti ókostur á ríki þeirra Habsborgarmanna, að svo margar og ólíkar þjóðir hafa lotið veldi þeirra.

Keisarinn hafði þannig eignast mörg lönd að erfðum, en því víðlendari sem hann varð því fremur mínkuðu hin æztu

yfirráð hans á Þýzkalandi. Innanlands friði var einatt raskað, og rèttarbótum þjóðþínganna (ríkisdaganna) var lítill gaumur gefinn. Á öndverðum ríkisstjórnarárum Mazimilians keisara var með lögum settur á ríkisþíngi í *Worms* (1495) *landsfriður fyrir alda* og *óborna* (evig Landefreð); og til þess að skera úr málum milli *ríkisstèttanna*, er svo voru nefndar, (en það voru hinir ýmsu þjóðhöfðíngjar og hinar frjálsu borgir á Þýzkalandi), var um sama leiti settur *ríkisdómur* (Rigskammerret), er óháður skyldi vera keisaranum. En með því móti hvarf að kalla hin æzta yfirstjórn keisarans. Þegar Maximilian keisari krafðist af Sveizlendíngum að þeir skyldi einnig leggja mál sín til hins nýja ríkisdóms, settu þeir þar þvert nei fyrir og gripu til vopna (1499); varð keisarinn þá undan að láta, og frá þeim tíma voru Sveizlendíngar lausir allra mála við Þýzkaland.

Um þessar mundir var öllu Þýzkalandi skipt í *tíu fylki* (*Kredse*), og skyldu 2 þjóðhöfðíngjar (Kredsoberster) stýra hverju þeirra og hafa herlið til taks þegar á þyrfti að halda. Þessi tíu fylki náðu út yfir mörg smáríki, stærri og smærri höfðíngjadæmi og frjálsar borgir. Hvert af þessum smáríkjum sendi fulltrúa sína á alsherjarþíng, en það var sjaldnast að menn yrði þar sáttir og sammála. Þó tók yfir þegar *trúarbragðadeilurnar* hófust frá byrjun 16. aldar, og skiptu Þýzkalandi í tvo flokka, katólska og prótestanta.

Þegar menn nema staðar við endalok miðaldanna og virða fyrir sèr tvö hin miklu þjóðríki, er eptir sáttafundinn í Verdun (bls. 24) runnu upp af einvaldsdæmi Karls mikla, eins og tvær greinar af einum stofni, þá eru þau orðin næsta ólík hvort öðru. Á *Frakklandi* hafði konúngsvaldið rutt sèr til rúms, kúgað alla lènsdrotna, og sameinað öll hin smáu fylki í eina heild, eitt samgróið ríki. Á *Þýzkalandi* höfðu lènsdrotnar þar á móti borið konúngsveldið ofurliða, svo að það var naumast annað en nafnið tómt, lènsdrotnar voru hartnær orðnir einráðir þjóðhöfðíngjar, hver í sínu ríki, og Þýzkaland alt var í ótal molum.

## Frakkland frá 1453—1515.

Þess hefir verið getið hèr að framan, að Karl 7. Frakka konúngur átti erfitt uppdráttar á hinum fyrstu ríkisstjórnarárum sínum og komst í svo miklar herkjur, að nálega mátti kalla, að

hann misti ríkið úr höndum sèr. En þar kom þó, að alt breyttist til batnaðar, miklu fremur fyrir ýms atvik og annara manna tilstuðlan, en fyrir dugnað og viturleik Karls konúngs sjálfs. Þegar ófriðnum var lokið við England, gaf konúngur eigi heimfararleyfi herliði því, er hjá honum hafði gengið á mála meðan ófriðurinn stóð, heldur tók hann það í fasta þjónustu; það varð setulið konúngs. Og þó lið þetta væri með fyrsta eigi mjög mikið, þá nægði það til þess, að konúngur gat haldið lènsdrotnum og öðru stórmenni í ríki sínu í skefjum, og bælt þá niður ef þeir bryddu á óeirðum. Við það hnignaði lènsdrotnum en konúngdómurinn magnaðist. Hin frakkneska kirkja leystist og að nokkru leiti undan yfirráðum páfans á dögum Karls konúngs, því að á kirkjuþíngiuu i Basel, sem áður er nefnt, var það tekið í lög, að minna fè skyldi eptirleiðis goldið af Frakklandi í páfagarð, en áður hafði verið, og að fyrirskipanir páfa þar í landi skyldu háðar vera yfirsýn og úrskurði almenns kirkjufundar. Karl sjöundi dó 1461, og kom þá til ríkis sonur hans *Loðvík hinn ellefti* (1461—1483), allra konúnga slægvitrastur og fláráðastur um sína daga. Hin síðustu ár, sem Karl konúngur faðir hans sat að ríkjum, óvingaðist mjög með þeim feðgum, og lá við sjálft að Loðvík steypti föður sínum frá völdum, og sumir segja, að hann hafi viljað ráða hann af dögum, en það varð þó ekki framgengt, og Loðvík varð að flýja landið og lèt um hríð fyrirberast hjá Filippusi góða, hertoga af Búrgund. En sem Karl var dáinn og Loðvík kominn til ríkis, þá setti hann sèr það mark og mið, að auka konúngsveldið sem mest og gjöra stjórn sína sem styrkasta og einráðasta í öllum greinum, og til þessa marks keppti Loðvík með miklum dugnaði en þó öllu heldur með undirferli og svikum, fèmútum og morðvígum, og þessu hèlt hann staðfastlega fram meðan honum vanst aldur til; hann var manna skarpvitrastur og má því nærri geta hverju hann fekk áorkað.

Það ræður nú að líkindum, að lènsdrotnar og annað stórmenni á Frakklandi hafi fljótt sèð, hvers þeir máttu vænta sèr af slíkum konúngi. Fyrir því bundust þeir í fèlag móti honum, þegar á hans fyrstu ríkisstjórnarárum, og kölluðu það: *fèlagið til almennra heilla* (*la ligue du bien public*). Helztu oddvitar fèlagsins voru þeir, *Karl* af Berry, bróðir Loðvíks ellefta, *Franz* hertogi af Bretagne, og *Karl hinn djarfi*, sonur Filippusar góða

Búrgundar hertoga, er litlu síðar erfði þar hertoga völdin eptir föður sinn.

Árið 1465 kom til vopnaviðskipta með þeim Loðvíki konúngi og bandamönnum, og báru þeir hærra hlut, en konúngur varð að gángast undir ýmsa skilmála við þá; en Loðvík konúngur efndi ekkert af loforðum sínum heldur en hann var vanur, en sveik þá í trygðum einn og einn, og meðan hann þannig eyddi og útrýmdi höfðíngjum landsins, þá kom hann sèr í mikla kærleika við borgaralýðinn, og hafði hann eins og verkfæri í hendi sèr gegn þeim; en þegar hann hafði fækkað lènsdrotnum og öðrum aðalsmönnum eins og honum bjó í skapi, og hann þóktist eigi lengur viðþurfa lýðsins, þá kulnaði sá kærleikur, eins og við mátti búast; ríkisstjórn Loðvíks varð hartnær ótakmörkuð einveldisstjórn; þjóðþíngin urðu alveg þýðíngarlaus, og í stað þeirra kvaddi konúngur einstöku sinnum á fund nokkra höfðíngja (Notabler) og ríkismenn, en lagði sjálfur skatta og allar álögur á þjóðina, eptir því sem honum þókti við þurfa; alt hið sama átti sèr stað um hina æztu dóma ríkisins (Parlamentin), að konúngur einn rèð mestu um úrslit þeirra mála, er fyrir þá voru lögð.

Frá 1467 hafði *Karl hertogi hinn djarfi* ráðið fyrir *Búrgund* og öllum þeim löndum sem undir það hertogadæmi lutu. Var ríki hans svo mikið og auðugt, að það jafngilti ríflegu konúngsríki; Loðvíki ellefta þókti það voldugur nágranni, og lagði því allan hug á að rýra það, enda höfðu þeir Karl hertogi og Loðvík verið litlir vinir alt í frá æskuárum. Þau 10 ár, sem Karl djarfi sat að völdum (1467—1477), reyndu þeir Loðvík konúngur og hann að vinna hvor öðrum alt það ógagn, er þeir framast gátu.

Hertogarnir af Búrgund höfðu, eins og fyr er ritað (bls. 162), auk landa þeirra sem þeir höfðu að lèni af Frakkakonúngi, náð yfirráðum yfir hinum frjófsömu og auðugu löndum, sem nú heita Niðurlönd og Belgia. Lönd þessi voru partur eða leifar af hinu forna þýzka hertogadæmi Neðra Lothringen, höfðu þjóðarþíng hvort fyrir sig með talsverðum rèttindum, þar á meðal þeim að ákveða skatta og skyldur í landinu, en hinir stærstu og ríkustu kaupstaðir voru einskonar lýðstjórnarborgir, frjálsar og sjálfráðar um flesta hluti, en játuðu að eins yfirráðum Búr-

gundar hertoga. Karl djarfi var ofstopamaður hinn mesti, ráðríkur og ágjarn og hugði mest á orustur og líkamlega hreysti. Þegar honum svo leizt lagði hann skatta á lönd sín að öllum fornspurðum, en borgirnar þoldu eigi þann ójöfnuð og risu öndverðar móti honum, einkum hin stórauðuga verzlunarborg Lüttich. Þetta frètti Loðvík ellefti, gjörði þegar menn út þángað og æsti borgarmenn sem mest til ófriðar gegn Karli hertoga, en alt fór það með leynd. En þá vildi svo til, að Loðvík hafði farið til fundar við hertogann og hitt hann í borg þeirri í Búrgund, sem Peronne hèt (1468). Þar komu Karli hertoga þau tíðindi, að Lüttichu-menn hefðu gjört uppreist gegn honum, og að Loðvík konúngur hefði kveikt hana; varð hertoginn þá óður og ær, svo að lítið vantaði á að hann dræpi konúng þegar í stað; en er af honum rann reiðin, lèt hann konúng fara með sèr til Lüttich, hvort honum var það ljúft eða leitt, og vera sjónarvott að því, hversu grimmlega hann hefndi sín á borgarmönnum og lagði Lüttich í eyði.

Karl djarfi hafði ríki sitt að lèni af tveimur þjóðkonúngum, Frakkakonúngi og þýzkalandskeisara, og þegnar hans greindust einnig í tvennt eður tvö þjóðerni, Frakka og þjóðverja. En á þeim tímum var minni gaumur gefinn að þjóðerni manna, en nú er tíðska. Karl hertogi vildi því sameina alt sem undir hann lá í eitt ríki, og gjörast einvaldur yfir. Hin syðstu lönd sem hann rèð fyrir (hertogadæmið Búrgund og greifadæmi samnefnt eður Franche Comté) voru eigi samföst við Niðurlöndin, og fyrir því vildi hann vinna undir sig hertogadæmið *Efra-Lothríngen*, ná yfirráðum yfir Elsas og hinum þýzku borgum á vestur bakka Rhín-fljótsins.

Konúngstignina hugðist Karl hertogi að geta fengið hjá hinum þýzka keisara (en þá sat Friðrik keisari hinn þriðji að ríkjum, 1439—1493), því að keisarinn þókti þá enn vera sem höfuð alls konúngdóms og allrar ríkisstjórnar meðal kristinna manna í Norðurálfunni, og þar að auki var hèr máli að skipta um hin fornu konúngsríki Búrgund og Arelat, er fyrrum höfðu verið lögð undir hið þýzka ríki og að nafninu til voru því áhángandi. Friðrik keisari var einnig tilleiðanlegur að verða við óskum hertogans og það því fremur sem keisara kom til hugar, að auðga ætt sína með því móti og fá *Maríu* einkadóttur Karls hertoga

til handa *Maximilian* syni sínum. Þeir keisari og hertogi áttu því fund með sèr í *Trier* (1474) og ræddu málin, en ekki varð af konúngsnafni eða krýníngu Karls hertoga, og skildu þeir keisari og hann í styttíngi.

Hið sama ár lagði Karl undir sig *Lothríngen*, og rak úr völdum hertoga þann er þar rèð fyrir landi og *René* hèt, hinn annar með því nafni. Loðvík konúngur ellefti, sem jafnan var vakandi ef Karl hreifði sig, gat þá eigi viðsnúizt, því að *Játvarður* 4. Englakonúngur (1461—1483) mágur Karls hertoga (Karl átti systur hans), var kominn með her manns yfrá Frakkland, og bjóst að endurnýja fornan fjandskap; sá Loðvík konúngur þá eigi annað vænna, en að kaupa þá báða af höndum sèr, Játvarð konúng og Karl hertoga, en hann vissi sem var, að það fè myndi hann bráðum fá aptur og á annan hátt með ríflegri leigu. Það var nú þessu næst að ófriður hófst með Karli hertoga og *Sveizlendíngum*. Hann kunni illa frelsi og sjálfræði þeirra, og honum lèk allmjög hugur á, að reyna sig og kappa sína við þenna hinn hrausta en ómenntaða bændalýð þar suður í fjöllunum. Hann hugfesti því, að leggja Sveiz undir sig. Hins vegar gjörði Loðvík ellefti alt hvað hann gat til þess að æsa Sveizlendínga gegn Karli, og fèkk þá til að gjöra samtök og samblástur og segja Karli stríð á hendur. Karl hèlt því næst liði sínu, 40000 manna, og ákaflega ríkmannlega búnu að vopnum og klæðum, inn í Sweizalönd (1476). Landsmenn höfðu lið miklu minna. Fundum þeirra bar saman skamt frá bæ þeim, er *Granson* heitir. Þar varð hörð orusta; bændur reyndust hraustari en leigulið Karls, og fengu sigur og mikið herfáng. Karl hertogi flýði, en safnaði þegar liði og kom sem skjótast aptur og vildi hefna skaða síns og vanvirðu. Karl hèlt liði sínu til *Murten*, það er lítill bær skamt frá Bern. Í Murten var setulið og hèt foríngi þess *Adrian af Búbenberg*. Hann ritaði þeim í Bern og sagði svo: »hertoginn af Búrgund er hèr kominn með allan sinn liðsafla, ítalska leigulíða og þjóðverska svikara. Takið ekkert það til bragðs, sem gjört getur yður eða bandamönnum vorum ógagn. Eg skal verja Murten«. Hann efndi orð sín og varðist Karli svo vel, að bandamenn höfðu tíma til liðsafnaðar og urðu rúmar 30000 manna. Karl var nokkuð liðfleiri. Þó rèðust þeir á hann, og svo illa för sem hann hafði

áður farið fyrir þeim við Granson, þá beið hann nú hálfu verri ósigur og misti yfir 15000 manna. og komst sjálfur nauðulega undan. Eptir þenna ósigur var Karl hertogi eigi með sjálfum sèr; alt um það hugði hann eigi á annað en ófrið og hefndir, en honum varð ekki gott til liðs. Páfinn og keisarinn vildu koma sættum á og friði, en er Sveizlendíngar settu þann friðarkost, að hertoginn af Lothríngen yrði settur aptur í öll sín fyrri völd, þá var úti um alla friðarvon. Loðvík ellefti hafði, meðan á þessu stóð, styrkt hertoga þenna svo, að hann var búinn að ná undir sig aptur mestöllu ríki sínu í Lothríngen; höfuðborgin *Nancy* var því nær ein eptir óunnin, en einn ítalskur greifi, er *Campóbassó* hèt, og var vinur Karls hertoga og trúnaðarmaður, kom borginni með svikum í hendur óvina hans. Karl kom þángað litlu síðar og settist um borgina, það var seint í Októher 1476. En að liðnum jólum komu Sveizlendíngar og bandamenn þeirra borgarmönnum til liðs. Það er sagt, að greifi sá, er áður var nefndur, hafi gengið í lið með hertoganum af Lothríngen með sína sveit, 200 manna; en sem Sveizlendíngar heyrðu það, mæltu þeir allir einum munni: »það er fráhverft siðum feðra vorra og oss sjálfum til mínkunar, að ítalskir drottins svikarar berjist undir vorum merkjum«. Varð greifinn þá liðrækur og allir hans sveitúngar. Vetur var harður og jörð víða frosin. Litlu síðar varð orusta; liðsmenn Karls voru þjakaðir mjög af þreytu og vosbúð, mannfall varð mikið í liði hans, en sumir snerust á flótta. Karl hertogi sat á hesti og reið undan sem mest mátti; þar var yfir mýrlendi að fara, en ísar ótraustir; fèll hann þar ofan í á einhverjum stað, og mátti þaðan hvergi hrærast. Þar fanst hann veginn litlu síðar, og veit enginn hver á honum vann. Þannig lèt Karl djarfi líf sitt (1477), hinn hugprúðasti maður og hraustasti, en ofsi hans sjálfs og tálgrafir Loðvíks ellefta komu honum á kaldan klaka.

Þess er áður getið að Karl átti eina dóttur barna, er María hèt, og Loðvík ellefti var því skjótur til bragðs og kastaði eigu sinni á hertogadæmið Búrgund, enda var þá sagt að það gæti eigi að erfðum gengið nema í karllegg. Þannig komst land þetta undir krúnuna. Loðvík gjörði alt hvað hann kunni til þess að ná öllum þeim löndum undir sig, sem Búrgunds hertogar höfðu yfir ráðið og loksins reyndi hann það á þann hátt,

að biðja Maríu dóttur Karls hertoga til handa syni sínum *Karli*, konúngsefni á Frakklandi, en það tókst heldur eigi, því að *Maximilian* af Austurríki varð þar hlutskarpari, og honum giptist María (1478). Samfarir þeirra voru hinar beztu en urðu mjög skammvinnar, því að María dó af slysum 1482. Þau Maximilian áttu son þann er Filippus hèt, og stýrði faðir hans ríkinu (Niðurlöndum) fyrir hans hönd meðan Filippus var í bernsku.

Annarstaðar gekk Loðvíki konúngi betur. Eptir lát *Karls* bróður síns eignaðist hann *Guienne*, mikið land og gott; sögðu sumir, að Karl hefði dáið af hans völdum; hertogann af Nemours, er honum þókti vera sèr mótsnúinn, lèt hann taka höndum, setja í dyflissu og síðan taka af lífi, og er það eitt til merkis um grimd Loðvíks ellefta, að þegar hertoginn var högginn, þá lèt Loðvík smá börn hans 6 að tölu standa undir höggpallinum, til þess að blóð föðurs þeirra gæti dropið þeim í höfuð. Síðan tók hann allar þeirra eignir undir sig. Árið 1481 eignaðist Loðvík greifadæmið *Provence* að erfðum, þegar sú ætt (greifarnir af Anjou) er það hafði átt, var undir lok liðin. Þannig hafði Loðvík ellefti aukið ríki sitt á marga vegu, og þegar hann dó 1483, var hið frakkneska ríki stærra og konúngsveldið miklu sterkara en þegar hann kom til ríkis. En það ræður að líkindum, að vèlræði Loðvíks og grimd hafi gjört flesta menn honum fráhverfa og hrædda við hann; á hinum síðustu árum hans fór samvizkan að vakna, svo að hann þjáðist stórum bæði af henui og af ákaflegri tortrygni. Var hann þá optast einn og hafði um sig sterkan vörð bæði nótt og dag.

Eptir Loðvík ellefta kom til ríkis á Frakklandi sonur hans, *Karl áttundi* (1483—1498) og þá að eins 13 vetra gamall; þó var þá þegar búið að ákveða, að hann skyldi eiga *Margrètu* dóttur Maximilians af Austurríki og Maríu af Búrgund, og með henni átti Karl að fá Artois og Franche Comté. Það var nú að vísu allaðgengilegt, en þó lèt Karl konúngur dragast að gánga að þessum ráðahag, og hafnaði honum alveg að síðustu. En það bar til þess, að þegar hinn síðasti hertogi yfir *Bretagne*, Franz annar, dó (1488), beiddi Maximilian af Austurríki, sem var ekkjumaður, Önnu af Bretagne einkadóttur hertogans, og Anna lofaðist honum; fengi Maximilian hennar, þá var Bretagne komið undir Austurríki, en það var hið sama sem Frakkland misti lim

af sínum líkama, því að Bretagne er vestan á Frakklandi. Þess vegna flýtti Karl 8. sèr að slíta öll bönd við Margrètu af Austurríki, sendi her manns til Bretagne og þröngvaði Önnu til að giptast sèr (1491). Nú varð sem vonlegt var ófriður út af þessu milli Maximilians og Karls; en sá ófriður varð hvorki lángur nè strángur og endaði með sáttagjörð í *Senlis* (1493); Karl skilaði aptur Artois og Franche Comté, en Bretagne sameinaðist algjörlega Frakklandi.

Greifarnir af *Anjou*, sem rèðu fyrir Provence, höfðu gjört tilkall til ríkis í Neapel. Þegar nú Provence var að erfðum gengið undir Frakkakonúng, þóktist hann hafa erft tilkallið ásamt með landinu, og þess vegna hèlt Karl 8. kröfunum fram, og fór með her manns suður á Ítalíu. Hann lagði að vísu Neapel undir sig, en náði þar engri fótfestu; Frakkar urðu þar brátt mjög óvinsælir sökum grimdar og ósiðsemi, nokkrir aðrir þjóðhöfðíngjar gjörðu þá einnig samtök sín í millum, til þess að stöðva yfirgáng Frakkakonúngs, svo Karl varð að snúa aptur heim í ríki sitt, og hafði litla frægð af förinni.

Eptir Karl konúng kom Loðvík hertogi af Orleans til ríkis á Frakklandi, og er nefndur *Loðvík hinn tólfti* (1498—1515). Hann var kvongaður og átti Jóhönnu dóttur Loðvíks ellefta, en skildist við hana og átti *Önnu* drotníngu, ekkju Karls áttunda. Loðvíki konúngi fór sem forverja hans, að hann hafði allan hug á því, að ná löndum undir sig á Ítalíu, bæði Neapelsríki og þar að auki hertogadæminu *Milanó* (Mailand), því að forfeður hans (Viscontarnir) höfðu ráðið þar fyrir landi. Herferða Loðvíks 12. til Ítalíu mun síðar verða getið.

Hvorigur þeirra Karls 8. eða Loðvíks 12. áttu sonu eptir sig; þegar því hinn síðarnefndi dó kom frændi hans, *Franz* af Angouleme, til ríkis, hann er nefndur *Franz hinn fyrsti* (1515 —1547).

Þegar miðöldum lýkur, voru öll hin stærstu lènsherradæmi á Frakklandi komin undir krúnuna og konúngur orðinn þar hartnær einvaldur; hann hafði setuliðið til taks hvenær sem þess þókti við þurfa; lendir menn (aðallinn) voru orðnir yfirbugaðir, og ríkisstèttirnar, eða ríkisþíngið, þýðíngarlítið. Frakkland, sem áður var stykkjað sundur í *lènsríki*, var nú orðið öflugt og samvaxið *einveldi*, þar voru embættismenn, skattar, og öll innan-

landsstjórn komin á fastara fót en í nokkru öðru landi í Norðurálfunni á þeim tímum. En þó lendir menn væri orðnir lágsigldir í samanburði við koaúnginn og það sem áður var, þá voru þeir þó nógu ríkir til þess, að halda hinum þjáða *bændalýð* í sömu ánauð sem fyrrum.

Hin *frakkneska túnga* var einkum runnin upp af latínskri rót, en þó voru mörg orð komin saman við hana frá Keltum og Germönum. Á miðöldunum greindist túnga þessi í tvent, suður-frakknesku (sem einnig var kend við Provence), og norðurfrakknesku. Á Suður-Frakklandi tíðkaðist það einkum á 12. og 13. öld, að riddarar ortu lofkvæði (mansönga) um konur og meyjar og fluttu þau í höllum lendra manna og annara stórhöfðíngja, og gengu þannig milli góðbúanna. Voru skáld þessi kallaðir *troubadourar.* Og á þeirri riddaraöld voru konur hafðar í svo miklum hávegum, að jafnvel konúngar urðu stundum til að yrkja lof um þær og flytja þeim drápur sínar og mansönga. Á Norður-Frakklandi rituðu menn einnig í óbundinni ræðu, og frá 13. öld tóku menn að rita sögubækur á frakkneska túngu, en hin latínska túnga tók þá að þverra: þannig ritaði riddari sá, er *Villehardouin* hèt, (hann hafði verið í hinni 4. krossferð) frásögu um inntöku Konstantinópels af krossfarendum. En hinn helzti frakkneski sagnaritari á miðöldunum er *Filippus Comines* († 1509); eptir hann er til fróðlegt rit um Loðvík ellefta og Karl djarfa, enda hafði hann báðum þjónað. Mentun á Frakklandi var þá sem annarstaðar mestöll einskorðuð við guðfræði; einkum var guðfræðin stunduð í háskólanum í *Paris;* var sá skóli þegar orðinn svo frægur á dögum Filippusar Ágústusar, að þángað streymdu ýmsir námsmenn af öðrum löndum.

## Spánn og Portúgal (Pýrenea-skagi) til 1495.

Ríki og yfirráðum *Mára* (Araba eða Serkja öðru nafni) á Spáni hafði smásaman hnignað eptir því sem kristnir menn þar í landi uxu þeim yfir höfuð. Þegar komið var fram á 13. öld mátti kalla að Márar ættu þar lítið annað eptir en *Granadaborg* og sveitirnar þar umhverfis, og voru það smáar leifar af fornri frægð.

Meðal hinna kristnu ríkja á Spáni gat *Navarra* ekki náð miklum þrifum, því að norðan kreptu að Frakkar, en að sunnan

Aragónsmenn; hið litla ríki var því eins og á milli steins og sleggju. En hins vegar voru 3 ríki sjálfum sèr alveg ráðandi, og tóku miklum framförum. Þessi voru: *Portúgal, Aragónía* og *Kastilía*.

Í Portúgal var konúngaætt sú aldauða 1383, er komin var í skilgetna liðu frá Hinriki af Búrgund (bls. 91), og þá komu þar til ríkis hinir *óskilgetnu ættmenn af Búrgund,* með *Jóhanni hinum fyrsta,* (1385—1433); hèlt Portúgal sjálfsforræði sínu jafnvel þó Kastilíu konúngar vildu ná því undir sig. Á dögum Jóhanns konúngs fóru Portúgalsmenn yfir á Afríku, börðust þar við Mára og tóku frá þeim borg þá, er *Ceuta* heitir; sú borg er við Gibraltarsund, er skilur heimsálfurnar, og eiga Spánverjar hana nú á tímum. En atburður sá, að Portúgalsmenn náðu föstum fæti á Afríku, leiddi til þess, að þeir fýstust að kynna sèr Afríku strendur að vestanverðu, sem voru með öllu óþektar alt til þeirra tíma; en þegar sá rekspölur var kominn á, þá fylgdi hver uppgötvanin á fætur annari, bæði á Afríku ströndum og vestur í Atlantshafi, eins og síðar mun sagt verða. Jóhann konúngur átti 3 sonu, *Játvarð, Ferdinand* og *Hinrik.* Ferdínand kvöldu Márar til dauða yfrá Afríku; Hinrik, er nefndur er *navigator* (sæfari), kom fótum undir siglíngar, landaleit og landnám Portúgalsmanna, og var lærður maður og ágætur í mörgu († 1460); Játvarður var konúngur í Portúgal eptir Jóhann konúng föður sinn (1433—1438). Eptir Játvarð tók sonur hans *Alfons* 5. konúngdóm í Portúgal (1438—1481). Á dögum konúnga þeirra, er nú voru nefndir, voru Portúgalsmenn mjög í siglíngum og hinir mestu aðfaramenn á sjó, auðguðust þá borgir stórum þar í landi, og þvi var það, að *Jóhann* konúngur 2., sem kallaður var hinn *fullkomni* (1481—1495), gat með tilstyrk borganna kúgað aðalinn, að dæmi samtímismanna sinna, Loðvíks 11. á Frakklandi, og Hinriks 7. á Englandi og Ferdinands á Spáni. Eptirmaður Jóhanns annars var *Emanúel hinn mikli* (1495—1521); ríkisár hans hafa menn kallað gullöld Portúgals.

*Aragonía*-ríki náði yfir eystri hluta Spáns og breiddi veldi sitt yfir eyjar í Miðjarðarhafi og alt austur á Ítalíu. Á dögum *Pèturs þriðja* († 1285) komst *Sikiley* í samband við Aragoníu

(eptir Sikileyjar kvöldið bls. 145), og *Jakob annar* (1291—1327) vann *Sardiníu* undan Genúa og Písa-mönnum.

Karlleggurinn af greifaættinni frá Barcelóna, er ríkti yfir Aragoníu, leið undir lok 1410, og kaus þá þjóðþíngið *Ferdinand fyrsta* til konúngs. Sonur hans *Alfons fimti* (1416—1458) var arfleiddur að Neapelsríki af *Jóhönnu* drotníngu *annari* af Neapel, en varð þó að leggja það undir sig með vopnum (1435). Þegar hann dó (1458) fèkk Ferdinand sonur hans Neapel, en *Aragoníu* fèkk *Jóhann 2.*, bróðir Alfons 5. Sá Jóhann rèð fyrir Aragoníu frá 1458—1479. Kom þá að honum dauðum til ríkis sonur hans *Ferdinand annar, hinn katólski.* Hann var þá kvongaður og hafði (1469) átt *Ísabellu* af Kastilíu; hún var þar borin til ríkiserfða og komin af Hinríki af Trastamara þeim, er Bertrand du Gueselín forðum setti í konúngssæti á Kastilíu (bls. 162).

Ísabella tók við ríkisstjórn í Kastilíu árið 1474, og þegar Ferdinand annar, maður hennar, tók konúngdóm í Aragoníu eptir föður sinn árið 1479, eins og áður var sagt, þá *komu bæði ríkin, Aragonía og Kastilía undir einn* og *hinn sama konúng.*

Lènsherrarnir höfðu framan af miðöldunum magnazt mjög á Spáni og Portúgal, eins og annarstaðar í Norðurálfunni, svo að konúngstigninni var hætta búin. Einkum voru höfðíngjar þessir mikils ráðandi í Aragoníu; kom það sèr í lagi fram á þjóðþínginu (*Cortes*), þar sem höfðíngjar og fulltrúar borganna áttu þíngsetu, því að þíngið rèð mestöllum lögum og lofum; það var og tilskilið í konúnga eiðnum, að þíngið viðurkendi konúng því að eins, að hann skerði engin rèttindi þess. Þar var sá maður í landi, er kallaður var *yfirdómari* (*Justitia*); hann skyldi skera úr öllum málum milli krúnunnar og lendra manna, og vera æztur dómari yfir öllum embættismönnum; hann skyldi settur af konúngi en hafa alla ábyrgð fyrir þjóðþínginu. Er af slíku auðsætt, að konúngsvaldið var þar meira en lítið takmarkað.

Þetta mikla veldi aðalsins tókst *Ferdinand* og *Ísabellu* stórum að takmarka, eins og fleiri konúngum á þeirri tíð. Jarðir lènsherranna voru lagðar undir krúnuna; lendir menn og alt stórmenni bælt niður á allar lundir, hermönnum fjölgað. Riddarafèlögin á Spáni áttu jarðeignir afarmiklar, og höfðu einatt orðið konúngum geigvænleg. Ferdinand kom því svo fyrir, að

hann var kosinn til yfirmanns (yfirmeistara) þeirra fèlaga, þángað til páfinn gjörði það statt og stöðugt að slíkt yfirmannsembætti skyldi jafnan vera sameinað konúngstigninni, á þann hátt náði Ferdínand yfirráðum yfir offjár og mannafla. Í borgunum var það gömul venja að þær höfðu sjálfar hersveitir, sem vöktu yfir reglu og friði bæði í borgunum og á þjóðvegum út um landið. Það var kallað »hið helga hræðrafèlag« (*la santa hermandad*). Þessu var öllu farið ak hnigna þegar Ferdínand katólski kom til valda, en hann fèkk komið því aptur í gott horf, og fèlagsmenn þessir vörðu bygðir og bú manna rösklega fyrir ofbeldi aðalsmanna, sem löngum fóru með ránum og rupli eins og verstu stigamenn. Ferdínand fèkk einnig leyfi páfans, *Sixtusar* 4. til þess að mega veita öll biskupsdæmi í ríki sínu, og þannig náði konúngur miklum yfirráðum yfir kirkjunnar málefnum í hendur sèr. En þó hafði Ferdínand konúngur af engu jafnmikinn styrk sem af *ransóknarrèttinum* (*Inkvisitionen*). Dominikus-múnkar (hls. 137) höfðu frá því á 13. öld haft þá sýslu á hendi frá páfastólnum, að vaka yfir því að menn breyttu eigi móti hinum katólsku lærdómssetníngum, en þegar hèr var komið sögu Spánverja fèkk Ferdínand konúngur því til vegar komið, að þetta eptirlit með trú manna og siðum komst alveg í hans hendur; konúngur setti því embættismenn um ríki sitt til þess að ransaka slíka hluti. Þessar ransóknir, eða rèttara sagt ofsóknir, náðu ekki einúngis til þeirra manna, sem grunaðir voru um að fylgja Múhameðstrú eða Gyðíngatrú þar í landi, heldur einnig til aðalsmanna, klerka og ríkismanna, þegar konúngur vildi ná í eignir þeirra og óðul; enginn var þannig óhultur um líf og eignir; þegar minnst varði voru menn handteknir, dregnir fyrir þessa óttalegu ransókuardóma og gefið að sök, að þeir fylgdi eigi rèttum katólskum sið, tóku þá við kvalir og píndíngar. Voru þá þeir, sem fèllu þannig í hendur hinna guðlausu manna, annaðhvort brendir kvikir á báli (þessar brennur hètu *Autodafeer* = Actus fidei), eða settir æfilángt í hinar verstu dýflissur, en eignir þeirra fèllu undir krúnuna. Það er sagt að *Tómas* klerkur af *Torkvemaða*, er var foríngi ransóknarmanna á Spáni frá 1481 til 1489, hafi þannig látið brenna 8 þúsundir manna. Eptir því sem konúngsvaldið þannig jókst á Spáni misti þjóðþíngið (*Cortes*) alla þýðíngu, alt andlegt frelsi leið undir lok,

en trúarofsi og grimd festi djúpar rætur í huga landsmanna, og kom það síðar fram.

*Granada* var um þessar mundir, eins og áður er sagt, hið eina ríki sem Márarnir áttu á Spáni, en árið 1492 kviknaði ágreiníngur í konúngsættinni meðal þeirra, og Ferdínand og Ísabella fengu þá færi á að skerast í málið og leggja í eyði þessar síðustu leifar hins forna og fræga Mára-ríkis. Þegar Ferdínand hafði unnið Granadaborg hèt hann Márum fullu trúarbragðafrelsi, en sveik það loforð nokkru síðar, og setti þeim tvo kosti, annaðhvort að láta skírast eða fara af landi burt. Hina sömu kosti setti konúngur Gyðíngum, er höfðu svo þúsundum skipti haft aðsetu þar í landi alt í frá dögum Rómverja. Flýðu þá margar þúsundir manna burt af Spáni og var það ríkinu til hins mesta ógagns, því að Márar og Gyðíngar voru hvorirtveggja starfsmenn miklir og hinir auðigustu. En páfa fanst svo mikið til um framgöngu og trúrækni Ferdinands, að hann gaf honum kenníngarnafn og kallaði hinn *katólska,* er síðan hefir haldizt við hann.

*Sikiley* og *Sardinía* voru fyrir löngu gengnar undir Aragoníu. En bæði með vopnum, og þó einkum með brögðum og slægvizku náði Ferdínand katólski öllu *Neapelsríki* undir sig; átti hann þann feng eins og margan annan sigur mest og bezt að þakka hershöfðíngja sinum *Gonsalvó* af *Kordóva,* er vann Neapel 1504; lá það ríki síðan undir Spán þángað til í byrjun 18. aldar. En auk hins ágæta hershöfðíngja, sem nú var nefndur, má einnig telja *Ximenes* kardínála, erkibiskup af Tóledó, sem hinn helzta ráðgjafa Ferdínands og einn hinn merkasta mann á Spáni um þessar mundir. Litlu síðar en hèr var komið náði Ferdínand undir sig mestum hluta af *Navarra,* svo að konúngur sá, sem þar rèð fyrir, átti eigi annað eptir en þann hlutann, sem var fyrir norðan Pyreneafjöll. Þannig var allur sá skagi, sem kendur er við Pyreneafjöll (Pyrenea-hálfeyjan), kominn undir einn konúng, að Portúgal undanskildu.

Ísabella drotníng dó 1504 en Ferdínand konúngur 1516. Börn höfðu þau átt nokkur og voru fimm þeirra dáin, en af hinum sem eptir lifðu var *Jóhanna* elzt og erfði hún alt ríkið eptir foreldra sína; hún var gipt og átti *Filippus* af Habsborg, son Maximilians keisara og Maríu Karlsdóttur af Búrgund. Filippus

dó að vísu úngur (1506), og Jóhanna ekkja hans syrgði hann svo mjög, að hún varð vitskert og lifði þannig 50 ár, en *Karl* sonur þeirra (Karl 5. hinn nafnfrægi keisari) var borinn til arfs þaunig: til *Búrgundaríkis* (eptir Filippus föður sinn), til *Austurríkis* (eptir föðurafa sinn Maximilian), til *Kastilíu* og *Granada* (eptir móðurömmu sína Ísabellu), til *Aragoníu, Navarra, Neapel*, *Sikileyjar* og *Sardiníu* (eptir móðurafa sinn Ferdínand). Þegar föðurafi hans Maximilian dó (1519) kusu hinir þýzku þjóðhöfðíngjar Karl einnig til keisara.

Landaleitir Portúgalsmanna og Spánverja. Fundin Ameríka.

Portúgalsmenn og Márar áttust íllt við, og leikurinn barst yfir til Afríku, eins og fyr er ritað. En er Portúgalsmenn voru orðnir landfastir á Afríku, kviknaði brátt hjá þeim löngun til að kynnast hinni miklu og ókunnu heimsálfu. Tóku menn sig þá til og hèldu sjóleið suður með landi, sáu ný annes og nýjar strendur og komust æ lengra og lengra suður eptir. Það var lán Portúgalsmanna að *Hinrik* (sæfari) konúngsson, sem áður er nefndur, var þá uppi og gjörðist forgöngumaður landnámsferða þessara. Hin fyrstu skip, sem hann sendi af stað, komust suður að *Bojador-höfða,* en snèru þar aptur og þorðu eigi lengra að fara; buðust þá tveir riddarar af hirðsveit Hinriks til að fara og freista ef þeir mættu lengra komast en hinir; þeir hètu *Jóhann Gonsalvez* og *Tristan* Vaz; lögðu þeir suður á haf og fundu eyland eitt lítið, og nefndu *Porto Santo* (1418); er það ein af *Kanarí-eyjunum* hinum nyrðri, eða Madèra-eyjunum, og eigi lángt vestur undan Afríku norðarlega. Frá Porto Santo þóktust menn sjá í góðu skigni, að blánaði fyrir landi vestur í hafi, og hèldu þángað; fundu þeir þar aðra ey stærri; það var *Madèra* (Viðey). Sú ey var öll vaxin Kedrusviði, og skógurinn ákaflega mikill. Þeim fèlögum þókti skógurinn seinunninn, er þeir vildu ryðja hann til akra, og lögðu því eld í hann; en eldurinn læsti sig lengra út en til var ætlað og brann skógurinn í 7 ár, og mátti kalla að hann gjöreyddist á þeim tíma. Hinrik konúngsson lèt færa þángað alidýr og ýmsar sáðtegundir, vínvið frá Cýprus-ey, sykurreyr frá Sikiley, og uxu þar öll aldini ágætlega, því að bæði var askan nóg í jarðvegnum og

loptslag hið bezta; varð hið nafnkunna Madèravín bráðum arðsöm verzlunarvara Portúgalsmönnum. En þó að fyrirtæki þessi hefðu heppnast allvel, átti Hinrik við margt mótdrægt að stríða, bæði deyfð og dáðleysi, hindurvitni og hjátrú. Menn voru nú komnir á ferðum þessum suður undir brunabelti, en öllum þókti ófært að hætta lífi sínu lengra suður, með því að ólifandi væri þegar þángað kæmi sökum hitans; svo höfðu menn einnig þá hugmynd um Afríku, að hún væri mjóst að norðan, en breiðkaði því meir sem sunnar drægi, og næði ef til vildi alt á heims enda suður. Þó gat Hinrik, sem aldrei þreyttist, gjört út skip og menn í nýja landaleit 1432; komust þeir suður fyrir Bojadorhöfða, og þókti það hin mesta nýúng og þrekvirki. Það hið sama ár bygðust *Azors-eyjar* (*Vals-eyjar*) af Portúgal. Voru þar, eins og á Madèra, hinir beztu landkostir, en engar mannavistir fundu Portúgalsmenn á neinni af eyjum þessum. Eptir þetta hèldu þeir áfram landnámsferðum sínum suður með Afríku, gengu þar víða á land, sáu þar villiþjóðir kolsvartar, og fengu handsamað þar nokkra menn og höfðu þá heim með sèr. Árið 1442 sáu menn fyrst Svertíngja þessa í Lissabon, og voru þeir með öllu ólíkir mönnum þeim, er menn höfðu áður sèð og heima áttu norðan á Afríku. Voru þetta hin fyrstu upptök að hinni viðbjóðslegu Svertingja-eða þræla-sölu, er síðan varð svo almenn. Skip þetta hafði og meðferðis allmikið af gullsandi; en þegar menn sáu gullið fór þeim að lítast betur á fyrirtæki og framkvæmdir Hinriks; þá kom ábatavonin, og þar sem enginn vildi áður til verða, að kosta hinu minsta til sjóferða þessara, og Hinrik hafði aleinn staðið allan straum af þeim, og einn haft allan veg og vanda af, en ámæli margra, þá vildu nú margir eiga þátt í útgjörðinni með honum, komast sem lengst áleiðis og jafnvel alt út til Indlands. Allir vissu hve erfitt var að ná vöru og fjárafla þaðan; annaðhvort var hinn indverski varníngur fluttur landveg norður og vestur að Svartahafi, og þaðan sóktu þeir Genúa- og Feneyja-menn hann á skipum sínum og fluttu sjóveg vestur híngað í álfuna, ellegar menn fluttu hann vestur um Bagdað til ýmsra borga við Miðjarðarhaf, og þángað sóktu síðan þeir hinir sömu menn, sem áður voru nefndir, og þar að auki Písaborgar-menn, þenna varníng og seldu hann dýrum dómum. Gæti mönnum því tekizt að komast sjóveg suður fyrir

Afríku og alt út til Indlands, þá var þeim vandræðum lokið. Nú fór fyrst að lifna yfir mönnum á Portúgal; skipin lögðu af stað, og sigldu samflota suður í haf. Árið 1445 komust menn suður fyrir *Grænhöfða*. Það er í Senegambía í brunabeltinu, og nær Afríka þar lengst til vesturs. Og Hinrik sæfari lifði það, að menn komust alt suður á *Guineaströnd*, en hann andaðist, eins og áður er sagt, 1460, og hafði verið hinn þarfasti maður. Nú varð blè á landnámsferðum um stund, því að *Alfons* konúngur hinn 5., er þá rèð fyrir Portúgal, vildi heldur berjast nær sèr í Afríku og vinna þar til fjár og frægðar, en seilast eptir því út til Indlands. Þó komst farmaður einn um hans daga suður fyrir miðjarðarbaug og óskemdur heim aptur; sáu menn þá missmíði á hinni fornu trú, að menskum mönnum væri alsendis ófært að fara um brunabelti jarðarinnar. Eptir Alfons kom *Jóhann* annar til ríkis, stórhuga maður og starfsamur. Hann tók þar við sem Hinrik varð að hætta. Hann sendi menn suður á Guíneaströnd; námu þeir þar lönd og settu þar varnarvirki. Þá fundu menn bráðum konúngaríkin *Benin* og *Kongó* (1484), og komust 300 mílur vegar suður fyrir miðjarðarbaug; höfðu menn mörg tíðindi þaðan að segja, því að kalla mátti, að þeir hefði sèð nýjan himinn og nýja jörð. Árið 1487 komst loks maður sá af Portúgal, er *Bartolómeus Diaz* hèt, alla leið suður fyrir Afríku, en varð þar að snúa aptur, því að hásetum hans fèlst hugur og vildu eigi lengra fara. Á heimleiðinni lentu þeir undir höfða þeim hinum mikla syðst á Afríku, er Diaz kallaði *Stormhöfða* (*Cabo tormentoso*), fyrir því, að þar hafði hann fengið storm mikinn þá er hann sigldi austur um. En er hann kom til Portúgals, breytti Jóhann konúngur nafni og kallaði *Góðrar vonar höfða* (Cabo de buena esperanza), því að nú þóktist hann góðrar vonar um, að leiðin væri fundin til Indlands. Bartolómeus Diaz varð frægur mjög af för þessari og að maklegleikum. En nú víkur sögunni í aðra átt og til þess manns, er jafnan mun verða talinn meðal hinna merkustu manna, er nokkru sinni hafa uppi verið.

Sá maður er *Kristófer Kólúmbus*. Hann var borinn og barnfæddur í *Genúa* 1436. Lítið er mönnum kunnugt um hann á æskuárum, en þó vita menn svo mikið, að hann var snemma námgjarn og fekk góða mentun, komst þegar á únga aldri í sjó-

ferðir og siglíngar, og lagði allan hug á stjörnufræði, landafræði og allar þær vísindagreinir, er síðan komu honum í svo góðar þarfir. Það ræður nú að líkindum að slíkum manni, sem Kólúmbusi, hafi snemma orðið kunnugt um landnámsferðir Portúgalsmanna, og að hugur hans hafi því dregizt til þeirra. Hann kom til Portúgals 1470, og settist að í Lissabon, kvongaðist þar og átti dóttur þess manns, er opt hafði verið í förum á dögum Hinriks sæfara, og látið eptir sig brèf og bækur um ferðir sínar. Kólúmbús var þá sjálfur einatt í förum, bæði suður á Afríku strendur og út um eyjar þær, er þá voru nýfundnar; þannig hafði hann um tíma aðsetu á Porto Santo, eyju þeirri sem áður er nefnd. Það var, eins og menn vita, þá þegar orðið ríkt í huga manna, að komast sjóleið til Indlands, en það var suður fyrir Afríku og þaðan í austur, að menn vildu leita þess. Kolúmbusi var einnig fast í huga að ná þángað, en hann einn vildi fara aðra og nýja leið, hann vildi leita Indlands í *vestur átt* og koma austan að því; því fróðari sem hann varð, af lestri ýmsra bóka, af viðræðum sínum við lærða og leika fræðimenn, af umhugsan sjálfs sín um það efni, því fremur styrktist hann í þeirri trú, að fyrir vestan útsjóinn, hið mikla Atlantshaf, yrði að vera til geysistórt land, og, eptir almennri hugmynd manna á þeim tímum, hlaut það að vera Indland. Þeir menn sem kuunugir voru á Azorseyjum, Madèra og Porto Santo, sögðu frá því, að með vestan átt ræki þar einatt á land ýmsar ókendar viðartegundir; einu sinni hefði þar rekið eintrjánings bát undarlegan og trauðlega með járntólum gjörðan, enn fremur lík af tveimur mönnum, alveg ólíkum þeim, er menn hefðu sèð í Európu eða Afríku. Þegar Kólúmbus hugleiddi alt þetta, varð hann einráðinn í, að fara vestur um haf og leita þar landa. En það var ekki auðgjört; sjálfur var hann enfalítill og enginn sem gat vildi styrkja Hann var nú orðinn fertugur að aldri, þó mátti hann bíða enn 16 ár, þángað til hann fekk þá ósk sína uppfylta, er allur hans hugur stefndi að. Alfons 5. Portúgals konúngur var allur annars hugar. Jóhann konúngur 2. gaf slíkum fyrirtækjum að vísu meiri gaum, tók Kólúmbusi enda líklega, er hann fór þess á leyt við hann, en reyndist þó ver en vera skyldi. Um þetta leyti (1484) misti Kólúmbus konu sína og fór burt af Portúgal, og leitaði á fund ýmsra þjóðhöfðíngja og beiddist lið-

veizlu þeirra til vesturfarar sinnar, en öll eyru voru apturlukt, alstaðar var honum synjað. En það var um Kólúmbus sem önnur mikilmenni heimsins, að þeim verður eigi aptur haldið. Loksins kom að því, að Ferdínand katólski og Ísabella höfðu unnið algjörðan sigur á Márum og tekið Granada 1492; var þá gleði mikil við hirðina, og vinir Kólúmbusar lètu svo gott færi ekki sleppa sèr úr höndum. Ísabella drotníng, sem mörgum reyndist vel og miklu betur en Ferdínand maður hennar, varð þá vel við erindum þeirra og hèt Kolúmbusi liðveizlu sinni og fullri ásjá. Var þá sent eptir honum og gjörður við hann svofeldur samníngur (17. apríl 1492): að honum og erfíngjum hans fram í aldir skyldi veitt »admírals« tign; að hann skyldi verða undirkonúngur eða jarl yfir öllum þeim löndum og eyjum, sem hann fyndi fyrir vestan haf, eða í hafi; að hann skyldi eignast hinn tíunda hluta af öllu því gulli og gimsteinum er í þeim löndum kynni að fást; hann skyldi og taka nokkurn þátt í kostnaði útfararinnar, en eiga aptur tilkall til jafn mikils hluta af öllum ágóða er aflaðist. Að því búnu hèlt Kolúmbus til borgar þeirrar er *Palos* heitir, það er í Andalúsíu á Spáni, og bjó skip sín; þau voru 3 að tölu, öll heldur smá og ílla útbúin (í tveim þeirra voru engar þiljur miðskipa, heldur að eins aptur og fram) — því að öllum var för þessi móti skapi, og allir unnu að því starfi með nauðúng eða hángandi hendi. Hinn 3. dag ágúst mán. 1492 lagði Kólúmbus út frá Palos, sjálfur stýrði hann stærsta skipinu er hèt Santa María, Martin Pinzon öðru, er hèt Pinta, og Franz Pinzon hinu þriðja, er hèt Nína. Alls voru skipverjar 120 manns. Hann hèlt fyrst til Kanaríeyja og bætti þar skip sín; þaðan lèt hann í haf 6. dag september mán. og stýrði í vestur útsuður; fengu þeir lítil veður og vind hagstæðan, landið hvarf skjótt, og annað var eigi að sjá en haf og himinn; svo liðu dagar og vikur og fóru þá skipverjar að kurra og kváðust vilja aptur snúa, en Kólúmbus hughreysti þá jafnan og gaf þeim góðar vonir. Þegar úthallaði september mánuði, sáu þeir einatt sjáfarjurtir ýmsar á floti, og fóru að verða varir við fiska og fugla. »Þessir fyrirboðar koma að vestan«, sagði Kolúmbus: »og *þar* mun góður guð, sem einn gefur sigurinn, láta mig finna land innan skamms«. Þannig hèldu þeir áfram nokkra daga þángað til þeir sáu land á föstudegi 12. Október (1492). Það var eyja

ein er þeir voru að komnír, ekki hálend eða mikil, en mjög fögur og frjófsöm til að sjá. Kólúmbus gekk á land og menn hans, og lýsti yfir því, að hann nam eyland þetta til handa Ferdínandi konúngi og Ísabellu drotníngu hans. Bygð var í eyjunni og flyktust íbúar að þeim Kólúmbusi hvaðanæfa, er þeir sáu þá gánga á land. Varð hvorumtveggja mjög starsýnt á aðra. Eyjarskeggjar voru alsnaktir, rauðleitir á hörund, háfir vexti og limaðir vel, allfríðir sýnum og góðmannlegir, svartir á hár og tók hárið þeim að framan á augabrýr, en miklu síðara að aptan, syndir sem selir; þeir höfðu spjót að vopni, var oddurinn af beini eða einhverju hörðu, því að eigi þektu þeir járn. Kólúmbus sá að menn þessir voru friðsamlegir og ístöðulitlir, og fór að þeim með allri blíðu, gaf þeim glertölur og bjöllur og aðra smámuni og hændi þá svo að sér; tóku þeir við því öllu tveim höndum og gáfu honum gjafir í móti, páfagauka, baðmullarhnoðu, ýmsar jurtir og jafnvel spjót þau, er þeir báru, því að alt vildi þessi vingjarnlega þjóð láta af hendi rakna. Akuryrkju höfðu þeir enga, en veðursældin var svo mikil, að alskonar aldini spruttu þar af sjálfsdáðum. Landsmenn nefndu ey þessa *Guanahani*, en Kólúmbus gaf henni nýtt nafn og kallaði *San Salvador*. Er hún ein af hinum mörgu *Bahama-eyjum*, er svo heita, og liggja suðaustur í haf undan *Flórída-skaga* á Norður-Ameríku og nyrðstar af Vestindíum. Kólúmbus þóktist sannfærður um, að hann væri kominn að eyjum þeim, er liggja fyrir sunnan og austan Asíu, en þar á meginlandinu sjálfu átti hann von gulls og alskonar auðæfa, og til fjár var ferðinni heitið. Þegar hann spurði eyjarbúa að, hvar gulls væri að leita, bentu þeir honum í suðurátt, og það skildi hann svo, að vera mundi *Cipango* (að líkindum *Japan*), er nokkrir fræðimenn fyrir hans daga höfðu sagt væri stór eyja, lángt fyrir austan Asíu, afar auðug af gulli og gimsteinum og perlum. Kólúmbus hafði því eigi lánga viðdvöl á San Salvador, og hélt þaðan suður og vestur og fann ógrynni af eyjum, kannaði sumar og sumar ekki og gaf þeim ýms nöfn; allar voru þær láglendar, en vel sprotnar og víða skógi vaxnar og margar þeirra mjög fagrar; allar virtust honum þær vera bygðar. Loksins (28. Okt.) kom hann að landi einu, það var fjöllum sett, og fèllu víða stór vötn til sjáfar, það var ákaflega fagurt og fjölmennt; landsmenn flýðu fyrst, er þeir sáu

Spánverja; þó voru þèir öllu mennilegri, og betri voru húsakynni þeirra, en á hinum smærri eyjum. Kolúmbus fór að þeim með blíðu og laðaði þá að sèr og fór þá vel með þeim. Land þetta hèt *Kúba* á túngu landsmanna og er afarmikið eyland, sem menn nú vita, en þeir Kolúmbus hèldu það vera meginland á Asíu, eður *Indland.* Þar af er það komið, að allur hinn mikli eyjagrúi, sem Kolúmbus þá fann, og sem liggur í hafi milli Suður- og Norður-Ameríku, var síðan kallaður *Vestindíur,* og að frumþjóðin á eyjum þessum og á meginlandinu Ameríku, bæði norður og suður, var kölluð *Indíanar.* Ekki fundu þeir Kolúmbus þar gull, svo teljandi sè. Hèlt hann því þaðan til hafs og stýrði til suðausturs; fann hann þá eyland eitt allmikið (6. desembr.), er íbúar þar kölluðu *Haytí;* Kolúmbus nefndi það *Espanníóla*[1], fyrir því, að honum virtist landslag vera þar svo líkt því sem var í Kastilíu á Spáni. Þar var öll hin sama fegurð og auðlegð náttúrunnar sem á hinum öðrum eyjum, er hann þá hafði fundið og kannað, sama veðursæld og samkynja villiþjóðir. Kolúmbus varð nú að bætta frekari landaleit um sinn, og bjóst að snúa heim aptur til Spáns, því að bæði var, að skip það, er hann sjálfur stýrði, hafði lent á grynníngum og brotnað þar, og *Martín Pinzon* sá sem fyr er nefndur og stýrði einu af skipum Spánverja, hafði skilizt við Kolúmbus, í von um að geta náð í gull og síðan komizt heim til Spáns á undan honum; vissi Kolúmbus eigi hvað af honum var orðið; skipverjar voru þar að auki einatt óhlýðnir og gjörðu Kolúmbusi margt til skapraunar. En áður hann færi frá Haytí, lèt hann gjöra þar vígi á einum stað og lèt þar eptir 39 menn af förunautum sínum og skipaði fyrir um ýmsa hluti. Eptir það lagði Kolúmbus af stað frá Haytí (í miðjum janúar 1493) á því eina skipi, er hann þá hafði eptir, og hafði með sèr nokkra af eyjamönnum. Á leiðinni fekk Kolúmbus storma svo mikla að lítið vantaði á að skipið mundi farast, enda var það bæði ílt og lítið; þó náðu þeir landi við Azorseyjar 15. dag febrúar. Þar rèðu Portúgalsmenn fyrir, og höfuðsmaður eyjanna var þá eigi vingjarnlegri en svo, að hann ætlaði að handsama Kolúmbus, en fyrir sakir vitturleiks hans og þreklyndis þá varð eigi af því. Loksins tók

1) Seinna á tímum var eyja þessi kölluð *San Domingo,* nú er hún alment nefnd hinu upphaflega nafni *Hayti.*

Kolúmbus land í Portúgal við Tajofljóts-mynni 4. marz, og gekk þegar á fund Jóhanns konúngs, og sagði honum alt af ferðum sínum. Tók konúngur honum blíðlega og bauð honum fylgd yfir land til Ferdinands konúngs á Spáni, en Kolúmbus kvaðst heldur vilja fara sjóleið til Palos. Svo er sagt, að nokkrir íllgjarnir menn í Portúgal, er sáu ofsjónum yfir ferðum og framgöngu Kolúmbusar, hafi eggjað Jóhann konúng mjög að láta myrða Kolúmbus, en konúngur var svo vel að sèr, að hann hlýddi eigi fortölum slíkra manna. Hinn 15. dag marzmánaðar lendtu þeir Kolúmbus við Palos á Spáni, þá hina sömu borg, er þeir höfðu frá siglt rúmu missiri á undan. Var þeim tekið þar með svo miklum fögnuði, að eigi verður orðum að komið. Hið fyrsta sem Kolúmbus gjörði, er hann var á land kominn, var að gánga til kirkju með alla sína sveit og biðjast fyrir. Um þessar mundir sat Ferdinand konúngur og Ísabella drotning austur í *Barcelóna*. Hèlt Kolúmbus þegar á fund þeirra, og var honum alstaðar vel fagnað. Konúngur og drotníng tóku honum með miklum virtum, settu hann hið næsta sèr og lètu hann segja sèr upp alla söguna. Var nú eigi um annað jafn tíðrætt sem um vesturför Kolúmbusar, og þókti hann allra manna frægastur orðinn. Konúngur lèt þegar efna til nýrrar vesturfarar, og lèt búa mörg skip, er hann fèkk Kolúmbusi til forráða, drógst þar að múgur og margmenni, því að allir vildu ná í auðinn. Kolúmbus hafði með sèr alskonar iðnaðarmenn og klerka og ýmsan kvikfènað og sáðtegundir, er hann þóktist vita að þrífast mundi í Vesturheimi. En áður flotinn legði af stað var páfans leitað og fengið hans leyfi. Hann gaf Spánarkonúngi öll þau lönd, er findust fyrir vestan þann hádegisbaug, er dreginn væri 100 mílum fyrir vestan Azorseyjar og Grænhöfðaeyjar, en alt annað, sem findist fyrir austan þann baug, skyldu Portúgalsmenn eiga. En Portúgalsmenn þóktust fara varhluta af þeim skiptum, svo að páfi tók skiptin fyrir að nýju, og fór þá svo, að hann færði landamerkin upp á Spánverja og setti þau 370 mílur fyrir vestan áðurnefndar eyjar. Fyrir þá sök eignaðist Portúgalskonúngur Brasilíu nokkrum árum síðar.

Nú er að segja frá Kolúmbusi, að hann leggur út frá *Kadixborg* (25. sept. 1493), og hefir 17 skip og 1200 manna; heldur hann nú nokkuð sunnar en á hinni fyrri ferð, fær gott

leiði og kemur í landsýn 3. nóvember. Var hann þá kominn að *Caraiba*-eyjum. Þær liggja sunnar og austar en Bahamaeyjar, og hinar syðstu af þeim eru skamt undan Suður-Ameríku. Fann Kolúmbus þar ýmsar eyjar og gaf þeim nöfn, t. a. m. Dominica, Mariagalante[1], Gvadeloupe, Antigua, Portórico o. m. fl. Íbúar (*Caraibar*) á eyjum þessum voru mannætur, og herjuðu einatt norður í hinar friðsamari eyjar, og rændu þaðan fólki sèr til matar. Þegar Kolúmbus hafði kannað nokkrar af eyjum þessum hèlt hann skipum sínum til Hayti, því að honum var mjög annt um að vita, hvernig mönnum þeim liði, er hann hafði látið þar eptir vetrinum áður. En er hann kom þángað, sá hann að virkið var brotið og menn allir burtu. En sú var sök til þess, að þeir höfðu eigi fylgt þeim reglum, er Kolúmbus setti þeim, þá er hann skildist við þá og fór heim til Spáns, en í þess stað höfðu þeir beitt harðneskju og alskyns óknyttum við landsmenn, þángað til að þeir gjörðu þeim aðsúg og drápu þá og brutu virki þeirra og bústaði; fengu hinir siðlausu Spánverjar þannig makleg málagjöld. Kolúmbus bjóst nú fyrir þar í landi og lèt reisa hús og kirkjur þar á einum stað sem honum þókti vera hentugt bæjarstæði; reis þar upp á skömmum tíma allsnotur bær, og nefndi Kolúmbus hann Ísabellu í höfnð á Spánar drotníngu. Eptir það fór hann víða þar um land og kannaði það; gull fundu þeir þar nokkurt, en þó ekki nærri því eins mikið og þeir girntust. Lagði Kolúmbus því enn af stað, og stýrði í vestur átt, kom hann þá við Kúba að nýju og hèlt lánga hríð vestur með henni að sunnanverðu; á þeirri leið fann hann *Jamaika* (það er mikið eyland), komst þá opt í hættur og mannraunir, og varð loks aptur að snúa til Hayti. Meðan hann var í vesturför þessari, höfðu menn hans, er eptir voru, verið óspakir og gjört mjög á hluta eyjarbúa, var því alt komið í óefni, er Kolúmbus kom aptur, en hann fèkk bráðum sefað allar óeirðir með viturleik sínum og góðgirni. Sumir höfðu siglt heim til Spáns og rægt Kolúmbus þar á allar lundir, og Ferdinand katólski var svo tortryggur að hann trúði því, er þeir sögðu, og sendi mann þann, er *Júan Aguado* hèt, til Vestindia með því umboði, að ransaka allar aðgjörðir Kolúmbusar og kærumál nýlendumanna. Maður þessi kom þángað, og Kol-

1) Eptir skipi því, er Kolúmbus þá stýrði.

úmbusi leizt svo á hann og aðfarir hans, að honum þókti ráðlegast að fara sjálfur til Spáns á fund konúng. Þegar Kolúmbus kom þángað (11. Júní 1496) var honum tekið þurlega, þó fèkk hann betri viðtökur hjá konúngi en hann hafði búizt við, og allhýran gjörði Ferdinand sig, meðan Kolúmbus sagði honum ferðasögu sína. Kolúmbus vildi þegar halda af stað aptur, en fèkk enga áheyrzlu að sinni, og liðu svo tvö ár.

Vorið 1498 í maímánaðarlok lagði Kolúmbus af stað frá Spáni og hóf hina þriðju ferð sína til Vesturheims; var það einkum fyrir tilstilli Ísabellu drotníngar að hann gat fengið skip og menn. Hann hèlt sunnar en hann hafði áður farið, og fèkk um tíma logn og byrleysu, varð hitinn þá svo megn, að við stórskemdum lá, (enda var hann þá skamt eitt fyrir norðan miðjarðarbaug); stýrði hann þá til norðurs og kom á byr hagstæður, bar þá skjótt yfir hafið og komu að eyju þeirri, er Kolúmbus nefndi *Trinidad*. Hún liggur fyrir *Orinokó-fljóts*-mynni, mjög skamt undan meginlandi (Suður-Ameríku). Það er mikil ey og afbragð að landgæðum. Þar hitti Kolúmbus fyrir grimma þjóð og vilta, og hèlt þaðan til suðurs; varð þá brátt fyrir honum *meginlandið* (5. ágúst 1498) og sigldi hann vestur með því nokkra stund. Hann hugði sem fyr, að það mundi vera meginland á Asíu, er hann þá var kominn að, einúngis nokkru sunnar en fyr, þá er hann fann Kúba, eins og áður er sagt. Um þessar mundir var Kolúmbus mjög sjúkur, og varð því að hætta landaleit um sinn og halda til Espanníólu. Þar hafði hann sett *Bartolómeus* bróður sinn, ágætan mann, til yfirstjórnar, þá er hann sjálfur fór heim til Spánar fyrir tveim árum. Nú er Kolúmbus kom aptur til Espanníóla og þurfti næðis og hvíldar, var alt komið þar í hið mesta óefni. Maður sá, er Franz Roldan hèt, yfirdómari nýlendumanna þar á eyjunni, hafði spilt þar öllu; fengið landa sína til að gjöra samsæri gegn Bartolómeusi; æst þá á móti Indiönum, svo að þeir voru hættir öllum störfum, og akrar allar komnir í órækt. Spánverjar höfðu farið með ránum og öllum óknyttum um eyna, svo að Bartolómeus gat að eins varið líf sitt, en enga stjórn haft á þeim. Kolúmbus mátti því nær engum spánverskum manni treysta, svo að hann gat eigi refsað óaldarseggjum þessum að maklegleikum, en fekk þó jafnað málum að nokkru leyti. En það var eigi þar

með búið. Þessir íllgjörnu menn höfðu ritað Ferdinandi konúngi brèf, og borið alskonar óhróður á Bartolómeus og þá bræður, og öfundsjúkir menn við hirð konúugs spöruðu eigi að blása eldi að þeim kolum. Kolúmbus ritaði konúngi í öðru lagi, en sagði honum satt frá öllu, eins og við mátti búast af slíkum manni, og beiddist þess, að sendur væri óvilhallur maður til að prófa málavexti. Ferdinand trúði því einu, er ver mátti gegna og sendi mann þann er *Bóvadilla* hèt, ónýtan mann og þar á ofan íllgjarnan. Hann kom til eyjarinnar á áliðnu sumri árið 1500; prófaði alls eigi málin, en tók á sitt vald bæði hús Kolúmbusar og eigur hans allar, að honum fjærverandi, og bauð honum að koma þegar á sinn fund. Jafnvel þó Kolúmbus sæi hvað verða vildi, gjörði hann þó sem honum var boðið, en jafnskjótt sem hann var kominn, lèt Bóvadilla setja hann og bræður hans báða, Bartolómeus og Diegó, í fjötra og sendi þá þannig sinn á hverju skipi heim til Spáns. Foríngi skips þess, er flutti Kolúmbus, var góðgjarn maður; hann gekk þar að sem Kolúmbus sat, og vildi leysa af honum fjötrana; en Kolúmbus vildi það ekki og mælti: »konúngur bauð mèr að hlýða Bóvadilla, í konúngsumboði hefi eg verið settur í fjötra og fyrir því vil eg bera þá þángað til hann sjálfur segir að taka þá af mèr, en síðan ætla eg að geyma þá til minníngar um þau verðlaun, er eg hefi fengið fyrir störf mín«. Síðar beiddi Kolúmbus son sinn að láta fjötrana fylgja sèr í gröfina.

Þegar þessi tíðindi frèttust á Spáni, þókti mörgum þau helzt til ómaklega orðin, og Ísabella drotníng varð bæði hrygg og reið, er hún frètti slíka þjóðarsmán. Sá þá Ferdinand konúngur eigi annað ráð vænna, en að senda menn sem skjótast til Kadix-borgar, þar sem skipin voru að landi komin, með þeim fyrirmælum, að Kolúmbus og bræður hans væri þegar lausir látnir og fengið nægilegt skotsilfur. Þannig komst hann á konúngsfund, og gjörði þar svo glögga grein fyrir gjörðum sínum, að konúngur bauð að greiða honum jafnmikið fè og það, sem frá honum hafði verið tekið; en Bóvadilla var sviptur öllum yfirráðum. Þó vildi Ferdinand eigi setja Kolúmbus aptur til valda í Vestindíum, sem hann hafði þó upphaflega heitið honum, heldur sendi þángað mann þann til yfirsóknar, er hèt *Nikulás*

*de Qvandó.* Liðu svo hin næstu misseri, að Kolúmbus varð að sitja aðgjörðalaus á Spáni.

Nú höfðu Portúgalsmenn um þessar mundir fundið sjóleið til Indlands (*Austindia*) og fluttu þaðan offjár, og auðguðust stórum á þeirri verzlun. Fanst mönnum mikið til um alt þetta á Spáni, og eigi sízt Kolúmbusi. Hann vildi fyrir hvern mun komast að því takmarki, er hann hafði sett sèr, en það var að komast til Indlands vestur um haf; hann hugði fastlega, að eitthvert sund myndi vera á hinu nýfundna meginlandi (Ameríku), er um mætti fara úti Indlands haf, og það sund vildi hann finna. Hann skýrði konúngi og drotningu frá þessu, og fyrir þá sök, að Ísabella drotníng var honum jafnan vinveitt, og í annan stað, að Ferdinand vildi eigi, að Portúgalsmenn sæti einir saman að öllum Indlands auðæfum, svo og, að Kolúmbus sneri huga sínum frá jarlsdæminu á Espanniólu, þá fekk nú Kolúmbus 4 skip yfir að ráða, og bjóst til ferðar vestur um haf hið fjórða sinn. Lagði hann því næst út frá Kadixborg 2. dag maímán. 1502; hèlt hann þá beina leið til Espanniólu, og ætlaði að láta þar eptir eitt af skipum sínum, er naumast mátti heita sjófært, og fá annað betra í þess stað. En er þángað kom lagði höfuðsmaður hart bann fyrir því, að Kolúmbus mætti halda skipum sínum þar til hafnar, og því síður stíga þar fæti á land. Var þá eigi annað fyrir en halda lengra áfram. Á þeirri ferð komst Kolúmbus alt vestur að Daríu- eða Panama-eiði (það skilur Norður- og Suður-Ameríku), en eigi fann hann sund það, er hann leitaði að, sem eigi var heldur við að búast. Aldrei hafði Kolúmbus hrept aðra eins storma eða önnur eins íllviðri eins og í þessari ferð, og þegar hann loksins náði Jamaika-ey (14. júní 1503), hafði hann mist 2 af skipum sínum, en hin 2 voru ekki sjófær, og varð hann að leggja þeim þar á land upp. Þar var nú Kolúmbus staddur með menn sína meðal villiþjóða alslaus að kalla mátti, því að vistir voru þrotnar og skipin ónýt með öllu; var það því mjög óvíst að hann gæti þar lífi haldið til lángframa. Hann tók það ráðs, að hann sendi tvo af mönnum sínum, Diegó Mendez og Fieskó til Espannióla með þeim erindum að fá þaðan skip. Var það hin mesta glæfraför, því að vegalengdin milli eyjanna er 40 vikur sjáfar. Þó lögðu þessir hugrökku menn af stað á tveimur eintrjáníngsbátum og höfðu nokkra af hinum viltu eyjarbú-

um til róðurs. Eptir 10 daga útivist náðu þeir Espanníóla aðfram komnir af þreytu, en höfuðsmaðurinn Qvandó lèt þá bíða fullt ár eptir svari. Það var löng bið fyrir Kolúmbus, er optast var veikur, svo að hann gat naumast fötum fylgt; menn hans voru því að mestu sjálfráðir, en þeir gátu aldrei á sèr setið, og gjörðu eyjarbúum ýmsar óspektir; þeir urðu styggir við og hættu að flytja vistir til Kolúmbusar, mundi hann hafa þar látizt og allir hans menn, ef hann hefði eigi af viturleik sínum og snjallræði getað sèð við því. Hann sagði hinum viltu mönnum, að guð sinn væri orðinn þeim reiður, og mundu þeir sjá þess glögg merki að kvöldi hins næsta dags. Svo varð og, því að það kvöld varð almyrkvi á túngli, eins og Kolúmbus hafði sèð fyrir af hugviti sínu. Urðu nú eyjarskeggjar hræddir, og beiddu hann vægðar og hètu að færa honum nægar vistir upp þaðan í frá. Loksins kom hinn hugrakki Mendez og hafði fengið skip til leigu, og nokkru síðar sendi Qvandó annað á eptir; komust þeir Kolúmbus svo þaðan burt, og heim til Spánar (7. nóvember 1504). Skömmu síðar andaðist Ísabella drotníng, var Kolúmbusi það hinn mesti skaði, því að hún hafði jafnan reynzt honum vel. Þegar Kolúmbus var kominn aptur til heilsu gekk hann fyrir konúng og beiddi hann veita sèr aptur völd þau, er hann hefði heitið honum yfir Vestindíum, en Ferdinand katólski kunni ekki að sjá sóma sinn, og hafði alskonar viðbárur og undanbrögð í tali sínu, og eyddist svo það mál; litlu síðar tók Kólúmbus sótt og andaðist (20. Maí 1506). Lík hans var nokkrum árum síðar flutt til Hayti, og þaðan aptur árið 1795 til *Havannaborgar* á Kúba, og hvílir hann þar síðan. Synir Kólúmbusar voru þeir Diegó og Fernandó; hefir hinn síðarnefndi ritað æfisögu föður síns, en Diegó varð landstjóri yfir Vestindíum, og var Qvandó þá vikið frá völdum. Ekki var heimsálfa sú, er Kólúmbus fann fyrstur, kennd við hann og nefnd Kólúmbía, heldur við mann þann, er hèt *Amerigo Vespúcci* (Americus Vespucius). Hann var frá Flórenz á Ítalíu, samtíða Kólúmbusi og kunníngi hans, og fór vestur um haf um þær mundir, og ritaði bók um ferðir sínar. Fyrir þá sök komst nafn hans á hvers manns túngu, menn settu það í samband við heimsálfu þá, er hann hafði ritað um, og þannig fèkk hún hans nafn, og er síðan kölluð *Ameríka*.

Þegar leiðin var fundin til Ameríku fýstust margir menn á Spánl að fara vestur um haf og afla sèr fjár og frægðar. En þó að af sumum þeim landnámsmönnum sèu miklar sögur, þá verður hèr að eins í stuttu máli getið nokkurra hinna helztu meðal þeirra. Þannig fann maður sá, er *Ponce de Leon* hèt, *Florídu-skaga* á Norður-Ameríku, og lagði eyjuna *Portórikó,* er Kolúmbus hafði fundið, undir Spánverja (1511). Hið sama ár vann og sá maður, er Diegó *Velasqvez* hèt, hið mikla eyland *Kúba,* og gjörðist þar höfuðsmaður yfir. Spánverjar vildu einnig ná föstum fæti á meginlandinu og sendu ýmsa menn þángað í þeim erindum. Einn af þeim hèt *Balbóa,* hinn mesti fullhugi. Hann kom þar að landi sem mjóst er eiðið milli Suður- og Norður-Ameríku (1510) og lagði það undir sig. Hann hafði tal af mönnum þeim, sem þar bjuggu fyrir, og sögðu þeir svo: «ef þú vilt finna gull, þá getum vèr vísað þèr á land, sem hefir ógrynni af þeim málmi; það er hinu megin fjallanna við hafið; en þá verður þú að vera fjölmennari en þú ert nú, því að það er mikið konúngsríki; þángað kemst þú á 6. dögum». Það var *Perú* er honum var vísað til. Balbóa lagði þegar af stað með 190 manns, en vegurinn var ekki greiður: ýmist afar þykkvaxnir skógar, miklar ár, fen og forœði, höggormar og alskonar illyrmi, eða ógurlega brött og há fjöll, en hugur og hreysti Balbóa sigraði allar torfærur; eptir 25 daga komst hann loks á efstu fjallabrúnir, svo að þeir sáu vestur af fjallgarðinum. Lá þá hinn afarmikli útsær (er síðar var nefnt *Kyrrahaf)* fyrir fótum þeim. Þá fèll Balbóa fram og lofaði guð. Því næst hèldu þeir niður til sjáfar og komu í bygð skamt eitt fyrir austan Panama. Þar var þeim sagt, að lángt suður með sjó væri konúngsríki eitt mannmargt og vellauðugt af gulli. Balbóa sá, að hann hafði eigi mannafla til að vinna það land, og rèð því af, að snúa aptur og fá meiri liðsstyrk til þeirra fyrirtækja; en þá var hann rægður svo við Ferdinand katólska, að konúngur setti annan mann í hans stað, og sá hinn sami kom þó engu til leiðar, en lèt síðan handsama Balbóa og taka af lífi (1517). Það voru hans verðlaun. Svo sögðu menn, að síðan Kolúmbus leið, hefði enginn maður verið jafn líklegur til forystu og allra framkvæmda sem Balbóa.

Balbóa hafði sagt mönnum frá hinum mikla útsæ fyrir vest-

an Ameríku; menn vildu komast sjóleið þángað og svo til Indlands, og þess vegna sendi Ferdinand konúngur (1515) mann þann, er *Diaz de Solis* hèt, á tveim skipum, til þess að finna leið þángað. Hann hèlt vestur um haf sunnarlega, hitti sund afarbreitt, og sigldi inn eptir því um sinn, en það var stórfljótið *La Plata*. Þar gekk hann á land, en lenti þar í höndum villiþjóða, sem drápu hann og átu síðan.

Það sem Solis átti eigi að hepnast, auðnaðist öðrum manni er *Magellan* hèt. Hann var frá Portúgal; hafði um hríð þjónað Portúgalskonúngi og orðið frægur af afreksverkum sínum á Indlandi (Austindium) en fengið litlar þakkir fyrir, farið því af landi burt og gengið í þjónustu Spánar konúngs (Karls keisara hins 5.). Honum hafði Magellan heitið að hann skyldi finna sjóleið til Indlands. Hann lèt í haf frá Spáni 1519, og segir ekki af ferðum hans, fyr en hann kom að ósum La Plata fljótsins, kannaði hann þar lönd á bæði borð og sigldi svo suður með landi. Menn hans gjörðu uppreist gegn honum og hann misti 2 skip, en maðurinn var hið mesta mikilmenni og fèkk bælt niður uppreistina og haldið svo áfram til þess er hann hitti sund eitt afarlángt; lagði hann inn á sundið og komst að 20 dögum liðnum vestur úr því[1]. Þá sá Magellan hafið eitt fyrir vestan sig, það var hinn sami útsjór sem Balbóa hafði áður sèð, þótt norðar væri. Nú hèlt hann áfram norður og vestur og liðu svo 3 mánuðir og 3 vikur að eigi sá land; en hægviðri og sjóleysu fengu þeir jafnan, fyrir því gaf Magellan hafinu nafn og kallaði *kyrrahaf*. Þá kom hann að eyjum þeim, er hann nefndi *Ladrónes (Víkíngseyjar)*, og bera þær enn það nafn. Því næst kom hann að öðrum eyjum er hètu *Filippínur*. Þar fèll Magellan í bardaga gegn eyjamönnum (26. apr. 1521). Tvö af skipum hans voru þá eptir og hèldu þau til *Mólúkkaeyja;* þar voru Portúgalsmenn fyrir, og tóku annað skipið, en hitt komst vestur fyrir Góðrarvonarhöfða og alla leið heim til Spánar (1522). Það var hið fyrsta skip sem hafði komizt alla leið umhverfis jörðina, og siglt samtals 6700 mílur vegar. Skip þetta hèt *Vittoria,* en skipstjórinn *Sebastian del Cano*[2]. Nokkru síðar sendi Karl 5.

1) Það heitir síðan Magellans-sund og er 80 mílur á lengd.
2) Karl 5. gaf honum lends manns rètt og stórgjafir og lèt marka tignarskjöld hans á þann hátt, að þar var dreginn á jarð-

mörg skip og menn til Indlands, þá hina sömu leið sem Magellan hafði farið; hafði sá maður yfirstjórn flotans er *García de Loaisa* hèt, en Sebastian gekk næstur honum að völdum. Þeir komust vestur úr Magellans sundi, en hreptu storma mikla á *hafinu kyrra,* skipverjar sýktust, foringinn dó, gekk Sebastian þá í hans stað, en andaðist fáum dögum síðar; varð sú för til lítilla nota.

Nú kemur sá maður til sögunnar, er *Fernandó Cortez* er nefndur, einhver hinn hugprúðasti, þrekmesti og stórvirkasti maður, sem uppi var á hinni miklu umbrota og framfara öld, sem hèr ræðir um. Hann var spánskur að ætt og uppruna; gaf sig fyrst við bókmentum en eirði skamma stund slíkum störfum og hèlt til Vestindia, 19 vetra gamall, árið 1504. Honum bauðst þegar land til yrkíngar, en Cortez svaraði, «eg er kominn híngað til að leita gulls en ekki til þess að yrkja jörðina eins og bóndi». Diegó Velasqvez, sem áður er nefndur, var litlu síðar en hèr var komið sendur til Kúba; vann það land og lagði undir Spánverja, og gjörðist síðan landstjóri þar á eynni; með honum var Cortez og reyndist skjótt öruggur til framgöngu og allra stórræða. Þaðan voru síðan sendir ýmsir menn til meginlandsins í þeim erindum að vinna þar lönd og stofna þar nýlendur. Einn af þeim hèt *Cordóva.* Hann kom að skaga þeim, er *Yúcatan* heitir, það er mikið land og myndar Mexíkó-flóa að sunnanverðu. Þar hitti Cordóva fyrir þjóð, klædda baðmullarfötum og miklu mentaðri til að sjá en hinar, er þeir höfðu fundið úti í eyjum. Spánverjar vildu kynna sèr landið, en íbúar veittu þeim þegar aðgöngu, varð Cordóva sár til ólífis og við það snèru Spánverjar frá og hèldu út í eyjar. Velasqvez sendi þegar þann mann, er *Gríjalva* hèt, með her manns til þess að hefna Cordóvu. Hann átti ýmsar orustur við landsmenn, og vann að vísu sigur, en þeir börðust af svo mikilli hreysti, að Gríjalva þóktist sjá, að hann gæti ekki unnið landið með þeim liðsafla er hann þá hafði. Hann sá þar stórar borgir og varnarvirki, og landsmenn sögðu honum, að þeir hefði konúng yfir sèr, er rèði fyrir víðlendu ríki og auðugu, er hèti *Mexícó,*

---

arhnöttur og rituð á þessi orð: *primus circumdedisti me,* þ. e. fyrstur umspentir þú mig.

en konúngurinn *Montezúma*. Við það hèlt Gríjalva aptur út til Kúba og sagði Velasqvez tíðindin.

Nú vildi Velasqvez fyrir hvern mun vinna það hann gæti af þeim hinum miklu löndum, er honum var frá sagt, en hvorki treystist hann sjálfur til þess, og heldur ekki vildu þeir af hershöfðíngjum hans verða til, er hann helzt hafði augastað á, þángað til Fernandó Cortez gaf sig fram, og kvaðst fara mundi. Fèkk Velasqvez honum 11 skip og heldur smá, 14 fallbyssur allar litlar, 13 byssur og 16 riddara; en allur hans liðsafli var 508 manns; með honum átti Cortez að vinna auðugt og viðlent konúngsríki. Hann bjó nú skip sín til ferðarinnar sem bezt hann kunni, og lagði jafnvel alt það fè er hann átti í sölurnar, en þegar að því var komið, að hann legði af stað, fèkk Velasqvez einhvern grun af því, að Cortez mundi eigi vera sèr tryggur og vildi því taka hann höndum og gekk til sjáfar. Cortez var að ýta frá landi er Velasqvez kom; Velasqvez bauð honum þegar að gánga á land og gjöra grein fyrir gjörðum sínum. Cortez mælti: »það eru sumir hlutir sem fram verða að fara jafnvel fyr en menn hugsa um þá«. Og skildi þar með þeim. Hinn 10. dag febrúarmán. 1519 lagði Cortez af stað frá Kúba og komu þar við land er Grijalva hafði áður að komið. Montezúma fèkk þegar fregn af komu Cortezar, sendi honum virðulegar gjafir, en beiddi hann verða á burt sem fyrst úr ríki sínu. Cortez var als annars hugar, og varð nú staðráðinn í, að sækja Montezúma heim, hvað sem hann segði. En áður hann færi svo lángt inn í landið vildi hann tryggja stöðu sína sem bezt, og það gjörði hann með ýmsu móti. Hann vissi að allmargir í liði hans voru vinir Velasqvez, en hinir voru þó fleiri, sem snúa vildu heim aptur; lèzt hann þá mundi gjöra það þeim til skaps, og bauð að hafa skipin til reiðu, en meginhluti liðsins vildi eigi snúa heim aptur við svo búið, og kurraði mjög; þá lagði Cortez niður völdin og beiddi þá kjósa sèr nýjan hershöfðíngja, en þeir kusu hann sem vonlegt var, og var þetta alt kænskubragð hans. Því næst ritaði hann Karli Spánarkonúngi og skýrði frá gjörðum sínum og sendi skip eitt með brèfin rakleiðis til Spánar, en áður það færi, varð það uppvíst, að nokkrir af liðsmönnum hans gjörðu samsæri, ætluðu að taka skipið og færa það Velasqvezi, lèt Cortez taka þá menn og dæma til dauða. En til þess, að

hann mætti óhultur vera um, að menn hans hlypi eigi frá honum út til eyja, og til þess að sýna þeim, að eigi væri nema um tvent að velja, sigur eða dauða, þá tók hann það ráð, að hann lèt setja skip sín öll á land, leggja eld í þau og brenna upp til kaldra kola. Eptir það lèt Cortez reisa borg þá, er hann nefndi: *Villa rica de la vera cruz* (þ. e. hin ríka borg hins sanna kross), en er almennt kölluð *Veracrúz*. Þar lèt hann setulið eptir til varnar. Síðan hèlt Cortez af stað og stefndi til Mexicó, barðist á leiðinni við landsmenn, en hafði jafnan sigur og fekk þá í samband við sig. Litlu síðar kom hann í hèrað það, er *Tlaskala* hèt. Þar bjuggu harðsnúnir menn, óháðir Montezúma að mestu, og engir vinir hans. Þó bönnuðu þeir Cortez leið yfir landið, en hann barði þá af höndum sèr; síðan sættust þeir fullum sáttum og urðu honum drjúgir vinir. Öll þau hèruð, sem Cortez vann á leið þessari, gengu undir Spánar konúng; voru þau bæði mörg og fögur og víða voru þar stórar borgir, og svo haglega gjörðar, að Spánverjar undruðust hversu landsmenn fengu á fætur komið svo miklum og fögrum stórsmíðum, þar sem þó bæði járn og ýms önnur áhöld, er Európumenn þektu, voru þeim alveg ókunn í þá daga. Höfuðborgina í ríki Montezúma konúngs kölluðu Spánverjar *Mexicó*; það var afarstór og fjölmenn borg (að minsta kosti 300000 íbúar) og bygð á hólmum í vatni einu, en göngugarðar og brýr lágu af landi út til borgarinnar. Þegar Cortez kom þángað gekk Montezúma í móti honum, tók honum mjög vingjarnlega og fèkk honum og hans sveit hallir stórar til íbúðar; bjóst Cortez þar fyrir sem hann kunni bezt, því að miðlúngi vel trúði hann konúngi, enda var það allískyggilegt að vera staddur þar mjög liðfár í fjölmennri borg. Cortez sá skjótt, að hinn beinasti vegur bæði til að tryggja sig og til að koma fram fyrirætlan sinni, var að ná Montezúmu á sitt vald. En það varð að gjörast með lagi. Þá bar svo til að einn af hershöfðíngjum Montezúmu hafði látið drepa nokkra menn af Spánverjum. Cortez krafðist að þessa illvirkis væri hefnt, og var svo gjört; en þar hjá sagði hann, að þó sèr væri fullnægt með þessu, þá mundi Spánverjar ala þann grun, að Montezúma hefði verið í ráðum með hershöfðíngja sínum, og þess vegna mundi bezt, til að eyða þeim grun, að konúngur flytti úr höll sinni um stund-

arsakir, og tæki sèr bústað meðal Spánverja þar í borginni. Montezúma lèt tilleiðast, tók sèr bústað í höll þeirri, er Cortez og hans menn sátu í, og fór nú alt vel um hríð.

Nú bar það til tíðinda þessu næst, að Velasqvez sendir mann þann, er *Narvaez* hèt, með 18 skipum og allmiklu liði til meginlands, fær Narvaez öll yfirráð þar í hendur, og býður honum, að ráða Cortez af dögum eða koma honum á sitt vald. Heldur Narvaez til lands og tekur þegar að herja og leggja landið undir sig, ritar Montezúmu á laun við Cortez, skýrir frá erindi sínu, að hann sè einúngis kominn til að hegna Cortez fyrir óhlýðni og lögleysur, en lofar Montezúma öllu fögru. Þetta frèttir Cortez, og þó að hann væri nú í tvöföldum vanda staddur, þá varð honum eigi ráðfátt. Hann fer þegar með nokkra af mönnum sínum til móts við Narvaez, býður honum fyrst góð boð, en er hinn vildi engum kostum taka öðrum en þeim, að Cortez gæfist upp og gengi á hans vald, þá veitir Cortez honum aðgöngu þegar hina næstu nótt; fer þá svo að hann tekur Narvaez höndum, nokkrir af mönnum hans falla, en hinir gánga allir í lið með Cortez. Hafði hann nú lið miklu fleira en áður, og sneri því þannig sèr til hamíngju, með vitsmunum sínum og hvatleik, sem honum var ætlað til fordjörfunar.

Meðan Cortez var í þessum umsvifum, sem nú voru nefnd, hafði ófriður kviknað í Mexicóborg. Setuliðsforíngja þann, sem Cortez hafði látið þar eptir, skorti vitsmuni á við hinn mikla hershöfðíngja, og hafði beitt helzt of mikilli grimd við borgarmenn, er hann grunaði þá um samsæri gegn sèr. Við það urðu þeir æfir og gripu til vopna; fengu Spánverjar nauðulega varizt árásum þeirra; landsmenn streymdu að úr öllum áttum og alt var í uppnámi. Þá kom Cortez að með sína menn. Hann brauzt þegar inn í borgina, en fèkk eigi sefað uppreistina, var nú barizt af mikilli hreysti af hvorumtveggja. Þá vildi Montezúma tala til lýðsins og stilla menn sína til friðar; en þeir lètu grjótið dynja á honum, fèll Montzúma við það og misti svo lífið. Nú börðust menn þar í borginni í nokkra daga; fèllu borgarmenn drjúgum, en þar komu jafnan óþreyttir menn í þeirra stað; höfðu þeir hin öruggustu vígi í húsum sínum og hofum og vígturnum, og varð Spánverjum mjög skeinuhætt, er þeir

áttu þángað að sækja. Þá var það einhverju sinni, að Cortez vildi ná turni einum; voru borgarmenn þar uppi, börðust djarflega og gjörðu þeim Cortez mikinn skaða; hann hafði verið særður á hendi og mist tvo fíngur, þá lèt hann binda skjöldinn sèr við hönd, og rèð til uppgöngu við fáa menn, og komst alla leið upp á turninn; óvinir hans hlupu þegar á hann og vildu hrinda honum ofan fyrir, en hann sleit þá af sèr og lètti eigi fyr en sumir þeirra hrukku ofan af turninum, en sumir lágu þar fallnir. Cortez sá að hann mundi eigi fá unnið borgina að sinni, því að liðsmunur var helzt til mikill; tekur því það ráðs að halda á brott þaðan á næturþeli, og kemst greiðlega út úr borginni; en sem hann er kominn út á brýrnar með menn sína, veit hann eigi fyr, en fjandmenn drífa að honum öllu megin, tekst þar hinn harðasti bardagi og lyktar svo, að Cortez kemst á land, en missir þar allar fallbyssur sínar og púður, því nær alla hesta, og það sem sárast var, margan hraustan dreng af mönnum sínum. Nú hefði þessi litla hersveit, sem af komst, verið frá með öllu, því að flestir sem á lífi voru, voru sárir, vistir litlar, en óvinir alt um kríng, hefði Cortez eigi verið á meðal þeirra, en vitsmunir hans og kjarkur, sem aldrei gat yfirbugazt, hèlt öllu upprèttu og í góðu horfi. Hann leitaði nú til Tlaskala-fylkis, því að þar bjuggu vinir hans, er hann mátti óhult treysta. Á leiðinni þángað kom að honum óflýjandi her af Mexicó-mönnum; við þá barðist hann og fèkk sigur; í þeirri orustu fèkk Cortez sár það, að lengi var tvísýnt um líf hans. En sem hann hafði dvalizt um hríð í Tlaskala-fylki, bjó hann lið sitt að nýju til þess að vinna Mexico-ríki; en til þess að geta unnið höfuðborgina varð hann að hafa skip á vatnið umhverfis borgina, en þau voru engin til. Þá tók Cortez það til bragðs, að hann lèt höggva og tegla efnivið til skips í Tlaskala, síðan lèt hann menn sína bera allan þann við margar mílur vegar, yfir fjöll og torfærur, upp að Mexicóborgarvatni, setja þar saman og gjöra skip af og hleypti þeim svo á vatnið. Eptir það hóf hann atlögu að borginni og sókti hana bæði á landi og vatni; varði *Guatimózín*, sá er til konúngs var tekinn eptir Montezúma, bana af mikilli hreysti, en að mánuði liðnum fèkk Cortez tekið borgina (31. ágúst 1521); voru þá þrír fjórðúngar staðarins brunnir til ösku, en mannfallið var svo mikið, að

eigi varð tölu á komið. Þegar Mexicóborg var unnin lagði Cortez alt ríkið undir sig. Var það margfalt meira land en Spánn að stærð og víðáttu.

En jafnvel þó Cortez hefði unnið öll þessi stórvirki og aukið veldi Spánarkonúngs meir en nokkur annar, þá var hann affluttur svo fyrir Karli konúngi, að sendir voru menn til Mexicó til þess að svipta Cortez völdum. En hann skýrði konúngi svo vel og greinilega frá gjörðum sínum, að konúngur lagði á það fullan trúnað og gjörði hann að landstjóra yfir Mexicó og hinum næstu löndum þar fyrir sunnan, er alt til samans var kallað *Spánland hið nýja.*

Cortez gjörði alt sem í hans valdi stóð til þess að efla velmegun og framfarir í skattlandi því, er hann var yfirskipaður. Nýjar borgir voru reistar, akuryrkja komst í gott horf, vegir voru lagðir um landið, verzlun lifnaði, mentun jókst þar á marga vegu, og þó Cortez þækti einatt þúngur í refsíngum við menn, þá þóktust Indíanar jafnan eiga þar alt sitt traust sem hann var. Alt um það þreyttust menn eigi heima á Spáni, og einkum við hirðína, að rægja hann við konúng. Voru þá að nýju sendir menn vestur um haf til að ransaka stjórn hans og aðgjörðir allar. Cortez vildi eigi gegna máli þeirra, en brá þegar við og fór til Spánar og hitti konúng (1528). Tók konúngur honum að vísu vel, en fékk honum þó eigi öll þau völd í hendur aptur, er hann hafði haft, heldur skipti þeim milli tveggja þannig, að Cortez skyldi hafa öll hin æztu hervöld og vinna ný lönd undir krúnuna, en annar maður skyldi hafa á hendi yfirstjórn allra umboðslegra eða borgaralegra málefna þar í landi. Af þessu reis síðan mikill ágreiníngur með mönnum. Eptir það fór Cortez í landaleit, og fann þá *Californíu* (1536) og fleiri lönd. En það var sem fyr, að fjandmenn Cortez hættu eigi að rægja hann og gjöra honum alt til skapraunar, fór hann þá að nýju til Spánar (1540) til þess að fá einhvern enda á málum sínum; en það var eins og bæði konúngur og aðrir hefðu gleymt afreksverkum hans og frægð; málum hans var frestað ár af ári; hann varð hartnær að sæta sömu kjörum sem Kólúmbus fyrrum. Cortez andaðist skamt frá Sevilla 2. desemb. 1547.

Litlu síðar en Cortez vann Mexikó, fór sá maður, er *Franz Pízarró* hèt, spánskur að ætt, til *Perú* (það er vestan á Suður-

Ameríku) og lagði þar land undir sig, með honum var sá maður, er *Álmagró* hèt. Báðir voru þeir kappar miklir, en grimmir og vèlráðir, og eptirbátar Cortezar um flesta hluti. Þeir komu til Peru 1530; voru landsmenn líkt á sig komnir í mörgum greinum sem Mexikómenn, og þó engu síður. Þá rèðu fyrir Perú bræður tveir, hèt annar þeirra *Húaskar,* en hinn *Atahúalpa.* Þeir voru í það mund ósáttir. Pízarró veitti Atahúalpa, varð Húaskar höndum tekinn og drepinn síðan; en litlu síðar sveik Pízarró Atahúalpa, lèt dæma hann til dauða og hengja á gálga. Eptir það lagði Pízarró alt landið undir sig. Almagró vann land það um sömu mundir, er *Kíli* heitir. Það liggur suður af Peru með sjó fram. Þessir blóðþyrstu menn urðu brátt sundurlyndir; Pízarró varð yfirsterkari, og lèt drepa Almagró, en nokkru síðar (1541) var hann sjálfur af dögum ráðinn. Frá Peru fengu Spánverjar ógrynni gulls.

Nú víkur sögunni aptur til Portúgalsmanna og landnámsferða þeirra. Vèr höfum sèð, að Spánverjar leituðu Indlands í vesturátt og fundu Vestindíur og Ameríku; Portúgalsmenn leituðu þar á móti Indlands í austur. Bartólómeus Diaz hafði, eins og áður er sagt, komizt alla leið suður fyrir Góðrarvonarhöfða (1487), og þar við lètu menn sitja meðan Jóhann konúngur lifði. En þegar hann var fallinn frá og Emanúel mikli, eða sigursæli — sem hann og er nefndur — kominn til ríkis, tók hann þar til sem forverjar hans höfðu frá horfið og sendi 4 skip af stað með þeim erindum, að komast alla leið austur til Indlands. Yfirstjórn á skipum þessum fèkk Emanúel konúngur þeim manni í hendur, er *Vaskó da Gama* hèt; hann var reyndur að garpskap og áræði og þar á ofan hinn vitrasti maður. Um miðsumars skeið 1497 lètu þeir í haf, en menn vissu þá eigi að sú árstíð var næsta óhentug til leiðar þeirrar, er fara skyldi, og fyrir þá sök fengu þeir stundum stórviðri og storma en stundum logn mikil og óþolandi hita, bárust skipverjar þá illa af, en foringinn var ótrauður. Tuttugasta dag nóvemb. mán. lagði Vaskó da Gama fyrir suðuroddan á Afríku (Góðrarvonarhöfða) og hèlt svo norður með henni að austanverðu, kom þar við land á ýmsum stöðum og hitti þar hvervetna nokkurn veginn mentaða menn og allblómlega verzlun; landsmenn játuðu þar allir Mahómedstrú. Konúngur í ríki því er *Melinde* nefnist

tók Vaskó da Gama einkar vel og fèkk honum leiðsögumenn alla leið þaðan til Indlands, en það voru 700 mílur vegar; greiddist þeim vel og tóku land við borg þá, er *Kalikút* heitir á Malabarströnd 19. dag maímán. 1498. Það er á Indlandi (Austindium) vestanverðu. Þannig var sjóleið fundin til Indlands. Landið var mjög frjótt, verzlun mikil og auður að því skapi. Vaskó da Gama hitti konúng þeirra Kalikútsmanna (tignarnafn hans var *Samórín*) og samdi þeim vel með fyrsta, en arabskir og márverskir kaupmenn, er þar voru, og höfðu alla verzlun landsins í hendi sèr, hugðu að Portúgalsmenn mundu spilla atvinnu sinni og affluttu þá á allar lundir við konúng, svo að Vaskó da Gama komst þar í miklar þrautir og sá eigi annað vænna, en að halda þaðan sem fyrst og heim til Portúgals; kom hann þángað á öndverðu hausti 1499, og var vel fagnað sem verðugt var. Vorið eptir (1500) sendi Emanúel konúngur til Indlands mann þann, er *Pedró Alvarez Kabral* hèt, og var »admíráll« að nafnbót, og fèkk honum 13 skip til forráða. Lagði konúngur svo fyrir, að Kabral skyldi ná þar góðri fótfestu til handa Portúgalsmönnum, fyrst með góðu, en síðan með hörðu, ef hitt vildi eigi duga. Á þessari leið hèlt Kabral vestar og dýpra af löndum, en menn höfðu áður gjört, og fyrir þá sök fann hann *Brasilíu* (1500). Sendi hann þegar eitt af skipum sínum og skýrði konúngi frá landi því, er hann hefði fundið, og hèlt síðan austur um haf til Góðrarvonarhöfða, hrepti storma mikla og misti nokkur af skipum sínum. Þar fórst hinn ágæti farmaður Bartolómeus Diaz. Síðan komst Kabral alla leið austur til Kalikút, gjörði samníng við konúnginn þar í landi, en kaupmenn spiltu því öllu eins og áður, svo að til vopna kom, og nokkrir af Kabrals mönnum voru vegnir, en hann hefndi þeirra rækilega og hèlt við það heim til Portúgals, og flutti þángað gull og perlur og gimsteina á skipum sínum, dýran farm og fásèðan.

Nú þóktist Portúgals konúngur sjá, að eigi mundi svo búið duga, og sendi því Vaskó da Gama (1502) með 20 skip til Indlands. Varð honum þar vel framgengt, því að bæði lèt hann skothríð mikla dynja yfir Kalikút, og svo brendi hann mörg skip fyrir þarlenzkum kaupmönnum; sló þá ótta miklum á þá, og orð komst mikið á Portúgalsmenn þar í landi. Hèlt Vaskó da

Gama síðan heim aptur og hafði fengið of fjár. Þessu næst setti Portúgals konúngur jarl til yfirsóknar á Indlandi og eignaðist þar mikið ríki bæði á meginlandi og út á eyjum, er jarlar þessir unnu og lögðu undir hann. Hinn merkasti af jörlum þeim var *Alfons Albokverkve* (1510—1515), hinn vitrasti maður og mildasti og hin mesta hetja. Hann valdi stað þann, er *Góa* heitir, á Malabarströnd, til bústaðar, og þókti öllum sá staður viturlega kjörinn. Þar hafa jafnan síðan setið hinir indversku jarlar Portúgals konúnga. Albokverkve vann síðan *Malakka*, náði fótfestu á *Mólúkkaeyjum* og víðar, og varð svo víðfrægur þar austur, að fjarlægir þjóðhöfðíngjar úr ýmsum áttum leituðu vináttu hans og gjörðu við hann samnínga. Eptir hans daga unnu Portúgalsmenn að vísu mörg og mikil lönd í Austurheimi, settu nýlendur á *Ceylon*, á *Sundaeyjum*, *Kórómandelströnd*, *Díú*, og komust alla leið austur til *Kínaveldis* og til *Japans;* en alt um það má þó með sanni segja, að aldrei væri jafnfagur fífill þeirra á Indlandi, sem þá er Albokverkve sat þar að völdum; þá var þar hetjuöld í landi, en síðan breyttist aldarhátturinn til hins verra, því að stjórnin á Portúgal var jafnan aðgjörðalítil, hugsaði mest um auð og ábata frá nýlendunum, en lèt sig flest annað litlu varða. Leiddi þetta til þess, að nýlendurnar gengu undan Portúgalsmönnum þegar aðrar betri og vitrari þjóðir komu þar til sögunnar, svo að lítið varð að síðustu eptir af hinni fornu frægð og hinu forna veldi Portúgalsmanna á Indlandi.

En hafi Portúgalsmönnum þannig farizt, þá átti þetta eigi síður heima hjá Spánverjum. Þeir hugsuðu eigi um annað en gull og gimsteina og á allar lundir að auðgast sem mest á nýlendum sínum í Vestindíum og Ameríku; þeir lètu frumþjóð þá, er þeir hittu þar fyrir, og sem þeir fengu hönd á fest, þrælka í gull- og silfurnámum sínum, og beittu meiri hörku við þá en frá verði sagt; slíka ánauð þoldu eigi hinir »rauðu menn«, og dóu hrönnum saman; og til sannindamerkis er það sagt, að þá er Kólúmbus kom fyrst til Espannióla, þá hafi eyjabúar verið þar um 1 millión manna að tölu, en 15 árum síðar lifðu vart eptir af þeim nema einar 60 þúsundir. Múnkar þeir[1] er sendir voru vestur um haf til þess að kristna Ameríkumenn, gjörðu sumir

1) Þeir fylgdu flestir Dominikusar reglu.

það þeir gátu til þess að bæta kjör Ameríkumanna, og einn af múnkum þessum, er hèt *Las Kasas* († 1566) gaf það ráð, að nýlendumenn skyldu fá sèr Svertíngja (*Negra*) frá Afríku, er væru sterkari og þyldu betur vinnu heldur en Indíanar; en það ráð, sem gefið var af meðaumkun einni og góðvilja, varð til þess, að hið viðbjóðslega mansal frá Afríku fór að tíðkast, og hefir til vansæmdar mannkyninu átt sèr stað fram á þessa tíma.

Þær hinar miklu og merkilegu landnámsferðir, er nú hefir verið frá skýrt, höfðu hin mestu áhrif á ástand manna og aldarhátt allan í Norðurálfunni. Verzlun þjóðanna og jafnvel öll saga þeirra breyttist og fekk nýja stefnu; hin nýfundnu lönd leiddu í ljós ókunnar uppsprettur og auðlegð og margbreytni náttúrunnar. Menn fluttu af Ameríku tóbak, jarðepli, kakaó, kínabörk, ýmsar viðartegundir o. s. frv. sem eigi voru til í Norðurálfunni; en til Ameríku fóru menn að flytja hèðan úr álfunni sykurreyr, kaffi, korntegundir, ýms alidýr o. s. frv., og öll þessi nýlunda breytti innan skamms tíma þörfum og lifnaðarháttum þjóðanna víðsvegar út um heiminn. Það er því eigi án orsaka, þó að margir sagnaritendur láti miðaldasöguna enda og sögu hinna nýjari alda taka þar við, er Ameríka var fundin (1492).

## Ítalía.

Eptir að Hohenstáfar voru undir lok liðnir, höfðu Þýzkalandskeisarar að sönnu einskonar yfirráð á Ítalíu, en það mátti naumast heita annað en nafnið tómt; einstöku keisarar (t. a. m. Hinrik 7. sjá bls. 179) gjörðu að vísu tilraun til að ná þar meiri og sterkari yfirráðum, en það veitti jafnan erfitt, og þau yfirráð urðu aldrei að staðaldri. Það má því svo að orði kveða, að frá miðri þrettándu öld væri Ítalía greind í ýms smáríki, er hvort væri öðru óháð og sjálfu sèr ráðandi. Skal hèr nú getið hinna helztu.

1. Hið elzta miðaldaríki á Ítalíu var lýðveldið *Venezía* (Feney Fenedí, Venedig). Tildrögin að því, hversu það ríki hófst, eru áður sögð[1]. Um tíma var það háð yfirráðum Miklagarðskeisara, en náði síðan frelsi sínu, og gjörðist hinn skæðasti óvinur þeirra. Undir Þýzkalandskeisara játaðist Venezía aldrei. Frá því árið 697 var stjórnarforseti eða höfuðsmaður Veneziumanna

1) Fornaldarsagan bls. 248.

kallaður *Doge* (það er myndað af latínska orðinu *dux*, sem þýðir foríngi, hertogi o. s. frv.). Fyrst framan af hafði hann mikil völd, en þegar fram liðu tímar urðu þau miklu minni, því að þar hófust bráðum ýmsir menn til auðs og metorða, svo að lyktum komst fullkomið *höfðíngjavald* á í Venezíu. Frá því öndverðlega á 13 öld áttu höfðíngjar einir setu í hinu *mikla ráði*, er stýrði öllum málefnum ríkisins, og sem skyldi kjósa höfuðsmanninn, þegar þess þurfti við. Á því voru hafðar sterkar gætur, að enginn fengi raskað höfðíngjavaldinu eða orðið til að steypa því, en yrði nokkur grunaður um þá sök, varð hann fyrir þúngri refsíngu. Þannig var *Maríno Falieri*, höfuðsmaður, hálshöggvinn (1355), er hann vildi kollvarpa höfðíngjavaldinu með tilstyrk alþýðunnar.

Venezía varð um síðir höfuðstaður í víðlendu og auðugu ríki, sem átti lönd víðsvegar austur við Miðjarðarhaf. Dalmazía var eitt af þeim löndum. Þegar krossfarendur unnu Konstantínópel í hinni fjórðu krossferð (1204), að miklu leiti með tilstyrk Venezíumanna, og undir forustu *Dandolós* höfuðsmanns þeirra, þá eignaðist Venezía víðlendur miklar, bæði á Grikklandi og úti á eyjum, t. a. m. Krítey, Euboa, Jóneyjar o. fl. Á ofanverðri 15. öld leið Lúsignan-ættin undir lok, sem setið hafði að ríkjum um þrjú hundruð ára á Cýprus-ey; en drotníng sú, er átt hafði hinn síðasta konúng þar á eynni, var ættuð frá Venezíu, og lèt hún Venezíumenn njóta þess og fèkk þeim eyjuna í hendur, og hèldu þeir henni til þess 1571. Á Ítalíu átti Venezía allmikið land alt vestur að Oglio-fljóti; það rennur suður í Póelfu. En hvar sem Venezíumenn höfðu yfirráð, beittu höfðíngjar þeirra miklu ofríki gegn alþýðu manna.

Undirrótin til hins mikla auðs og veldis Venezíumanna var hin mikla *siglíng* þeirra og *sjóverzlun*, er einkum hafði aukizt og magnazt á krossferðaöldunum. Þeir ráku verzlun austur um Svartahaf og Asófshaf, um Egyptalands- og Sýrlandsstrendur, og græddu of fjár á þeirri verzlun; þeir fluttu austan úr löndum indverskar vörur og egypzkar, og seldu þær dýrum dómum híngað norður í álfuna. En þessi verzlun þeirra Venezíumanna var undir því komin að sjóleiðin suður og austur um Afríku fyndist eigi. En er Portúgalsmenn fundu þá leið, þá var úti um dýrðina; þaðan í frá fór Venezíumönnum hnignandi, og þá

komu Tyrkir til sögunnar og unnu smásaman frá þeim eyjar og lönd á Grikklandi.

2. *Genúa.* Þar var lýðveldisstjórn, siglíng mikil og verzlun, og sífeld kepni um verzlunina við Veneziumenn; urðu viðskipti þeirra bæði löng og hörð, og höfðu ýmsir betur. Átti þetta sèr einkum stað á 13. og 14. öld, og hèr um bil 1380 höfðu Genúamenn því nær unnið Veneziu, en því varð þó afstýrt. Einnig átti Genúa í ófriði við lýðveldið *Písa*, út af Sardinarey og Korsíku, sem hvorirtveggja vildu eiga. Sardinarey urðu Genúamenn að láta lausa við Aragóníu konúng (1326), en á Korsíku höfðu þeir yfirráð lengi fram eptir öldum. Það skildi með þeim og Veneziumönnum, að í Genúa voru sífeldir flokkadrættir, er einatt spiltu framkvæmdum og sigri; fyrir þá sök skárust þar opt aðrir í málin, t. a. m. Frakkar og Mílansborgarmenn, en í Veneziu átti slíkt sèr eigi stað, því að þar var meiri festa og meira samheldi í stjórninni.

3. *Milanó (Mailand).* Þar hafði lengi verið lýðveldisstjórn, en í orði kveðnu hafði keisarinn þar yfirstjórn. Milanó var mikil borg og auðug, og á dögum Friðriks keisara Barbarossa, komst engin borg á Norður-Ítalíu til jafns við hana. Á 14. öld hófst sú ætt þar til valda, er *Viskonti* hèt, og varð einvöld i Milanó, en 1395 keyptu þeir frændur sèr hertoganafn af Wenzel keisara. Það var tíðska á Ítalíu, að fjöldi úngra manna, er leituðu sèr fjár og frægðar, streymdu saman undir merki einhvers manns, er nokkuð hafði sèr til ágætis, og safnaðist stundum af því allmikið lið; slíkt lið tóku konúngar eða lýðveldisborgir á mála og sendu í orustur, en foríngjar þessa málaliðs voru nefndir *Kondottierí* (leiguliðs- eða málaliðsforíngjar). Með því liði unnu Viskontar þannig undir sig ýmsar borgir og hèröð á Norður-Ítalíu, en reyndust alstaðar grimmir og harðsnúnir yfirdrotnar. Þegar karlleggur Viskonta leið undir lok 1477, brautzt málaliðsforíngi sá, er *Franz Sforza* hèt, og var teugdasonur hins síðasta hertoga af Viskontaætt, þar til ríkis, og gjörðist hertogi yfir Milanó; sátu hans ættmenn þar síðan lengi að völdum. En þegar Loðvík 12. var kominn til ríkis á Frakklandi, gjörði hann tilkall til hertogadæmisins Milanó, því að hann var í móðurætt skilgetna kominn af Viskontum, en Sforza var af óskilgetnum kvennlegg þeirrar sömu ættar. Varð af þessu fullur fjandskap-

ur. Frakkar unnu Milanó (1500), og tóku hertogann *Loðvík Moró* höndum, lètu jafnvel eigi þar við lenda, heldur rèðust einnig á Veneziumenn, því að Frakka konúngur vildi ná undir sig löndum þeim, er þeir áttu á Ítalíu, og fekk í því skyni i fèlag með sèr Maxímilían keisara (samuíngur milli þeirra í Cambray 1508), og litlu síðar bættust þeir við *Júlíus* páfi hinn annar með því nafni og Ferdínand katólski. Varð Frökkum með fyrsta vel framgengt, en bandamenn þeirra voru ótryggir, og skömmu síðar var liðveizlu þeirra lokið, og sumir gengnir í lið með Veneziumönnum. Englar og Sveizlendíngar skárust og í óvinalið Frakka. Loðvík Frakka konúngur beið ósigur við Nóvara (1513) og misti aptur Milanó, en sonur Loðvíks Moró varð þar hertogi. En *Franz* 1., er konúngur varð á Frakklandi næstur eptir Loðvík tólfta, tók þar við sem hinn varð að hætta, og náði þegar undir sig árið 1515 hertogadæminu Milanó, eptir sigurinn við *Marignanó,* þar sem Sveizlendíngar í fyrsta sinn biðu ósigur í orustu. Tíu árum síðar vann *Karl keisari hinn fimmti* þessi lönd á Norður-Ítalíu aptur af Frökkum, voru þau síðan um nærfelt tvö hundruð ár skattskyld Spánarkonúngi (Karl 5. var einnig konúngur á Spáni).

4. *Savoyen.* Greifarnir af Savoyen voru upphaflega háðir Arelatríkinu, en eptir því sem tímar liðu náðu þeir hèröðum undir sig norðan og vestan á Ítalíu (Piemont); *Túrin* var þar höfuðborg þeirra. Sigismundur keisari gaf *Amadeusi* greifa, *hinum friðgóða,* hertoga nafnhót (1416). En um aldamót 15. og 16. aldar kreptu Sveizlendíngar að hertogadæmi þessu að norðan, og náðu undir sig Waadtlandi og Genf, en Frakkar veittu þúngar búsifjar að vestan. Meðan ófriður stóð milli Karls 5. og Franz fyrsta, vann hinn síðarnefndi mikinn hluta af löndum hertogans, og lètu Frakkar þau eigi laus fyr en 1559, þá friður var saminn í Chateau Cambresis.

5. *Flórenz.* Þegar *Písa,* er fylgdi Gíbellínum að öllum málum, var orðin undir í viðskiptum við Genúamenn, gjörðist lýðveldisborgin Flórenz, er hèlt með Gvelfum, hin voldugasta borg í *Toskana* (Etrúríu hinni fornu). Þar voru verksmiðjur miklar og peníngar nógir á veltu. Á 14. öld varð höfðíngjavaldinu þar á knè komið, og eptir það komst þar á algjörð lýðveldisstjórn; en ekki leið á löngu áður ættmenn þeir, er kendir

eru við *Medicí,* komust þar til mikillar upphefðar, og urðu víðfrægir fyrir margra hluta sakir. Þeir voru kaupmenn í Flórenz og áttu auð fjár. *Jóhann* af Medici († 1428) var hinn fyrsti af þeirri ætt, er með auðæfum sínum og gjafmildi lagði grundvöllinn undir upphefð og frægð ættmanna sinna, — þó þeir væri að eins kaupmenn og hefði eigi valdsmanns nafn, þá rèðu þeir lögum og lofum Flórenzmanna þegar fram í sókti engu síður en þjóðhöfðíngjar, eða einvaldir konúngar. Þegar Jóhann var dauður erfði *Kosmus* sonur hans bæði auð og vinsældir föður síns, og þókti enn meiri afbragðsmaður en faðir hans hafði verið. Hann var höfðíngi og leiðtogi Flórenzmanna hartnær um 40 ár og andaðist 1464. Svo þókti mikið að honum kveða, að hann var kallaður *faðir fósturjarðar sinnar.* Sonar son hans hèt *Lórenzó;* hann stýrði Flórenz frá 1472—1492, og þykir frægastur verið hafa sinna ættmanna. Meðal annars sem talið er þessum miklu mönnum til ágætis, er það, hversu frábærlega þeir efldu öll vísindi, einkum grískar og latínskar bókmentir, sem lengi höfðu legið í dái, en þá voru farnar að endurlifna á Ítalíu. Eptir lát Lórenzó af Medici urðu óspektir miklar í Florenz af völdum manns þess, er *Hierónýmus Savonaróla* hèt; hann var múnkur af Dominikusar reglu, siðvandur maður og lærður og manna málsnjallastur; hann eggjaði landa sína mjög á, að reka Mediceana burtu, koma á reglulegri lýðstjórn, en umfram alt bæta allan kirkjuaga og vanda siðuna betur en verið hefði. Medicearnir voru reknir burtu, en páfinn og klerkalýðurinn hætti eigi fyr en búið var að hengja Savonaróla og brenna á bjjörtu báli; og lauk svo því uppþoti. Medicear komu aptur til Florenz, og þar kom, að þeir urðu þar ríkjum ráðandi. Karl keisari hinn fimmti gaf þeim hertoga nafnbót (1530) og hèlt sú ætt þeirri tigu til þess hún var aldauða (1737). Af þeirri ætt eru komnir tveir páfar (*Leó tíundi* og *Klemens sjöundi*), og tvær drotníngar á Frakklandi (*Katrín* og *María* af *Medici*).

6. *Neapel.* Þegar *Manfreð* af Hohenstáfen var feldur frá ríki (1266), fèkk hinn frakkneski höfðíngi *Karl af Anjou* bæði Neapel og Sikiley að lèni af páfastólnum, en þrem árum áður en Karl dó († 1282) vann Aragoníu konúngur Sikiley (eins og fyr er ritað bls. 145). Niðjar Karls sátu að ríkjum til þess 1435, að Jóhanna Neapels drotníng leið undir lok. Hún hafði tekið

sèr í sonar stað *Alfons* konúng 5. af Aragoníu, en síðan leitt konúngborinn mann frakkneskan til arfs að ríki sínu; sá maður var kominn af Jóhanni konúngi hinum góða, og kendi sig við Anjou eins og Karl hafði gjört. Alfons konúngur tók Neapelsríki með herskildi, og þeir frændur af Anjou, er rèðu fyrir nokkrum hluta af Provence, urðu að sætta sig við eintómt konúngsnafn yfir Neapel. Alfons konúngur dó 1458 og varð þá *Ferdínand* sonur hans, óskilgetinn, konúngur í Neapel, en Jóhann annar, bróðir hans, fèkk Aragoníu, Sikiley og Sardíníu.

Frakkakonúngar erfðu tilkall til ríkis í Neapel 1481. Þegar Anjou-ættin, sem að eins hafði borið konúngsnafnið, var liðin undir lok. Karl 8. Frakkakonúngur fór í þeim erindum herferð til Neapel, eins og fyr er sagt, en bar engan sigur úr býtum. Loðvík 12. vildi einnig ná Neapel undir sig, og þegar hann hafði unnið Milanó, gjörði hann fèlag við Ferdínand katólska (1501) og var afráðið með þeim að skipta Neapel milli sín. En sú varð niðurstaðan, að Ferdínand eignaðist alt það ríki. Upp frá því áttu Spánverjar Neapel, Sikiley og Sardíníu, og seinna fengu þeir einnig Milanó, og stóð svo til þess á Útrektar-friðnum (1713). En alla þá tíð, sem þessir harðstjórar af Habsborgar og spánversku ættinni rèðu fyrir þessum löndum, voru landsmenn stórlega kúgaðir og alt fór þar eptir því.

7. *Kirkjuríkið* (Kirkestaten) eða Rómaborg með allmiklu landi umhverfis sem páfinn beinlínis rèð fyrir. Hin lánga útivist páfanna frá Róm, meðan þeir sátu í Avignon á Frakklandi, (1308—1378) atti eigi alllítinn þátt í því, að rýra veldi þeirra og álit í Rómaborg bæði í veraldlegum og andlegum efnum. Rómverjar voru á meðan sem höfuðlaus her, og höfðíngjarnir, bæði í Róm og útum ríkið, áttu í sífeldum brösum hvorir við aðra; einkum er til þess getið tveggja stórhöfðíngja, er hètu *Kólonna* (*Gibellini*) og *Orsini* (*Gvelfi*). Meðan á þessari óöld stóð, reis upp maður einn í Rómborg, er *Kola Rienzi* hèt; hann var af lágum stigum, ákafamaður mikill og málsnjall, en ekki hygginn að því skapi. Hann vildi eyða öllu stjórnleysi og óeirðum meðal Rómverja, sameina það sem sundrað var orðið, og koma allri ríkisstjórn í sama horf, sem verið hafði fyrir mörgum öldum á dögum hins forna þjóðveldis; hann hèlt eldfjörugar ræður fyrir lýðnum, en lýðurinn hljóp upp til handa og fóta; urðu þá höfð-

íngjar og alt stórmenni að flýja undan og forða sèr, en lýðurinn bar Kola Rienzi á höndum sèr, og gaf honum *tríbúns*-nafn[1], að fornum sið (1347). En hèr sannaðist hið fornkveðna, «að það þarf sterk bein til að þola góða daga». Þegar Kola Rienzi hafði fengið yfirráðin í hendur fyltist hann ofmetnaði og drambi og rasaði í mörgu fyrir ráð fram. Lýðurinn snèri þá við honum bakinu, höfðíngjarnir komu aptur fótum fyrir sig, Kola Rienzi varð að flýja burt úr borginni, og þegar hann kom þángað aptur og vildi komast til valda á nýjan leik var hann höndum tekinn og veginn (1354).

Þegar útivist páfanna var lokið (1378), og þeir voru aptur setztir að í Rómaborg, gjörðu þeir hvað þeir kunnu til þess að rètta við aptur tign sína og ná veraldlegum yfirráðum á Ítalíu, en greiðasti vegurinn til þess var sá, að eignast sem mest af löndum og lausum aurum fyrir sig og sína ættmenn. Eptir lát *Innócentiusar* 8. (1492) varð Rodrígó Borgía páfi; hann var spánskur að ætt og uppruna og nefndi sig *Alexander sjötta.* Hann er nafnkendur af saurlifnaði sínum og grimd, og sannnefnd viðurstygð í postullegu sæti. Bæði leynt og ljóst, bæði með morðvígum og opinberum manndrápum svældi Alexander og Cæsar Borgía sonur hans undir sig eignir og óðul annara manna. Árið 1503 ætluðu þeir feðgar að stytta nokkrum kardínálum aldur og höfðu þá í boði sínu; eitri var komið í bikara þá, sem boðsmenn attu að drekka af, en í misgripum drukku þeir Alexander og Cæsar Borgia það sjálfir, sem þeir höfðu öðrum ætlað. Báðir sýktust, páfinn misti lífið, en Cæzar rètti við aptur, því að hreystin og heilsan voru afbragð. Eptirmaður Alexanders var *Júlíus páfi* 2. (1503—1513) vitur maður og kjarkmikill, og miklu fremur hneigður til hernaðar og verzlegra sýslana en til biskupslegra starfa. Hann skarst mjög í öll þjóðmálefni manna á Ítalíu. Fyrst veitti hann Loðvíki 12. Frakkakonúngi móti Venezíumönnum, en það var engan veginn af því, að hann vildi efla veldi Frakka eða yfirráð þeirra á Ítalíu, heldur til hins að geta náð nokkrum hèröðum undir sjálfan sig og stækkað ríki sitt; síðan gjörðist hann hinn mesti óvinur Frakka; kom fótum undir samband það (1511), er nefnt er *hið helga (den hellige Ligue)*, og sem þeir geugu í páfinn og Spánarkon-

1) Sbr. Fornaldarsöguna bls. 105.

úngur, og fleiri þjóðhöfðíngjar, til þess að afstýra allri sundrúng í kirkjulegum málefnum, ná Bólogna aptur undir páfann og reka Frakka burt af Ítalíu. Júlíus páfi gekk sjálfur í orustur, þótt hann væri sjötugur að aldri og barðist sem hetja. Frakkar urðu eptir talsverðar ófarir að halda burt af Ítalíu, og páfinn náði undir sig Bólogna, Ferrara og fleiri borgum og hèröðum, og að því hefir kirkjuríkið búið til þess nú fyrir fáum árum. Eptir Júlíus annan settist *Leó 10.* á páfastólinn (1513—1521); hann var sonur Lórenzó af Medicí, hinn mesti vinur iþrótta og vísinda, en afskiptalítill um kirkjuleg málefni. Á hans dögum hófst *siðabótin* á Þýzkalandi (1517).

## Austurlöndin.

### Úngverjar.

Öndverðlega á 10. öld kom þjóð sú, er *Magýarar* heita, eða *Úngverjar* öðru nafni, austan yfir Karpatafjöll. Magýarar eru af sama ættbálki sem Finnar. Þeir fóru herskildi yfir Pannóníu hina fornu og lögðu *Avara,* er þar bjuggu fyrir, undir sig, og settust í lönd þeirra. Síðan heitir þar Úngverjaland. Úngverjar voru herskáir mjög og gjarnir á rán og óspektir, og veittu þeir Þjóðverjum löngum þúngar búsifjar, þángað til Hinrik fuglari og einkum Ottó keisari hinn mikli tók í taumana hjá þeim og vann sigur á þeim í orustunni við Lech-fljót (955). Konúngar þeirra voru af ætt *Arpaðs* hins gamla. Einn af þeim var *Stefán hinn helgi* (hèrumbil 1000 árum e. Kr.); hann kristnaði landið, og frá þeim tímum urðu Úngverjar siðprúðari en áður, og mentir döfnuðu í landinu. Eptir það tóku Þjóðverjar einatt að flytja sig búferlum til Úngverjalands. Þannig settust þjóðverskir menn að í Siebenburgen á miðri tólftu öld, og reistu þar borg eina, er heitir Hermannstadt, og er þar þýzk túnga og þjóðerni enn í dag. Á þrettándu öld (1222) kom *Andrès* konúngur 2. stjórnarskipun á í landinu; fengu þá höfðíngjar og klerkar mikil rèttindi, en alþýða manna varð mjög útundan og komst í hið mesta volæði; þó náðu borgamenn þíngsetu á ríkisþíngum. Litlu síðar en hèr var komið brutust *Mongólar,* hinar ógurlegu landeyður, inn á Úngverjaland og gjörðu þar sem annarstaðar hið mesta landtjón.

Konúngar af Arpaðsætt voru aldauða 1301. Eptir nokkrar vífilengjur og óeirðir kjöru Úngverjar til konúngs yfir sig *Karl Róbert*, konúngsson frá Neapel af Anjou-ættinni. Sonur hans var *Loðvík hinn mikli* (1342—1382); hann var Úngverjum hinn þarfasti konúngur, studdi þar mentir og vísindi, bætti lögin, efldi atvinnuvegi, hermaður mikill og sigursæll í orustum. Hin síðustu 12 ár æfi sinnar var hann einnig konúngur yfir Póllandi. Hann átti 2 dætur en engan son; hèt hin eldri *María* og var gipt *Sigismundi*, er síðan varð keisari; fyrir þá sök komst keisarinn til ríkis á Úngverjalandi. Hin ýngri dóttir Loðvíks hèt *Hedevig*; hún fekk Pólland til umráða. Sigismundur beitti ójöfnuði miklum við lenda menu á Úngverjalandi, beið ósigur við Nikópolis (1396) móti *Bajazet* 1. Tyrkja soldáni, og gaf sig allan við þjóðverzkum málefnum, varð hann af því Úngverjum lítt nýtur konúngur. Hann dó 1437, og varð þá *Albrekt* af Austurríki, sem einnig var þýzkur keisari, konúngur Úngverja, en dó eptir 2 ár. Þegar hann var dáinn tóku Úngverjar eigi þegar son hans, *Ladíslás postumus* til konúngs, heldur kusu í hans stað Ladislás Póllands konúng, hinn 3. með því nafni (en 5. á Úngverjalandi). Á ríkisstjórnarárum hans varði *Jóhannes Húnyades*, Siebenborgar jarl, ríkið með hinni mestu kallmensku móti Tyrkjum, og gjörði við þá vopnahlè, en Ladislás konúngur rauf þau grið litlu síðar, og fèll eptir það í orustunni við *Varna* (1444). En það áttu Úngverjar Húnyadesi að þakka, að Tyrkir tóku þá eigi Úngverjaland, því að hann var ríkisforstjóri, en Ladislás postumus (hinn 6.), er þá var orðinn konúngur, var barn að aldri.

Ladislás þessi dó úngur (1457) og var þá *Mattías Corvínus*, sonur Húnyadesar, til konúngs tekinn (1458—1490). Hann var í öllu hið mesta mikilmenni, og hinn merkasti konúngur sem Úngverjar hafa átt. Er það til merkis þar um, að hann kúgaði gjörsamlega Friðrik 3. Þýzkalands keisara í viðskiptum þeirra, og lagði undir sig talsvert af löndum hans, sama er að segja um viðureign hans við konúnginn í Böhmen, og Tyrkjum stóð af honum hinn mesti ótti; hann var ágætur löggjafi, unni vísindum og stundaði þau af miklu kappi; hann efldi mjög háskólann í Ófen; átti eitt hið mesta og bezta bókasafn í Norðurálfunni um þær mundir og hafði menn út um lönd, einkum á Grikklandi og Ítalíu, til þess að safna að sèr handritum Forn-

grikkja og Rómverja. En eins og konúngum vestur í álfunni var gjarnt um þá daga, sókti hann það fast að verða einvaldur konúngur, var harður í sköttum og álögum öllum, og fyrir því varð hann eigi vinsæll af alþýðu manna, og þegar hann dó (1490) tóku Úngverjar eigi son hans — sem að vísu var óskilgetinn — til konúngs, heldur kusu þeir *Ladislás* (hinn 7.) af Jagellons ætt á Póllandi, er konúngur var í Böhmen síðan 1471. Frá þeim tíma laut Úngverjaland og Böhmen einum konúngi[1].

Á dögum *Ladislás* 7. († 1516) og *Loðvíks annars* (er fèll við *Móhacs* í orustu móti Tyrkjum 1526) hnignaði Úngverjalandi stórum. Margt af því, sem Mattías Corvínus hafði komið fótum undir, fèll þá um koll og varð að engu; lönd þau sem hann hafði unnið gengu undan; lendir menn og klerkar drotnuðu hörðum höndum yfir borgamönnum og bændum; Tyrkir gjörðu sífeldar árásir á landið; menn reyndu að hefja upp þjóðarandann og sameina hið sundraða afl með því að boða mönnum almenna krossferð móti Tyrkjum. Við það losuðust bændur að sönnu undan ánauð lendra manna, en í stað þess að berjast við Tyrki veittust bændur að lendum mönnum, og fór þá svo, að Jóhann Zapolýa, Siebenborgar jarl, braut bændaherinn á bak aptur. Urðu þá kjör þeirra hálfu verri eptir en áður. Eptir fall Loðvíks 2. varð *Ferdínand* af Austurríki (bróðir Karls keisara hins 5. og eptirmaður hans í keisaratign), er átti systur Loðvíks, konúngur yfir Böhmen og Úngverjalandi. Sannaðist það hèr sem optar, að þeir Habsborgarmenn urðu löngum fángasælir til fjár og landa með konum sínum. En Úngverjar höfðu litlar heillir af Ferdínandi.

## Pólland og Prússland.

Hinar slafnesku þjóðir, sem bygðu hið mikla slèttlendi við Veiksel-Óder- og Vartafljót, og sem kallað er *Pólland,* voru kristnaðar af þýzkum mönnum hèr um bil 1000 árum eptir Krist.

1) Af þessu sjá menn, að Úngverjaland var sameinað Póllandi (undir Loðvíki mikla, 1370—1382), Böhmen undir Sigismundi og Albrekt (1436—1439); síðan aptur Póllandi undir Ladislási 5. (1439—1444), þar næst aptur Böhmen undir Ladislási 6. (1444—1458), og loksins að nýju Böhmen frá 1490.

Stóð landið síðan í nokkurs konar lènssambandi við Þýzkaland. En það band slitnaði þá er Hohenstáfar liðu undir lok. Höfðu þá Pólverjar eptir það yfir sèr ýmist einn konúng eða fleiri. *Píasta*-ættin var hin helzta konúngsætt þar í landi.

Á miðri þrettándu öld (hèr um bil 1230—1280) kristnuðu *hinir þýzku riddarar* og lögðu undir sig hin *prússnesku* lönd við Austursjóinn (Eystrasalt); rèðu þeir síðan fyrir þeim um marga mannsaldra. Höfuðstaður riddara þessara hèt *Marienborg*. Nokkru fyr hafði annað riddarafèlag, er nefndist *sverðriddarar*, kristnað löndin við Ríga-flóa og komið þar á þjóðverskri mentun.

Hèr um bil 1320 sameinaði *Ladislás Lokietek* hin pólsku lönd í eitt ríki. Sonur hans *Kasimír mikli* (1333—1370) vann *Gallizíu* (*rauða Rússland*) og jók þannig ríki sitt; hann gjörði margt til þess að efla framfarir Póllendínga. En það ráð sem hann hafði til þess að efla verzlun og iðnað landsmanna, (en það var að veita Gyðíngum ýms hlynnindi), varð landinu til ógagns; þeir streymdu þúsundum saman inn í landið, svældu undir sig alla verzlun, urðu eigi sjálfir borgarar landsins, en stóðu innlendum mönnum í ljósi að geta komizt í þá stöðu. Með því móti varð landsfólkið þetta þrennt: *Lendir menn* (aðallinn) — og af þeim var hinn mesti fjöldi —, *ánauðugir bændur* og *Gyðíngar*.

Kasimír andaðist 1370. Með honum dó út Pjasta ættin, og Pólland varð *kjörríki* (þ. e. konúngur skyldi kosinn, en eigi taka ríki að erfðum), og varð það lýð og landi til hinnar mestu óhamíngju þegar fram liðu stundir. Var þá Loðvík hinn mikli Úngverja konúngur, og systurson Kasimírs, kosinn til konúngs á Póllandi (1370—1382). Eptir hann kom ýngri dóttir hans *Hedevig*; hún var gipt *Jagelló*, stórfursta yfir *Litthǽen*; þar voru menn heiðnir. Á þann hátt sameinaðist Litthǽen Póllandi. Jagelló tók kristni og lèt skírast, og nefndi sig *Ladislás annan*. Hann barðist við hina þýzku riddara og vann sigur á þeim í orustunni við Tannenberg (1410). Sonur hans var *Ladislás 3.* og var um tíma konúngur á Úngverjalandi og í Böhmen, en fèll í orustunni við Varna móti Tyrkjum, eins og fyr er ritað. *Kasimír 4.* bróðir hans og eptirmaður (1444—1492) átti í ófriði við hina þýzku riddara, er þannig lauk, að þeir mistu nokkur lönd, en hèldu sumum eptir og höfðu þau að lèni af Póllands konúngi.

Lendir menn, eða aðallinn, gjörðu Póllandi alla ógæfu. Þeir rèðu hartnær öllu á ríkisþíngum, kusu konúnga og settu þeim skilmálaskrár, er stórum bundu hendur þeirra höfðíngjunum í hag, bændum hèldu þeir í ánauð, og borgmannasèttin átti því nær engan þíngseturètt.

## Rússar og Mongólar.

Í það mund er Norðmenn fóru landnámsferðir vestur um haf, leituðu aðrir þeirra sèr bústaða fyrir austan Eystrasalt, og settust að í Austurvegi (Garðaríki). Þar bjuggu fyrir slafneskar þjóðir. Einn af höfðíngjum Norðmanna (er þar austur voru nefndir *Varegar*), sá er *Rúrik* hèt, settist að í *Nóvgoroð* og setti þar ríki á stofn (hèr um bil 870 árum e. Kr.). Það voru upptök hins *rússneska ríkis*. Þetta Norðmanna ríki jókst síðan í ýmsar áttir, og þá varð höfuðstaður þess borg sú, er *Kiev* heitir, hún er við *Dniepr*-fljót og nokkru sunnar en Nóvgoroð. Þegar fram liðu stundir týndu Norðmenn þar móðurmáli sínu og töluðu slafneska túngu. Einn af þjóðhöfðíngjum þeirra (eða stórfurstum) þar í Kiev, hèt *Vladimír* og kallaður hinn mikli; hann efldi ríki sitt á ýmsa vegu og tók kristni (nálægt 1000 árum e. Kr.); en kristniboðendur þar í landi voru grísk-katólskir (þ. e. úr löndum Miklagarðs keisara) en eigi rómversk-katólskir, og var það Rússlandi til óhamíngju; því að ef kristni hefði komið þángað vestan úr löndum þá hefðu Rússar orðið hluttakandi í þjóðmentun vesturlandanna. Eptir daga Vladimirs skiptist ríkið milli sona hans, og upp frá því voru þar flokkadrættir miklir í landi og barátta mikil með mönnum um ríkisstjórn. Á tólftu öld setti sá maður er *Dolgorúki* hèt ríki eitt á stofn í *Moskau*.

Þessi innanlands ófriður og sundrúng í allri ríkisstjórn á Rússlandi sást bezt þegar *Mongólar* komu til sögunnar á þrettándu öld og brutust híngað vestur í álfuna. Mongólar voru náfrændur Húna[1], og líkir þeim um flesta hluti. Heimkynni þeirra var austur í Miðasíu; þar höfðust þeir við í tjöldum, voru lengstum á hestbaki, jafnt konur sem kallar, höfðu sverð og spjót, kylfur og boga að vopnum. Allra manna voru þeir ljótastir og grimmastir, átu hunda og ketti, rottur og mýs, en um fram alt hrossakjöt, og var að þeim hinn mesti ófögnuður. Þó þektu

1) Sjá Fornaldarsöguna, bls. 238, 246—248.

þeir einn guð, en ákaflega var trú þeirra blandin. Þeir þóktust allra þjóða mestir, og kjörnir til þess að drotna yfir jörðunni. Einn af höfðíngjum þeirra hèt *Temúdschin;* hann gjörði alla Mongóla sèr undirgefna og setti þeim einskonar lög. Síðan tók hann sèr nýtt tignarnafn og nefndi sig *Dschingischan* (þ. e. konúngur konúnganna) og setti sèr það mark og mið, að leggja undir sig allar þjóðir. Eptir það hóf hann herferð sína og rèðst fyrst á Kínaveldi og lagði allan norðurhluta þess undir sig (1215) Þaðan hèldu Mongólar til vesturs og brutu undir sig *Hindóstan* og hið víðlenda *Chóvaresma-ríki* (er náði frá Indlandi norður og vestur að hinu Kaspneska hafi). Þar sem þessar ógurlegu hersveitir fóru yfir löndin, hvarf mannfólkið, því að Mongólar gjörðu annaðhvort að drepa það niður eður selja í þrældóm, borgir og bæir urðu að öskurústum og bygðir lögðust í kaldakol. Þegar Dschingischan var dáinn (1227) hèldu synir hans og sonasynir áfram hernaði af sama ákafa og hinni sömu grimd. Einn af þeim, er hèt *Batú*, lagði undir sig Rússland og brauzt einnig inn í Pólland og Úngverjaland. Við Liegniz-borg í Slesíu átti Hinrik hertogi hinn hugljúfi orustu við Mongóla (1241) og fèll þar og mestur hluti liðsmanna hans. Þýzkaland sá eigi annað fyrir en opinn dauða, því að Friðrik keisari annar átti þá í sem mestum óeirðum við Gregorius páfa 9. og gat eigi hjálpað, en það vildi Þjóðverjum þá til lífs, að Mongólar sneru þá aptur austur í Asíu, og lögðu þar ýms lönd og ríki undir sig. Þar gjörðu þeir enda á Kalífa-ríkinu (1258), lögðu *Bagdað* höfuðborg þess í eyði, og höfðust þar alt ílt að eins og annarstaðar.

Eptir allar þessar aðfarir komust 4 mongólsk ríki á stofn: *Kína* (þar mistu Mongólar yfirráð 1368), *Persía*, *Dschagatai* (Túrkestan) og *Kaptschak* (það náði yfir löndin milli Úral og Don). Undir hið síðast nefnda ríki lá Rússland. Stórfurstarnir í Rússlandi guldu þannig Mongólum skatt um 200 ár. Hið afar víðlenda ríki, sem Mongólar þannig höfðu lagt undir sig, náði því nær yfir alla Asíu, svo að ekki mátti kalla að annað væri óuunið af þeirri heimsálfu en Indland og Arabía; svo náði og ríki þeirra yfir hinn eystri hluta Európu.

Á ofanverðri fjórtándu öld hófst sá maður til valda í Dschagatai, er *Timúr* hèt, og alment er kallaður *Timúr lenk* (*Timúr halti*), en Norðurálfumenn hafa breytt nafni hans og kallað

*Tamerlan.* Hann var mjög líkur Dschingischan um marga hluti, allra manna grimmastur er sögur nefna og umsvifamestur, en sagt er það, að Tamerlan hafi verið hlyntur bókmentum Araba, og hlíft lærðum mönnum, einkum stjörnufræðíngum, lögvitríngum og læknum, og hlýðt á ræður þeirra. Hann brauzt til ríkis í Dschagatai (1370), en þar höfðu niðjar Dschingischans lengi ráðið ríkjum; þar gjörði hann borg þá, er *Samarkand* hèt, að höfuðborg og aðsetursstað sínum. Hann sat að ríkjum 35 ár og lagði á þeim tíma undir sig 26 konúngaríki, en það voru með öðrum orðum allar þjóðir austan frá *Kínverja-garði*[1] vestur að Miðjarðarhafi og norðan frá Moskau suður að Egyptalandi. Öll þau konúngaveldi, sem risið höfðu upp af rústum hins mikla ríkis, er Dschingischan forðum rèð fyrir, braut Tamerlan niður: »eins og guð er ekki nema einn, sagði hann, eins á ekki nema einn maður að drotna á jörðunni«. Um þessar mundir voru Tyrkir í miklum uppgángi, höfðu náð fótfestu í Európu, og *Bajazet 1.*, soldán þeirra, hafði þá nýunnið sigur á kristnum mönnum við Nikopolis í Búlgaríu (1396) og var setztur um Konstantínópel, höfuðborg Grikkja keisara. Bajazet var hinn mesti orustumaður og stóð öllum af honum hinn mesti geigur. Leituðu þá bæði ýmsir þjóðhöfðíngjar í Litluasíu, sem Bajazet hafði leikið hart, og sömuleiðis Grikkja keisari liðs hjá Tamerlan. Þeir Bajazet og hann höfðu gjört hvor á annars hluta, en aldrei fundizt. Einn af sonum Bajazets komst í hendur Tamerlan og var drepinn. Þá hèlt Bajazet öllu liði sínu á brott frá Konstantínópel og austur til móts við Tamerlan. Það er sagt að Bajazet hefði 400 þúsundir manna en Tamerlan 800 þúsundir. Varð fundur þeirra hjá *Ankýra* í Galatalandi á Litluasíu (1402). Þar fèkk Tamerlan sigur, en Bajazet varð höndum tekinn; var hann settur í járnbúr eitt og flutti Tamerlan hann með sèr austur í lönd; í þeirri prísund dó Bajazet ári síðar, en Tamerlan tveim vetrum þar á eptir, þá er hann bjóst til nýrrar herferðar móti

1) Kínverjar hlóðu grjótgarð einn mikinn, löngu fyrir Krists daga, á landamærum fyrir norðan ríki sitt, til varnar móti óvinum sínum úr þeirri átt. Garður þessi var um 300 mílur á lengd frá 9 til 12 álna á hæð, víða vígturnum settur og með járnhliðum til út- og inngöngu. Það var hið mesta mannvirki, en víða er hann nú fallinn.

Kínverjum. Einn af eptirkomendum Tamerlans setti ríki eitt mikið á stofn á Indlandi og stóð það um lánga hríð; *Delhi* hèt höfuðborg í því ríki. Eptir daga Tamerlans sundraðist ríki hans í ótal mörg smærri, og þær einar menjar, sem eptir hann liggja, eru ef til vill þær, að hann breiddi Múhameds-trú út um Asíu, miklu víðar en áður hafði verið.

Þegar ríki Mongóla í Kaptschak fór að hnigna, gat hinn rússneski stórfursti *Ivan Vasilieviz* hinn fyrsti (1462—1505) losað ríki sitt undan yfirráðum þeirra, og enda unnið nokkur lönd. Hann lagði einnig *Nóvgoroð* undir sig, er þá hafði um tíma ráðið sèr sjálf og átt blómlega verzlun við ýmsar þjóðir.

### Tyrkir. Unninn Mikligarður.

Á dögum krossferðanna höfðu *Seldschúkar* ráðið mestu í Litluasíu, en þegar Mongólar brutu þá á bak aptur komst los á ýmsa tyrkneska þjóðhöfðíngja í þeim löndum. Einn af þeim hèt *Ósmann*. Sveitúngar hans voru komnir austan úr löndum á dögum Dschíngischans, og hèr um bil 1300 árum e. Kr. setti Ósmann ríki eitt á stofn í *Byþiníu* (í Litluasíu) er hann tók frá Grikkjum. Við hann er síðan Tyrkja ríki einatt kènt og kallað Ósmanna-ríki. Yfirdrotnari Tyrkja er kallaður ýmist keisari, eða *Súltan*, og á vora túngu Soldán. Tyrkir voru herskáir menn, og höfðu lið vel skipað og vopnum búið — en aðalkjarninn í liði þeirra, voru *Janitskarar* (úngir skarar); það voru hertekin úngmenni af ýmsum þjóðum —. Tyrkir voru hinir áköfustu trúmenn, hötuðust við kristna menn og fyrirlitu þá; hið gríska keisaradæmi var á fallanda fæti; Norðurálfu þjóðir lágu í innbyrðis óeirðum, og voru afskiptalausar um hagi Grikkja. Alt þetta til samans studdi að því, að hefja ríki Ósmanna af lágum stofni og lítilli vegsemd til hins mesta stórveldis á Austurlöndum. Ósmann dó 1326 og kom þá *Orkan* sonur hans til ríkis (1326—1360). Hann lagði ýms hèröð undir sig í Litlu-Asíu; hèlt liði sínu vestur yfir sund til Európu og vann borg þá er *Gallipólí* hèt (1357). Þannig náðu Tyrkir fótfestu í Norðurálfu. Eptir hann kom til ríkis sonur hans *Amúrat fyrsti* (1360—1389); hann gjörði *Adríanópel* að aðsetursstað sínum, og vann mestalla Þrakíu, Makedoníu og Búlgaríu. Tyrkir brutust síðan norður yfir Balkanfjöll og fóru herskildi yfir Servíu

og Búlgaríu. Konúngurinn í Servíu snèrist móti Tyrkjum og átti orustu mikla við þá hjá *Kossova* (1389), en beið ósigur, og hið slafneska ríki í Servíu leið undir lok; að vísu fèll Amúrat í orustu þessari, en *Bajazet fyrsti,* sonur hans (1389—1402), sem þá kom til ríkis, varð miklu háskalegri óvinur kristinna manna en faðir hans hafði verið. Bajazet var hinn mesti hermaður; hann átti það kenníngarnafn, að hann var kallaður *Ílderim* þ. e. eldíng; stóð af honum hinn mesti ótti hèr vestur í álfunni. Þá var Sigismundur konúngur Úngverja, en síðan varð hann keisari á Þýzkalandi. Hann fèkk kristna menn vestur í löndum til liðs við sig móti Tyrkjum. Í Ófen á Úngverjalandi kom þannig saman allmikið lið af Frakklandi, Búrgund, Þýzkalandi og Úngverjalandi, og hèlt Sigismundur liði þessu til móts við Bajazet. Það er sagt, að liðsmenn þessir, einkum hinir frakknesku riddarar, hafi verið hinir mestu oflátar, og látið sèr þau orð um munn fara, að þó himininn hryndi niður skyldu þeir halda honum uppi á spjótsoddum sínum. En hèr sannaðist hið fornkveðna: að ofmetnaðurinn hefir mörgum steypt. Við *Nikópolis* í Búlgaríu varð fundur þeirra Bajazets (1396). Geystust hinir frakknesku riddarar fram þegar í öndverðri orustu og gjörðu mikið mannspell í liði Tyrkja, en er Bajazet sá, að riddarar tóku að mæðast, lèt hann hinar eptri fylkingar sínar, er þá voru óþreyttar, gjöra harða atlögu að kristnum mönnum; fengu þeir þá eigi rönd við reist en snèrust á flótta; varð þá hið mesta mannfall og margar þúsundir urðu höndum teknar; lèt Bajazet síðan drepa flesta þeirra. Sigismundur konúngur flýði undan og fèkk komizt í bát einn út á Dóná og farið niður eptir henni og út i skip Venezíu manna á Svartahafi, og varð honum það til lífs. Bajazet hèlt nú eigi lengra vestur og norður en komið var, enda var hann þjáður mjög af iktsýki um þær mundir, snèri því suður á leið aptur og hafði í huga að taka Konstantínópel. En þá kom Tamerlan til sögunnar, og er áður sagt frá viðskiptum þeirra Bajazets. Eptir lát Bajazets deildu synir hans um ríkisstjórn sín í millum, og stóðu þær deilur um nokkur ár. Mongólar hirtu eigi um riki Bajazets og hèldu aptur austur í lönd. *Múhameð 1.*, er var yngstur af sonum Bajazets, kom loks til ríkis 1413 og stýrði því til 1421. Honum fylgdi í ríkisstjórn *Amúrat 2.*, sonur hans (1421—1451). Hann hèlt

hernaði fram móti kristnum mönnum, en *Jóhannes Húnyades,* sem fyr er nefndur, tók svo hreystilega í móti, að Amúrat gjörði vopnahlè við Úngverja, er standa skyldi um 10 ára tíma. Eptir það lagði Amúrat niður ríkisstjórn, fór til Asíu og ætlaði sèr að lifa þar í næði en setti *Múhameð* son sinn, 14 vetra gamlan, fyrir ríkið. Þessu færi vildu kristnir menn sæta, og legáti páfans taldi mönnum trú um, að þeir væri eigi skyldir til að efna orð nè eiða við Tyrki. Ládislás 5., konúngur Póllendínga og Úngverja, safnaði því næst liði og hèlt suður yfir Dóná. Þetta frètti Amúrat og bregður þegar við, fær skip hjá Genúamönnum og flytur her sinn vestur á Európu. Fundur þeirra varð hjá *Varna* (1444), og fèkk Amúrat sigur en Ládislás konúngur fèll. Eptir lát Amúrats kom sonur hans *Múhameð annar* til ríkis (1451—1481). Hann var hinn mesti afreksmaður, en ákaflega grimmur og drotnunargjarn. Hann einsetti sèr að vinna Konstantínópel (Miklagarð), höfuðborg hins gríska keisaradæmis, enda var það ríki alt komið í hendur Tyrkja, þegar sú borg var unnin, því að þeir höfðu smásaman unnið öll lönd undan Grikkja keisara. Um þessar mundir var *Konstantín* hinn ellefti (Palæologus) keisari í Miklagarði, hugprúður maður, og betri sagður mörgum, er þar höfðu keisarar verið á undan honum. Múhameð byrjaði ofríki sitt við keisarann á því, að reisa vígi allnærri Konstantínópel, til þess að geta bannað skipaferðir um sundið út og inn til Svartahafsins, og til þess að geta flutt þar herlið sitt yfir handan af Asíu. Þegar yfir þessu var kvartað sagði Múhameð keisaranum stríð á hendur. Það var um haustið 1452. Konstantín keisari bjóst til varnar og einsetti sèr að falla heldur með drengskap, en gefast upp að óreyndu fyrir Tyrkjum. Keisarinn hafði lítið lið. Hann sendi því vestur í lönd og beiddist liðs af kristnum mönnum, en allir daufheyrðust við bænum hans. Um þær mundir sat Nikulás páfi hinn 5. í postullegu sæti; hann sendi legáta sinn til Konstantínópel til þess á nýjan leik að freista, hvort eigi væri vegur til að sameina hina grísk-katólsku kirkju þar eystra við hina rómversk-katólsku á Ítalíu og vestur í löndum. En þess var enginn kostur. Klerkar og heldri menn í Konstantínópel vildu heldur þola högg og dauða af Tyrkjum, en komast í andlegt samneyti við páfatrúarmenn, og fá liðveizlu þaðan; og auðmennirnir í Konstantínópel tímdu

eigi að leggja fè í sölurnar til þess að keisarinn gæti með því móti fengið málalið borg sinni til varnar. Þegar þannig var alt í garðinn búið, var eigi við öðru að búast en, að svo mundi fara sem fór. Snemma um vorið 1453 settist Múhameð um borgina; hann hafði óvígan her, yfir 250 þúsundir manns, en Konstantín keisari ekki nema tæpar 7 þúsundir vígra manna til varnar. Genúaborg hafði sent keisaranum fyrirliða þann, er *Jústíníani* hèt, ágætan mann bæði að vitsmunum og hreysti; hann stýrði vörn allri af hendi borgarmanna, og gekk svo lengi, að Tyrkir fengu eigi náð borginni þó virki og borgarveggir væri miklu miður en skyldi. Múhameð sá að hann mundi seint fá unnið borgina nema hann gæti komizt inn á höfn þá, er borgin stendur við, og sókt hana bæði á sjó og landi, en Grikkir höfðu lagt járnrekendur um þvera höfnina utanverða, og varð því eigi þann veg komizt. Múhameð tók þá það ráðs, að hann lèt draga skip sín mílu vegar norður yfir eiðið milli Galata og Konstantínópel og koma þeim þannig inn á höfnina. Eptir það varð Grikkjum alt erfiðara umfángs og þar kom, að Múhameð tók borgina í ógurlegu áhlaupi hinn 29. dag maí-mán. 1453. Keisarinn fèll og tvær þúsundir manna af hans liði, en hitt, sem af komst, handtóku Tyrkir og seldu mansali alla þá, er eigi gátu leyst sig út móti ærnu verði. Múhameð leyfði mönnum sínum að ræna borgina 3 daga, en hús lèt hann engin brjóta eður spilla, því að hann vildi gjöra Konstantínópel að höfuðstað í ríki sínu; enda hefir Tyrkjakeisari setið þar síðan. Eptir það lagði Múhameð undir sig Pelopsey og Litluasíu til fuls og als, tók Negrópont frá Venezíumönnum og Kaffa frá Genúamönnum. Það var einúngis Úngverjaland, meðan Húnýades var uppi († 1456) og Epírus, sem hin mikla hetja *Georg Kastrióta*, öðru nafni *Iskanderbeg* († 1466), varði, er um tíma gátu staðizt móti ofurefli Tyrkja. Páfarnir, bæði Nikulás 5. og eptirmaður hans Kalixtus 3., gjörðu hvað í þeirra valdi stóð, til þess að eggja menn til herferðar móti Tyrkjum, en gátu mjög litlu til leiðar komið í því efni. Múhameð fyltist hefndar hug og hèt því, að vinna Rómaborg og eyða kristinni trú; í þeim erindum hèldu Tyrkir flota miklum til Ítalíu og tóku þar borg þá, er *Ótrantó* hèt (1480); en árið eptir dó Múhameð, varð þá nokkurt hlè á yfirgáugi Tyrkja; þeir mistu aptur fótfestu á Ítalíu, og kristnum mönnum

varð hughægra um stundarskir. *Bajazet annar* sonur Múhameðs, er til ríkis kom eptir hann (1481—1512), var friðsamur maður; hann var rekinn frá ríkjum af syni sínum og eptirmanni *Selim fyrsta* (1512—1520), er bæði var hernaðargjarn og grimmur. Hann vann Sýrland og ýms lönd austur við Eufrat undan Persum; hann vann og Egyptaland, og höfðu Mamelúkar ráðið þar ríkjum síðan á dögum hinnar sjöttu krossferðar. Síðan Mongólar unnu *Bagdað* (1258) höfðu Múhameðs-trúar menn, engan Kalífa yfir sèr haft, en frá dögum Selíms viðurkendi sá flokkur Múhameðs-manua, er Súnnítar hètu, Súltan Ósmanna sem rèttkjörinn Kalíf yfir sèr, og hinar helgu borgir Mekka og Medína í Arabíu hafa síðan verið undir hans verndarhendi.

Ríki Tyrkja var, eins og öll önnur riki í Austurálfu, bygt á hinni römmustu harðstjórn. Í viðskiptum sínum við Grikki, sem þeir nú höfðu undirokað, beittu þeir bæði drambi og fyrirlitníngu; en Grikkir guldu þeim hatur í móti, og gekk svo frá einni kynslóð til annarar. Hin gríska kirkja komst betur af en vænta mátti af Tyrkjum, og laut boðum og banni *patríarkans* í Konstantínópel; álit hinna grísku klerka hèlzt við líði með því, að þjóð þeirra leitaði hjá þeim tilsagnar og athvarfs í raunum sínum. Sá hinn mikli mismunur á trúarbrögðum Tyrkja og Grikkja olli því, að þessar tvær þjóðir blönduðust lítið saman hvor við aðra, og hið gríska þjóðerni hèlt sèr fyrir þá skuld miklu lengur og betur en ella mundi raun á orðin, og stóð svo til þess er frelsisdagur Grikkja rann aptur upp eptir 400 ára undirokun.

## Norðurlönd.

Norvegur. Svíþjóð. Danmörk.

*Norvegur.* Þegar Haraldur konúngur Sigurðarson var fallinn á Englandi (1066), eins og fyr er ritað, urðu þeir synir hans, *Magnús* og *Ólafur*, konúngar yfir Norvegi og skiptu landi með sèr. Magnús lifði skamma stund eptir það og andaðist í Niðarósi 1069. Var Ólafur síðan einn konúngur yfir Norðmönnum til dauðadags. Hann var friðsamur alla stund meðan ríki hans stóð, og því var hann kallaður *Ólafur kyrri.* Hann var hinn nýtasti konúngur; hann lèt setja kaupstaði að upphafi t. a. m. Björgvin, eður auka þá, sem áður voru settir t. a. m. Stafángur,

Konúngahellu; verzlun jókst og landsfólkið auðgaðist. Það var því með sanni, er hann sagði: »á dögum föður míns fálu menn gull sitt og gersimar, en nú sè eg á hverjum yðar skína það er hann á«. Hann lèt fjölga kirkjum og klaustrum, setti biskupa og klerka víða um land, breytti og bætti húsagjörð og húsaskipun í konúngsgarði. Þá komu fyrst upp í Norvegi steingólf og ofnar í húsum manna, og gluggar niðri á veggjum, er áður voruá þökum uppi. Ólafur konúngur varð sóttdauður 1093, hafði Norvegur mikið auðgazt og prýðzt undir hans ríki.

*Magnús* sonur hans var þá til konúngs tekinn (1093—1103). Hann var hinn ókyrrasti um sína daga. Þó var þá allgóður friður innanlands, en á útlenda herjaði hann meðan hann tilvanst, bæði vestur um haf og austur á Svíþjóð. Hann lagði undir sig bæði Orkneyjar og Suðureyjar, er að vísu áður lutu Norvegi, en þegar hèr var komið rèðu Skotakonúngar þar mestu. Því næst ófriðaðist með þeim Magnúsi konúngi og *Ínga Steinkelssyni* Svíakonúngi út af landamerkjum milli ríkjanna. Þar vann Magnús eigi á, og sættust þeir konúngarnir, og gipti Ingi konúngur honum dóttur sína þá er Margrèt hèt. Hún var síðan kölluð *Friðkolla.* Eptir það bauð Magnús konúngur út leiðángri miklum, og hèlt þeim her vestur til Írlands og lagði mikið af því landi undir sig, en fèll þar í orustu einni, þrítugur að aldri (1103). Hann var kallaður *berbeinn,* af því að hann hafði klæðabúnað sem Skotar, en þeir gengu berleggjaðir og höfðu stutta kyrtla og yfirhafnir. Magnús konúngur var líkari í lund Haraldi afa sínum hinum harðráða en Ólafi konúngi föður sínum. Hann auðkendi sig mjög í orustum, og sögðu vinir hans að hann færi óvarlega. Magnús konúngur svaraði: »til frægðar skal konúng hafa meir en til lánglífis«.

Eptir fall Magnúsar konúngs tóku synir hans konúngdóm í Norvegi: *Eysteinn, Sigurður* og *Ólafur.* Þá voru krossferðir byrjaðar; fór Sigurður krossferð út til Jórsalalands og var utan á fjórða vetur og varð víðfrægur af; hann var síðan kallaður *Jórsalafari.* Eysteinn konúngur hafði landráð á meðan af beggja hendi, og var bæði vitur og mildur, og hinn mesti nytsemdar maður í ríki sínu. Hann lèt reisa kirkjur, klaustur og konúngsgarða, setja vörður og sæluhús á fjöllum uppi, gjöra hafnir þar sem áður var hafnleysi; hann vann Jamtaland undir Norveg

Noregskonúngar frá Magnúsi berbein til Hákonar háleggs (1103—1319).

Magnús berbeinn † 1103.

Eysteinn, † 1122. — Sigurður Jórsalafari, † 1130. — Olafur, † 1116. — Haraldur Gilli, † 1136. — Sigurður Slembi-djákn, † 1139.

Kristín, ∽ Erlíngur Skakki. — Magnús blindi. † 1139. — Ingi kryplingur, † 1161. — Sigurður munnur, † 1155. — Eysteinn, † 1157.

Magnús Erlíngsson, † 1184. — Hákon herðibreiður, † 1162. — Sverrir, † 1202. — Cecilía, ∽ 1. Fólkviður. 2. Bárður Guttormss. á Reini*.

Sigurður lávarður, † 1200. — Hákon Sverrisson, † 1204. — 1. Hákon Fólkviðsson galinn, † 1215. — 2. Ingi Bárðarson, † 1217.

Guttormur, † 1204. — Hákon Hákonarson *gamli*, † 1263.

Hákon *úngi*, † 1257. — Magnús lagabætir † 1280.

Eiríkur Magnússon, † 1299. — Hákon (5.) Magnússon (háleggur) † 1319.

*) Bárður fèkk síðan Ragnfríðar dóttur Erlíngs á Kviðnu, þeirra son Skúli hertogi † 1240.

«með viti en eigi áhlaupum», og bætti lögin í mörgum greinum. Ólafur dó fyrstur þeirra bræðra og var þá 18 vetra; sex árum síðar dó Eysteinn (1122). Eptir það var Sigurður Jórsalafari einn konúngur að öllum Norvegi meðan hann lifði. Á hinum síðustu árum æfi sinnar var hann vanstiltur mjög í skapi og stundum vitskertur með öllu. Hann andaðist 1130. Ofarlega á æfi Sigurðar konúngs kom sá maður til Norvegs vestan af Írlandi, er *Haraldur* hèt og var nefndur *Gilli*, eða *Gillikristur*. Hann kvaðst vera sonur Magnúsar konúngs berbeins, og beiddi að hann næði að sanna faðerni sitt. Var það leyft, og sannaði Haraldur faðerni sitt með því að gánga berum fótum eptir glóandi járnum, og brenna eigi. Slíkt voru þá lög, og átti sá, er sanna vildi sök sína, annaðhvort að bera glóandi járn (járnburður) eða gánga berum fótum eptir því. Væri þá hendur eða fætur óbrunnið að nokkrum dögum liðnum, eptir að skírslan var reynd, þá var sökin sönnuð. Klerkar stýrðu skírslum þessum, og segja menn, að það hafi mest verið undir þeim komið hver afdrifin urðu. Sigurður konúngur tók vel við frændsemi Haraldar, en Haraldur vann eið að því, að beiðast eigi konúngdóms í Norvegi meðan Sigurður eða Magnús sonur hans væri á lífi.

Þegar Sigurður konúngur var dáinn, hófst hinn mikli innanlands ófriður í Norvegi er stóð um 110 ár (1130—1240). Voru það hinir mörgu konúnga synir, er þá börðust um ríkið, því að þá rèðu önnur lög konúngserfðum en síðar varð. Þá var hver konúngsson borinn til ríkis, hvort hann var skilgetinn eður óskilgetinn, ýngri bróðir eða eldri. Svo gáfu sig og ýmsir fram er kváðust vera konúngasynir, og urðu þannig margir til að deila um einn hlut. Fyrst framan af voru það einkum handgengnir menn konúnganna og nokkrir höfðíngjar með flokkum sínum, er tóku þátt í styrjöldum þessara konúngbornu manna, en alþýða var að mestu laus við ófriðinn, en seinna, frá ofanverðri 12. öld, þegar Sverrir kom til sögunnar, þá gekk allur landslýður í sveitir og varð hluttakandi í ófriðnum.

Haraldur Gilli efndi illa orð sín og eiða, tók sèr þegar konúngsnafn, og Magnús Sigurðsson sá sèr eigi annað fært en skipta ríki við Harald. Skjótt óvíngaðist með þeim konúngunum og svo lauk, að Magnús konúngur varð handtekinn og blindað-

ur (1135); gjörðist hann síðan múnkur og gaf sig í Niðarhólms klaustur. Ári síðar en þessi tíðindi gjörðust, er nú voru sögð, kom sá maður til Norvegs, er *Sigurður* hèt og var kallaður *Slembidjákn;* hann kvaðst og vera sonur Magnúsar konúngs berbeins. Haraldur vildi láta myrða Sigurð, en hann gat forðað sèr, og litlu síðar var Haraldur Gilli myrtur af völdum Sigurðar (1136). Landsfólkið vildi eigi veita hlýðni og þjónustu þeim manni, er myrt hafði bróður sinn, og voru þeir synir Haralds Gilla, *Sigurður (munnur)* og *Íngi (kryplíngur)* til konúnga teknir, og voru þá báðir börn að aldri. Sigurður Slembidjákn gjörði síðan óspektir miklar í Norvegi og reyndi á ýmsa vegu að brjótast þar til ríkis, en loksins varð hann handtekinn í orustu við þá bræður Haraldssonu (1139) við *hólminn Grá* (skamt frá Dynökil í Svíþjóð) og drepinn. Árið 1142 kom *Eysteinn Haraldsson,* bróðir þeirra Sigurðar og Ínga, vestan frá Skotlandi, var hann einnig til konúngs tekinn og fèkk hann þriðjúng Norvegs við bræður sína. Nú er frá leið gjörðist margt með þeim bræðrum, er til sundurþykkis var, vildu þeir Eysteinn og Sigurður að Íngi bróðir þeirra lèti af ríkisstjórn, því að þeim þókti hann eigi hafa heilsu til að vera konúngur, enda var hann allur bogínn og bæklaður. En *Gregoríus Dagsson,* hinn mesti skörúngur, gjörðist þá forstjóri fyrir landráðum með Ínga konúngi og styrktarmaður hans svo mikill, að Sigurður fèll 1155, og Eysteinn tveim vetrum síðar (1157). Því næst var *Hákon herðibreiður,* sonur Sigurðar munns til konúngs tekinn yfir flokk þann, er fylgt hafði þeim bræðrum, föður hans og Eysteini, og liði safnað móti Ínga konúngi. Meðan Gregoríus var heill á húfi sakaði konúng eigi, en þess var eigi lengi að bíða áður Gregoríus fèlli (1161) og litlu síðar Íngi konúngur á því sama ári.

Á dögum þeirra Haraldssona kom *Nikulás* kardínáli, (er síðar varð páfi og nefndist Hadrían 4.) til Norvegs og var þá að hans ráði settur *erkibiskupsstóll* í Niðarósi, og vígði kardínálinn til þess embættis *Jón* biskup *Birgisson* af Stafángri (1152); áður hafði hin norska kirkja lotið erkibiskupinum í Lundi um hálfa öld. Erkistólnum í Niðarósi lutu 10 lýðbiskupar (þar á meðal á Íslandi, Grænlandi, Orkneyjum og Færeyjum). Þá var og tekinn af vopnaburður í kaupstöðum í Norvegi, og tíundargjald algjörlega leitt í lög.

Hákon herðibreiður rèð skamma stund fyrir Norvegi, því að ári síðar en Íngi konúngur fèll barðist Hákon við *Erlíng Ormsson skakka*, beið ósigur og misti lífið, var Hákon þá 15 vetra gamall, er hann fèll (1162). Erlíngur var dótturmaður Sigurðar konúngs Jórsalafara, var vitur maður og harðráður, orustumaður mikill. Hann átti son þann, er *Magnús* hèt, og var hann þá í bernsku. Þó var Magnús til konúngs tekinn yfir land alt, en Erlíngur faðir hans hafði forsjá með honum og ríkinu. Erlíngur hafði áður farið til Danmerkur og fengið loforð fyrir liðveizlu hjá Valdimar konúngi Knútssyni (mikla); skyldi Danakonúngur styrkja Magnús til ríkis, en hafa í móti Víkina í Norvegi. Þegar Magnús var orðinn konúngur var þetta að vísu efnt, sem faðir hans hafði lofað, en þó hafði Magnús Víkina að lèni af Danakonúngi. Magnús var ekki konúngsson og þess vegna eigi lögborinn til ríkis í Norvegi, en Erlíngur faðir hans vildi bæta úr því, og lýsti yfir því, að Norvegur væri eign hins heilaga Ólafs; þannig kom Erlíngur sèr í vináttu við *Eystein* erkibiskup, hinn voldugasta mann, og allan klerkalýðinn; vígði erkibiskup síðan Magnús Erlíngsson konúngsvígslu, og var sú krýníng fyrst í Norvegi (1164). Ýmsir menn höfðu hafið flokka móti þeim Erlíngi, en eytt hafði hann þeim öllum, þá er *Birkibeinar* komu til sögunnar, en svo voru þeir kallaðir af því, að þeir voru stundum klæðlitlir, er þeir lágu úti á mörkum, og »spentu þeir þá næfrum að fótleggjum sèr«. Birkibeinar höfðu mest í flokki sínum Markamenn eður Elfargríma[1], og margt manna höfðu þeir af Þelamörk; mjög var flokkur þeirra harðsnúinn. *Eysteinn meyla* hèt foríngi þeirra hin fyrstu árin; hann kvaðst vera sonur Eysteins konúngs Haraldssonar, var til konúngs tekinn í Niðarósi, en fèll í orustu móti Magnúsi konúngi á Re skamt frá Túnsbergi (1177); tvístraðist þá flokkur Bírkibeina.

Nú verður að nefna þann mann til sögunnar, er *Sverrir* hèt. Um ætt hans og uppruna er mönnum eigi fullkunnugt. En það er sagt, að hann væri borinn á Færeyjum (1151), og að fóstri hjá Hróa biskupi þar í eyjunum, er setti hann til bókar og vígði hann til prests. En síðar kom það upp, að hann væri sonur Sigurðar konúngs munns, og því trúði Sverrir og

1) Elfargrímar kölluðust þeir sem bjuggu við Gautelfi.

eirði þá eigi lengur á Færeyjum og hèlt til Noregs að vitja arfs síns. Hann var staddur austur á Vermalandi þegar Eysteinn meyla fèll, drífu þá til Sverris Birkibeinar þeir er af komust í bardaganum á Re, og skoruðu fast á hann að gjörast höfðíngi fyrir liði þeirra. Var Sverrir lengi tregur og taldi á því öll tormerki, enda voru Birkibeinar þá alt annað en líklegir til framkvæmda, því að margir þeirra voru sárir og klæðlitlir og nálega allir vopnlausir. Þó kom þar, að hann tók við Birkibeinum, og var þá allur hans her sjötígir manna. Með þessu fámenni tókst Sverrir á hendur hið mikla þrekvirki, að leggja undir sig endilángan Norveg milli fjalls og fjöru. Hóf hann þá ferð sína af Vermalandi og norður eptir landi fyrir austan Kjöl, optast um óbygðir yfir lítt færar ár og vötn, mýraflöð og óruddar merkur, hitti þó stundum menn á þeirri leið, en þeir voru heiðnir og íllir og kunnu enga mannasiðu; »var það mikil nauð að flytjast milli svo heimskra þjóða«. Þaðan fóru Birkibeinar vestur yfir Kjöl til Þrándheims, vann Sverrir þar sigur og fèkk tekið Niðarós og var því næst til konúngs tekinn á Eiraþíngi og svarið land og þegnar. Nú bættist Sverri að vísu nokkuð lið, en þó mátti heita að enn væri lítið aðgjört og ekki til setunnar boðið. Erlíngur og Magnús höfðu alt stórmenni landsins með sèr, drógu saman ógrynni liðs og stefndu því til Niðaróss, varð Sverrir konúngur þaðan að flýja, og hraktist þannig milli bygða, úr einni sveit í aðra, og gekk svo um tveggja ára tíma; urðu Birkibeinar þá að þola alskonar þrautir og mannraunir, eins og gefur að skilja, og ekkert gat þá haldið þeim upprèttum nema vitrleiki Sverris og þreklyndi. Loks þóktist Sverrir hafa liðsafla til að mæta þeim Magnúsi konúngi og Erlíngi jarli föður hans. Varð fundur þeirra hjá Niðarósi þar sem heitir á Kálfskinnsakri (1179). Þar fèll Erlíngur jarl. Upp frá því gjörðist vegur Sverris greiðari, og játuðu allir hans konúngstign nema Magnús Erlingsson og hans flokkur. Ári síðar (1180) börðust þeir aptur Magnús og Sverrir á Íluvöllum við Niðarós, fèkk Sverrir sigur, en Magnús fór af landi burt með flokk sinn — voru þeir nefndir Heklúngar — og suður til Danmerkur á fund Valdimars konúngs. Á næsta ári kom Magnús aptur að sunnan, hittust þeir Sverrir þá við Norðnes hjá Björgvin; voru hvorirtveggja á skipum, og var Magnús liðfleiri. Sverrir konúngur

talaði fyrir liði sínu, sem hann var vanur, áður orustan tókst, og eggjaði það til framgöngu. Menn hans svöruðu: »mæl þú allra konúnga heilastur, það hefir oss aldrei logizt, er þú hefir sagt og sigrinum heitið«. Þar varð hörð orusta og fèkk Sverrir sigur (1181). Eptir það áttust þeir við konúngarnir ýms viðskipti, þángað til hin síðasta orusta varð með þeim á Fimreiti í Sogni. Það var og sjóorusta; þar fèll Magnús konúngur Erlíngsson (1184) og margir lendir menn og göfugir með honum. Magnús konúngur var vinsæll af landsfólkinu, enda var því kært alt afkvæmi Sigurðar Jórsalafara, en höfuðust við ætt Haralds gilla, og kváðu þá hina verstu sending komið hafa í land, er hann kom í Norveg. Því sagði Sverrir konúngur meðal annars, þá er hann talaði til lýðsins í Björgvin litlu síðar en Magnús Erlíngsson var fallinn: »Þetta mæla sumir: sigursæll er Sverrir, vitur er Sverrir; þá er svarað: hvað er það kynlegt; mikið hefir hann til unnið, gefizt fjandanum — »það mælir og barnið, er það gengur út og hefir stein í hendi, og drepur niður á grjótið: hèr skyldi höfuð Sverris undir vera; slíkt kennið þèr yðrum börnuum«. Eptir þessi tíðindi fèkk Sverrir konúngur allan Norveg. Launaði hann þá vel sínum mönnum, gaf þeim nafnbætur og sýslur og göfug kvonföng, og voru þeir honum öruggir jafnan síðan. Þá gipti hann *Cecilíu* systur sína *Bárði Guttormssyni* á Reini, og sjálfur fèkk hann *Margrètar* dóttur Eiríks (9.) Svíakonúngs hins helga. Litla stund mátti Sverrir konúngur í friði sitja áður flokkar hófust þar í landi móti honum, fyrst *Kuflúngar,* þá *Varbelgir,* þá *Eyjarskeggjar* (eða Gullbeinar). Öllum þessum flokkum eyddi Sverrir konúngur. Um þær mundir gjörðust margar greinir með Sverri konúngi og klerkalýðnum. Eysteinn erkibiskup var andaður og í hans stað kominn *Eiríkur* af Stafángri. Þeim Sverri og Eiríki samdi ekki, og varð erkibiskup að fara af landi burt, en fèkk því áorkað við páfann, að Sverrir konúngur var bannfærður; eigi lèt Sverrir það á sèr festa og þröngvaði biskupum til að krýna sig í Björgvin (1194). Þegar Sverrir hafði verið einn konúngur yfir Noregi 12 ár, efldi *Níkulás* biskup *Árnason* af Osló, hinn versti maður[1], flokk á móti Sverri. Sá flokkur var kallaður *Baglar;* hinn fyrsti konúngur

1) Hann er túngumjúkur maður, hefir hèrahjarta en ótrygð sem refur, sagði Sverir konúngur. Sverr. sag. kap. 133.

þeirra hèt *Íngi,* og sögðu Baglar hann vera son Magnúsar konúngs Erlíngssonar, en höfuðmaðurinn var þó reyndar Nikulás biskup. Við Bagla átti Sverrir konúngur megnan ófrið hin síðustu sex ár æfi sinnar, og komst þá opt í kröggur, þó veitti Sverri einatt betur. Litlu fyrir andlát sitt lýsti Sverrir konúngur yfir því, að hann ætti engan son á lífi nema Hákon einn, til þess að afstýra því, að aðrir kæmi síðar upp, er segðist vera hans synir og vildi fyrir því gjöra ófrið í landi. Hann gaf og Hákoni syni sínum það viturlega ráð, að sættast við biskupa; enda var það engum fært nema Sverri konúngi einum, að stýra Norvegi og vera í missætti við klerkalýðinn. Sverrir konúngur andaðist 1202.

Þá var til konúngs tekinn norður á Eyraþíngi í þrándheimi, *Hákon* sonur Sverris konúngs; hugðu menn mjög gott til hans ríkisstjórnar, en hann andaðist að tæpum 2 árum liðnum (1204), og var það ætlun manna, að Margrèt drotníng stjúpa hans »hefði ráðið mann til að svíkja konúnginn í drykk«. Þá tóku Birkibeinar til konúngs *Guttorm* son Sigurðar lávarðar Sverrissonar konúngs. Guttormur var barn að aldri, og andaðist á því sama ári (1204), að líkindum af eitri sem Hákon föðurbróðir hans. Eptir Guttorm var *Íngi Bárðarson* til konúngs tekinn; hann var systurson Sverris konúngs og þá á æskuskeiði, og fyrir því var hálfbróðir hans, *Hákon galinn,* settur honum til aðstoðar í ríkisstjórninni og til höfðíngja fyrir liðinu. Baglar mistu um þessar mundir Ínga Magnússon konúng sinn, og tóku þá til konúngs yfir sig mann þann, er hèt *Erlíngur Steinveggur,* og stóð ófriður sem mestur um öll þau ár milli Birkibeina og Bagla. Þegar Erlíngur Steinveggur dó, kom Nikulás biskup því til leiðar, að Baglar tóku *Filippus* jarl, systurson biskups, til konúngs yfir sig; en Filippus gjörði litlu síðar sætt við Ínga konúng Bárðarson (1208) þannig, að Filippus lagði niður konúngsnafn og gjörðist jarl Ínga, fèkk land að lèni og gekk að eiga Kristínu dóttur Sverris konúngs. Hákon jarl galinn vildi síðan gjörast konúngur, en fèkk því eigi fram komið, og gjörðu þeir Íngi konúngur þá sætt milli sín, að sá þeirra, er lengur lifði, skyldi eptir hinn taka ríkið. Litlu síðar dó Hákon jarl, og eptir það rèð *Skúli Bárðarson,* ýngri hálfbróðir Inga konúngs, mestu hjá honum; gaf Ingi honum jarls nafn, en Skúli eirði því ekki, því að hann

var ákaflega drotnunargjarn og vildi konúngur verða þegar Íngi dó (1217). En *Hákon* sonur Hákonar konúngs Sverrissonar, (að vísu óskilgetinn og fæddur eptir lát föður síns), þókti nærkomnastur konúngdóminum, og rèðu Birkibeinar því, að *Hákon Hákonarson*, þótt þá væri úngur, var til konúngs tekinn. Skúli varð jarl hans og hafði þriðjúng ríkisins til forráða. Um þessar mundir dó Filippus Bagla konúngur; voru þá sett grið milli Birkibeina og Bagla, og síðan varð af fullur friður, og Baglar veittust að með Birkibeinum að eyða flokki þeim, er *Slittúngar* hètu. Litlu síðar vann Hákon konúngur sigur á öðrum flokki, er *Ribbúngar* hètu. En hinn skæðasta ófrið átti Hákon konúngur við Skúla jarl Bárðarson. Skúli vildi eigi sleppa tilkalli sínu til konúngstignar, þrátt fyrir það þó að allir helztu menn ríkisins á höfðíngjafundinum í Björgvin (1223) hefði lýst yfir því, að Hákon konúngur væri rèttilega að konúngdóminum kominn, og þó að konúngur hefði gengið að eiga Margrètu dóttur Skúla og gefið honum *hertoga* nafn. Samt sem áður lèt Skúli gefa sèr konúngs nafn á Eyraþíngi, safnaði liði að sèr og kallaði flokk einn *Varbelgi* og stefndi þeim þegar móti konúngi; veitti Skúla með fyrsta betur, en eptir ósigurinn við Osló varð Skúli að flýja norður til Niðaróss og þar fèll hann fyrir Birkibeinum (1240). Með falli Skúla hertoga var lokið þeim hinum mikla innanlands ófriði í Noregi, er hófst með dauða Sigurðar konúngs Jórsalafara.

Hákon konúngur hafði lengi haft hugfast að láta vígja sig undir kórónu, til þess að efla og tryggja konúngdóm sinn og eptirmanna sinna, en alt til þessa hafði það áform hans farizt fyrir. Þegar hèr var komið og friður fenginn í landi fór konúngur þess á leit við erkibiskup og biskupa, að þeir fengi orlof páfans að krýna hann. Þeir lètust vera fúsir til þess, ef konúngur gæfi þeim rèttarbætur, og vildi sverja hinn sama eið, sem Magnús Erlíngsson hafði svarið, þá er hann var kórónaður. Hákon konúngur svaraði þeim, að þeir hefði fengið svo margar rèttarbætur að vart yrði þar við aukið, og þó hefði þær nýtt þær framar en gefnar hefði verið; »en ef vèr, segir Hákon, sverjum slíkan eið, sem Magnús konúngur sór, þá virðist svo, sem mínkaðist vor sæmd í því heldur en yxi, því að hann hirti ekki hvað hann vann til, ef hann fengi það, er hann var eigi til kominn; en með guðs miskun þá þykist eg eigi þurfa af yður að

þyggja eða kaupa það, er guð hefir oss rèttilega til kosið eptir vorn föður og foreldri, og án allra afarkosta vil eg kórónu síðan mega frjálslega bera, eða ella skal hún aldrei á vort höfuð koma«. Nokkru síðar sendi konúngur menn til páfans (Innocentiusar IV.) í þeim erindum. Sendi páfinn þá *Vilhjálm* kardínála af Sabína, hinn merkasta mann, til Norvegs, og krýndi hann Hákon konúng í Björgvin á Ólafsmessu (29. júlí) 1247. Hákon konúngur stýrði ríki sínu með hinum mesta skörúngsskap, og var hinu mesti framkvæmdarmaður og hinn mildasti í stjórn sinni; hann vsr stórvitur eins og Sverrir konúngur föðurfaðir hans, málsnjall og vel mentaður, og í öllum greinum einhver hinn merkilegasti af Norvegs konúngum; enda var Noregsveldi í miklum hávegum haft um hans daga. Landslögin voru endurbætt, kirkjur reistar og konúngsgarðar, stórhýsi gjörð og ýmsar stórsmíðar; þá voru bygðar Másstrandir (nú Marstrand), og margar aðrar eyðieyjar í Víkinni. Svo fór mikið orð af Hákoni konúngi í útlöndum, að páfinn bauð honum keisaradóm á Þýzkalandi; Loðvík Frakkakonúngur hinn helgi vildi að hann gjörðist höfðíngi fyrir krossferð til Jórsalalands, og Kastilíu konúngur á Spáni beiddi Kristínar dóttur hans til handa bróður sínum, og fèkk það gjaforð framgáng.

Þá er Hákon hafði konúngur verið yfir Norvegi 46 vetur fór hann herferð vestur um haf til Skotlands til að hefna hernaðar þess, er Skotar höfðu gjört á Suðureyjar, en Norvégs konúngur eignaði sèr þær eyjar; herjaði Hákon konúngur þá bæði um Skotland og Suðureyjar og »vann aptur öll þau ríki, er Magnús konúngur berbeinn hafði eignazt og unnið af Skotlandi og Suðureyjum«, en allmikinn skaða beið Hákon konúngur í þeirri ferð bæði á mönnum og skipum. Því næst hèlt konúngur til Orkneyja; en er hann kom í bæ þann, er Kirkjuvogur heitir, varð hann sóttveikur og þar andaðist hann (15. desember 1263). Lík hans var síðan fært til Björgvinar og jarðað þar í Krists kirkju. Hann er alment kallaður *Hákon gamli*, til aðgreiníngar frá Hákoni (únga) syni sínum, er fengið hafði konúngsnafn, en dó að eins 25 ára gamall (1257) rúmum 6 árum á undan föður sínum.

Eptir Hákon gamla kom til ríkis í Noregi *Magnús* sonur hans (1263—1280). Hann gjörði frið við Skota konúng, og lèt

lausar við hann Suðureyjar og Mön gegn árlegu fègjaldi. Magnús konúngur gaf sig allan við friðsamlegum störfum og er frægur orðinn af löggjöf sinni og lagasetníngu, og fyrir því er hann kallaður *lagabætir*. Hann setti ein lög yfir allan Norveg, í stað þess að áður höfðu verið fern lög sundurskipt þar i landi (Frostuþíngslög, Gulaþíngslög, Eiðsivaþíngslög, Borgarþíngslög), eptir þeim 4 lögsagnardæmum sem Norvegur skiptist í, að minsta kosti frá dögum Ólafs helga. Í þessum alsherjarlögum Magnúsar konúngs var ákveðið, að einn skyldi konúngur vera yfir öllu Noregsveldi, og konúngdómurinn gánga í erfðir til konúngssonar, er elztur væri og skilgetinn. Við klerka var Magnús konúngur eptirlátur, og *Jón rauði* (erkibiskup í Niðarósi 1267—1282) hafði fram ýms rèttindi handa klerkastèttinni á sættagjörð þeirri milli konúngs og kirkju, sem haldin var í Tunsbergi 1277. Konúngur veitti einnig Hansastöðunum ýms rèttindi og einkaleyfi, og frá þeim tíma fór verzlunin að komast í höndur þeirra, Norvegi til míkils ógagns. Magnús konúngur var hneigður til skarts og tók upp útlenda hirðsiðu einkum þá, er tíðkaðir voru á Englandi. *Lenda menn* (er komnir voru í stað hersanna í fornöld) gjörði hann að *barúnum*, og þeim mönnum, er embættí höfðu við hirðina, gaf hann *riddara* nafnbót, og hvorirtveggja voru kallaðir *herrar*. Magnús lagabætir andaðist í Björgvin 1280, rúmlega fertugur að aldri; má um hans ríkisár segja, eins og sagt er um Sigurð Jórsalafara »að hans öld var góð landsfólkinu, því að þá var bæði ár og friður«.

Þegar Magnús konúngur andaðist voru synir hans tveir á lífi, *Eiríkur* og Hákon. Var Eiríkur þeirra eldri, og þó að eins á tólfta ári, þegar faðir þeirra lèzt, og var hann nú til konúngs tekinn, en Hákon hafði hertoga nafn og ríki nokkurt til forráða. Meðan Eiríkur konúngur var í æsku stýrði *Íngibjörg* drotníng móðir hans ríkinu ásamt með *ráðgjöfunum* eða *ríkisráðinu*, en í því ráði sátu lendir menn, eða barúnar, sem þeir nú voru kallaðir. Í þessu ráði var *Bjarni Erlíngsson* af Bjarkey og Giska einhver hinn helzti maður; hann var manna ríkastur og voldugastur í Norvegi á þeim tímum. Nú kom það brátt í ljós, að rótgróinn fjandskapur átti sèr stað þar í landi milli klerkanna og hinna verzlegu höfðíngja. Hvorirtveggja vildu ná sem mestum yfirráðum undir sig. Konúngdómur var óstyrkari nú en á dög-

um Hákonar gamla eða Magnúsar lagabætis, til þess að halda hinum gagnstæðu öflum í jafnvægi. Konúngsins gætti eigi, því að hann gat ekki aðhafzt fyrir æsku sakir. Íngibjörg drotníng lèt að vísu mikið til sín taka og rèði ef til vill mestu, og ríkisráðið var henni allvel samhent, en klerkalýðurinn gjörði sèr miklu dælla við ríkisstjórnina nú en áður hafði verið. Ráðherrarnir vildu brjóta klerkavaldið á bak aptur; biskupar bannfærðu þá í móti, en það kom fyrir ekki; Jón erkibiskup og tveir biskupar aðrir (Andrès af Oslu og Þorfinnur af Hamri) urðu að flýja af landi burt, og klerkalýðurinn varð að lúta. Fyrir þessa sök hafa menn á síðari öldum kallað Eirík konúng Magnússon *prestahatara;* en það kenníngarnafn á hann als eigi skilið; ef nokkur átti það skilið, þá voru það ráðherrar þeir, sem að völdum sátu, og lèku biskupa og klerka í harðara lagi; en Eirkur konúngur rèð þá bæði litlu, og það sem til hans kom, þá vildi hann mýkja málin í alla staði, og seinna þegar hann var kominn til lögaldurs og rèð meiru en áður, sýndi hann klerkunum alt annað en harðneskju og hatur. Þegar af lètti þessu klerkahreti, hófst styrjöld milli Norvegs og Danmerkur, er stóð rúm 20 ár, og lyktaði eigi fyr en á dögum Hákonar háleggs. En svo stóð á þeirri styrjöld, að Ingibjörg drotníng, sem áður er nefnd, var dóttur Eiríks Danakonúngs plógpenníngs; hún átti arf sinn í Danmörku, en honum var haldið þar móti vilja hennar. Um þessar mundir (1286) myrtu Danir Eirík konúng sinn Kristófersson (Glipping); flýðu morðíngjarnir til Norvegs og var þar vel tekið; hèt Eiríkur Norðmanna konúngur þeim vernd sinni, og herjaði síðan á Danmörku og gjörði þar hin mestu hervirki; voru Danir þá hætt komnir, ef Eiríkur konúngur Magnússon hefði eigi snúið huga sínum í aðra átt, en það var til Skotlands. Þar var þá nýdáinn Alexander konúngur hinn þriðji, tengdafaðir Eiríks konúngs, og stóð nú Margrèt dóttir hans þar næst til ríkis, en var barn að aldri. Hún var því næst tekin þar til ríkisstjórnar, en dó á leiðinni frá Norvegi til Skotlands. Eiríkur konúngur krafðist nú ríkisstjórnar á Skotlandi eptir dóttur sína, sem rèttur erfíngi hennar, en Engla konúngur spilti þeim málum fyrir honum, og varð Eiríki ekki framgengt. Hann andaðist 1299.

Kom þá til ríkis í Norvegi *Hákon* hertogi (háleggur) bróðir

Eiríks (1299—1319). Hann fèkk endað ófriðinn við Dani og samdist með þeim friður í Kaupmannahöfn (1309); fèkk Hákon konúngur þá Norðurhalland í stað móðurarfs. Hákon konúngur átti ekki sonu en dætur tvær, og fyrir því fèkk hann konúngserfðnm breytt þannig, að dætur og dætrasynir fengu náð til þeirra erfða. Þá var og tekið í lög, að 12 menn skyldu stýra landi meðan konúngur næði eigi til lögaldurs. Hákon stýrði ríkinu með miklu meiri dáð og dugnaði en Eiríkur hafði gjört bróðir hans, og svipti Hansastaði ýmsum rèttindum. Jörundur erkibiskup í Niðarósi átti í deilum við kórsbræður[1] sína, og sætti konúngur því lagi, svo að klerkavaldið fór balloka fyrir honum; tign og rèttindi lendra manna var einnig afmáð, en fastar reglur settar um skyldur embættismanna (sýslumanna og lögmanna). Hákon konúngur gipti *Íngibjörgu* dóttur sína *Eiríki* hertoga Magnússyni af Fólkúngaætt í Svíaríki. Þau áttu (1316) þann son, er *Magnús* hèt, er síðan varð bæði Norðmanna og Svía konúngur. En bæði Eiríkur hertogi og Valdemar hertogi bróðir hans, voru síðan sviknir af Byrgi Svía konúngi bróður þeirra, og settir í dyflissu og þar dóu þeir af sulti. Þessi tíðindi fengu Hákoni konúngi svo mikils harms, að það flýtti dauða hans. Hann andaðist 1319; og skorti einn vetur á fimmtugan. Voru þá aldauða Norvegskonúngar, er komnir voru í beinan karllegg af Haraldi hárfagra.

*Magnús Eiríksson,* sá er áður var nefndur, sonur Eiríks hertoga og Íngibjargar, var þrevetur þá er afi hans Hákon háleggur andaðist; var Magnús nú til konúngs tekinn eptir hinum nýju konúngaerfðum, en 12 manna ráð (ríkisráð) stýrði ríkinu meðan hann var í bernsku. Um þessar mundir var hann einnig *kjörinn* til konúngs í Svíaríki; var þá bæði Norvegur og Svíaríki kominn undir einn konúng, en það hafði aldrei fyr verið. Bráðum urðu Norðmenn ílla ánægðir með aðgjörðir ríkisráðsins; lagði það þá niður völdin, en *Erlingur Viðkunnarson,* hinn göfugasti og ríkasti maður

1) *Kórsbræður* eða *Kanúkar* voru nefndir klerkar þeir eða múnkar við biskupssetrin, er áttu að kjósa biskup, þá er það embætti var laust. Þeir voru fyrst settir í Norvegi þegar erkistóll komst þar á, en áður höfðu allir prestar í biskupsdæminu kosið biskupa. Tala kórsbræðra var misjöfn eptir stað og tíma. Við erkistólinn í Niðarósi urðu þeir flestir 24, við aðra biskupsstóla þar í landi að eins 12.

í Norvegi gjörðist *ríkisstjóri*. Þegar Magnús var kominn til lögaldurs tók hann sjálfur við ríkisstjórn, en húu varð Norvegi ekki happasæl; ýmsar innanlands óeirðir áttu sèr stað, er með mestu nauðúng urðu niðurþaggaðar; verzlunin komst öll í hendur Hansastaðanna, og skipastóli Norðmanna og sjómensku þeirra hnignaði stórum. Þá var og ýms óáran er um þær mundir sókti ríkið heim; þá kom *svarti dauði* (1349) og geysaði svo stórkostlega yfir landið, að sagt er að tveir þriðjúngar landsmanna hafi hrunið niður; sum bygðarlög gjöreyddust af mönnum; erkíbiskupinn og allir kórsbræður í Niðarósi nema einn dóu í sóttinni, sömuleiðis biskuparnír í Björgvin, Stafángri og á Hamri.

Norvegur og Svíþjóð voru skamma stund undir einum konúngi. Í Svíaríki varð Magnús konúngur að afsala sèr helmíng ríkisstjórnar í hendur eldra syni sínum *Eiríki*, en átti í sífeldum ófriði við hann þángað til Eiríkur dó (1359). En er Magnús lèt Skán gánga undan ríkinu og í hendur Danakonúngi, þá ráku Svíar Magnús úr völdum og kusu (1362) ýngra son hans, er *Hákon* hèt, til konúngs. Hákon þessi hafði síðan 1355 verið konúngur í Norvegi með föður sínum, og var trúlofaður *Margrètu* dóttur *Valdimars Atterdags* Dana konúngs. Svíar vildu eigi að sá ráðahagur tækist, en Hákon fór sínu fram og fylgdi í því ráðum föður síns, enda flýtti hinn slægvitri Valdimar fyrir því kvonfángi hvað hann kunni, og Hákou konúngur gekk að eiga Margretu (1363) þó hún værí að eins ellefu vetra. Svíar settu þá Hákon af völdum og tóku til konúngs *Albrekt af Meklenborg*, systurson Magnúsar. Þeir feðgar Magnús og Hákon reyndu síðan að brjótast til valda í Svíþjóð, en biðu ósigur og Magnús varð tekinn. Nokkru síðar náði Hákon föður sínum úr varðhaldi Svía, en konúngstign þeirra í Svíþjóð var töpuð. Magnús konúngur, er Svíar kölluðu Magnús *Smek*, druknaði á Bumlarfirði í Norvegi 1374; hann skorti tvo vetur á sextugan, er hann lèzt, en konúngsnafn hafði hann borið 55 vetur. Hákon konúngur andaðist 6 vetrum síðar 1380.

Þau Hákon konúngur og Margrèt drotníng áttu son þann, er *Ólafur* hèt; hann var 9 vetra, er faðir hans deyði. Hann hafði verið tekinn til konúngs í Danmörku 1376 þegar Valdimar móðurfaðir hans var dáinn, og nú þegar hèr var komið (1380) varð hann Norvegs konungur eptir Hákon konúng föður sinn.

*Þannig sameinaðist Danmörk og Norvegur undir einum konúngi,* og stóð svo alt fram á vora daga (1814). Meðan Ólafur Hákonarson var ókominn til lögaldurs hafði dróttsetinn *Ögmundur Finnsson* ríkisstjórn á hendi í Norvegi af konúngs hálfu. En Ólafur konúngur lifði skamma stund og andaðist 16 vetra gamall (1387) suður á Skáni; tók *Margrèt* drotníng móðir hans þá við ríkisforráðum í Norvegi. Norðmenn kunnu því illa, að hafa konuríki, og fyrir því fèkk Margrèt drotníng komið því til leiðar, að *Eiríkur af Pommern,* systurdóttursonur hennar, og þá 6 vetra gamall, var til konúngs tekinn í Norvegi 1389. Sama ár vann Margrèt drotníng Svíaríki. Árið 1396 fèkk hún Eirík kosinn til konúngs bæði í Danmörku og Svíaríki, og þegar hann var krýndur í *Kalmar* 1397 til konúngs, þá sameinuðust öll 3 ríkin: *Danmörk, Norvegur* og *Svíaríki* undir einum konúngi. Það hafa menn kallað *Kalmarsamband* (*Kalmarunion*).

*Svíaríki.* Með *Valdimar Birgissyni* hófst *Fólkúnga ættin* til ríkis í Svíþjóð (1250), en Valdimar var þá bæði úngur að aldri og lítt fallinn til ríkisstjórnar; stýrði því Birgir jarl faðir hans ríkinu og fór þá vel, því að hann var hinn mesti skörúngur. Höfðíngjar þoldu illa yfirráð hans og hófu uppreisn, en Birgir vann sigur á þeim og lèt taka þá af lífi, er honum þóktu vera mestir mótstöðumenn sínir. Hann bætti landslögin, studdi verzlun, og hèlt uppi öruggum landvörnum; hann víggirti Stokkhólm og efldi þá borg stórum. Þegar Birgir jarl var dáinn, urðu synir hans ósamþykkir, Valdimar konúngur og Magnús; í þeim viðskiptum varð Valdimar undir, en Magnús komst til ríkis og var krýndur (1276).

*Magnús Birgisson* var ríkur konúngur og stjórnsamur; kölluðu Svíar hann *Ladulås* (þ. e. *hlöðulás,* af því að eignir manna voru óhultar, eða vel geymdar, um hans daga). Hann leiddi í lög, að allir hirðmenn konúngs og þeir sem undir þá þjónuðu, sömuleiðis allir ríðandi menn í hernum, skyldu vera lausir af öllum sköttum. Helztu menn og auðigustu gáfu sig því í riddara þjónustu (*rusttjenst* = *Rostjeneste*), og ásamt hirðmönnum urðu þeir ein stètt eða einn flokkur manna fyrir sig; það kölluðu Svíar *Frälseståndet* (frjálsir menn); af þeirri stètt myndaðist síðan *aðallinn* í Svíaríki; hins vegar voru allir skattskyldir þegnar eða *Ofrälse män* (ófrjálsir menn), er nú höfðu mist öll þau ráð og

atkvæði, er þeir áður höfðu haft á þjóðþíngunum. Þjóðþíng þessi voru nú orðin breytt í höfðíngjaþíng (*herradaga*), og á þeim sátu klerkar og aðalsmenn, eða alt stórmenni landsins, og þau mynduðu einskonar *ríkisráð* jafnhliða konúnginum. Litlu fyrir dauða sinn (1290) skipti Magnús konúngur ríkinu milli sona sinna, og varð það til hinnar mestu ógæfu. *Birgir*, er var þeirra elztur, skyldi vera yfirkonúngur, en hinir ýngri, *Eiríkur* og *Valdimar*, hafa hertoga nafn og land nokkurt að lèni.

*Birgir Magnússon* var 10 vetra, er faðir hans andaðist, og því hafði Magnús konúngur svo fyrirmælt, að *Þorgils Knútsson*, stallari[1], ágætur maður, skyldi hafa fyrst um sinn öll ríkisforráð á hendi. Þorgils fór herferð til Finnlands og lagði Karelen (Kirjálaland) undir Svíaríki og reisti borg þá er Viborg heitir; hún er við Finnlandsflóa norðanverðan. Birgir konúngur var í mörgu líkur Valdimar konúngi föðurbróður sínum, og þókti í flestum greinum minni maður en bræður hans, einkum Eiríkur hertogi, er var hinn mesti atgjörfismaður bæði til líkama og sálar. Konúngi þókti þeir bræður sínir kasta rýrð á sig og kólnaði því í skapi til þeirra. Varð af því fullur fjandskapur þegar frá leið, en Birgir konúngur sat fastur í sessi meðan Þorgils stallari stóð honum til annarar handar, Þeir bræður Eiríkur og Valdimar flýðu til Norvegs og var þar einkar vel tekið af Hákoni konúngi hálegg. Litlu síðar sneru þeir bræður aptur til Svíaríkis og sættust við Birgi konúng bróður sinn. En sú sætt stóð ekki lengi. Þeir Eiríkur og Valdimar rægðu Þorgils stallara við konúng, og var Þorgils drepinn, en þá var líka Birgir konungur heillum horfinn. Ófriður hófst að nýju með þeim bræðrum, og Birgir varð að leggja af völdin við þá; stóð enn ófriður um nokkur ár þángað til friður var gjörður í Helsíngjaborg (1313). Var þá Svíaríki skipt með þeim bræðrum. En Birgir gat eigi gleymt þeim óförum, er hann hafði farið fyrir bræðrum sínum, og sveik þá

1) Þorgils er í mörgum nýjari sögubókum nefndur *Þorkell*, en það er eigi rètt (sbr. Ísl. annála ár 1296 og P. A. Munchs Norvegssögu IV. 2. bls. 393). *Stallari* er reyndar norrænt nafn sem menn vita, og átti að eins heima í Norvegi, og svarar til þess, er á Frakklandi hèt *Connetable*, á Þýzkalandi Marschal og í Danmörku og Svíþjóð *Marsk*, en mèr þykir mýkra í munni að segja Þorgils stallari og Stígur stallari, en Þorgils Marsk og Stígur Marsk, o. s. frv.

síðan í trygðum (1317) og lèt varpa þeim í dyflíssu, og þar dóu þeir af sulti ári síðar. Varð þá uppreisn í Svíaríki og Birgir rekinn frá ríki. Hann dó í Danmörku litlu síðar (1319). Birgir átti Margrètu systur Eiríks Menveðs Danakonúngs, en Eiríkur Menveð átti Íngibjörgu systur Birgis.

*Magnús Eiríksson*, er Svíar kölluðu *Smek*, var þessu næst til konúngs kjörin í Svíþjóð (1319—1363), og um sama leyti erfði hann ríki í Norvegi eptir móðurföður sinn Hákon konúng Magnússon. Svo var ákveðið, að konúngur skyldi ýmist hafa aðsetu í Svíþjóð eða í Norvegi, að hvort ríkið skyldi vera sèr um lög sín og landsstjórn, og að hvorigir landsmenn (Svíar og Norðmenn) mætti fylgja konúngi lengra en til sinna landamæra, þá skyldu hinir við taka. Magnús var barn að aldri þegar hann varð konúngur, og hafði *Mattías* (eða *Mats*) *Ketilmundsson* dróttseti öll ríkisforráð á hendi fyrstu árin, en síðan tók við *ríkisráðið*. Landsstjórnin var ekki hin sama í Svíaríki sem í Norvegi. Í Svíaríki var konúngurinn *kosinn*, en konúnginum til annarar handar, eða jafnhliða — ef svo má að orði kveða — stóð *ríkisráðið*, og sátu í því æztu menn ríkisins bæði andlegrar og veraldlegrar stèttar. Þetta ráð kaus konúnginn *fyrir hönd þjóðarinnar;* ríkisstjórnin var reyndar öll í höndum ráðsins, og kalla mátti að það bæri ofurliða bæði konúng og þjóð. Þessu var öðruvísi varið í Norvegi. Þar gekk konúngdómurinn að *erfðum;* að vísu ímynduðu menn sèr að konúngur stýrði landinu með *beztu manna ráði* (stórhöfðíngjum og æztu embættismönnum), en þessir «beztu menn» tóku enganveginn þátt í stjórnarstörfum svo sem» *af hálfu*, eða fyrir hönd, *þjóðarinnar*, og voru enganveginn settir eins og jafnhliða konúnginum. Í Norvegi hvíldi (þegar hèr var komið) landsstjórnin þannig í höndum konúngsins eins; ráðsins og landlýðsins gætti lítið í þeim efnum.

Þegar Magnús Smek var 15 vetra tók hann sjálfur við ríkisstjórn, en hèr var bæði, að Svíar voru ekki auðveldir konúngi sínum, enda var hann eigi maður til að stjórna þeim, og átti þar miklu erfiðara uppdráttar en í Norvegi. Hann átti drotníngu þá er *Blanka* hèt, ættaða frá Namur í Belgíu, hún hafði alt í sukki, og rèð miklu við konúnginn, en hann fèkk óvild mikla í staðinn af þegnum sínum. Árið 1350 kom *svarti dauði* í landið frá Norvegi, og gjörði þar ógnarlegt manntjón sem annarstaðar.

Litlu síðar varð missætti mikið með þeim feðgum. Magnúsi konúngi og *Eiríki* syni hans; varð konúngur að gefa upp við hann helmíng ríkisins (1357), en Eiríkur dó 2 árum síðar, og Magnús varð aptur einn konúngur yfir Svíþjóð. En þegar Valdímar Danakonúngur, sem var mjög viðsjáll nábúi Magnúsar, náði Skáni og Gotlandi, þá urðu Svíar óvægir og ráku Magnús frá völdum og tóku yfir sig Hákon son hans, Norvegskonúng. Hákon kvongaðist, eins og áður er sagt, og átti Margrètu Valdimarsdóttur (1363) þvert á móti ráðum Svía, og þá ráku þeir Hákon af ríki og tóku til konúngs yfir sig *Albrekt* af *Meklenborg*, systurson Magnúsar konúngs. Þeir feðgar Magnús og Hákon reyndu síðan að brjótast til ríkis í Svíþjóð, en biðu ósigur í orustunni við *Enköpíng* (1365). Magnús varð handtekinn og sat í varðhaldi 6 ár, til þess er Hákon sonur hans þröngvaði Albrekt til að láta hann lausan. Eptir það hafðist Magnús við í Norvegi og druknaði þar, eins og fyr er ritað (1374).

Albrekt af Meklenborg átti litlum vinsældum að fagna meðal Svíanna, enda reyndi hann að lægja ofurveldi ríkisráðsins og hinna voldugustu höfðíngja í landinu, en það leiddi til þess að þeir kúguðu hann til sátta; voru sáttakostir svo ósanngjarnir og vansæmandi konúngi til handa, að hann gat eigi haldið þá, og varð af ófriður milli hans og höfðíngjanna. Leituðu þeir þá til Margrètar drotníngar, er um þær mundir stýrði bæði Norvegi og Danmörku síðan Ólafur konúngur sonur hennar var dáinn (1387). Tveim árum síðar stóð orusta við *Falköpíng* á Vesturgotlandi milli *Albrekts* og drotníngarmanna; fengu þeir sigur en Albrekt varð handtekinn og settur í varðhald, en því nær alt Svíaríki gekk þegar undir Margrètu drotníngu; að eins Stokkhólmur varðist enn um nokkur ár, en 1395 hèt Albrekt að láta drotníngu fá annaðhvort ærið fègjald eða Stokkhólm að öðrum kosti innan þriggja ára, móti því að Albrekt fengi aptur frelsi sitt. Þegar að skulda dögunum kom gat hann eigi goldið fèð og þannig fèkk Margrèt drotníng Stokkhólm (1398). Tveim árum áður hafði hún fengið *Eirík af Pommern,* systurdóttur son sinn kjörinn til konúngs yfir Svíaríki og árið 1397 var hann krýndur í *Kalmar* til konúngs yfir öll Norðurlönd: Danmörk, Norveg og Svíaríki.

*Danmörk.* Nú er þar til að taka sem fyr var frá horfið, að *Eiríkur góði* Danakonúngur Sveinsson Úlfssonar var andaður á Jórsalaferð út í löndum (1103) en *Nikulás* (Níels) bróðir hans hafði tekið konúngdóm í Danmörku. Voru þau umskipti all íll, því að Eiríkur hafði verið stjórnsamur og vinsæll, en Nikulás var lítt nýtur konúngur. Hann fekk Margretar Íngadóttur, er fyr hafði átt Magnús konúngur berbeinn. Með Nikulási konúngi óx upp Magnús sonur hans, og kallaður hinn sterki. Einn af sonum Eiríks konúngs góða hèt *Knútur,* og var kallaður *Lávarður;* hann hafði hertogadæmi í Heiðabæ (Slesvík), og var hreysti maður mikill og allra manna vinsælastur; öfunduðu þeir feðgar Nikulás og Magnús mjög vinsældir Knúts, sviku hann síðan í trygðum og myrtu hann (1131). Af þessu verki urðu þeir stórilla þokkaðir, og *Eiríkur Eiríksson,* bróðir Knúts lávarðar, greip til vopna og vann sigur á þeim feðgum í orustunni við *Fótvík* á Skáni (1134); fèll Magnús í bardaganum en Nikulás flýði og var drepinn suður í Heiðabæ litlu síðar. Eptir fall Nikulásar konúngs var *Eiríkur Eiríksson* til konúngs tekinn í Danmörk um alt land (1134—1137); hann var hinn grimmasti maður, og harður og stirður við landslýðinn, og fyrir því að mörgum þókti sem lengi mundi verða minnistæð grimd hans, þá var hann *eymuni* kallaður. Eiríkur konúngur fór herferð til Norvegs eptir áeggjun Magnúsar blinda móti þeim sonum Haralds gilla, en Norvegsmenn ráku Eirík af höndum sèr, og var sú för hans hin versta. Árið 1137 var Eiríkur eymuni veginn á þíngi einu á Jótlandi.

Þá voru margir menn í Danmörku, er komnir voru af konúnga ættum og þóktust allir til ríkis bornir, þessir voru: *Knútur* son Magnúsar Nikulássonar, *Sveinn* sonur Eiríks eymuna, *Valdimar* sonur Knúts lávarðar, og *Eiríkur lamb* Hákonarson hins norræna og Ragnhildar, systur þeirra Knúts lávarðar og Eiríks eymuna. Þeir Knútur, Sveinn og Valdimar voru börn að aldri, og fyrir því var *Eiríkur lamb* til konúngs tekinn, (1137—1147). Hann var aðgjörðalítill konúngur og kallaður Eiríkur hinn *spaki;* óeirðir voru í Danmörku um hans daga og Vindur herjuðu á landið að ósekju. Hann skildi sig sjálfur frá ríki og fór í klaustur, og andaðist múnkur í Ódinsey (1147).

Þessu næst hófst ófriður mikill í Danmörku milli þeirra

Sveinn Úlfsson † 1076.

Haraldur hein, † 1080. Knútur helgi † 1086. Ólafur húngur, † 1095. Eiríkur góði, † 1103. Níkulás † 1134.

Eiríkur eymuni, † 1137. Knútur lávarður, † 1131. Ragnhildur ∽ Hákon norræni. Magnús sterki † 1134.

Sveinn Svíðandi (Grathe), † 1157. Valdimar (1) mikli, † 1182. Eiríkur lamb (spaki) † 1147. Knútur † 1157.

Knútur 6, † 1202. Valdimar gamli (sigur), † 1241. Valdimar biskup.

Valdimar úngi, † 1231. Eiríkur plógpeníngur, † 1250. Abel, † 1252. Kristófer 1., † 1259.

Valdimar (3.) † 1257. Eiríkur † 1272. Eiríkur Glippíng † 1286.

Valdimar (4.), † 1312. Eiríkur Menved † 1319. Kristófer 2., † 1332.

Eiríkur † 1325. Valdimar atterdag † 1375.

Valdimar (5.), † 1364. Íngibjörg. Margrèt † 1412.

Hinrik † 1375. María, móðir Eiríks af Pommern. Ólafur Hákonarson † 1387.

Sveins Eiríkssonar, Valdimars Knútssonar (lávarðar) og Knúts Magnússonar, því að þeir vildu allir konúngar verða. Sá ófriður stóð um 10 ár (frá 1147 til 1157). *Friðrik* keisari *Barbarossa* átti þar hlut að máli og samdist þá með þeim konúngunum þannig: að *Valdimar* hlaut Jótland, *Sveinn* Skán, Halland, Bleikíng og Borgundarhólm, en *Knútur* Sjáland og Fjón, Láland og Falstur og aðrar smærri eyjar (1157). En litlu síðar en sætt þessi var gjör bauð Knútur konúngur Sveini konúngi til heimboðs í Hróarskeldu; þar var og Valdimar konúngur; var þar veizla hin bezta og hið blíðasta með þeim konúngunum. En Sveinn bjó jafnan yfir svikum, og er minnst varði, þustu menn hans alvopnaðir inn í herbergi það, er þeir Knútur og Valdimar sátu í vopnlausir, og veittu þeim atgöngu, var Knútur þar veginn, en Valdimar fèkk sár og komst við það undan og yfir til Jótlands, kærði vandræði sín á Vebjarga þíngi og krafði sèr liðs, en allir sögðust honum vilja fylgja, og töldu þetta hið versta verk. Sveinn konúngur hèlt því næst liði sínu til Jótlands, en Valdimar kom í móti honum og hittust hvorirtveggja á *Graðarheiði* (1157); það er skamt suður frá Vebjörgum. Í þeirri orustu fèkk Valdimar sigur en Sveinn flýði og var drepinn á flótta; hann er kallaður *Sveinn svíðandi* í fornum sögum, en á seinni tímum nefna Danir hann *Svend Grathe.*

Eptir orustu þessa fèkk Valdimar konúngur einvald yfir öllu Danaveldi með ráði allra landshöfðíngja; hann er kallaður *Valdimar fyrsti* eður *hinn mikli.* Hann stýrði ríki sínu af miklum dugnaði og komst þá friður á og framfarir innanlands. Vindverskir víkíngar höfðu um lángan tíma herjað í Danmörk, og gjört hið mesta tjón, en Valdimar konúngur, er hann var kominn til ríkis, sókti þá heim og varð þeim ómjúkur í viðskiptum. Það er mælt, að hann færi 17 herferðir til Vindlands; en í hernaði þessum naut Valdimar einkum að ráða og harðfengi *Absalons* biskups, vinar síns, af Hróarskeldu. Absalon var hið mesta mikilmenni, og jafnfær hvort sem vera skyldi til hernaðar eða til friðsamlegra starfa; hann var og mikill vin menta og vísinda og styrktarmaður hinn mesti hinna dönsku sagnaritanda, *Saxa Grammatíkuss* og *Sveins Ákasonar,* er uppi voru um það leyti. Ein hin helzta herferð Valdimars konúngs til Vindlands var sú, er hann fór árið 1168, þá vann hann borgina *Arkún* (Arkona)

á Re eða Ræng (Rygen). Þar var blótstaður mikill og þar var goð það er *Svantavit* hèt; konúngur lèt leggja eld í hofið, en höggva goðið niður og brenna undir kötlum. Absalon kristnaði þar landsfólkið og Re var lögð til biskupsstóls í Hróarskeldu. Absalon friðaði landið fyrir víkíngum bæði með sjóferðum sinum og með því að setja varnarvirki á ýmsum stöðum með sjó fram; þannig setti hann virki á einni af smáeyjunum milli Sjálands og Amakurs. Þar var fiskimanna þorp og hèt Höfn; síðan stækkaði þorpið í skjóli virkisins og þar varð af kaupstaður, er síðan nefndist *Kaupmannahöfn*. Um þessar mundir var *Hinrik ljón* hertogi á Saxlandi, hann herjaði einnig á Vindland og gjörði Dönum erfið yfirráðin í sjáfarsveitum við Eystrasalt. En er hertoginn misti lönd sín (1180), kom Friðrik keisari í stað hans, og varð Dönum þúngt við hann að etja; keisarinn krafðist þess að Valdimar konúngur skyldi vera sinn undirmaður og hafa Danmerkurríki að lèni, en Valdimar og Absalon fengu með ráðum og dáð spornað við þeim vanda. Erlíngur skakki, sem nefndur er í Norvegssögu, hafði leitað liðs hjá Valdimar konúngi og lofað í móti að hann skyldi fá Víkina í Norvegi; þannig fèkk Valdimar konúngur fótfestu í því landi; en Erlíngur fèkk jarldóm af konúngi og stýrði Víkinni fyrir hans hönd. Við Áskel erkibiskup í Lundi átti Valdimar deilur, varð Áskell að fara af landi burt, en Absalon gjörðist erkibiskup í stað hans. Bændur í Skáni gjörðu uppreisn gegn tíunda kröfum, en Valdimar konúngur bældi það upphlaup niður (1181) og andaðist ári síðar (1182).

Kom þá til ríkis í Danmörku *Knútur* sonur hans, og kallaður *hinn sjötti* (1182—1202). Hann hafði Absalon biskup fyrir sinn helzta ráðgjafa eins og Valdimar konúngur faðir hans hafði gjört. Það var sem áður, að Friðrik keisari (*Barbarossa*) vildi gjöra Knút að undirmanni, en Knútur svaraði því svo »að fyrir Danmörku þyrfti hann ekki hans maður að verða«. Keisarinn lèt eigi þar við sitja, en fekk *Búgislás* hertoga á Vindlandi til þess að herja á bygðir þær, er Danir höfðu undir sig lagt með Eystrasalti. En er Absalon spyr þetta, bregður hann þegar við og siglir til Vindlands í móti Búgislási, tókst þar harður bardagi og lauk svo að Búgislás flýði undan með fá skip, en misti á fimta hundrað skipa (1184). Eptir þenna sigur fekk Knútur kon-

úngur öll yfirráð yfir Vindlandi (Pommern) og Meklenborg; jók konúngur þá tignarnafn sitt og nefndi sig «konúng Slafanna» þaðan er komið nafnið »*Vinda* konúngur«, er Danakonúngar síðan bera. Síðan herjaði Knútur konúngur á *Eistland,* kristnaði þar víða landsfólkið og lèt reisa kirkjur. Því næst snèri Knútur huganum til *Holsetalands* og *Láenborgar,* því að hann vildi ná þeim löndum undir sig og hafa lönd sín öll samföst með sjónum austur. Greifi sá er *Adolf* hèt rèð þá fyrir Holsetalandi, og hafði það að lèni af Hinriki (ljóni), Saxahertoga, og gengu þeirra viðskipti ærið skrykkjótt. Þá kom það fyrir að *Valdimar* biskup Knútsson, þess, er drepinn var í Hróarskeldu, gjörði óspektir á Suðurjótlandi (Slesvík), þar sem hann hafði konúngssýslu. Adólf veitti biskupi lið, en Knútur Dana konúngur sendi *Valdimar* hertoga bróður sinn með her manns á hendur þeim. Hertoginn var hinn mesti hreystimaður; Adolf greifi og Valdimar biskup urðu handteknir, en hertoginn óð yfir landið, og vann á litilli stundu bæði Holsetaland og Láenborg, þèttmerki og Lybiku. Meðan á þessari sigursæld og föguuði stóð andaðist Knútur konúngur (1202), rúmlega fertugur að aldri. Hann átti Geirþrúði dóttur Hinriks ljóns af Saxlandi. Sverrir konúngur var dáinn, á því sama ári fyrir 8 mánuðum, en Absalon erkibiskup, hinn mikla styrktarstoð Danaveldis, var þá andaður fyrir rúmu ári síðan (1201).

Knútur sjötti dó barnlaus, og var þá *Valdimar* hertogi bróðir hans til konúngs tekinn (1202—1241). Hann er kallaður Valdimar *gamli* og Valdimar *sigur.* Hann gaf lausan af varðhaldi Adolf greifa móti því, að greifinn lèt Holsetaland laust við Valdimar konúng; hafði nú Danakonúngur yfirráð yfir öllum löndum með Eystrasalti sunnanverðu alt austur að Eistlandi. Síðan fór konúngur herferð þángað (1219) og hafði ógrynni skipa, en *Andrès Sónason* (Sunesen), er erkibiskup varð eptir Absalon, var fyrir liðinu. Áttu Danir þar stórorustur[1] við landsmenn og unnu frægan sigur og lögðu landið undir sig og kúguðu lands-

1) Í orustu þessari (nálægt Reval 1219) er sagt, að fallið hafi rautt merki með hvítum krossi af himnum ofan; tóku Danir það og báru síðan í orustum, það merki var síðan kallað Danabrog; aðrir segja að páfinn hafi sent það Danakonúngi, og hafi þá fyrst verið borið í orustu.

lýðinn til kristni. Eptir þenna sigur stóð veldi og stórmenska Valdimars konúngs sem hæzt; þá laut honum Holsetaland, Láenborg, Meklenborg, Re eða Rygen, Vindland, Eistland og Eysýsla (Ösel), nokkur hluti af Prússlandi og Kúrlandi, og hafði Danaveldi aldrei orðið jafnvíðlent síðan á dögum Knúts ríka. En á þessu urðu snögg umskipti skömmu síðar. Árið 1223 var Valdimar konúngur og hirðin á dýraveiðum í ey einni lítilli, er *Lyey* heitir, suður af Fjóni; þar kom greifi sá er *Hinrik* hèt af *Schverin* að konúngi á næturþeli, og tók hann höndum og Valdimar, elzta son hans, og flutti í varðhald og hèlt honum þar á fjórða ár. Meðan konúngur sat þannig í varðhaldi kom Adolf greifi hinn ýngri af Holsetalandi aptur og settist að ríki sínu, og hvert landið af öðru, sem konúngur hafði unnið með Eystrasalti, gekk þá undan honum. Um síðir var konúngur látinn laus af varðhaldi móti ærnu lausnargjaldi, og þar á ofan varð hann að lofa því með dýrum eiði, að sleppa öllu tilkalli til áður nefndra landa við Eystrasalt. Páfinn leysti hann reyndar af þeim eiði, og konúngur safnaði liði og hèlt því til Holsetalands. Þar kom Adolf greifi í móti honum og margir aðrir þjóðverskir höfðíngjar, og varð fundur þeirra um miðsumars skeið (1227) þar sem heitir *Bornhöveð*. Þar fèkk Adolf greifi sigur en Danir flýðu, og konúngur varð sár mjög og komst nauðuglega undan. Mátti Valdimar konúngur kenna *Pèttmerskíngum* þann ósigur, því að þeir voru í liði hans, og hafði hann sett fylkíngu þeirra að baki hersins til þess að forða sèr bakskellum, en er mest á reið hlupu þeir í lið með óvinum Valdimars, og þá voru Danir berskjaldaðir á baki, og brast þá flótti í liði þeirra. Eptir þetta óhapp gjörði Valdimar konúngur frið við mótstöðumenn sína; varð hann þá að láta það alt laust, er hann hafði unnið, nema Rygen og Eistland. Lybika (Lybek) og Hamborg urðu þá frjálsir *ríkisstaðir*, og hófust skjótt til hins mesta auðs af verzlun sinni, og aðrar fleiri borgir á Norður-Þýzkalandi gengu þá í verzlunarfèlag með þeim (*Hansastaðirnir*), og urðu einvaldar að verzlun um norðurhöfin, í Danmörku, Norvegi, Svíaríki, Póllandi og Rússlandi.

Eptir orustuna við Bornhöved hèlt Valdimar konúngur kyrru fyrir og lagði alla stund á að bæta hvað eina sem hann kunni í löndum þeim, er hann þá hèlt eptir. Hann starfaði mikið við

lög og landsrètt og safnaði og raðaði niður hinum fornu lögum, og eru frá hans dögum einkum nefnd þrenn lög og talsvert ólík, er þá gengu í Danmörku: Skánar-lög, Sjálands-lög hin eldri og Jótsku-lög. Það eru einkum Jótsku-lög sem nafnkend eru orðin, og voru þau lögleidd á ríkisþíngi í Vorðingborg 1241.

Valdimar sigur var tvíkvæntur; fyrst átti hann *Dagmar* frá Böhmen og með henni einn son er Valdimar hèt; hann er kallaður Valdimar úngi, en dó rúmlega tvítugur fyrir voðaskoti (1231) á dýraveiðum. Dagmar móðir hans var áður dauð, og hafði verið hvers manns hugljúfi. Síðari drotníng Valdimars konúngs hèt *Berengaria* eða *Beingerður* af Portúgal. Með henni átti Valdimar þrjá sonu, er hètu *Eiríkr, Abel* og *Kristófer,* og urðu þeir allir konúngar í Danmörku, sem enn mun sagt verða. Valdimar sigur dó 1241 í Vordíngborg og er grafinn í Ríngsteð.

Þessu næst kom til ríkis *Eiríkur* Valdimarsson, er var elztur þeirra bræðra (1241—1250). Hann hafði fengið konúngsnafn áður faðir hans andaðist, en bræður hans hertogatign og ríki mikið að lèni: *Abel* Suðurjótland (Slesvík), en *Kristófer* Láland og Falstur. En þessi sundurskiptíng á ríkinu varð til hinnar mestu óhamíngju. Abel hertogi vildi gjörast einvaldur yfir Suður-Jótlandi, og ná því undir sig og sína niðja, en vera alveg laus við Danakonúng, en það ræður að líkindum, að konúngur vildi eigi slíkt láta viðgángast. Út af því spunnust óeirðir milli bræðranna. Abel fèkk liðveizlu frá Lybek og frá Holsetalandi, en Eiríki, konúngi veitti betur og fèkk þröngvað bróður sínum til hlýðni. Árið 1249 fór Eiríkur konúngur herferð austur á Eistland og lagði þá skatt á hvern plóg í ríki sínu til leiðángurs kostnaðar; olli sá skattur óeirðum á Skáni og þaðan hefir Eiríkur kenníngarnafnið *plógpenníngur*. Árið eptir fór konúngur herferð til Holsetalands og hitti á leiðinni Abel bróður sinn í Slesvík; á þeim fundi sveik Abel hann í trygðum og rèð honum bana (1250). Íngibjörg dóttir Eiríks plógpennings átti Magnús Lagabæti Norvegskonúng.

*Abel Valdimarsson* varð því næst konúngur yfir Danmörku (1250—1252), eptir að 24 riddarar höfðu með honum unnið eiða að því, að Eiríkur væri eigi drepinn að hans ráði. Abel konúngur var veginn í leiðángri gegn Frísum eptir tveggja ára ríkisstjórn (1252).

Þá var til konúngs tekinn bróðir hans *Kristófer* og er kallaður *hinn fyrsti* með því nafni (1252—1259); hann átti í deilum við þá frændur sína, *Valdimar* og *Eirík*, sonu Abels konúngs, og samdist svo með þeim, að konúngur tókst á hendur fjárforráð þeirra bræðra, því að þeir voru úngir, en Valdimar fèkk Suður-Jótland að lèni. Við Hákon gamla Norvegskonúng átti Kristófer einnig óeirðir, og Hákon hèlt flota sínum (315 skipum) til Kaupmannahafnar og bjóst til uppgöngu á landið, en *Einar* erkibiskup af Niðarósi, hinn ágætasti maður, fèkk komið sættum á milli konúnganna. *Jakob Erlindsson* var um þær mundir erkibiskup í Lundi; hann var ráðríkur maður og slægvitur, og urðu þeir Kristófer konúngur og hann hinir mestu fjandmenn. Konúngi þókti klerkavaldið gánga fram úr öllu hófi og vildi takmarka það og stefndi þíng í Nýborg; en hinn sama dag stefndi erkibiskup til kirkjufundar í Veile. Á þeim fundi var ákveðið að biskupar skyldu vera friðhelgir, en væri þeim ósómi sýndur eða höndum teknir eða meiddir, þá skyldi bannfært bæði land og lýður (1256). Konúngur setti hart á móti hörðu og lýsti yfir því að lèn þau, er erkistóllinn í Lundi hefði þegið af krúnunni, skyldu aptur undir hana vera fallin. Síðan lèt konúngur taka erkibiskup höndum og hafa í varðhaldi á Fjóni; banni var lýst yfir landinu, og meðan á því stóð andaðist konúngur snögglega í Rípum (1259). Er það sögn manna að klerkur einn hafi gefið honum eitur í kvöldmáltíðar sakramentinu.

Eptir Kristófer fyrsta kom *Eiríkur* sonur hans til ríkis (1259—1286), er Danir kölluðu *Eirík Glippíng*[1]. Hann var 10 vetra þá er faðir hans lètzt, og hafði því móðir hans öll ríkisforráð á hendi. Hún lèt erkibiskup lausan af varðhaldi og bauð honum sættir, en hann vildi engum sáttum taka. *Jarimar* landstjóri á Rygen herjaði um þessar mundir á Sjáland, og vann sigur á liði því, er drotníngin sendi í móti honum; er sagt að þar fèlli 10 þúsundir bænda af Dönum. Þá bættist og það á, að Eiríkur Abelsson af Suður-Jótlandi, er krafðist þar yfirráða eptir Valdimar bróður sinn, sem fyr er nefndur, hóf ófrið gegn Danakonúngi og hafði liðveizlu örugga af þeim frændum sínum, Holsetalands-greifum. Eiríkur konúngur og móðir hans söfnuðu

1) Orðið Glippíng segja menn sè dregið af sagnarorðinu *at glippe* = *blinke*; *glippe med Öinene*, að depla augum.

liði í móti, og varð fundur þeirra á *Lóheiði* skamt frá Slesvík (1261). Þar beið Eiríkur konúngur ósigur, og varð handtekinn og svo móðir hans drotníngin. Var konúngur í því varðhaldi á fjórða ár, en drotníng fèkk lausn miklu fyr. Nú var öll þörf á sættum við erkibiskup og klerkalýðinn; drotníngin fór því sjálf suður til Rómaborgar, og sættir komust loks á milli konúngs og erkibiskups, en þá sætt varð konúngur að kaupa dýrum dómum. Litlu síðar dó Jakob erkibiskup, og þá var landið leyst af banni. Eiríkur konúngur var svikull maður og ósiðsamur og varð fyrir þá sök mjög óvinsæll af landsfólkinu og einkum af höfðíngjum og öllu stórmenni; á þíngi einu í Nýborg varð konúngur að heita mönnum því, að stýra landinu betur en áðnr eptir lögum og venju. En konúngur brá út af því loforði, og gjörðu þá nokkrir höfðíngjar samsæri móti honum, og var *Stígur stallari Anderson* foríngi þeirra. Þeir komu að konúngi á næturþeli í Finnaþorpi (Finnerup) hjá Vebjörgum og drápu hann þar (1286). Það er mælt að þeir veitti konúngi 56 sár.

*Eiríkur Menveð*[1] (1286—1319) sonur Eiríks Glippíngs var til konúngs tekinn eptir föður sinn. Hann var þá 12 vetra að aldri og fyrir því hafði *Agnes* drotníng móðir hans öll ríkisforráð á hendi. Stígur stallari og þeir fèlagar hans voru allir gjörðir útlægir og fóru til Norvegs, og höfðu þar friðland og góðar viðtökur hjá Eiríki konúngi Magnússyni, er í þann tíma stýrði Norvegi og var enginn vinur Dana. Stóð alla þá stund ófriður milli landanna. Þá var og styrjöld mikil í Danmörku milli klerkavaldsins og krúnunnar. *Jóhann Grand* erkibiskup var oddviti klerkanna, og varð handtekinn af konúngsmönnum og haldið um hríð í dýflissu, en slapp þaðan og suður til Rómaborgar og kærði mál sitt fyrir páfa. Var þá kirkjubanni lýst yfir Danmörku, og stóð svo um 5 ár, þángað til Eiríkur konúngur beiddist vægðar og greiddi ærið fè sèr til friðar. Milli Norvegs og Danmerkur komst loksins á friður í Kaupmannahöfn (1309), eins og áður er sagt. Allur sá ófriður er konúngur stóð í, bæði við Norveg, við klerkalýðinn, við Svíþjóð, en einkum allur sá kostnaður, er leiddi af tilraunum hans að ná yfirráðum norðan á Þýzkalandi yfir löndum þeim, er Valdimar konúngur forð-

1) Kenníngarnafn Eiríks segja menn sè komið af því, að hann hafði opt það orðtak: *»ved alle hellige Mænd«*.

um hafði yfir ráðið, alt þetta knúði Eirík konúng til þess að leita fjárstyrks hjá ýmsum og setja þeim hèröð og fylki í riki sínu að veði fyrir því fè. Eiríkur konúngur Menved þótti í flestum greinum föðurbetríngur; hann var haldinorður og hèlt allvel uppi lögum og landsrètti; hann átti 14 börn, en þau voru öll dáin þá er hann andaðist (1319).

*Kristófer annar*, bróðir Eiríks Menveðs, var því næst til konúngs kjörinn (1319—1332). Hann var með öllu ónýtur konúngur, enda hafði Eiríkur bróðir hans, litlu fyrir andlát sitt, ráðið mönnum frá að kjósa hann til konúngs. Kristófer varð að gánga að þeim kostum, er aðallinn og klerkarnir settu honum, og var um það gjörð skilmála skrá, er konúngur ritaði nafn sitt undir (1320). Slíka *skuldbindíngar-skrá* (*Haandfæstning*) urðu Danakonúngar upp þaðan að undirgángast (um 340 ár) og alt þar til er einveldisstjórn komst á í Danmörku 1660. Alt vald var nú í höndum ríkisráðsins, en í því sátu hinir æztu menn lærðir og leikir, ekki ætíð jafnmargir, en stundum 13 og stundum helmíngi fleiri. Fram til siðabóta höfðu klerkarnir fyrirrúm öll í ráðinu, en næstir þeim stallari og hirðstjóri. En eptir siðabótina, þegar biskupar mistu setu í raðinu, þá settist hirðstjóri, kanselleri og stallari, ríkisins helztu embættismenn, í hin efstu sæti ríkisráðsins. Kristófer annar hèlt hvorki orð nè eiða og rauf þegar alla þá skilmála, er hann hafði undirgengizt; risu þá klerkarnir upp í móti konúngi og aðallinn skömmu síðar. Konúngur hèlt þó sínum hlut fyrir þeim um stundarsakir; en 1325 dó *Eiríkur* hertogi Valdimarsson á Suður-Jótlandi; konúngur vildi gjörast fjárráðamaður Valdimars sonar hans, en þá kom *Gert hinn ríki*, greifi af Holsetalandi, til sögunnar og vildi einnig takast hin sömu forráð á hendur. Gert rèðst á Danmörku, Kristófer varð að flýja, og Valdimar hertogi var til konúngs tekinn yfir Danmörku (1326). Hinn nýi konúngur launaði vel þeim mönnum er höfðu stutt hann til ríkis, og fekk þeim ýms fylki af Danmörku að lèni; þannig fekk Gert Suður-Jótland og skyldi það lèn að erfðum gánga. Alt um það komst þó Kristófer aptur til ríkis. Varð það þá að sætt i Rípum (1330), að Valdimar lagði niður konúngdóm, en fekk Suður-Jótland, en Gert fekk í þess stað Fjón að lèni og Norður-Jótland að veði, og dæi Valdimar barnlaus skyldi Gert fá Suður-Jótland en skila Danakonúngi aptur Fjóni. En

sú ætt stóð ekki lengi, ófriður hófst að nýju og Gert vann sigur á Lóheiði (1331) og Kristófer konúngur flýði. Svo fór að Kristófer átti eigi annað eptir af ríki sínu en Skanderborg, nokkurn skika af Lálandi og lítið eitt af Eistlandi. Kristófer konúngur dó 1332.

Eptir lát Kristófers annars var 8 ára millibilsstjórn eða, rèttara sagt, stjórnleysi í Danmörku (1332—1340). Í því millibili gengu Skán, Halland og Blekíng undir Svíakonúng. Eiríkur elzti sonur Kristófers var fallinn, Ottó annar son hans var í höndum Gerts greifa, og *Valdimar*, sem var ýngstur þeirra, var flúinn suður á Þýzkaland. Gert lèk Norður-Jóta hart. En er hann vildi hafa landaskipti, og láta Norður-Jótland en fá aptur í þess stað Suður-Jótland, þá gripu Jótar til vopna og riddari einn, er *Níels Ebbesen* hèt, frá Nörrerís, drap Gert í Randarósi (1340). Tveim árum síðar fèll Níels Ebbesen í bardaga hjá Skanderborg.

Þegar Gert greifi var fallinn kom *Valdimar Kristófersson* heim aptur til Danmerkur, og hafði hann um hríð verið við hirð Loðvíks keisara af Bajern. Valdimar var til konúngs tekinn á þíngi í Vebjörgum (1340—1375). Hann er kallaður Valdimar *Atterdag*[1]. Eitt hið fyrsta sem Valdimar gjörði var að sættast við Valdimar hertoga Eiríksson af Suður-Jótlandi, og að því búnu gekk konúngur að eiga *Helvig* eða *Hedevig* systur hertogans. Því næst tókst konúngur á hendur að safna aptur saman í eitt ríki landshlutum þeim, er á óaldarárunum voru gengnir undan krúnunni, og þannig náði hann aptur á fáum árum, Norður-Jótlandi, Sjálandi, Fjóni, Lálandi og Falstri; sumt keypti hann, sumt fèkk hann á annan hátt með samníngum, sumu náði hann með brögðum og ofríki; hann seldi hinum þýzku riddurum Eistland og með því fè, sem hann þannig fèkk, keypti hann aðra landshluta sem nær lágu og meiri eign var í. Árið 1360 náði hann Skáni, Hallandi og Blekíng með kænskubrögðum frá Magnúsi konúngi Smek, og ári síðar fór hann herferð til Gotlands, vann þá ey undir sig frá Hansastöðunum, og braut þar borgina Visby og fèkk þar ógrynni fjár; eptir þann sigur kallaði hann sig »*Gota konúng*», og hafa Danakonúngar

1) Það var máltak hans að segja: »*imorgen er der atter en Dag*«.

haldið því nafni síðan. En af leiðángri Valdimars konúngs til Gotlands leiddi ófrið mikinn milli hans og Hansastaðanna; stóð sá ófriður um 10 ár og höfðu ýmsir sigur. Þá var það að Kristófer, sonur Valdimars konúngs, hinn mannvænlegasti maður, var særður til ólífis (1362) nálega tvítugur að aldri. Meðan á því stríði stóð gjörðu aðalsmenn á Jótlandi uppreisn mikla; krepti þá svo að konúngi, að hann varð að fara af landi burt, en *ráðið* hafði ríkisstjórn á hendi meðan konúngur var erlendis. Friður komst þó á milli manna, en með hörðum kostum, því að Hansastaðir fengu öllu meiri verzlunar-hlynnindi, en þeir áður höfðu haft.

Þess er áður getið, að Valdimar konúngi tókst að fá Margrétu dóttur sína gipta Hákoni Magnússyni, Norvegskonúngi (1363). Hin 3 síðustu ár æfi sinnar átti Valdimar konúngur friði að fagna, og þeim tíma varði hann kappsamlega til þess að bæta í öllum greinum efnahag ríkisins. Valdimar konúngur dó 1375 um veturnætur. Á hans ríkisstjórnarárum kom *svarti dauði* til Danmerkur (1348) og gjörði þar sem annarstaðar hið mesta manntjón.

Á sama ári sem Valdimar konúngur andaðist, en litlu fyr, dó einnig Hinrik hertogi Valdimarsson af Suður-Jótlandi, hinn síðasti afsprígnur af Abels ættlegg; voru þannig á hinu sama ári aldauða báðir karlleggir þeir, er komnir voru af Sveini konúngi Úlfssyni. Stóðu þeir nú næstir til ríkiserfða í Danmörku, *Albrekt hinn ýngri* af Meklenborg, sonur Íngibjargar eldri dóttur Valdimars Atterdags, og *Ólafur* sonur Margrétar ýngri dóttur Valdimars. Ólafur varð hlutskarpari í kjörinu, þótt hann væri eigi nema 5 vetra gamall, og varð konúngur í Danmörku eptir móðurföður sinn. Þegar Hákon konúngur Magnússon faðir hans andaðist 1380, erfði Ólafur einnig konúngdóm í Norvegi, en andaðist 1387, eins og fyr er ritað.

Þegar Abels ættin var dáin 1375, tóku greifarnir af Holsetalandi Suður-Jótland undir sig, samkvæmt Rípa-samníngnum (1330). Út af því spunnust deilur, er lyktuðu þannig (1386), að Margrét drotníng sá eigi annað fært, en láta *Gerharð* greifa hinn 6. fá Suður-Jótland að léni, er óskipt skyldi í erfðir gánga. Gerharð þessi kallaði sig fyrstur manna *hertoga í Slésvík*, áður

höfðu þeir, sem því landi stýrðu, nefnt sig hertoga af Jótlandi eða Suður-Jótlandi.

Þegar Ólafur konúngur Hákonarson dó (1387) settist Margrèt drotníng móðir hans að ríkisstjórn í Danmörku, en haft hafði hún þar stjórnarforráð á hendi meðan sonur hennar var í bernsku. Ári síðar (1388) tók hún einnig við landsstjórn í Norvegi, og árið 1389 fèkk hún Eirík af Pommern, frænda sinn, tekinn til Norvegs konúngs. Það hið sama ár vann hún Svíþjóð af Albrekt konúngi, og árið 1396 var Eiríkur af Pommern kjörinn að hennar ráði til konúngs bæði í Danmörku og Svíþjóð, og krýndur í *Kalmar* á Trínitatishátíð 1397 til konúngs yfir öll Norðurlönd.

Eiríkur af Pommern, er fengið hafði konúngdóm í Norvegi að *erfðum,* en í Svíþjóð og Danmörku eptir *kosníngu,* var þannig orðinn konúngur yfir þremur þjóðlöndum fyrir einskonar tilviljun. Fyrir því vildi nú Margrèt drotníng svo um hnútana búa, að hendíngin ein rèði eigi optar sameiníngu landanna, heldur hitt, að sú sameining gæti orðið trygg og föst fram í aldir. Hún átti því þing um þetta mikla málefni í Kalmar við tilkvadda menn af Norvegi, Svíaríki og Danmörku, og var á því þíngi samið *frumvarp* til stjórnarskráar, eptir hverri ríkjum þessum skyldi síðan stýrt verða. Undir þetta frumvarp settu 10 af höfðíngjum þeim, er á fundinum voru, innsigli sín, en þessi samþykt þeirra, þessi *Kalmar-skrá,* var eigi heldur nokkru sinni lögleidd. Þannig er Kalmar-sambandið til orðið. Helztu atriðin í frumvarpsskránni voru þessi: 1) ríkin skyldu upp frá því hafa einn konúng; 2) konúngur skyldi *kosinn* af fulltrúum allra þriggja landa; 3) þau skyldu styrkja hvort annað gegn árásum útlendra óvina; 4) hverju ríki fyrir sig skyldi stýrt eptir þess lands lögum og rètti.

Nú mundi margur ætla, að ríki þessi öll í sameiníngu undir einum konúngi hefðu tekið miklum framförum innanlands, og líka orðið hin voldugustu í viðskiptum sínum við önnur ríki Norðurálfunnar; en það reyndist þó eigi svo. Að vísu var allgóður friður og samlyndi milli sambandsríkja þessara meðan Margrèt drotníng sat að völdum, og stýrði öllu með viturleik sínum og skörúngsskap, en engu að síður kom það þó optar en í eitt skipti í ljós, að alt var ekki sem traustast, að jafnvel ærinn ó-

styrkur átti sèr stað í þessu þríeina ríki. Þannig urðu menn að leyfa Hansastöðunum öll hin sömu verzlunarrèttindi, sem þeir höfðu áður haft; iðnaður, verzlun og kaupstaðir voru að öllu leiti í höndum þessa volduga fèlags, en Norðmenn, Danir og Svíar komust eigi að, og öll þesskonar atvinna lá hjá þeim í dái; þá vantaði bæði kaupskip og herskip. Orsökin til þessa vanmáttar kom að innan, var innlend og fólgin í þjóðfèlaginu sjálfu, eins og það var á sig komið á Norðurlöndum í það mund. Aðallinn og klerkastèttin hafði á hinum síðustu óeirðatímum náð undir sig ýmsum einkarèttindum og undanþágum; alþýðan hafði hinsvegar allar byrðir að bera og var undirokuð af höfðíngjunum; kaupstaðabúar, sem efni höfðu og nokkuð kvað að, voru flestir þjóðverskir menn, er mjög lítið lögðu fram til almennra þarfa; allur þorri landsmanna var efnalítill, bæði vegna innanlands óeirða og einkum vegna þess, að Hansastaðirnir sátu einir að allri verzlun og allri atvinnu; herlið og hernaðarútvegur allur, bæði til sjós og lands, var með litlu lagi; klerkar og aðalsmenn, er höfðu jarðir að lèni, og áttu að standa fyrir útgjörð herliðsins, gegndu þeirri skyldu með hángandi hendi, þrátt fyrir öll þau mörgu hlynnindi, er þeir í því skyni urðu aðnjótandi.

Meðan Margrèt drotníng rèð ríkjum fór alt í lagi, því að hún hafði bæði vit og kjark til að halda öllu stórmenni og stórbokkum í skefjum, en jafnskjótt sem hún var fallin frá (1412), og Eiríkur af Pommern alveg tekinn við ríkisstjórn, þá versnaði sagan; hann skorti bæði vit og kjark, mannúð og rèttsýni til þess að geta stjórnað jafnvíðlendu og vandgæfu ríki, svo að vel færi. Alstaðar kom óánægjan í ljós fyr eða síðar. Greifarnir á Holsetalandi áttu lángar deilur og stríð við Eirík út af Slèsvík, og lauk svo með þeim, að konúngur varð að láta þá hafa Slèsvík að lèni. Ríkisráðið í Svíþjóð kvartaði sáran yfir rángindum og kúgun danskra valdsmanna, en fengu litla leiðrèttíng sinna mála af konúngi; varð þá af því uppreisn og Svíar tóku þann mann til ríkisforseta, er hèt *Karl Knútsson Bóndi* (1436). Í Danmörku stóð eins á; menn kvörtuðu þar yfir því, að skattar væri óbærilega þúngir, að fjöldi Þjóðverja streymdi inn í landið, og einkum yfir því, að konúngur vildi koma *Búgislási* af Pommern, frænda sínum, til ríkis eptir sinn dag. Þá leiddist Eiríki kon-

úngi þófið og fór af landi burt með þá dýrgripi, er hann mátti með komast, og settist að austur á Gotlandseyju. Hið danska ríkisráð bauð því næst *Kristófer af Bajern,* systursyni Eiríks, ríkisforseta tign; hann kom 1439, og þá sögðu bæði Danir og Svíar Eiríki upp hlýðni og hollustu. Norvegsmenn hèldu trygðir við Eirík þángað til 1442, en þá sögðu þeir einnig skilið við hann. Eiríkur hafðist við á Gotlandi 10 ár og lifði af ránum og hernaði sem víkíngur. Loks fór hann suður á Pommern og deyði þar hátt á áttræðisaldri 1459.

*Kristófer af Bajern* (1440—1448) varð þessu næst konúngur bæði í Danmörku, Svíaríki og Norvegi. Í Danmörku gjörðu bændur á Jótlandi upphlaup mikið á hans fyrsta ríkisstjórnarári, drápu aðalsmenn og rændu bústaði þeirra, en upphlaupið varð stöðvað og bændur kúgaðir til hlýðni. Harðæri mikið varð og á hans dögum í Svíþjóð, svo að bændur urðu að eta brauð af viðarberki, en konúngur fór um landið og hèlt sig og sitt lið kostulega; kölluðu Svíar hann þá *barkarkonúng.* Þeir kærðu og fyrir konúngi rán Eiríks móðurbróður hans frá Gotlandi, en konúngur svaraði því einu, að frændi sinn hefði að eins eitt útsker til umráða og yrði af einhverju að lifa sem aðrir menn. Kristófer konúngur leitaðist við að takmarka einokunarverzlun Hansastaðanna, og leyfði því Hollendíngum, Englendíngum og Skotum kaupskap í ríki sínu, og með fleiru móti vildi hann veikja yfirdrotnan Hansastaðanna, en í þeim umsvifum andaðist hann 1448. Hann gjörði *Kaupmannahöfn* að höfuðstað ríkisins og aðsetursstað konúngs, en áður hafði Hróarskelda verið það.

Eptir lát Kristófers vildu Danir sameina Slèsvík og Danmörku, og ríkisráðið danska bauð þess vegna *Adolf* hertoga af Slèsvík, er einnig var greifi af Holsetalandi, konúngstign. Adolf vildi eigi þyggja, en benti ríkisráðinu á systurson sinn *Kristján greifa af Aldinborg.* Kristján var kominn af dóttur Eiríks konúngs Glippíngs, og þannig af hinni fornu ætt Danakonúnga. Kristján varð við tilmælum Dana, og var því næst kjörinn konúngur af Dönum og nokkru síðar af Norðmönnum, og nefndi sig *Kristján fyrsta* (1448—1481). Með honum hófst *Aldinborgarættin* til ríkis. Svíar þar á móti tóku *Karl Knútsson* til konúngs yfir sig; en klerkum og aðalsmönnum í Svíþjóð þókti stjórn hans bæði hörð og ránglát, og varð hann því að leggja niður

völdin og flýja af landi burt (1457), en Kristján fyrsti var tekinn þar til konúngs á því sama ári. Litlu siðar andaðist Adolf greifi af Holsetalandi (1459), var þá karlleggur greifaættar þeirrar aldauða. Nú vildi Kristján konúngur ná undir sig báðum þeim löndum, Slèsvík og Holsetalandi, og með því að veita aðalsmönnum í löndum þessum ýms einkarèttindi, þá kom hann því til leiðar, að þeir kusu hann til hertoga í Slesvík og greifa á Holsetalandi (1460).

Kristján konúngur hafði nú stærra ríki yfir að ráða en fyrirrennarar hans höfðu haft, en hann kunni ekki með að fara; hann var jafnan í peníngaþröng og þess vegna kölluðu Svíar hann *»den bottenlöse taska«*. Þessi fjárèyðsla hans og fjárskortur knúði hann löngum til að leita hjálpar og fjár hjá Hansastöðunum, og varð hann þeim svo háður, að engu hófi gegndi. Þannig drápu þýzkir kaupmenn (1455) bæði höfuðsmann og biskup og fleiri menn í Björgvin og brendu þar eitt klaustur, en sættu þó als engum refsíngum eða bótum, því að konúngur treystist eigi að reka rèttar síns eða þegna sinna. Hann lagði svo þúnga skatta á Svía, að þeir gjörðu uppreisn; Karl Knútsson kom aptur og tók við ríkisstjórn (1464), en varð þó að sleppa henni í annað sinn; en 1467 kom Karl Knútsson í þriðja sinn og settist að völdum í Svíþjóð og hèlt þeim til dauðadags (1470). Þegar hann var dáinn tóku Svíar þann mann til ríkisstjóra, er hèt *Steinn Stúre hinn eldri* (1471—1497); Kristján konúngur reyndi að brjótast þar til ríkis, en beið ósigur fyrir Steini á *Brúnkeberg* (1471), og eptir það slepti hann öllu tilkalli til Svíþjóðar.

Kristján konúngur gipti Margretu dóttur sína *Jakobi* 3. Skota konúngi, og af því að Kristján gat eigi goldið heimanmund hennar sem skyldi, veðsetti hann Skota konúngi *Hjaltland* og *Orkneyjar,* án þess að leita samþykkis hjá hinu norska ríkisráði. Þannig gengu eylönd þessi undan Norvegi. Kristján konúngur fór tvær ferðir suður í lönd; í annari þeirri utanför sinni hitti hann Friðrik keisara hinn þriðja, og gjörði þá keisarinn Holsetaland og Stormarn að hertogadæmi; í hinni ferðinni fèkk konúngur páfaleyfi til að setja *háskóla* í Kaupmannahöfn; komst sá skóli á fót 1479. Þá var háskóli settur að Uppsölum fyrir tveim árum. Kristján konúngur andaðist 1481.

Eptir lát Kristjáns fyrsta tók við ríki í Danmörku sonur

hans hinn eldri, er *Hans* hèt (1481—1513), og tveim árum síðar var hann kjörinn og krýndur konúngur í Norvegi. Svíar tóku hann einnig til konúngs, en Steinn Stûre, ríkisforsetinn, vildi eigi viðrkennast konúngdóm hans fyr en Hans konúngur hefði bundið enda á öll sín loforð við Svía, og stóð í því þjarki milli þeirra full 14 ár.

Hans konúngur vildi, eptir lát föður síns, ná hertogatign í Slèsvík og Holsetalandi, en *Dórótea* drotníng, móðir hans, reri þar að öllum árum að *Friðrik*, ýngri sonur hennar og Kristjáns fyrsta, en bróðir Hans konúngs, yrði kjörinn til hertoga yfir bæði þau lönd (Holsetaland og Slèsvík), og til þess að gjöra móður sinni þó nokkuð til skaps, þá skipti Hans hertogadæmum þessum til helmínga með bróður sínum (1490); hlaut konúngur þann hlutann, er kendur var við *Segeberg*, en Friðrik þann hlutann, sem kendur var við *Gottorp.* Svo voru þessir landshlutar nefndir eptir tveímur hinum helztu stórhöllum þar í landi. Af þessari sundurskiptíngu landanna er síðan runnin hin ílla alda yfir Danmörku.

Hans konúngur var góðlátur maður og seinþreyttur til vandræða, og þess vegna reyndi hann með sátt og samníngum að komast til ríkis í Svíþjóð; en Steinn Stúre var bæði dugandi maður og viðsjáll og hafði ótal undanbrögð í tafli, svo að allir samníngar eyddust og gekk svo um hríð, þar til er Hans konúngur greip til vopna 1497, og vann þá sigur á Svíum og var til konúngs þeirra tekinn í Stokkhólmi á því hinu sama ári. Litlu síðar fèkk hann Kristján son sinn kjörinn til eptirmanns síns eptir sinn dag.

Þessu næst fóru þeir bræður, Hans konúngur og Friðrik hertogi, vestur á *Þèttmerski* (*Ditmarsken*), og ætluðu að leggja það undir sig. Þèttmerski er vestan á Holsetalandi, lítið hèrað og láglent; það stóð í skjóli erkistólsins í Brimum, en að öðru leiti var þar lýðstjórn, landsmenn hraustir og frelsisgjarnir. Þeir Hans konúngur höfðu mikið lið og ákaflega vel búið, enda var þar saman kominn fjöldi hinna göfugustu manna frá hertogadæmunum. En Hans konúngur beið þar hinn mesta ósigur og komst nauðuglega undan. Þar heitir *Hemmingsted*, er fundurinn varð (1500).

Þegar þessar ófarir frèttust gjörðu bæði Svíar og Norðmenn

uppreisn. Svíar gjörðu *Stein Sture* af nýju að ríkisstjóra (1501), og þegar hann dó (1503) settu þeir *Svante Nielsson Sture* til sömu tignar (1503—1512). Hans konúngur reyndi að ná aptur yfirráðum í Svíþjóð, en það tókst eigi. Kristján sonur hans sefaði óeirðirnar í Norvegi, eptir að *Knútur Álfsson,* helzti maðurinn þar í landi á þeim tímum, hafði með svikum verið drepinn af Hinriki Krúmmedike. Á síðustu árum sínum átti Hans konúngur í stríði við Hansastaðina og veitti betur í þeim viðskiptum.

Hans konúngur andaðist í Álaborg (1513) þar sem hann var borinn fyrir 58 árum.

Þegar Hans konúngur var andaður, var *Kristján* sonur hans til konúngs tekinn bæði af Dönum og Norvegsmönnum og nefndur *Kristján annar;* en gánga varð hann að harðari stjórnarskilmálum en nokkur annar Dana konúngur fyrir hans daga. Kristjáni öðrum var margt vel gefið; hann var vel viti borinn, þrekmaður mikill og framkvæmdarsamur, en ákaflega var hann geðríkur og þykkjuþúngur og hinn grimmasti, þegar því var að skipta. Framan af æfi sinni ólst hann upp ekki við hirðina eða hjá hinum æztu höfðíngjum, heldur í húsi eins borgara í Kaupmannahöfn, en það var heiðarlegur maður, efnaður og vel metinn af öllum. En í því húsi varð Kristjáni vel til bænda og borgara, en ílla til aðalsmanna og klerka; þar lærði hann að þekkja hroka og rángsleitni aðalsins og hve herfilega hann undirokaði alþýðuna; hann lærði að þekkja meinsemd tímanna, hafði allan hug og vilja á að lækna hana, en allur alþýðuandi lá í dái, og veitti honum hvergi nærri þá liðveizlu sem þurfti, og sjálfan hann skorti lag og hamíngju til að koma því hinu góða til leiðar, sem hann þó án als efa vildi framkvæma. Þess vegna varð hann undir í þeim viðskiptum.

Það var einkum tvennt, er Kristján annar setti sèr sem mark og mið: að vinna Svíþjóð og, að kúga aðals- og klerkavaldið.

Þegar Svante Sture dó (1512) varð sonur hans *Steinn Sture hinn ýngri* ríkisforseti í Svíþjóð. Litlu síðar varð sá maður erkibiskup að Uppsölum er *Gustaf Trolle* hèt. Þeir urðu bráðum fjandmenn erkibiskup og ríkisforseti. Gustaf fèkk liðveizlu hjá Kristjáni öðrum til þess að sigrazt á Steini, en svo fóru leikar

að erkibiskup hrökk af stóli og varð að gánga í klaustur (1517). Árið eptir kom Kristján konúngur sjálfur með her manns til Svíþjóðar, en beið ósigur í nánd við Stokkhólm, þar sem heitir *Brännkyrka;* því næst var talað um sættir, og Kristján krafðist, að sèr væru settir gislar til tryggíngar; en er þeir voru komnir á hans vald, hèlt konúngur með þá af stað til Danmerkur. Meðal þessara gisla voru þeir *Hemíngur Gað* biskup, mesti maður að vitsmunum og þreklyndi og svarinn óvinur Dana, og *Gústaf Eiríksson Vasa,* er síðan varð konúngur í Svíþjóð, og mikil saga er af komin.

Þegar páfinn frèttir hrakníngar erkibiskups, lýsir hann banni bæði yfir Steini Sture og allri Svíþjóð, og felur Kristjáni öðrum á hendur, að framfylgja því. Nú þókti konúngi bera vel í veiðar; býr út mikinn her og fríðan bæði á sjó og landi og heldur til Svíþjóðar (1520). Í þeim ófriði beið Steinn Sture ósigur og varð sár til ólífis í orustu hjá *Bogesund* á Vestragotlandi. Kristján settist síðan um Stokkhólm og sókti borgina bæði á sjó og landi. Loksins gafst borgin upp, en Kristján hèt að gefa mönnum grið. Var hann því næst krýndur í Stokkhólmi af Gustaf Trolle erkibiskupi, og var þá mikið um dýrðir í borginni. En allur sá mikli fögnuður snèrist fyr en varði í óttalega hrygð.

Hinn þriðja og síðasta dag, sem hátíðahöldin stóðu, var mörgum af hinum helztu höfðíngjum Svía boðið að koma til hallarinnar á konúngsfund. Þegar þángað var komið, bar Gustaf Trolle sakir á alla þá, sem gengizt höfðu fyrir því, að reka hann frá biskupsstóli og eyða biskupsgarð hans. Konúngur hafði mikinn hug á að kúga hina sænsku stórhöfðíngja, og lèt því eigi slíkt færi gánga sèr úr greipum. Brèf þau, sem lutu að burtrekstri erkibiskups, voru sýnd og lesin, og allir þeir, sem ritað höfðu nöfn sín undir þau, teknir fastir. Biskup einn, er hèt Hans Brask, hafði lagt seðil undir innsigli sitt og ritað á hann þau orð: «þetta gjöri eg nauðigur». Það varð honum til lífs. Daginn eptir, fimtudag 8. nóv. 1520, voru menn kvaddir í dóm, 10 klerkar sænskir og einn biskup danskur. Þeir urðu vel ásáttir og dæmdu alla þá, sem fyrir sök voru hafðir, seka um trúarvillu og ræka úr kirkjunnar fèlagi; en konúngur skyldi ákveða hegníngu. Að því búnu voru hinir seku menn leiddir fram á torgið, þar á meðal voru 2 biskupar og 13 af ríkisráðinu

og fjöldi annara manna, og þar voru þeir höggnir; þann dag var rigníng mikil og runnu rauðir lækir um stræti borgarinnar. Síðan voru líkin tekin og brend; lík Steins Stúre var grafið upp og kastað á bálið. Þenna atburð hafa menn kallað *Stokkhólmsvíg* (*Stokholmske Blodbad*).

Nú hugði Kristján annar, að Svíar mundu spakari eptir blóðtökuna en áður, og að hann fengi haldið þeim undir stjórn sinni, en sú varð reynd á, að hann hafði höggið Svíþjóð úr hendi sèr. Gustaf Eiríksson Vasa, sá er fyr var nefndur, var sloppinn úr varðhaldi í Danmörku og kominn til Svíþjóðar; faðir hans var einn á meðal ráðherra þeirra er höggnir voru; heiptin og gremjan í Svíþjóð var mikil, sem vonlegt var. Árið eptir Stokkhólmsvígin (1521) söfnuðust *Dalakarlar* undir merki Gústafs, og unnu sigur á liði því, er í móti honum var sent, og á skömmum tíma var hið danska setulið rekið burt af Svíþjóð. Gustaf var gjörður að ríkisforseta á *Vadstenaþíngi*, og tveim árum síðar (1523), þegar Stokkhólmur var unninn, tóku Svíar *Gustaf Vasa* til konúngs á ríkisþíngi að *Strengnesi*. Þannig var Kalmarsambandið slitið, eptir að hafa að nafni til staðið um 126 ár.

En þó Kristján annar væri í mörgu grimmur, þá var hann alt um það einn af hinum merkustu Danakonúngum. Lög þau, sem hann gaf, sýna, að hann vildi vernda bændur og borgara gegn ofríki aðalsmanna og klerka, og mentun þjóðarinnar lá honum ríkt í skapi. Menn misskildu vilja hans, og aðalsmenn og klerkar urðu fjandmenn hans hinir verstu fyrir þá sök, að tilraunir hans, að hefja alþýðu manna úr niðurlægíngu, komu í bága við hagsmuni þessara ágengu stórbokka. Konúngur reyndi og að efla kaupstaði og innlenda verzlun í ríki sínu, og þá risu Hansastaðirnir í móti honum. Aðalsmenn og klerkar höfðu einir allan rètt til vogreka, þess vegna voru einatt skipbrotsmenn drepnir, svo hægra veitti að handsama góz þeirra. Konúngur breytti þeim lögum, og biskupar á Jótlandi, sem mistu þannig talsvert af tekjum sínum, kvörtuðu og sögðu, að fjörurán væri hvergi bannað í biflíunni. Konúngur svaraði: »hafið þèr þá aldrei lesið fimmta og sjöunda boðorðið?» Hann lèt endurbæta og gjöra betri skipun á um alþýðuskóla; fyrirbauð að brenna galdramenn, eins og siður hafði verið, en í þess stað skyldu þeir

barðir og burt reknir. Á hans ríkisárum hófst siðabót *Lúthers* á Þýzkalandi (1517). Kristján fèkk 3 árum síðar kennimann sunnan af Saxlandi til að boða hinn nýja sið í Kaupmannahöfn; en tíminn var ekki kominn, hinir katólsku klerkar ofsóktu hinn saxneska kennimann og hann varð að fara af landi burt.

Kristján konúngur var þannig hinn mesti hlífiskjöldur alþýðunnar, og hafði sèr helzt handgengna menn af hennar flokki. Á ferðum sínum í Norvegi (1507) hafði hann kynzt við konu þá, er *Sigbrit* hèt, hún var hollenzk að ætt og uppruna, og átti dóttur eina, er *Dýveke* hèt. Kristján var þá úngur og ókvæntur og fekk ást á Dyveke og fylgdi hún honum síðan, til þess er hún dó (1517), en Sigbrit, sem var mjög vel viti borin, varð nokkurskonar ráðgjafi Kristjáns og rèð að mestu öllum fjárhag ríkisins eptir að hann varð konúngur. Af öllu þessu sem áður var talið varð Kristján annar mjög vinsæll af alþýðunni, bæði í Danmörku og Norvegi, en aðalsmenn og klerkar urðu svarnir óvinir hans. Þar til kom og að Friðrik hertogi af Gottorp, föðurbróðir hans, sem aldrei varð gjört til hæfis, gekk í lið með höfðíngjunum móti bróðursyni sínum. Kristján stefndi þíng á Jótlandi, en aðalsmenn urðu fyrri til taks, og áttu fund með sèr og urðu á það sáttir, að segja Kristjáni upp hlýðni og hollustu og bjóða Friðriki hertoga konúngdóm, og sendu þann mann, er Mogens Múnk hèt, með þeim erindum til Kristjáns; þá fèllst Kristjáni hugur; hann reyndi eigi svo mikið sem æskja liðs af bændum og borgarmönnum, er þó voru vinir hans, heldur lagði hann af stað frá Kaupmannahöfn (1523) með drotníngu sína og börn, og hèlt til Niðurlanda, og ætlaði að fá liðveizlu hjá Karli keisara fimmta, mági sínum, — Kristján konúngur átti Elísabetu (eða Ísabellu) systur hans — en sú liðveizla brást honum. Það er sagt að Sigbrit fylgdi konúngi og væri flutt á skip út í tunnu, því að menn voru eigi óhultir um líf hennar. Eigi lèt hún þó hugfallast, en sagði við Kristján: »ef þèr getið eigi verið konúngur í Danmörku, þá getið þèr orðið borgmeistari í Amsterdam«.

Lög þau sem Kristján annar hafði gefið, og sem miðuðu til svo mikils góðs, þóktu óhafandi og voru brend á þíngi. Alþýðan misti athvarf sitt og verndarmann, þar sem Kristján konúngur

fór af landi, og varð fremur en áður ofurseld harðstjórn höfðíngjanna.

---

## Vísindi á miðöldunum.

Framan af miðöldum voru vísindin að mestu leyti kirkjunni háð og í hennar þjónustu, og þess vegna var það einkum *guðfræði*, sem menn þá iðkuðu í allflestum háskólum; en sú guðfræði var ekki hrein og ómeinguð kenníng guðs orða, heldur flækt og vafin í heimsspekilegan dróma, er menn kölluðu *skólastik*, en það er svo að skilja, að menn reyndu með heimsspeki Aristótelesar hins gríska að útlista og sanna allar lærdómssetníngar kirkjunnar, hvernig sem þær voru, rèttar eða rángar. Jafnframt guðfræðinni stunduðu menn *lögfræði*, bæði hin *rómversku* lög og hin *kanónisku* eða öðru nafni kirkjunnar lög. *Latína* var kirkjunnar túngumál og þess vegna um leið túngumál lærðra manna; en þó svo væri þá þektu menn mjög lítið til hinna beztu rithöfunda Latínumanna frá fornöldinni. *Grísku* höfðu menn því nær gleymt vestur í Europu, og klerkar þektu lítið til biflíunnar nema af latínskum þýðíngum. Um *móðurmál* sitt hirtu fæstar þjóðir, því að latínan sat alstaðar í fyrirrúmi, og það gekk svo lengi, að flest sagnarit og opinber skjöl voru samin á latínumáli. Sú kom þó tíð að þetta breyttist, og þjóðirnar fóru að rita hver á sína túngu, svo var það á Frakklandi og á Englandi (sjá bls. 195). En einkum átti það sèr stað á Ítalíu, þegar kom fram á fjórtándu öld, og þeir hinir miklu rithöfundar voru uppi, er síðan urðu víðfrægir um allan heim: *Dante* (†1321) orti, »*divina commedia*» um helvíti, hreinsunareldinn og himnaríki, það er í 100 kvæðum, og snúið á flestar túngur Norðurálfunnar. *Petrarca* († 1374) orti um konu þá er *Laura* hèt, og ritaði þar að auki mjög margt annað, og var sagður allra manna lærðastur á sinni tíð. *Boccaccio* († 1375) ritaði »*il Decamerone*« í óbundnum stíl; það eru hundrað frásögur og þykir vera hið mesta snildarverk. Þessir afbragðsmenn rituðu allir á því máli, sem talað var í Toskana á Ítalíu, og þess vegna varð það bókmál Ítala. Þessi mikla viðreisn og framför hinnar ítölsku túngu kom af því, að menn tóku þá af alhuga að lesa hinar á-

gætu fornbækur Rómverja. Fegurð hinnar fornu túngu vakti anda þjóðarinnar af löngu dái.

Á 15. öld urðu tveir atburðir þvínær um sama leyti, er höfðu mjög mikil áhrif á andlegar framfarir manna hèr vestur í heimsálfu vorri. Annar var sá, að *prentlistin* var fundin, hinn sá, að *Konstantínópel* var unnin af Tyrkjum.

Prentlistina fann *Jóhann Gúttenberg*, þjóðverskur maður frá Mainz, eitthvert hið mesta þarfaverk sem mannkyninu hefir nokkru sinni verið unnið, því að síðan eru vísindin ekki lengur eign einstakra manna, heldur als heimsins. Áður höfðu menn rist myndir og stundum nokkur orð neðanundir þeim á trèspjöld, dregið síðan lit yfir og fest á pappír eða annað; en um þær mundir er kirkjufundurinn stóð í Basel (nálægt 1436) fór Gúttenberg að gjöra bókstafi af trè, einstaka, sem færa mátti til og frá eptir því sem viðþurfti; því næst var farið að steypa þessa stafi af málmi, hentug prentsverta til búin, og þannig var aðferðin fundin til að gefa út ótal margar bækur, en áður var þess enginn kostur. Prentlistin breiddist út frá Þýzkalandi í allar áttir, eigi sízt til Ítalíu, en páfanum og ýmsum þjóðhöfðíngjum stóð stuggur af þessari list, því að þjóðirnar höfðu fengið háskalegt vopn í hendur, ef því var beitt öðruvísi en þeir mundu kjósa; enda kom það fram rúmum mannsaldri síðar, að settir voru menn til þess að hafa gætur á öllu sem prenta skyldi *(Bogcensúr)*.

Hið gríska (byzantiska) keisaradæmi hafði lengi legið í andarslitrum, en vel fór sem fór, að Tyrkir unnu það eigi fyr en á fimmtándu öld; því að hinir dýrmætu fjársjóðir, er fálust í bókaleifum Forngrikkja, voru þannig geymdir handa eptirkomandi öldum. Hefði Mikligarður (Konstantínópel) verið unninn af Tyrkjum fyr en það varð, þá hefðu menn vestur í löndum lítið sint fornbókum Grikkja, því að andi manna og ást á fornum fræðum var þá eigi vaknaður; en þegar sá tími kom og Mikligarður var unninn (1453) voru menn á Ítalíu, og víðar í Európu, farnir að snúa huganum til þessara afbragðs rita. Jafnvel á 14. öld voru grískir fræðimenn farnir að flytja sig búferlum vestur á Ítalíu, og tekið þar tveim höndum, og, þegar keisaradæmið gríska hrundi alveg í hendur Tyrkja, fluttust þessir vísindamenn hópum saman til Ítalíu. Einkum var það í *Flórenz*-borg í Toskana á Ítalíu,

þar sem hinir göfugu þjóðhöfðíngjar, Medicearnir, sátu að völdum, að þessum grísku flóttamönnum var vel tekið. *Kosmus* af Medicí stofnsetti hinn nafnfræga háskóla, er hann kendi við *Plató,* spekínginn mikla; þá risu upp mikil bókasöfn t. d. *Vatikan*-bókhlaðan í Rómaborg (hèr um bil 1450). Frá Ítalíu breiddist áhuginn á hinum fornu fræðum Grikkja og Rómverja (*humaniora*) út til annara landa Norðurálfunnar.

Á miðöldunum höfðu ýmsir menn (t. d. Arnold af Breskia, Petrus Valdus, Jóhann Vycliffe, Jóhann Húss o. fl.) á ýmsum tímum, risið í móti páfavillunni, en af því tíminn var ekki kominn urðu þeir ofurliða bornir í þeim viðskiptum. En nú þegar hèr var komið, og þekkíng manna og fróðleikur var orðinn breyttur og bættur á marga vegu, og prentlistin fundin, sem ruddi alskonar bókmentum og vísindum greiða braut gegnum lönd og lýði, þá fyrst var tími kominn til *siðabótanna.*

# Ríkisár

nokkurra þjóðhöfðíngja í ýmsum löndum.

## Frakkland.

*Mervíkíngar.*

| | | |
|---|---|---|
| Kloðvík | ár. | 481—511. |
| Klótar fyrsti | — | † 561. |
| Klótar annar | — | † 628. |
| Dagobert | — | † 638. |
| (Hirðstjórar: | | |
| Pipín af Heristal | — | † 714. |
| Karl Martel | — | † 741. |
| Pipín litli, varð konúngur | — | 752). |

*Karlúngar.*

| | | |
|---|---|---|
| Pipín litli | — | 752—768. |
| Karl mikli | — | 768—814. |
| Loðvík gæfi | — | 814—840. |
| Karl sköllótti | — | 843—877. |
| Loðvík aunar (stami) | — | 877—879. |
| Loðvík þriðji | — | 879—882. |
| Karlmann | — | 879—884. |
| Karl digri | — | 884—888. |
| (Ottó af París | — | 888—898). |
| Karl einfaldi | — | 893—923. |
| (Rúdolf af Búrgund | — | 923—936). |
| Loðvík 4. (handan um haf) | — | 936—954. |
| Lóthar | — | 954—986. |
| Loðvík 5. (lati) | — | 986—987. |

*Capetúngar.*

(*a*, hinn eldri ættleggur).

| | | |
|---|---|---|
| Húgo Capet | — | 987—997. |
| Róbert | — | 997—1031. |
| Hinrik fyrsti | — | 1031—1060. |
| Filippus fyrsti | — | 1060—1108. |

| | | |
|---|---|---|
| Loðvík 6. | ár. | 1108—1137. |
| Loðvík 7. | — | 1137—1180. |
| Filippus 2. Ágústus | — | 1180—1223. |
| Loðvík 8. | — | 1223—1226. |
| Loðvík 9. (helgi) | — | 1226—1270. |
| Filippus 3. | — | 1270—1285. |
| Filippus 4. (fríði) | — | 1285—1314. |
| Loðvík 10. (þrætugjarni) | — | 1314—1316. |
| Filippus 5. | — | 1316—1322. |
| Karl 4. | — | 1322—1328. |
| (*b*, hinn ýngri ættleggur) *Valois.* | | |
| Filippus 6. | — | 1328—1350. |
| Jóhann góði | — | 1350—1364. |
| Karl 5. (vitri) | — | 1364—1380. |
| Karl 6. | — | 1380—1422. |
| Karl 7. | — | 1422—1461. |
| Loðvík 11. | — | 1461—1483. |
| Karl 8. | — | 1483—1498. |
| Loðvík 12. | — | 1498—1515. |
| Franz fyrsti | — | 1515—1547. |

## England.

*Engilsaxneskir og danskir konúngar.*

| | | |
|---|---|---|
| Jábjartur | — | 827. |
| Elfráður ríki | — | 871—900. |
| Játvarður 1. | — | 900—924. |
| Aðalsteinn | — | 924—940. |
| Aðalráður 2. (ráðlausi) | — | 978—1016. |
| Játmundur (járnsíða) | — | 1016—1017. |

---

| | | |
|---|---|---|
| Knútur ríki | — | 1017—1035. |
| Haraldur hèrafótur | — | 1035—1039. |
| Hörðaknútur | — | 1039—1042. |

---

| | | |
|---|---|---|
| Játvarður góði (Confessor) | — | 1042—1066. |
| Haraldur Guðinason | — | 1066—1066. |
| *Konúngar af Normandi.* | | |
| Vilhjálmur 1. bastarður | — | 1066—1087. |

Vilhjálmur 2. (rauði) ár. 1087—1100.
Hinrik 1. (Beauclerc) — 1100—1135.
Stefán af Blois — 1135—1154.

*Konúngar af Anjou (Plantagenet).*

Hinrik 2. — 1154—1189.
Ríkarður ljónshjarta — 1189—1199.
Jóhann landlausi — 1199—1216.
Hinrik 3. — 1216—1272.
Játvarður 1. — 1272—1307.
Játvarður 2. — 1307—1327.
Játvarður 3. — 1327—1377.
Ríkarður 2. — 1377—1400.

*Konúngar af Lankaster.*

Hinrik 4. — 1400—1413.
Hinrik 5. — 1413—1422.
Hinrik 6. († 1471) — 1422—1461.

*Konúngar af York.*

Játvarður 4. — 1461—1483.
Játvarður 5. — 1483.
Ríkarður 3. (illi) — 1483—1485.

*Konúngar af Túdor.*

Hinrik 7. — 1485—1509.
Hinrik 8. — 1509—1547.

### Kastilía.

Ferdínand 1. — † 1065.
Alfons 6. — † 1109.
Pètur grimmi — † 1369.
Hinrik af Trastamara — † 1379.
Ísabella — 1474.

### Aragonia.

Ramíró — † 1063.
Alfons 1. (batallador) — † 1134.
Raimundur af Barcellóna — 1137.
Pètur 3. — † 1285.
Jakob 2. — 1291—1327.
Alfons 5. — 1416—1458.
Jóhann 2. — 1458—1479.

### Spánn.

| | |
|---|---|
| Ferdínand katólski | ár. 1479—1516. |
| (Ísabella | — 1474—1504). |

### Portúgal.

*Búrgundar ættin.*

| | |
|---|---|
| Hinrik af Búrgund | — 1109—1112. |
| Alfons 1. | — 1112—1185. |

*Búrgundar ættin hin óskilgetna.*

| | |
|---|---|
| Jóhann 1. | — 1385—1433. |
| Játvarður | — 1433—1438. |
| Alfons 5. | — 1438—1481. |
| Jóhann 2. | — 1481—1495. |
| Emanúel mikli | — 1495—1521. |

### Þýzkaland.

*Karlúngar.*

| | |
|---|---|
| Loðvík þýzki | — 843—876. |
| Karl digri, rekinn frá ríki | — 887. |
| Arnúlfur af Kärnth | — 887—899. |
| Loðvík barn | — 899--911. |

---

| | |
|---|---|
| Konráð af Franken | — 911—918. |

*Saxnesk ætt.*

| | |
|---|---|
| Hinrik 1. (fuglari) | — 918 -936. |
| Ottó 1. (mikli) | — 936—973. |
| Ottó 2. (rauði) | — 973—983. |
| Ottó 3. (úngi) | — 983--1002. |
| Hinrik 2. (helgi) | — 1002—1024. |

*Frankversk ætt.*

| | |
|---|---|
| Konráð 2. | — 1024—1039. |
| Hinrik 3. | — 1039—1056. |
| Hinrik 4. | — 1056—1106. |
| Hinrik 5. | — 1106—1125. |

---

| | |
|---|---|
| Lóthar af Saxen | — 1125—1137. |

*Hohenstáfa ætt.*

| | |
|---|---|
| Konráð 3. | — 1137—1152. |

| | |
|---|---|
| Friðrik 1. Barbarossa . . . . . . . . . | ár. 1152—1190. |
| Hinrik 6. . . . . . . . . . . . . . | — 1190—1197. |
| Filippus af Svaben . . . . . . . . . | — 1197—1208. |
| Ottó 4. (┼ 1218) . . . . . . . . . | — 1197—1215. |
| Friðrik 2. . . . . . . . . . . . . | — 1215—1250. |
| Konráð 4. . . . . . . . . . . . . | — 1250—1254. |
| Stjórnleysi frá 1254 til 1273. | |
| *Habsborgar og Lúxemborgar ætt.* | |
| Rúdolf af Habsborg . . . . . . . . . | — 1273—1291. |
| Adolf af Nassá . . . . . . . . . . | — 1291—1298. |
| Albrekt 1. . . . . . . . . . . . . | — 1298—1308. |
| Hinrik 7. af Lúxemborg . . . . . . . | — 1308—1313. |
| Loðvík af Bajern . . . . . . . . . . | — 1314—1347. |
| (Friðrik af Austurríki . . . . . . . . | — ┼ 1330). |
| (Gynther af Svarzborg . . . . . . . . | — ┼ 1349). |
| Karl 4. af Lúxemborg . . . . . . . . | — 1347—1378. |
| Wenceslás . . . . . . . . . . . . . | — 1378—1400. |
| Rúprecht af Pfalz . . . . . . . . . | — ┼ 1410. |
| Sigmundur af Brandenborg . . . . . . | — 1411—1437. |
| Albrekt 2. af Austurríki . . . . . . . | — 1437—1439. |
| Friðrik 3. . . . . . . . . . . . . | — 1439—1493. |
| Maximilian 1. . . . . . . . . . . . | — 1493—1519. |

## Tyrkland.

| | |
|---|---|
| Ósmann . . . . . . . . . . . . . | — 1300—1326. |
| Orkan . . . . . . . . . . . . . . | — 1326—1360. |
| Amúrat 1. . . . . . . . . . . . . | — 1360—1389. |
| Bajazet 1. . . . . . . . . . . . . | — 1389—1402. |
| Múhameð 1. . . . . . . . . . . . . | — 1413—1421. |
| Amúrat 2. . . . . . . . . . . . . | — 1421—1451. |
| Múhameð 2. . . . . . . . . . . . . | — 1451—1481. |
| Bajazet 2. . . . . . . . . . . . . | — 1481—1512. |
| Selim 1. . . . . . . . . . . . . . | — 1512—1520. |

## Nokkrir Páfar.

| | |
|---|---|
| Gregóríus 1. (mikli) . . . . . . . . . | — 590—604. |
| Hadríanus . . . . . . . . . . . . | — 795. |
| Leó 3. . . . . . . . . . . . . . . | — 800. |
| Leó 9. . . . . . . . . . . . . . . | — 1054. |

Nikulás 2. . . . . . . . . . . . . . ár. 1059.
Gregóríus 7. . . . . . . . . . . . — 1073—1085.
Úrban 2. . . . . . . . . . . . . . — 1087—1099.
Alexander 3. . . . . . . . . . . . — 1159—1181.
Innócentíus 3. . . . . . . . . . . . — 1198—1216.
Hónóríus 3. . . . . . . . . . . . — 1216—1227.
Gregoríus 9. . . . . . . . . . . . — 1227—1241.
Innócentíus 4. . . . . . . . . . . — 1243—1254.
Bónifacíus 8. . . . . . . . . . . . — 1294—1303.
Klemens 5. . . . . . . . . . . . — 1305—1314.
Gregoríus 11. . . . . . . . . . . . — † 1378.
Marteinn 5. . . . . . . . . . . . — 1417—1431.
Alexander 6. . . . . . . . . . . . — 1492—1503.
Júlíus 2. . . . . . . . . . . . . — 1503—1513.
Leó 10. . . . . . . . . . . . . . — 1513—1521.

## Danmörk.

Gormur gamli . . . . . . . . . . . — 935.
Haraldur Gormsson . . . . . . . . . — 935—985.
Sveinn tjúguskegg . . . . . . . . . . — 985—1014.
Haraldur Sveinsson . . . . . . . . . — 1014—1018.
Knútur Sveinsson (ríki) . . . . . . . . — 1018—1035.
Hörðaknútur . . . . . . . . . . . — 1035—1042.
Magnús góði . . . . . . . . . . . — 1042—1047.
Sveinn Úlfsson . . . . . . . . . . . — 1047—1076.
Haraldur Sveinsson hein . . . . . . . . — 1076—1080.
Knútur Sveinsson helgi . . . . . . . . — 1080—1086.
Ólafur Sveinsson húngur . . . . . . . — 1086—1095.
Eiríkur Sveinsson góði . . . . . . . . — 1095—1103.
Nikulás Sveinsson . . . . . . . . . . — 1104—1134.
Eiríkur Eiríksson eymuni . . . . . . . — 1134—1137.
Eiríkur Hákonarson lamb . . . . . . . — 1137—1147.
Borgarastríð frá 1147 til 1157.
Valdimar 1. Knútsson mikli . . . . . . — 1157—1182.
Knútur 6. Valdimarsson . . . . . . . . — 1182—1202.
Valdimar 2. Valdimarsson sigur . . . . . — 1202—1241.
Eiríkur Valdimarsson plógpeníngur . . . . — 1241—1250.
Abel Valdimarsson . . . . . . . . . — 1250—1252.

| | |
|---|---|
| Kristófer 1. Valdimarsson . . . . . . . | ár. 1252—1259. |
| Eiríkur Kristófersson glipping . . . . . | — 1259—1286. |
| Eiríkur Eiríksson menveð . . . . . . . | — 1286—1319. |
| Kristófer 2. Eiríksson . . . . . . . . | — 1319—1332. |
| (Valdimar 3. Eiríksson 1326—1330). | |
| Stjórnleysi 1332—1340. | |
| Valdimar 4. Kristófersson atterdag . . . . | — 1340—1375. |
| Ólafur Hákonarson . . . . . . . . . . | — 1376—1387. |
| Margrèt Valdimarsdóttir . . . . . . . | — 1387—1412. |
| Eiríkur af Pommern († 1459) . . . . . | — 1412—1439. |
| Kristófer af Baiern . . . . . . . . . . | — 1440—1448. |
| *Aldinborgar ætt.* | |
| Kristján 1. . . . . . . . . . . . . . | — 1448—1481. |
| Hans . . . . . . . . . . . . . . . | — 1481—1513. |
| Kristján 2. . . . . . . . . . . . . . | — 1513—1523. |

## Norvegur.

| | |
|---|---|
| Haraldur hárfagri . . . . . . . . . . | — 863—933. |
| Eiríkur blóðöx († 950) . . . . . . . . | — 933—935. |
| Hákon Aðalsteinsfóstri (góði) . . . . . . | — 935—961. |
| Haraldur gráfeldur og bræður hans . . . | 961—965 eða 975. |
| Hákon jarl (Haraldur Gormsson yfirkonúngur) | 965 eða 975—976. |
| Hákon jarl . . . . . . . . . . . . . | ár. 976—995. |
| Ólafur Tryggvason . . . . . . . . . . | — 995—1000. |
| Eiríkur og Sveinn jarlar . . . . . . . | — 1000—1015. |
| Ólafur Haraldsson helgi . . . . . . . | — 1015—1030. |
| Sveinn Knútsson . . . . . . . . . . | — 1030—1035. |
| Magnús Ólafsson góði . . . . . . . . | — 1035—1047. |
| Haraldur Sigurðsson harðráði . . . . . . | — 1046—1066. |
| Ólafur Haraldsson kyrri . . . . . . . . | — 1066—1093. |
| Magnús Ólafsson berbeinn . . . . . . | — 1093—1103. |
| Ólafur Magnússon . . . . . . . . . . | — 1103—1115. |
| Eysteinn Magnússon . . . . . . . . . | — 1103—1122. |
| Sigurður Magnússon Jórsalafari . . . . . | — 1103—1130. |
| Magnús Sigurðsson blindi . . . . . . . | — 1130—1135. |
| Haraldur Magnússon gilli . . . . . . . | — 1130—1336. |
| Sigurður Haraldsson munnur . . . . . . | — 1136—1155. |
| Íngi Haraldsson kryplíngur . . . . . . | — 1136—1161. |

| | |
|---|---|
| Eysteinn Haraldsson . . . . . . . . . | ár. 1142—1157. |
| Hákon Sigurðsson herðibreiður . . . . . | — 1157—1162. |
| Magnús Erlíngsson . . . . . . . . . | — 1161—1184. |
| Sverrir Sigurðsson . . . . . . . . . | — 1177—1202. |
| Hákon Sverrisson . . . . . . . . . | — 1202—1204. |
| Guttormur Sigurðsson . . . . . . . . | — 1204—1204. |
| Íngi Bárðarson . . . . . . . . . . | — 1204—1217. |
| Hákon Hákonarson gamli . . . . . . . | — 1217—1263. |
| Magnús Hákonarson lagabætir . . . . . | — 1263—1280. |
| Eiríkur Magnússon . . . . . . . . . | — 1280—1299. |
| Hákon (5.) Magnússon háleggur . . . . . | — 1299—1319. |
| Magnús Eiríksson smek . . . . . . . . | — 1319—1374. |
| Hákon (6.) Magnússon . . . . . . . . | — 1355—1380. |
| Ólafur Hákonarson . . . . . . . . . | — 1380—1387. |
| Margrèt Valdimarsdóttir . . . . . . . . | — 1388—1389. |
| Eiríkur af Pommern . . . . . . . . . | — 1389—1442. |
| Kristófer af Baiern . . . . . . . . . | — 1442—1448. |
| Karl 1. Knútsson . . . . . . . . . . | — 1449—1450. |
| Kristján fyrsti af Aldinborg . . . . . . | — 1450—1481. |
| Hans . . . . . . . . . . . . . . | — 1483—1513. |
| Kristján annar . . . . . . . . . . . | — 1513—1523. |

Svíaríki.

| | |
|---|---|
| Valdimar Birgisson . . . . . . . . . | — 1250—1276. |
| Magnús Birgisson hlöðulás . . . . . . | — 1276—1290. |
| Birgir Magnússon . . . . . . . . . . | — 1290—1319. |
| Magnús Eiríksson smek . . . . . . . | — 1319—1363. |
| Albrekt af Meklenborg . . . . . . . . | — 1363—1389. |
| Margrèt Valdimarsdóttir . . . . . . . . | — 1389—1396. |
| Eiríkur af Pommern . . . . . . . . . | — 1396—1439. |
| Karl Knútsson ríkisforseti . . . . . . . | — 1436—1440. |
| Kristófer af Baiern . . . . . . . . . | — 1440—1448. |
| Karl 8. Knútson . . . . . . . . . . | — 1448—1457. |
| Kristján fyrsti . . . . . . . . . . . | — 1457—1464. |
| Karl 8. Knútsson . . . . . . . . . . | — 1464—1465. |
| Millibilsstjórn . . . . . . . . . . . | — 1466—1467. |
| Karl 8. Knútsson . . . . . . . . . . | — 1467—1470. |
| Steinn Stúre (eldri) ríkisforseti . . . . . | — 1471—1497. |
| Hans . . . . . . . . . . . . . . | — 1497—1501. |
| Steinn Stúre (eldri) ríkisforseti . . . . . | — 1501—1503. |
| Svante Níelsson Stúre ríkisforseti . . . . | — 1503—1512. |
| Steinn Stúre (yngri) ríkisforseti . . . . . | — 1512—1520. |
| Kristján annar . . . . . . . . . . . | — 1520—1521. |



